# ILÍONS-KVÆÐI,

## I.—XII. KVIÐA,

GEFIÐ ÚT

AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÈLAGI.

BENIDIKT GRÖNDAL

ÍSLENZKAÐI.

REYKJAVÍK.

Í PRENTSMIÐJU ÍSLANDS. E. ÞÓRÐARSON.

1856.

☞ Þetta titilblað er til bráðabyrgða.

# ILÍONS-KVÆÐI.

## FYRSTA KVIÐA.

KVEÐ þú, saunggyðja,
of sollna reiði
Akkilless, prúðlynds
Peleifs arfa,
ríka ok raunsvára,
er hún rekka varp
óöld akkneska
ok ótal raunum.

2. Hverfði hún margra
hetja öndum
styrkra at stöðvum
stillis draugheima,
en fur hauka hratt
ok hrævarga,
ok lágt lagði,
lofðúnga kind.

3. Svá mundu ráð remmast
ragna föður,
frá því er fyrst
fólknárúngar
tvistir upp risu,
ok rómu háfu:
allvaldr alþjóðar
Atreifs niðr,
ok at ógnum ærr
Akkilleifr.

4. Hverr mundi etja
öðlíngum þeim
guð at grimmri
geira róstu?
Þat var sveigvaldr,
Seifi borinn,
ok Letóar
ljúfr arfi.

5. Reiðr varð hann ræsi,
ok í ræsis liði
sótt vakti svára,
en sjótir dóu;
því at Atreifs arfi
úvirðan hafði
Krýses, helgan
hörga gæti.

6. Gekk hann at gánghröðum
græðis-vögnum,
ok leysa vildi
ina ljósu mey;
flutti fjöld meiðma
fagra, ómældra,
dýrrar lausnargjald
dóttur sinnar.

7. Hafði í höndum
höfuðsveiga
lofðúngs Apollons

ρ. I, 1-14.

ins lángskeyta,
gullsprota á,
ok grátbændi
Akkverja alla,
en þó einna fremst
Atreifs arfa
alls um valda,
böðvar-þjóða
buðlúnga tvá:
8. „Þèr Atreifs niðjar,
ok akkneskir
fagrhosaðir
fírar aðrir!
veiti yðr regin,
þau er ríkum valda
Ólýmps veum
ok vegsölum“,
9. At èr Brjáms borg
brjóta megit,
ok at èr aptr heim
heilir snúit;
en at èr leysit
mitt ljúfa jóð,
ok at launum þiggit
lausnar málma,
virðandi lángskeytan
valföðurson“.
10. Rómuðu þá allir
rekkar akkneskir
tölu vel
tíva varðar,
at hann virðr skyli,
ok vegligum
viðtaka veitt
vala málmi.
11. Var þó Atreifs niðja
at vettugi
slíkt of boðit,
at hann sinna knætti;
sendi hann segg braut
með svívirðu,
ok heiptaryrði
honum valdi:
12. „Okkrir skyli aldri,
þú hinn aldni gaurr!
fundir saman fara
at fleyjum hveldum,
hvárt þú nú hèr dvelst,
eðr dragast knátt
aptr híngat
hóti síðar“.
13. „Uggir mik, at eigi
þik efla muni
gullinn sproti
nè gerfir sveigar;
lætk-at ek lausa
linnveingis bil“.
14. „Fyrr mun hana elli
yfir stíga
oru at inni
á Argos-láði
fóstrjörðu fjær,
er hún fremja knáir
vef vandaðan,
ok vel um geingr
beð minn at búa;
en þú á brottu ver,
nè mik orðum æs
at ósköpum,
attú hèðan heill
hverfa megir“.
15. Svo mælti gramr;
en hinn gamli verr
hræddr hlýddi
hilmis boði;
gekk hann þegjandi
at græðis jaðri,

ρ. I, 14-34.

þars marr margfaldar
megingjálfr.
16. Gekk úr garpa sýn
greppr inn aldraði,
ok bæn magnaða
af munni sendi
Apollons til
ins ítrvalda, glorious
er hin lokkprúða
Letó gat:
17. „Heyr mik, sjóli
silfrbogvaldr!
þú er Krýsesborg
kríng um svífr,
ok kynhelgrar
Killu múra,
þú er ramliga
ræðr Teneds ey!“
18. „Hafi-k, Sminþes!
sinni nokkru
hof þèr reist
hveldu ráfi,
ok bóga brennt shoulders
á báli feita
geita eðr nauta,
þá gef mèr nú
ósk þá, er æskig,
at örvar þínar
hefndir taki
yfir her Danáa,
fyrir tár mín
ok móðga harma“.
19. Mælti hann svá
mjök árnandi,
en bogvaldr
bæn hans heyrði;
gekk Apollon
Ólýmps tindum frá, (peaks)

en móði svall
mildíngs hjarta.
20. Hafði á herðum shoulders
hilmir sveig bjúgan, crooked
ok örvamæli
umrifjaðan;
glumdu gögnflaugar
á grams herðum,
þars hann reiðr fór
foldu yfir.
21. Sveif hann of slóð
svartnætti glíkr,
en síðan settist
særeiðum fjarr,
ok af ýstreing
ör of sendi,
en glymr gerðist
geigrligr
fyrir sveigrapti
silfrvörðum.
22. Múlasna fyrsta
hann meinum varp,
ok greyhunda
geysiskjóta; swift
en síðan sjálfa
seggi hann lèt
lostna hvössum
hvítmýlíngum.
23. Brunnu sífellt
bjartir eldar,
næmir ok nánir,
náum yfir.

---

24. Þrenna daga þrjá
þutu náskeyti
hilmis of horskar
Herjans sveitir,
en dag tíunda
dreingja stefndi

p. I, 34-54.

öld at þíngi
Akkilleifr.
25. Blès því buðlúngi
í brjóst ráði
Hera, himindís
in hvítarmaða;
því at hún Danáum
dýrum unni,
er hún dregna leit
at dauða fram.
26. En er fyrðar
allir váru
safnaðir í sveitir
ok saman komnir,
upp reis á þíngi
ok orð um kvað
skeiðfrár öðlíngr
Akkilleifr:
27. „Hygg ek nú, at oss,
Atreifs niðr,
aptr heimför sè
hættlig búin,
ok hafvillur
hættsamligar,
en þótt undan stýrum
aldrtila“,
28. „Fyrst nú darra hríð
drepsótt blandin
Akkverjum bana-
beiskan ræðr.
En nú munum vèr spakan
spámann nokkurn
framast frètta,
eðr fórna-goða,
eðr draumsjáanda
dreingja nokkurn“;
29. „Því at draum gefr
día faðir;
sá skal gumum

ρ. I, 54-72.

gerst of segja,
hví Föbus Apollon
feiknum slíkum
reiði reisi
með rekka kind“;
30. „Hvárt heit nokkurt
eðr hundraðsblót
at gremi ginni
glævalds muna;
eðr hvárt hann vill
vea ilmi
lamba ok geita
geigrs-vana
gladdr gleðja,
ok gumna fjöld
ægu afstýra
æfitjóni“.
31. Mælti svo niflúngr,
ok niðr settist;
en upp stóð aptr
eptir öðlíngi
Kalkas, þjóðmærr
Þestors arfi;
sá þekkti gjörst
af geðspeki
fugls forsagnir
fljúganda hvers;
32. Ok vel vissi
veranda hvat,
verðanda hvat,
ok þats verit hafði;
haldit hafði hann
á hafreiðum
með Akkverjum
at Ilíonsborg,
33. Forvizku sinnar
framrar vegna;
fèkk þá honum
Föbus Apollon;

heill í hugum
hann orð um kvað:
34. „Býðr þú mèr, buðlúngr,
böndum kærr,
Akkilleifr!
orð at kveða
um ens lángskeyta
lofðúngs gremi,
Apollons
álmsvaldanda“.
35. „Þèr mun ek segja,
en þú mál mitt heyr,
ok vinn mèr eið,
vísir allstyrkan,
attu mik viljugr
vernda knegir,
með orðum bæði
ok afli handa;“
36. „Því at uggir mik,
at æsist reiði
nokkurr sá, er ræðr
römmu valdi
Argverja í
allra liði,
sá er akkneskar
aldir hlýða“.
37. „Því at stillis vald
styrkara er,
er hann manni reiðist
minna háttar;
því þótt buðlúngr
bræði knegi
samdægrs sefa
í sessi muna:“
38. „Þá mun sjóli samt
at seinni tíma
hatri halda,
at hann hefna megi,
geðknerri í;

en þú, gramr, seg,
hvárt þú munir mèr
miskunn veita“.
39. Aptr annsaði
Akkilleifr,
fylkir fóthvatr,
forvitríngi:
„Hughraustr þú ver,
ok herm fólgit orð
vea heilagra,
er þú vita knátt“.
40. „Því við Apollon,
Allföður kæran,
sver ek, þann er þú,
Þestors mögr,
á heitir æ,
er þú öld Danáa
goðspár ginnhelgar
glöggvar sýnir:“
41. „At manna eingi,
at mèr lifanda,
ok ljós lítanda
fyrir láðveg ofan,
einginn af allsherjar
öld Danáa,
skal harðar þik
hendr á leggja
hvolfbjúgum brannar
hástigum at“.
42. „Ok eigi þóttú nefnir
niflúng frægan,
Agamemnon
yfirstýri,
sá er nú þykir
þeingill mestr
alþjóð ágætri
Akkverja með“.
43. Varð þá hugglaðr
ok vespjöll þuldi

spakur gumi
fyrir gumna fjöld“:
44. „Er-at heit nokkut
nè hundraðsblót,
þats at gremi ginni
glævalds muna;
þat er úvirða,
sú er Agamemnon
helgum hofgoða
harðr sýndi“.
45. „Leysti-t hann hans
horska dóttur,
nè lausnarmálma
ljósa þáði;
því hefir Apollon
aldir vorpit
bölvi banvænu,
ok böl mun veita“.
46. „Mun hann ei mundu
megindauða
sárri snúa frá
sveitum þeima,
fyrr en feingit hafa
föður-hendr
augnfagrt man maid
aptr faðmat“.
47. „Ókeypta mey
ok ógoldna;
en þèr helgu skulut
hundraðsblóti
sæma Krýsesborg;
þá mun sveigaguð,
er vèr hann biðjum svá,
bölvi lètta“.
48. Svá mælti hann,
ok settist niðr;
en aptr öðlíngr
upp nam standa,
Atreifs arfi
p. I, 92-112.

Agamemnon,
vegs um valdr
vísir þjóða.
49. Reiðr var ræsir,
ok regindimmri
mjök fylldist munr
meginbræði,
en blossa brunnu
bjartskínanda
jaðars augu
aldrnara.
50. Renndi ríkr
reiðum augum
fyrst til Kalkas
fylkir ok mælti:
51. „Segir þú aldri,
seggr inn illspái,
goðafrètt góða
gumum fyrir;
er þèr annast æ
illu at spá
hölda hveim, to every man
úr hugarfylgsnum“.
52. „Mæltir þú aldri
af munni orð,
heillir boðandi,
nè heill framaðir;
ok nú boðar þú
banda ráð
dimm Danáa
drengjum fyrir“,
53. „At hinn lángskeyti
Letóar mögr
því þjaki þá
þúngum raunum,
at ek hafik ei
auð glófagran,
ljósrar Krýseiðar
lausnargjald, þegit“.

54. „Alls mik hana heim
hafa tíðir;
kalla ek hana fremri
Klýtemnestru,
munarmætri
minni beðju;
er henni hún
hvergi síðr“;
55. „Vexti hvorki
nè vænleik at,
nè at hyggju-viti,
nè hannyrðum;
mun ek selju samt
sjávar ljósa
aptr fá,
ef fremra þykir“.
56. „Viljum, at herr haldist
heill ok óþjáðr,
heldr en eyðist hann
heljar nauðum;
en mèr halir búi
heiðrsgjöf þegar,
at ek ei Argverja
einn of haldi
gjafarlauss brottu;
graupligt er slíkt“.
57. „Sjáit èr því, sveitir
seggja allar,
at annarr maðr mèr
mungjöf nemr“.
58. Aptr honum
annsvör greiddi
fótstyrkr öðlíngr
Akkilleifr:
59. „Alfrægr öðlíngr,
Atreifs niðr,
meiðma gjarnastr
fyrir mold ofan!
hve mundu Akkverjar
móðhugaðir
heiðrsgjöf þèr,
hilmir, veita?“
60. „Vitum-a, vísir,
vala málma
fyrirliggjanda
fjölda mikinn;
en þats borgumr úr
braut vèr rændum,
skipt er nú þegar
skatna milli.“
61. „Samir-a sjótum,
siklíngr, aptr
saman at slaungva
sèr deildum feing;
en þú man of lát
ljóst af hendi
guði ginnreiðum,
gramr, rakna“.
62. „En vèr Akkverjar
þèr aptr munum
þrefalt ok fjórfalt,
þeingill, gjalda,
ef Brjáms borg
böðvar-ramma
ann Allföðr
oss at brjóta“.
63. Aptr honum
annsvör valdi
allvaldr alþjóðar
Agamemnon:
64. „Dyl þú ei mun þinn,
þótt mætr sèr,
gildr Akkilleifr,
goðum líkr;
munt-at-tu minn
muna tæla;
munt-at-tu mik
meinvèlum glepja,

ρ. I, 112-132.

nè mèr, hilmir,
hughvarf telja".

65. „Viltu at ek svá,
er þú sjálfr náir
góðrar heiðrs-
gjafar at njóta,
þreyi þurfandi;
en inni þekku mey
skipar þú mèr
at skila aptr?"

66. „Skal ek þó skila
inni skíru mey,
ef mèr Akkverjar
aðra velja
heiðrsgjöf
hugumstórir,
þá er minn
mun of kæti,
ok uppbót mèr
aptr veiti".

67. „En ef gumar ei
gjöf mèr veita,
sjálfr mun ek taka,
sjálfr mun ek velja;
taka mun ek Ajants
tignargáfu,
sjálfs þín, öðlíngr,
eðr Odysseifs".

68. „Man halr hverr
í huga reiðast,
hveim ek slíka
heimsókn gjöri;
en mál þetta
munum vèr síðar
framar ræða
ok frammi hafa".

69. „En marar málfeta
munum vèr nú
dökkvan draga
at dimmum sævi;
ok á rakka hjört
horska velja
fyrða til farar,
ok fagrt búa
hundraðsblót;
en á hrannar gota
Krýseiði flytja
fagrkinnu".

70. „Skal ok einn vera
með skötnum í för
ríkr ráðandi
rekka sveitum,
Ajant, eðr ok
Ídomeneifr,
eðr Odysseifr
inn ítrráði;

71. „Eðr ok sjálfr þú,
sonr Peleifs,
ægiligastr
allra manna;
sá skal sveitráðr
með sónarblóti
fylkis flugglaðar
friðar árna".

72. Brúnölfi at buðlúngi
beindi ræðu
ógnhvatr þá
Akkilleifr:

73. „Fóli, fúlmenni!
inn fremdarlausi!
frekr fjársækir
framar öðrum!
hve mundi nokkurr
hlýðni þínum
orðum fúss veita
með Akkverjum?"

74. „Hvárt heldr fór
at fara nokkra,

eðr dólgmögum
deila móti;
því at hinnig hefi-k
haldit eigi
vegna Tróverja
tírargjarnra“,
75. „At ek deilak þá
dreingi við,
er þeir aldri mèr
andvíg frömdu;
naut frá mèr
nema gjörðu-t,
nè mik reiðfákum
ræna knáttu“.
76. „Eyddu aldri
jarðar gróða
nokkru sinni
naðels boðar
á Fiðju grundar
frjóvgum sverði,
sá fjöld fæðir
fólkbetrúnga“.
77. „Fyrir því at er
þeirra landa
margt á milli:
megindimmir
hálsar háfjalla,
ok hafsmegin
sollit sæbáru
sígjálfrandi“.
78. „En vèr fylgdum þèr,
fóli inn illi!
attu heill hlytir
ok í hug gleddist,
Menelási ok þèr
mærðar árnandi,
tíkar trantr!
at Trójuláði“.
79. „Nè, þeingill, þú
þessa gætir,
nè at slíku þinn
sefi hneigist;
ok nú hótar þú,
hilmir böðstyrkr,
harðr at taka
tignargjöf mína:“
80. „Er ek fyrir þoldi
þrautir margar,
ok megir Akkverja
mèr um völdu;
nè ek hafa munk
heiðrsgjöf þinni
líka, lofðúngr,
þá er láta þjóðir
böðvarit Brjáms
brotið vígi“.
81. „Hafa þó, hilmir,
hendr mínar
mest of unnit
at mækis leiki;
en er herskipti
með höldum gánga,
mèr meira miklu
mildíngr of fær“.
82. „En ek lítið eitt
ok ljúft mun taka,
haldandi hveldum
hafreiðum at,
er ek móðr geing
frá Gauts eli“.
83. „Fara mun ek nú
til Fiðju-borgar;
því víst held ek
hölzti betra
heim at halda
hafskipum á
stafna-bjúgum
of blár unnir“.

p. I, 151-170.

84. „Nè ek hèr hyggst
heiðrs vani
auð ok iðgnótt
aura fagra
þèr at afla,
þjóðkonúngr!“
85. Fylki aptr
fólka stýrir
annsvör veitti
Agamemnon:
86. „Flýðu framast,
alls þik fara tíðir,
ok hugr hvetr,
hildíngr, þik!
Munk-a ek þik biðja
fur mínar sakar
hèr at dvelja,
því at dreingir aðrir
hjá mèr eru,
þeirs mèr heiðr ljá,
en Seifr þó mest,
megin-ráðvaldr“.
87. „En vera þykir mèr
verstr þú
gramr gylfa
goðborinna;
er þèr þráttan æ
þekkust hvervetna,
remi rómu,
ok refils þytr;
ok þóttu, hilmir, sèr
hölzti styrkr,
hefir þú afl
at Allföðr þegit“.
88. „Ráddu mildíngr,
Mýrmídónum,
haldandi heim
hafskipum á
þínum, ok þegnar
þínir fylgi“.
89. „Nè hugr minn
hneigist at því;
hirði-k nè heipt,
hilmir, þína;
en því hóta-k þèr,
alls ek harm of bíð:
at fyrst Apollon
Föbus mik sviptir
Krýseiði, ljósri
linnveingis bil,
90. „Þá mun ek hana
á minni skeið
senda láta
með sveitum mínum;
en sjálfr ek
árna munk
tjalds þíns til,
ok taka þaðan
Bríseiði, konu
ina kinnfögru;
þat er, hilmir,
heiðrsgjöf þín“;
91. „Attu sjá megir,
hve miklu emk
þèr of þrifmeiri
ok þróttmeiri;
ok at annarr einn
æðru geti,
ef hann sik ætlar mèr
jafnan vera,
ok mínum í mót
mætti ráðast.“
92. Mælti svá ágætr
Atreifs niðr,
en móðr svall
megi Peleifs;
ok móðakarn

í meginbrjósti
hvervetna hvarflaði
hluta milli,
93. Hvárt hann breiðum brandi
of bregða skyldi,
ok friðböndum
fölvi leysa,
ok upp reka
öðlínga fjöld,
en Atreifs arfa
aldri ræna;
94. Eðr skyldi hann
heipt of sefa,
ok munar móð
með sèr lægja.
95. Meðan hreifði í hug
ok *hjarta* prúðu
ráðagerð þessi
ríkr skati,
sverði lèt hann sveipat
sliðrum úr,
miklu ok meinvöldu,
meginbjörtu.
96. En Aþena
hin augum-glæja
ofan sveif
af Ólýmps tindi;
því at Hera
in hvítarmaða
gyðju lèt senda
goðstólum frá.
97. Unni hún öðlíngum
allmjök báðum,
ok þeim heill vildi
af hjarta prúðu.
98. Stóð hún at baki
stilli ríkum,
nam brúðr branda
it bleika hár

ρ. I, 189-206.

hart á prúðlyndum
Peleifs arfa;
gerði gram einum
gyðja birtast;
99. Nè annarr nokkurr
naðdísi leit;
varð Akkilleifr
undrun fánginn,
ok við sèr rèð
ræsir snúa,
en hann kenndi strax
kvernbíts gyðju.
100. Leiptruðu henni
sem logavendir
ægilig augu;
en Akkilleifr
vænghröðum þegar
veldis-gyðju
orðum þeima
ávarpaði:
101. „Hví þú, dóttir
Herjaföður
ægiskjalda,
árnar hinnig?
Hvárt viltu líta
heiptar-frekju
Atreifs arfa
Agamemnons?“
102. „En þèr segja mun-k,
þat er síðar mun
fram koma ná,
ok fram gánga:
at hilmis heipt
in hermiliga
brátt mun honum búa
bráðan dauða“.
103. Aptr honum
annsvör greiddi

Aþena, gyðja
in glóeyga:
104. „Hinnig ek hvarf
af himinstöðvum,
þinn meginmóðgan
mun at sefa,
ef þú hlýðnast knættir;
en mik Hera sendi
himinstöðvum frá,
in hvítarmaða“.
105. „Ann hún ykkr báðum
öðlíngum mjök;
heill vill hún yðr
af hjarta báðum;
en hept nú, hildíngr,
heiptar-bræði,
ok sverð þitt lát
sliðrum falit“.
106. „En þú orðum æs
öðlínga kind,
alls þau eru sköp
skötum búin;
en þèr ek segja munk
þat er síðar mun,
fylkir, fram koma,
at af frekju þessi
þèr munu þrefaldir
þrífast aurar;
en þú heiptir hept,
ok hlýðnast oss“.

---

107. Aptr gyðju þá
annsvör greiddi
fóthvatr öðlíngr
Akkilleifr:
„Sæmir þat, gyðja
in ginnheilaga,
orðum yðrum
eptir at fylgja“.
ρ. I, 206-224.

108. „En þótt reiðr sjá-k,
ok svelli hugr
bræði bölmóðri,
betra er þat;
því sá er guðum
góðum hlýðnast,
honum munu þeir
heillir veita“.
109. Mælti svá mildíngr,
ok á meðalkafla
svára setti mund
silfrvarinn;
skaut hann skjóma
í skeiðar aptr;
var-at óhlýðinn
orðum gyðju.
110. En Aþena
hin augum-glæja
upp sveif til Ólýmps
aðalstöðva,
til sala Allföðrs
ægisskjalda,
ok goða annarra,
ginnheilagra.
111. En prúðr aptr
Peleifs arfi
siklíng særa nam
svárum orðum,
Atreifs niðja,
nè öflga reiði
í huga hepti
heiptar-ríkum:
112. „Vínbelgr vargsýnn,
vilgi prúðr,
merhjarta meinflátt
it meginhrædda!
hefir aldri þinn
hugr þorat
brynju at búast

bardaga at
með öld ítri
öðlíngmanna;
nè með ágætum
Akkverja sveitum
lástu, lydda,
launsátrum í!“
113. „Þótti þèr þat bani
bráðr vera;
er ok tryggara
(þó torfeingt sè)
um mannmargan
ok meginstyrkan
her Akkverja
heipt at beita“,
114. „Ok gjöfum gumna
góðum ræna,
hvern er móti þèr
mæla þorir;
mildíngr meinvíss,
mannavargr!
lýðstjóri leiðra
löðrmenna!“
115. „Vilda-k, hildíngr,
attu hinnsta sinni
hrópi heitaðist,
at heipt snúinn!
en vittu þat, vísir,
vinn ek þèr eið,
eið alstyrkan
fyrir öld frammi:“
116. „Sver ek svá við minn
siklíngs-sprota,
þann er aldri blómgvast,
barri nè laufi,
nè aptr ýngist,
sízt hann áðr hvarf
blómbjörkum frá.
brandi sneiddr
ϱ. I, 124-246.

á myrkviðar
meginfjöllum:
117. „Því at eikar-kvist
eggjar málma
berki ok brumi
blómgu flógu;
en nú halda honum
höndum í
arfar Akkverja,
þeirs með öld of dæma,
þeirs rèttar reka
ragna-föður;
sá skal aleiðr,
öðlíngr, þèr“:
118. „Kvarta munu kræfir
konir Akkverja
allir, ok sakna
Akkillesar;
munt-at-tu hvergi,
mildíngr, þá,
gumum gunnfrægum
gagna mega,
þótt þitt gremi
geð of þjái“,
119. „Þá er hölda fjöld
helgreipum spennt
mannmyrði fyrir
at moldu hnýgr
Hektori, en þú
í huga gremst,
er þú eingu virðir,
þann er Akkverja
beztr var
ok böðstyrkastr“.
120. Svo mælti prúðr
Peleifs arfi,
ok á váng of varp
veldis-sprota
gulli vörðum

úr gildri mundu,
en sjálfr síðan
settist niðr.

---

121. En annars vegar
Atreifs niðja
móði svall munr
meginreiðr.
122. Reis þá upp Nestor
með niflúngum,
mjúkmáll Pýlverja
málsnillíngr;
rann orða-hreimr
hans af túngu
ok hvarfi tanna
hunángsætr.
123. Sèt hafði hann svífa
und sólar tjaldi
lífs-aldir tvær
láðbyggjenda,
þær með mannbaldri
í meginhelgri
ólust Pýlusborg
ok aldr gátu;
en með öld þriðju
öðlíngr var.
Heill í hugum
hann orð um kvað:
124. „Sè þar harm sáran!
svalar meinvættir
of Akkverja
aldir svífa;
mun nú Brjámi búin
ok Brjáms niðjum
gleði gagnsæl,
ok görpum Tróju“,
125. „Ef þeir frètt feingi
af feiknum þessum,
er þèr heiptar hug
p. I, 246-268.
hjörvum berìzt,
mildíngar Danáa,
mest of fremstir
reginráðum at
ok rómu bæði“.
126. „En hlýðit nú,
hildíngar, mèr,
er ykkar beggja
aldr minni;
hefi-k ok áðr
með hölum verit,
yðr, fólkskatar,
at fremd ríkri,
nè þeir mál mitt
mátu vettugis“.
127. „Sá-k-at slíka,
nè sjá mun-k,
svo sem prúðr
Píriþóus,
eðr dróttvaldr
Drýas of var;
ítr Kyneifr,
ok Eksadíus,
ok prýði búinn
Polýfemus;
[ok Þeseifr
þeingils kundr
Egeifs alfrægr,
jólnum glíkr.]“
128. „Váru þeir styrkastir
storðar barna,
meginmestir
moldbyggjenda;
þeir við aflmesta
ýta þreyttu
kappdeilur karskir
ok kalda rómu“.
129. „Börðust við trylldan
bergrisa lýð,

Ferubúa,
ok þeim fjörráð unnu
hildar leikum at
hermiligum“.
130. „Fór ek prúðfagri
Pýlusborg frá,
ok með mönnum þeim
munda-k svífa
fjarrum löndum frá
of feiknstigu;
báðu mik böðvísir
beimar þess“.
131. „Börðumk ek böðvitrum
bragníngum með,
hafða-k sveit minni
sjálfr at ráða;
en manngi nú,
á mold alinn,
brandi móti þeim
beita knætti“.
132. „Heyrðu halir þeir,
hvat ek ráða nam,
ok orðum mínum
öðlíngar hlýddu;
hlýðit mèr nú ok,
hjaldrs stjórar;
svá mun bezt búast
fyrir bragna fjöld“.
133. „Munt-at-tu, mildíngr,
þótt mætr sèr,
láta lofðúng svipt
ljósum svanna;
láttu, lýðvaldr,
linnveingis bil,
er hana fyrst
fyrðar námu
hildíngi frægum
at heiðrsgjöf“.
134. „Nè þú, inn prúði
Peleifs niðr,
döglíngi móti
deilu þreyt;
því at ójafna
öðlíngr þá
fólkvaldr fremd,
fyrðum meiri,
þeim Seifr veitti
vísis ljóma“.
135. „Þóttu meiri sèr
at meginafli,
er þik gyðja ól,
goðborin móðir:
fremri er þèr samt
fólkráðvaldr,
er hann öld stærri
yfir ræðr“.
136. „En þú þína hept
heiptar-reiði,
Atreifs arfi,
eljunsára;
en Akkilleif,
at hann af láti
hatrs huga,
helzt mun ek biðja;
því at Akkverjum
öðlíngr er
megin-múrveggr
fyrir málmþrymu“.
137. Annsaði aptr
öðlíngi ríkum
Agamemnon
yfirstýrir:
„Öll eru orð þín,
inn aldni verr,
sannlig, samboðin
sannleik mærum“.
138. „En þegn þessi
þjóðum öllum

ρ. I, 268-287.

fremri vera vill,
ok valdi kúga;
ríkr ráða
rekka sveitum,
ok gumum stjórna
girnist öllum“.

139. „Vill hann öld allri
yfir bjóða,
megnum mállögum,
þeims manngi hlýðir;
því þótt veitt hafi
vísar himna
hetjumátt honum
at hildar leikum,
hvárt munu þeir leyfi
honum gefit
hrópi ok heiptyrðum
hali at þjá?“

140. Framm í tölu tók
tívum glíkr
Akkilleifr
öðlíngmennis:

141. „Kalla mætti mik
kaldyrðum með
hvervetna þræl
hvergi nýtan,
ef ek æ annaði
orðum þínum,
ok frekju hverri,
er þú frammi hefir“.

142. „Heldr öðrum hroka
höldum þú sýn,
en eigi mik
mantu kúga;
því ek lítt mun láta,
lofðúngr, at
hótunum þínum,
nè hlýðni veita“.

143. „En annat mun ek þèr
orð of segja,
en þú geym
í geðknerri“:

144. „Munk-at ek mínum
meyjar vegna
höndum harðmóðga
hildi drýgja;
eigi við þik, öðlíngr,
nè annan hvern,
er þèr aptr takit,
þats áðr gáfut“.

145. „En meiðma annarra,
þeirs hjá mar-ljónum
mínum hrafndökkvum
ok hröðum liggja,
munt-at-tu þeirra,
þeingill, it minnsta
at nauðgum mèr
námi taka“.

146. „Reyn þú þat, ríkr
ræsir, lát sjá,
at þat öld sèt
einnig fái;
þá mun ek í þínu,
þeingill, görva,
darr of dýja
dökku blóði“.

---

147. Deildu dýrir
döglíngar svá
svárum sáryrðum
fyrir sjótum frammi,
ok upp stóðu;
en aldar-þíngi
slitu siklíngar
at særeiðum.

148. Gekk prúðlyndr
Peleifs arfi
at jafnbyrðum

p. I, 287-306.

ægis hestum,
ok tjalda til;
en tiggja fylgdi
Meníts konr
ok kníar hans.
149. En öðlíngr
Agamemnon
drafnar dreginn lèt
dökkvan gota
ægisdjúp á,
ok ýta valdi
vaska tuttugu
til víðis leiðar.
150. Ok hundraðsblót
hann of setti
hafreið á
himintíva,
ok Krýseiði,
kinnfagra mey;
en mildíngr,
inn margráðugi
Odysseifr,
ýtum rèði.
151. Geingu á gnoð
garpar svinnir,
ok of víðis leið
vota svifu.
152. Bauð Atreifs arfi
at öld lèti
móðgum meinsullum
moldar farit;
en hreinsast námu
halir þegar,
ok saur svárum
á sæ köstuðu.
153. Fluttu öðlíngi
Apolloni
heilar ok hreinar
hundraðsfórnir,
geita ok nauta,
at græðis jaðri,
þess er brum nè blóm
bera knáir.
154. En fórnar ilmr
faldinn mekki
hvarf til heilagra
himinstöðva.
155. Starfaði at þat
stríðvanin þjóð
herbúðum í,
en hildíngr
ekki af lèt,
Agamemnon,
heipt við Akkilleif,
er hann ógna nam.
156. Mælti tiggi
við Talþýbíus
ok Evrýbates;
en þeir ýtar váru
konúngs kallarar
ok knáir liðar,
öflgir ok ótrauðir
erendsrekar:
157. „Haldit hvárrtveggi
herbúða til
Akkills, prúðlundaðs
Peleifs arfa,
ok í hönd takit
ok hinnig leiðit
Bríseiði, brúði
bjarthaddaða“.
158. „En ef hann ei
ykkr of fær
margullna mey,
mun ek sjálfr taka,
ok megins njóta
manna fleiri;

sú mun honum heimsókn
hræðilig þykja“.
159. Þeim mælti sjóli,
sendi guma braut,
hörðum orðum
í heiptar móði.
160. Geingu gumar
at græðis jaðri,
vilgi viljugir,
þess er vætki blómgast;
mundu at hertjöldum
Mýrmídóna
árna, ok skjótum
skipum niðr.
161. Hittu hilmi
at hertjaldi,
at dökkleitum
drafnar blakki;
sat þar öðlíngr
Akkilleifr,
gladdist-at gramr
við gumna komu.
162. Stóðu skelfdir
fyrir skjöldúngi;
öðlíng óttuðust
ógn- um -fráan,
nè af munni fram
máli hreifðu,
frètt nè frömdu
at fólkskata.
163. En gramr mundi
í geðknerri
skilja skýrliga
skatna erendi,
ok þá öðlíngr
ávarpaði:
164. „Kærir kallarar,
kátir sèt èr,

p. I, 325-344.

sendiboðar Seifs
ok sveita jarðar“.
165. „Árnið nær, ýtar,
áfelli-k-at yðr;
erut èr at
ills um valdir,
heldr öðlíngr
Agamemnon,
sá yðr svanna
at sækja bauð“.
166. „Heyr, Patróklus
inn prúðlundaði,
leið þú fram ljósa
linnveingis bil,
fá hana í hendr
höldum þeima,
at þeir flytji hana
á fylkis vald“.
167. „Kveð ek yðr báða,
kallarar mærir,
vitni at vera
fyrir vísum himna
sælum ok svásum,
ok sjótum jarðar,
ok fyrir heipthörðum
herkonúngi:“
168. „At ef þegnum þörf
þykir minna
herstyrkra handa
helnauðum at —
mæli-k at meirr,
því at móðr jaðarr
illum heiptar hrekst
hamförum í“.
169. „Veit-at vísir,
þótt velti huga
hèðra ok þaðra,
hinnig ok þinnig,
hve hann heilum skal

hölum stýra
bardaga í
at brimdýrum“.

---

170. Mælti hann svá;
en mildíngs vinr
Patróklus hlýddi,
prúðlundaðr;
leiddi hann konu
ina kinnfögru,
Bríseiði bjarta,
búðtjöldum frá.
171. Lèt hann ljósa
lagar selju
brögnum at flytja
á braut þaðan;
en *þeir* aptr
Akkverja til
skipa skunduðu
skrúðfaldinna;
gekk nauðugt man
at naglförum
ágætum með
eimnis reynum.
172. En Akkilleifi
úrgar döggvar
harma hrundu
fyrir hvarma niðr;
lángt gekk lofðúngr
frá liðum sínum,
ok fjarri settist
sorgum spenntr,
173. At brimhvítrar
báru jaðri,
ok á dröfn starði
döprum augum;
fórnaði höndum,
ok fremst um bað
móður, meginmæra
marar gyðju:
174. „Móðir mæra,
er þú mik um ólt
skammæan mög
fyrir mold ofan,
heiðr skyldi mèr
Herjaföðr
þrífast láta þó
þrumuvaldr“.
175. „En nú einkis virðir
allvaldr mik,
því at vítt of valdr
vísir þjóða
úvirt hefir mik
Atreifs mögr,
er sjálfr tók
ok svárum höndum
minni heldr hilmir
heiðrsgjöf“.
176. Mælti svo mildíngr
móðgum harmi;
en mær móðir
mög of heyrði,
þars hún sægrænum
sædjúpum í
sat at öldúngs hlið
aldri vorpins.
177. Upp sveif eiða
úr ægisdjúpi
skjótliga, skuggligum
skýmjörkva glík,
ok hjá syni settist
sævar gyðja,
þars hellti hann
höfgum tárum.
178. Mýkti mildíng
mjúkri hendi

margullin móðir,
ok máli hreifði:
179. „Hví þèr, mögr minn,
móðgir harmar
hvarma væta?
hvat er harms efni?
Seg mèr þat, sonr,
nè þú sorgmóðr
böl í mun byrg,
at bæði vitim“.
180. Stunu þúngri
stríðra harma
ógnhvatr mælti
Akkilleifr:
„Veiztu þat, móðir;
hví ek mæla skal,
er þú allar kannt
ófarir mínar?“
181. „Fórum til Þífi
fremst of helgrar,
Eetíóns
aðalborgar;
brutum borgvirki,
ok brandi eyddum;
bárum allan braut
báru ljóma“.
182. „Skiptu rèttliga
rekkar akkneskir
með sèr góðmálmi
ok meiðma fjöld;
en Atreifs arfa
ítrum völdu
Krýseiði, konu
ina kinnfögru“.
183. „En meyjar faðir,
mærr hofgoði
lofðúngs ins lángskeyta,
Letóar arfa,
skjótt skundaði
at skjótum gnoðum
aldar Akkverja
eirbrynjaðrar“.
184. „Leysa vildi hann
ina ljósu mey,
flutti meiðma fjöld
fagra, ómældra;
hafði í höndum
helga sveiga
lofðúngs Apollons
ins lángskeyta“
185. „Gullsprota á,
ok grátbændi
Akkverja alla,
en þó einna fremst
Atreifs arfa
alls um valda,
böðvar-þjóða
buðlúnga tvá“.
186. „Rómuðu þá allir
rekkar akkneskir
tölu vel
tíva varðar,
at hann virðr skyli,
ok vegligum
viðtaka veitt
vala málmi“.
187. „Var þó Atreifs nið
at vettugi
slíkt of boðit,
at hann sinna knætti;
sendi hann segg braut
með svívirðu,
ok heiptar-yrði
honum valdi“.
188. „Reiðr varð ræsi
rekkr hinn aldni,
árnaði braut,
en Apollon

bæn of heyrði
hörga gætis,
er hann honum heill
hugum unni".
189. „Sendi örvaguð
Argverja sveitum
nöpr náskeyti
nauðum undin;
en alþjóð
at aurmoldu
hrönnum hnè
fyrir hremsu dauða".
190. „Flaug flugglöð
fenju jaðars
of allan her
Akkverja lýðs;
en spámaðr
spakr rèði
oss Apollons
eljan-gremi".
191. „Bauð ek þá fyrstr
böðvísri sjót
drottinn dynföru
dýrstan mýkja;
en Atreifs arfa
æðis reiði
hörðum spennti hug
heiptar-greipum".
192. „Stóð upp stillir,
strítt of mælti
heiptar hótunum
harðmóðigum;
eru nú þegar
in illu ráð
öðlíngs ok ógnanir,
allt fram komit".
193. „Flytja fráneygir
fyrðar meyju
akkneskir, græðis
á gota skjótum,
Krýsesborgar til;
en konúngi
gjafar góðar
garpar velja".
194. „En nú námu mèr
námdúks hildi,
bjarta Bríseiði,
frá búð minni;
komu kallarar,
ok konu tóku,
þá er mèr Akkverjar
áðr gáfu".
195. „Ef þú mátt, móðir,
muntu nú þínum
megi lið ljá,
þann er leiði þjáir;
svíf þú Ólýmps til
aðalstöðva,
bænum biðjandi
banda föður".
196. „Hafir þú, svása mín,
sinni nokkru
huga fróat
Herjaföðrs
orðmælsku með
meginsætri,
eðr vísi glatt
verki nokkru";
197. „Heyrða-k þik laungum,
himnesk móðir,
í föður þíns
þylja sölum,
er þú ein kvaðst
Kronussyni,
svartskýja-Seifi,
sjóla máttkum,
undan stýrt hafa
aldrtila,

upphimins ein
alráðenda“.
198. „Þá er goð önnur
á Ólýmps tindi
banda blíðföður
binda hugðust:
Hera hvítörmuð,
ok hauðrs skelfir
Posídon, ok prúð
Pallas Aþena“.
199. „Komstu þá, gyðja,
ok konúng himna
leystir launstyrkum
læðíngi úr“.
200. „Sóttir þú sjálf
at sölum hám
hundraðhenta
hrímþursa kind;
kalla Bríareif
bönd in mæru,
en Ægeif
alda sveitir“.
201. „Er því sá
sínum föður
ámáttkari
jötundólgr;
settist sælum
Sigföður hjá
frægð feiknljósri
faldinn leifi“.
202. „Ræddust regin
ríksæl ok góð,
nè frekefldra
fjötra neyttu.
Nú muntu, móðir,
minnast þessa,
ok konúngs himna
knè of spenna“.
203. „At lið lofðúngr
p. I, 398-418.

ljá megi nú
ok tír veita
Trójumönnum;
en Akkverja
at ægis hestum
aptr hrekja,
ok at öldu þraungva“.
204. „Láttu þá hníga,
ok hrönnum deyja,
at þeir niflúngs síns
njóta knegi;
ok at Atreifs arfi
Agamemnon
kenna nái þess,
er hann kappa mærstan
sjóta smánaði,
ok særðan lèt,
ok afglapan
illa framdi“.
205. Svaraði siklíngi
sævar-gyðja,
ok tár of felldi
af týrum hvarma:
„Aum er ek þess,
arfi minn,
er ek þik um ól
illu heilli!“
206. „Vilda-k, at þú
at víðis dýrum
sorglaus og heill
sitja knættir;
er þèr örstutt lagt
æfiskeið,
nè dagar lángir
fyrir Dellíngs hliðum“.
207. „Ertu snemmendis
sorgum hrifinn,
ok at úgæfu
öðrum framar;

illu heilli
hefi-k alit þik,
arfi minn,
at auðsölum“.
208. „Mun ek nú þessar
þrumuglöðum
segja Seifi
sorgir þínar;
svíf ek Ólýmps til
snjóvi drifins,
ef oss hugga mætti
Herjafaðir“.
209. „En þú, sonr, sit
særeiðum hjá,
fákum farskjótum
fjarðar ála;
reiðstu Akkverjum,
en rómu frá
hept þik, hildíngr,
ok hildi allri“.
210. „Því með Eþíópum
alda faðir
ágætum er
at jarðarstraumi;
sótti veizlu
siklíngr í gær,
ok goð öll
grami fylgdu“.
211. „En dag tólfta
mun döglíngr
Ólýmps þèr
aptr vitja“.
212. „Mun ek þá árna
til eirvarins
Sigföðrs salar,
siklíng knèfánga;
held ek víst,
at ek vilja knegak

bænum beygja
banda föður“.
213. Mælti svo mær
marar gyðja,
ok burtu hvarf
frá hildíngi;
lèt hún eptir gram
gremi sollinn
fyrir mey fagra
fagrbeltaða,
þá er ýtar
með ofríki
nauðgum námu
frá niflúngi.

---

214. En Odysseifr
inn ítrráði
kom til kynhelgrar
Krýsesborgar,
helgar flytjandi
hundraðsfórnir.
215. En er leið-liðar
at lagar polli
ála innstum
inni váru,
þá segl seggir
á siglu mari
hefluðu við rá
ok hleyptu niðr;
216. Lètu voð lagða
í lagar gota
kvið dökkleitan
dreingir at þat;
hleyptu hræsvelgs dúks
með höfuðbendum
lauki skjótliga
í lokfellu.
217. Knýðu karskir
kníar síðan

hraðan hrannar blakk
at hafnar inni;
lètu lagðan
at lagar grunnum
styrkan stjóra,
ok at stefni bundu.
218. Geingu at þat
af græðis fáki
halir hraustir
á hafs-ströndu,
ok hundraðsblót
heilög færðu
örva öðlíngi
Apolloni.
219. Stè af streingja
stríðum fáki
Krýseiðr, kona
in kostsama;
leiddi ljósa
linnveingis bil
at meginaltari
inn margráðugi
Odysseifr,
ok ítra mey
föður fèkk
faðmi kærum,
en hann orðum þeima
ávarpaði:
220. „Krýses, helgr
hörga gætir!
sendi mik öðlíngr
Agamemnon,
allvaldr alþjóðar
ítrfrægr,
at ek færa þèr
þína dóttur“,
221. „En hundraðsblót
helg at færa
dólgfimra Danáa
dreingja vegna“,
222. „At vèr mýkt fáum
upphimins gram,
er hann ótal
Argverja fær
napra nauða
ok náhríða;
vekr þat stunur
með virða kind“.
223. Mælti svo mildíngr,
ok mundum fèkk
föður fagra mey,
en fegins höndum
faðmaði faðir
fríða dóttur.
224. En halir færðu
hvatvísliga
heilagt hundraðsblót,
ok hávan kríng um
heimar blótstalla
blótdýr stilltu;
síðan þógu
sínar hendr,
ok blótbygg
bleikt of námu.
225. En Krýses, helgr
hörga gætir,
höndum fórnaði,
ok fremst of bað:
226. „Heyr mèr, inn svási
silfrbogvaldr,
þú er Krýsesborg
kríng um svífr,
ok kynhelgrar
Killu múra,
þú er ríkliga
ræðr Teneds ey!“
227. „Alls þú áðr mik,

öðlíngr, heyrðir,
þá er leitaða-k
líknar þinnar;
virðir þú mik, vísi,
vegliga þá,
ok Akkverja varpt
aldrtjóni".
228. „Veit mèr nú einnig,
þats um ek bið,
bæg nú bölsárum
banaskeytum
Akkverjum frá,
ok eymd þessi".
229. Mælti svo helgr
hörga vörðr,
en bogvaldr guð
bæn hans heyrði.
230. En er bænræknir
of beðit höfðu,
ok blótbyggi
bragnar dreift,
beygðu blótsvíra
fyrir brodda jaðri
seggir ok slátruðu,
síðan ok flógu,
231. Ok blótbita
úr blóðgum lærum
skatnar síðan
skera mundu;
huldu mörlaga
milli tveggja,
ok hèr ofan á
hrátt of lögðu.
232. Ok blótbita
brenndi aldinn
skati á skíðum,
ok skæru víni
yfir dreypti;
en úngir sveinar



teinum fimmyddum
framliga hèldu
at hlið hofgoða
í höndum sèr.
233. En er blótbitar
brunnir váru,
ok iðrar etnar
ýtar höfðu,
brytjuðu blótkjöt
bragnar annat,
ok á steikara
stúngu teina;
steiktu gumar allt
gætiliga,
tóku síðan,
ok af teinum drógu.
234. En er erfiði
ok önnum þeima
hættu halir,
hófu upp veizlu;
nè lystíng leið
lýðum gerðist,
neyttu dreingir
af deildum verði.
235. En er lýðir
lystíng höfðu
á bug ekit
áts ok drykkjar,
skaptker sveinar
skærum veigum
barmafull
fyrir bragna settu.
236. Deildu öllum
dreingir, ok síðan
skötnum í röð
skálar feingu.
237. Svá mundu ýtar
endlángan dag
bogvald at blóti

blíðkaðan láta;
súngu sveinar
sætu lofi
lángskeytum ýs
lofðúngi fyrir;
en hann glöðum hug
heyra knátti.
238. En er röðull
rann til viðar,
ok rökkr leið
yfir leiptra sali,
þá naglfars njótar
náðir tóku
at skutfestum
skipa niðri.
239. En er árrísul
rósinfíngra
birtist mönnum
Morgunskæra,
aptr hèldu
til Akkverja
sóknstyrkra sveita
sverða reynar.
240. Lèt Lángskeytr
yfir leiðar djúp
hægan himinvind
höldum fylgja;
reistu rálauk
rekkar snjallir,
ok dripthvíta
dúka þöndu.
241. En óþrotligr
elris rakki
bólgnum hvoptum
blès í voð;
þá við stefni
at stærðum skrið
mórauð hafalda
hátt of glumdi,
en ráhjörtr
rennandi fór
lábrostna leið
leiðar sinnar.
242. Sveif sólborðs fákr
yfir sæbáru,
ok of götur gekk
græðis djúpa;
en er til Akkverja
aptr váru
komnir liðar liðs
Leifnis granda:
243. Drógu drafnar blakk
dreingir þegar
grásendna á
græðis ströndu;
streingmar studdu
stoðum laungum;
en gildir geingu
garpar síðan
skildir at skipum
ok skatna tjöldum.

---

244. En at skriðskjótum
skjöldúngr sat
hrannar fákum
í heiptar móði
goðkunnigr, prúðr
Peleifs arfi,
ógn- um -frár
Akkilleifr.
245. Hirti nè heiptugr
hildíngr þá
of hölda hirð
heiðrsæla,
nè at gildum gekk
góins leiki;
heldr svárri sorg
siklíngr lèt

ρ. I, 472-491.

mótt móðakarn
mætr dvína,
saknaði snerru
ok Sviðris hríðar.
246. En er þaðan frá
þreyttar váru
tólf dagsólir
of Dellíngs hlíð:
þá svifu sælar
sveitir goða
allar at Ólýmps
aðalstöðvum;
en Seifr var
fyrir Sigtívum.
247. Gleymdi-t gyðja
græðis djúpa
bænum burar síns
ins bölþjáða.
248. Sveif hún af svartblám
sævar öldum,
ok at myrkbjarma
morgunstundar
víðs víðbláins
vitja knátti,
ok Ólýmps
aðalstöðva.
249. Hitti hún hilmi
himins banda,
er hann einn of sat
öðrum fjarri,
á tindi hæstum
tíva leitis,
marghálsuðum á
meginhnjúki.
250. Settist sævardís
siklíngi hjá,
ok vísis knè
vinstri hendi
faðma mundi,

ρ. I, 491-510.

en mundu hægri
undir höku tók
á himins jaðri.
251. Bænum biðjandi
bládjúps gyðja
kvaddi konúng þá,
Kronusar mög:
252. „Hafi-k, heimsvaldr
Herjáfaðir,
sigri at þèr snúit
með Sigtívum,
orði vinhollu
eðr verki nokkru,
þá veit mèr, öðlíngr,
þats um ek beiði“.
253. „Veittu veg mínum,
vísir, niðja,
sá er aumastr er
með öldum getinn;
hefir úvirt hann
ok hrópi móðgat
allvaldr alþjóðar
Agamemnon“.
255. „Hann hans of tók
tignargáfu,
ok henni heldr
hilmir sjálfr;
veit nú honum veg
ok virðíng ljósa,
regin-ráðvaldr
ragna sjótar,
yfirbjóðandi
Ólýmps tinda!“
255. „Veit þú Tróverjum
tír ok remi,
þar til er akkneskrar
aldar sveitir
bur minn böðfrægum
búa heiðri,

ok honum svása
sæmd of veita“.
256. Mælti svá gyðja;
nè gylfi himna
megin-ráðvaldr
máli hreifði;
sat þegjandi
siklíngr leingi.
257. En marardís
mildíngs knjám,
Þetis svásfögr,
sleppa gerði-t;
hèlt blíðstyrkum
bænar-tökum,
ok öðru sinni
orðum hreifði:
258. „Muntu, mildíngr
meginráðr,
vissu veita mèr,
ok víst of heita,
höfuðhneigíngu
himneskri með,
eðr syn setja
sefa mínum“.
259. „Er-a þèr orða,
öðlíngr, vant,
at ek vel
of vita megak,
at sjá-k í sölum,
sjóli, yðrum
sízt of sæmd
sveitum banda“.
260. Stundi þúngan
stillir himna,
Seifr, svartdimmra
sjóli skýja,
ok ægis gyðju
ávarpaði:
261. „Leitt er, lagardís,
ρ. I, 510-527.

er þú leiða vekr
róstu rifrildis,
rögnum sára,
mín á milli
ok mærrar Heru,
er þú mèr ávítur
illar velr“.
262. „Vekr hún endrum ok
orða rómu
mèr á móti
með mærum guðum;
kveðr mik æ
at kesju hríðum
Trójumönnum
tír of veita“.
263. „En þú aptr far,
at þik eigi sjái
Hera, hvítörmuð
himins gyðja;
en ek þessa munk
mest of gæta,
uns þat allt
afrekat hefi-k“.
264. „Víst mun ek nú,
attu vita knegir,
hneigíngu vekja
hvarma sóla;
er þat mesta mín
at máttkum guðum
jarteikn æ
ódauðligum“.
265. „Má-at umbreytast,
nè aptr takast,
ónýtt gjörast
nè óframit,
heit mitt, er hefi-k
með hneigíngu
mark of miðlat
meginramri“.

266. Mælti svá mildíngr
mjörkva skýbólstra;
brúnum bládimmum
bákna náði;
en af jaðars höfði
ódauðligu
lokkar ljúfhelgir
liðum hristust;
en Ólýmps skulfu við
undrsalir.

---

267. Ráðguðust þannig
ríklunduð goð,
ok síðan skildu;
en sævar gyðja
niðr í rastir reið
regindjúpar
albjörtum frá
Ólýmps tindi.
268. En salar síns
Seifr vitjaði;
en ginnheilög goð
görva stóðu
sínum af sætum
siklíngi mót;
nè nokkurr sat
við niflúngs komu,
en allir geingu
ok grami heilsuðu.
269. Settist Seifr
á siklíngs stól;
var-at Heru leynt,
er hún vísi sá,
at ráð of ráðit
með ræsi hafði
Þetis fótfögr,
fjarðar ála
aldri vorpins
öldúngs dóttir.
ρ. I, 528-547.

270. Meinyrðum með
megingyðja
illum öðlíng þá
ávarpaði:
271. „Hverr hefir nú
hug of ráðgazt,
sjóli svikráðr,
með sefa þínum?
er þèr ætíð þægast
ok þekkast bezt
ráð at brugga
at baki mèr",
272. „Ok laun-látum
leiðum beita;
nè þú nokkru,
niflúngr, sinni
mínum mun
at miðla þorðir,
hvat þèr hugkvæmdist
í hugar fylgsnum".
273. Aptr annsaði
uppheims freyju
mildíngr guða
ok moldbyggjenda:
274. „Hugs-at-tu, Hera,
attu hvervetna
vèráð mín
vita fáir;
konu kaldlyndri,
er kynmagnaðr
þèr of svárr
sefi minn".
275. „En þats mínum
mun of þókknast
heyranda hveim
hljóðbært fremja,
þat mun manngi fyrr
frètta, en þú,

guða ekki,
nè jarðar barna“.
276. „En þats ræðk ek
rögnum hulit,
ok hjaranda hverju
hyggjumk dylja,
skalt-at-tu, skær
skatyrnis freyja,
fremst of frètta,
nè fá þess getið“.
277. Svaraði svipmikil
sjóla aptr
sjónfögr, tígin
salar gyðja:
„Ægiguð ógnligr,
arfi Kronusar,
hvílíkt hvarf þèr orð
af hvarfi tanna!“
278. „Emk-at annars vön
alls of frètta,
nè huga þinn
hulu svipta;
en í ró, ræsir,
þú ráða knátt,
þat er þínum hug
þekkast fellr“.
279. „Óttumst ek nú
ægiliga,
at þik fótfögr
of fundit hafi
Þetis, dóttir mær
marar-öldúngs;
mundi hún þèr hjá
at morguns ári,
konúngr, sitja
ok knè of spenna“.
280. „Muntu, mildíngr,
marar gyðju
höfuðhneigíngu
p. I, 547-567.

helga gefit,
attu Akkilleifi,
aflaðir heiðrs,
ok marga myrðir
at marar-ljónum“.
281. Svaraði Seifr,
sjóli skýbólstra,
aptr uppheims dís
orðum þeima:
282. „Undrsamlig
uppheims freyja,
er þèr grunr æ
í geði djúpu,
nè mèr, drottníng, þú
dyljast knátt“.
283. „Gerir-a þèr gagna,
þóttu geta knáir,
en hug mínum
hverfr þú æ firr;
mun þèr þó móðr
minnar reiði
hölzti, himindís,
hermiligr“.
284. „Ok þótt hitt,
þat er þèr of gremst,
framgáng fái:
þat mèr fellr svá;
sit nú, ok sinn-at-tu
svárum orðum,
ok mæru hlýð
mínu boði“.
285. „Mundu-t mærir
mildíngar himna,
þeirs á Ólýmps búa
aðalbóli,
gagna þèr, gyðja,
ef ek gaungum nær,
ok þik harðmóðgar
hendr á legg“.

---

286. Mælti hann svá;
en mildíngs rúna
sveipaðist sjónfögr
svárum ótta;
settist hún þegjandi,
ok sefa móðgan
hepti harðliga
frá heiptyrðum.
287. Urðu blíð bönd
bláheims salar
sorgum orpin
sefa höfgum;
reis þá upp Hefastr
hugvitsfrægr,
ok orðum yppti,
at uppheimsgyðju,
*móður* mærrar,
munr huggaðist,
Heru háleitrar,
hvítarmaðrar:
288. „Sè þar harm sáran,
ok sorg þúnga,
atburði illa
ok óþolandi,
er bæði beitið
bölsyrðum þit
dauðligrar vegna
dreingja sjótar“;
289. „Er þit upp vekit
með uppheims guðum
deilu dólgsvára;
nè dýrrar veizlu
gleði gagnast má
með goðþjóðum,
er it illa æ
ofarr verðr“.
290. „Mun ek nú minni
móður ráða,
þótt hún vits vana

p. I, 568-586.

vilgi sè,
at hún dýrðraman
día föður
blíðum blíðki
bænar orðum“,
291. „At ei Allföðr
aptr hana
heiptyrðum hreki
hermiligum;
ok með oss,
jólna sveitum,
vespjöll veizlu
verða megi-t“.
292. „Má því mildíngr,
ef munr ræðr,
leiptra logvaldr
lýrnis sala,
oss öllum varpa
af aðalstólum;
öllum því hann er
afla-meiri“.
293. „Mæl nú, móðir,
mærum orðum
ok banda föður
blíðkaðan lát;
mun þá aptr oss
alls of valdr
miðgarðs mildíngr
miskunn sýna“.
294. Mælti svá Fótlamr,
ok fremst of reis;
tók hann mundum
tvíker fagrt,
ok í mund mæra
móður fèkk,
en uppheims freyju
ávarpaði:
295. „Þreyðu, hraust móðir,
ok þúngum sefa

haltu höptum í,
þótt þú hörmug sèr;
at ek, eiða, ei
augum leiði
þik þjakaða,
nè þrautum kvalda".
296. „Munk-at ek þá,
þótt ek mjök harmi,
líknar þèr
leita mega;
því at ólýmpskr
alda faðir
þrautþúngr er
at þrótt ok remi".
297. „Brá mèr buðlúngr
banda styrkr
eitt sinn, er ek vann
andstæði drýgja,
hátt und himins ráf,
hreif jarka stoð,
ok mèr Viðris varp
frá vegsölum".
298. „Þaut ek þrömmúngs leið
þrotlángan dag,
en er sæl of seig
sól í ægi,
lagða-k leiðarflug
at Lemnarhólmi;
var mèr þá lítt lagit
líf í brjósti".
299. „Tóku mik slíkan
Sintíar þar,
er ek af himni hrautk,
ok mèr hjúkrun veittu".
300. Mælti svo Fótlamr;
en fagrörmuð
brosti Hera,
Hefasts móðir,
ok af burar mundu
ρ. I, 587-606.
brosandi þá
tvíker, glæst
græðis loga.
301. En at hægri hendi
Hefastr blètt
goðum öðrum
gullnar veigar,
ok eldbjartri ódáins lind
skæru skakkr jós
af skaptkeri.
302. En hvervetna
hlátr of reis
reginríkr
rögnum sælum,
þá er Hefast
himinbúar
skakkskjótast litu,
ok skálar færa.
303. Gömnuðu sèr glaðir
glæstra blásala
dag döglíngar,
uns drafnar hvel
svásgullinn fal
sólar ljóma,
nè gleði góða
grami skorti.
304. Skorti nè gullinnar
gígju hljóma;
öðlíngr Apollon
at jólna lèk;
ok saungdísir
saungva hreima
vesnjalla vöktu
á víxl fagra.
305. En er it svása
sólar blys
himins hvarf
af hveli bláu,
allir til sinna

sala hurfu
sælir sigtívar,
at svefnværðum.
306. Þars Fótlamr
fagrt smíði,
mæra hafði höll
hverjum reista,
ok hugviti snjöllu
hála búit.
307. En blíðfaðir
banda mærra,
Seifr, til sinnar
sængr hvarf,
leiptra logvaldr
lýrnis sala,
Ólýmps jaðarr
aðalstöðva.
308. Þars hann vanr var
værðar at njóta,
þá er sætr svefn
siklíngs augum
frægs nam at fróa;
fór hann þinnig;
hvíldi hilmi hjá
himins freyja.

# ÖNNUR KVIÐA.

SVÁFU sælir
sigtívar aðrir,
ok renni-reynar
reiðarbríma,
gersta grímu,
en guða sjóli
sætum svefnblundi
sinna mátti-t.
2. Reifðist rögna
reginvöldum
hugsun í hug,
hve hann heiðrs skyldi
Akkilles unna,
en Akkverja
marga myrða
at marar ljónum.
3. Leizt þá lofðúngi
í leynum munar
bezt ok bragðvísast
blíðum vera,
gælandi grímu
ginnanda draum
Atreifs at senda
arfa frægum.
4. Lèt þá vænghröðum
varpat orðum
sjóli at svipi
svefna brautar:
5. „Svíf þú, svipr
svefna glysmála,
Akkverja at
öldufákum;
svíf þú ok svíf þú
at sjóla tjaldi
Agamemnons
Atreifs niðja“.
ρ. II, 1-18.

6. „Svíf þú ok seg þú
at sögn minni
gerst ok glöggvast,
þats ek gerik bjóða;
bjóð þú buðlúngi,
at hann brynjast láti
hárfagrar hverjar
Herjans kindir“.
7. „Því nú mundi niflúngr
naði eyða
Brjáms borgvirki
in breiðstrætuðu;
er-at því leingr
lofðúngum himna
hugr tvískiptr
í hjarta laginn“.
8. „Beygði því Hera
bönd in mæru,
(háum Ólýmps á
aðalstöðvnm);
en Tróverjum
er torveldi
ok feigð ferlig
fremst of búin“.
9. Mælti hann svá;
en mun-gælir
Svipuðr sveif
at siklíngs boði;
hvarf hann hvatliga
of hulinsleið
Akkverja at
ægis-gotum;
10. Sveif at grami,
gunnfrægum arfa
Atreifs ágæts,
Agamemnoni;

hitti hilmi
hertjaldi í
hellti blundr of brá
blíðum anda.
11. Sveif svefna-guð
yfir sjóla höfuð,
Nestori Neleifs
niðja glíkr,
þeim er þeingill
þjóðmærínga
allra virði mest
Agamemnon.
12. Var honum glíkr
guð svefna heims,
ok á öðlíng varp
orðum þeima:
13. „Sefr þú, sonr
ins sigrvalda
glitnis gulltauma
gylfa Atreifs!
Sæmir-at sjóla,
at sofa þannig
gersta grímu,
þeims gumnum stýrir",
14. Þeims virða vald
veitt er ok gefit,
ok þeims allt slíkt
at annast ber.
Heyr mik nú, hilmir,
hvatvísliga:
ek em sjóla Seifs
senditívi;
ann þèr sá, fylkir,
þótt fjarri sè,
ok þik, öðlíngr,
aumkva ræðr".
15. „Býðr hann þèr
brynjast láta
hárprúðar hvervetna

ρ. II, 18-37.

Herjans kindir;
nú muntu, niflúngr,
naði eyða
Brjáms borgvirki
in breiðstrætuðu".
16. „Er-at því leingr
lofðúngr himna
hugr tvískiptr
í hjarta laginn;
beygði því Hera
bönd in mæru
hávum Ólýmps á
aðalstöðvum".
17. „En Tróverjum
er torveldi
ok feigð ferlig
fremst of búin;
svá eru ráð rík
ragna-föður"
18. „En þú, gramr, geym
í geðknerri,
attu gleymir ei
grímu látum,
þá er þèr, jaðarr,
unaðmærir
blundstafir bresta
brátúnglum frá".
19. Svá mælti Svipuðr,
sveif á brautu,
lèt eptir svá
lofðúng mæran;
hvörfluðu hlutir
of hugar fylgsni,
þeir er sízt of feingu
fram at gánga.
20. Hugðist háreist
hjörvi rjúfa
Brjáms borgvirki
at birtíngu

skammsýnn skati;
skilja knátti-t
þau er ráð rèði
ragna-föður.

21. Vildi hinn mæri
mildíngr himna
ramri rómu at
ok randa dunum
Tróum ok Danáum
tírargjörnum
bölhríðir búa
ok beiskar nauðir.

---

22. Vaknaði vísir
af værum blundi,
en glaumbergs ómr
guðstilltr nam
hljóðstraumi hella
of hilmi fjarrum;
settist upp sjóli,
ok af silki reis.

23. Klæddist konúngr
kyrtli mjúkum,
nertilskærum,
nýla unnum,
ok skikkju yfir
skati varpaði.

24. Ok undir fríða
fætr batt
öðlíngr ilskó
iðja-fagra;
en á herðar
harðla breiðar
sveipaði sverði
silfrvörðu.

25. Tók í þrekna hönd
hilmir at þat
föðurfeinginn sprota
frægð um sveiptan;

ρ. II, 38-56.

gekk svá gramr
græðis reiðum
Akkverja at
eirbrynjaðra.

26. En mær gyðja
Morginskæra
hám at Ólýmps hvarf
himintindum,
at hún ljúft ljós
lofðúngi færði
Seifi ok sigtívum
svásum öðrum.

27. En Agamemnon
aldastýrir
hrópurum bauð
hvellrómuðum,
at þeir hárprúða
hvetja skyldu
dreingi akkneska
at aldar þíngi.

28. Kváðu öld saman
kallarar mærir,
en seggir söfnuðust
í sveitir þegar.

29. Setti sjóli fyrst
svinnhugaðra
ráðþíng rekka
roskinhærðra
Nestors naddföstum
naglfara hjá,
prúðlundaðs vísis
Pýlusborgar.

30. En er öðlíngr
öldúngum hafði
saman safnat,
þá af sefa brunni
ráðum vísir varp,
viti snjöllum:

31. „Heyrit mèr, halir:

at höfgum blundi
svip leit ek svífa
of sefa leyni,
um guðhelgrar
grímuleiðir".
32. „Var hann Nestori
næsta glíkr,
yfirbragði at
ok öðlíngs hæð,
vexti völdum at
sýndist vísi líkr".
33. „Sveif hann mèr sofanda
sjónum yfir,
ok á mik varp
orðum þeima":
34. „„Sefr þú, sonr
*ins sigrvalda*
glitnis gulltauma
gylfa Atreifs!
Sæmir-at sjóla
at sofa þannig
gersta grímu,
þeims gumum stýrir"",
35. „„Þeims virða vald
veitt er og gefit,
ok þeims allt slíkt
at annast berr.
Heyr mik nú, hilmir,
hvatvísliga:
ek em sjóla Seifs
senditívi;
ann þèr sá, fylkir,
þótt fjarri sè,
ok þik öðlíngr,
aumkva ræðr"".
36. „„Býðr hann þèr
brynjast láta
hárprúðar hvervetna
Herjans kindir;
ρ. II, 56-75.
nú muntu, öðlíngr,
naði eyða
Brjáms borgvirki
in breiðstrætuðu"".
37. „„Er-at því leingr
lofðúngum himna
hugr tvískiptr
í hjarta laginn;
beygði því Hera
bönd in mæru,
háum Ólýmps á
aðalstöðvum"".
38. „„En Tróverjum
er torveldi
ok feigð ferlig
fremst of búin;
svá eru ráð rík
ragna-föður;
en þú, gramr, geym
í geðknerri"".
39. „Svá mælti svipr,
sveif á brautu;
en ek blundi brá
blárra drauma;
en vèr munum nú
málmþíngs boða
brynjast láta
bragði nokkru".
40. „Fremst mun ek freista,
ef ek fá ráðit;
rètt er at reyna,
rètt at kanna;
mun ek þeim bjóða
á báru ljónum
margþóptuðum
of mar at flýja".
41. „En þèr, öðlíngar,
annars vegar

hepti sveitir hverr,
at ei heim snúi“.
42. Mælti svá mildíngr,
ok at mæltum orðum
síðan á sæti
settist niðr;
en upp reis Nestor
ítrvaldr
sendinnar, prúðhelgrar
Pýlusborgar;
heill í hugum
hann orð um kvað:
43. „Heyrit, Argverja
jöfrar snjallir,
fólkstjórar frægir
ok fyrirliðar!
hefði annarr einn
oss um kveðit
svefna sjón þá
í sveitum þeima“,
44. „Mundu lýðir víst
lygi kallat,
ok seggi segjanda
sízt of trúat;
en nú ítrastr
öðlíngr sá
svip svefngamans
með Sviðris öldum“.
45. „Munum vèr nú
málmþíngs boða
brynjast láta
bragði nokkru“.
46. Mælti svá þeingill,
ok þíngi af
fyrstr sveif
fólknárúnga.

---

47. Stóð upp stillir hverr
stafs um valdr,

ρ. II, 75-95.

ok þjóðmæríngi
þegar hlýddu;
en at þíngi þutu
þegna sveitir;
riðlaðist reginstórr
rómu-múgr.
48. Var þíngmúgr
sem þèttir sveimar
býja broddsárra
bornir flugi;
hvarfla hveldum úr
hellis djúpum,
en flokki flokkar
fylgja nýir.
49. Hvarfla hretþèttir
heingisveimar
vorblóm kríng um
ok vallar-liljur;
þjóta flugþjóðir
þèttskipaðar
áttum öllum með
jarðar-veingis.
50. Svá mundu sveitir
sverða þínga
báru björnum frá
ok búðum skunda;
þraungdust þèttir svá
þegna sveimar
ótt á aldar þíng
at jöðrum sævar.
51. Brann brunandi
með beima fjöld
sendigoð Seifs
ins sigrvalda;
þat var Ossa;
þegna hvatti,
en seggir söfnuðust
í sveitir þegar.
52. Þraung varð á þíngi,
þyss á velli;

und fyrða fetum
foldvegr dundi,
þá er settist sjót
ok sæti valdi;
hraung var herbrautum
harðtroðnum á.
53. Svifu þrennir þrír
þjóðkallarar,
ok hölda heptu
háreysti frá,
at þeir ys ok ópi
eyða knætti,
ok goðborna lýðr
grami heyrði.
54. Loks váru allir
á lýðstóla
skipaðir, ok kyrrir
skatnar sátu;
hættu hljómdunum
ok háreysti,
ok þyss þjóðriðils
í þögn breyttist.
55. Reis þá upp öðlíngr
Agamemnon;
á hèlt vísir
veldis-sprota;
þann hafði Hefastr
hugvitsfrægr
guðliga fágat
græðis logum.
56. Gaf Hefastr
Herjaföður
Kronussyni
konúngssprota;
en Seifr aptr
senditíva
Argusbana
ítrum veitti.
57. En Hermes aptr
þ. II, 96-113.

himinborinn
Pelópi gaf
glitnis-völdum;
en Pelóps aptr
aski sæmdi
Atreif, ágætan
öðlíng þjóða.
58. Lèt buðli hann
á banadægri
þeingli hjarðríkum
þýesti eptir;
sá mundi grams-sprota
gullinn veita
Agamemnoni
aptr at bera,
59. At hann grams-sprota
Grikklands eyjum
ok Argos láðum
yfir rèði.
Stóð upp stillir,
studdist gullsprota,
ok at öld of varp
orðum þeima:
60. „Heyrit, Danáa
dreingir snjallir,
garpar geirdrottins
gunnar-frægir!
hefir kaldráðr
Kronusar burr
eymdum orpit mik
afar-þúngum".
61. „Svalr er sefi
siklíngs himna,
er hann mèr hèt
höfði mæru,
at ek svá aptr heim
halda skyldi,
at Brjáms borgvirki
brandi eydda-k".

62. „En nú hefir
hermiliga
vælum vorpit mik
vísir, ok býðr,
at ek aptr farak
frægðum snauðr,
at málmþíngs meiðum
mörgum liðnum".
63. „Svá vill nú siklíngr
svalbrjóstaðr
ráð reginvælt
ráðit láta;
hefir háborgir
hilmir sá
margar ok málmvarðar
moldu orpit,
mun ok margar enn
múrum eyða;
eru því ráð ríkust
ragna-föður".
64. „Svívirðlig smán
sannliga er þat,
at alda seinni
áar heyri,
at alfræg öld
Akkverja lýðs,
fremst of faldin
Fjölnis skrúði,"
65. „Mátti-t at gera
at mækis leiki,
ok einskis til
eir of dúði,
er við færri fyrða
fólk um þreyttum;
sèst nè Sviðris
sóknar endir".
66. „Því ef vildim vèr,
vígþrimu sjót,
tírgjarnir Akkverjar
ok Trójuliðar,
allstyrkum hvárrtveggi
eiðum bindast,
ok á beggja tölu
heima varpa:"
67. „Tækim vèr Tróa
tírargjarna,
þá er arin eiga
ok inni byggja:
skiptum skötnum,
skildum sveitir
törgu trygghlífa
tugum eptir:"
68. „Tækim vèr hvern
Trójumanna
ver vopnsveitum
vín at færa:
mundi margar þá
meginþèttar
tugsveitir vanta
vínberanda".
69. „Segi ek svá
sjótir fleiri
akkneskar vera
öldum Tróju,
þeir er borg byggja
böðvar-ramma".
70. „En vápnvanir
virðar eru
margir mörgum úr
meingis borgum,
þeirs mik hindra
ok þúngt of vinna,
at ek Brjáms vígi
brotið fák
reginramt,
þótt ek ríkt of vildi".
71. „Eru níu nú
niflúngs himna

ρ. II, 114-134.

-ár of runnin
alda brautir;
húnar fura
flóðmörum á;
festar raknaðar
at fjarðar ljónum".
72. „Uggir mik, at nú
ossar kvánir
ok börn bíði,
brjóstmylkíngar,
eptir oss þreyi
at auðsölum;
en óframin iðn
er oss öllum sú
er vèr hèr fremst
of fremja vildum".
73. „Heyrit nú, höldar,
alls ek hljóð of þá,
hlýðit, rekkar, nú
ráðum mínum;
flýjum aptr fremst
til fóstrjarðar
marar málfetum
margnegldum á".
74. „Munum-at því
meginramma
Brjáms borgtinda
brotna láta".
75. Mælti svá mildíngr;
en móðhuguðum
sveiptist munr
sefa hvörfum
öldum allsherjar
eirbrynjuðum,
þeirs hilmis hjal
heyra knáttu.
76. Þrömmun varð ok þyss
at þíngsveitum;
sem þá er hrygglángar
hrannir dynja
vindsömum Íkars
vágleiðum á,
þá er vilgi tryggr
veðra gustr
bláfreyddar bárur
af blundi vekr,
vindr váligr
af vala slóðum.
77. Sem vestanblær,
varinn ilmi,
yfir axastrá
ólmr þýtr,
þau er á djúpum
þróast eingjum:
skelfr skálpreyrr
skugga-iðu,
hneigjast glókollar
á gullvöndum.
78. Þannig þyrja nam
þíngheima sveimr;
þustu þjóðflokkar
(þverruðu-t óp)
hrannar hestum at,
en at himni stè
undan fólkfetum
foldar salli.
79. Hvöttu hverir
höldar aðra,
at þeir á skipum
skyldi taka,
ok græðis-gota
gúlum hvelda
dimmt á drafnar hvel
dregna láta.
80. Mokuðu martraðir
málmþíngs boðar,
en til himins hvarf
hölda gjálbr,

ρ. II, 134-153.

þá er fýsti fíra
at fóstrláðum;
heimtu hlunna
undan hafreiðum.

---

81. Mundi þar Argverjum
of örlög fram
heimför hæðilig
hafa orðit,
hefði ei Hera
in hvítarmaða
Aþenu ávarpat
orðum þeima:
82. „Eru slíkt undr,
Atrýtóna,
Allföðrs jóð
ægiskjalda!
at þannig þreyti
þegnar akkneskir
fremst of fúsir
at fóstrláðum“;
83. „At fólkþjóð
flýi þannig
yfir breiða
báru hryggi;
en Trójuliðum
tír of láti,
ok Brjámi búi
böðfagrt lof:“
84. „Elenu argverska,
ina ítru kván,
sem málmþíngs meiðar
margir fyrir
bana biðu
at Brjáms múrum,
lángt frá lofsælu
láði feðra“.
85. „Svíf nú, sverðadís,
at sveitum þegar

p. II, 154-173.

alda akkverskra
eirbrynjaðra;
hept hölda hvern
hugkænum orðum,
nè þú liði leyf
lagar vagna
jafnbyrða draga
á dúfu leiðir“.
86. Svá kvað uppheims dís;
en Aþena
vara-t óhlýðin
in augumglæja;
fór hún brunandi
fram af háum
uppheims jaðra
aðalstöðvum.
87. Kom með skyndíngu
skjóma freyja
hröðum at hölda
hrannar gotum;
hitti standanda
stilli, bragðvísan,
sem Sigföðr sjálfan,
son Laertess.
88. Snerti-t sjóli
sínum höndum
svartan sævar blakk
sigluraman;
var sorg svárri
siklíngs hjarta
fremst of fallit,
ok fylgsni munar.
89. Nærri standandi
naðels boða
mælti þá Aþena
in augumglæja:
90. „Gylfi goðborinn,
gagnráðvaldr,
arfi Laertess

Odysseifr!
flýit þannig þèr,
þjótandi at
marar málfetum
margþóptuðum,
fúsir at fara
til fóstrláðs?"
91. „Ok Trójuliðum
tír of veitið,
ok Brjámi búit
böðfagrt lof:"
92. „Elenu argverska,
ina ítru kván,
sem málmþíngs meiðir
margir fyrir
bana biðu
at Brjáms múrum,
lángt frá lofsælu
láði feðra".
93. „Svíf nú, siklíngr,
svinnhugaðr,
dvelj-at-tu, drótta
Danáa til;
heptu, hildíngr,
hugkænum orðum
hölda hvern
hugumstóran,
nè þú liði leyf
lagar vagna
jafnbyrða draga
á dúfu leiðir".
94. Mælti svá mær
mímúngs freyja;
en hildíngr
heyrði mál gyðju;
tók á rás ræsir
ríkr þegar,
skikkju skrúðbúna
skók af herðum.
ρ. II, 173-192.

95. Geymdi skikkju
gildrómaðr
Evrýbates
Íþöku frá;
þat var kallari,
fylgdi konúngi.
96. En gramr gekk
gildr móti
Agamemnoni
Atreifs megi;
sprota gullrekinn
af gylfa nam,
frægan föðurarf,
þann er fölna mátti-t.
97. Hèlt í hendi
honum gildri,
ok til skipa
skunda náði
Akkverja niðr
eirbrynjaðra.
98. Hvern er hitti hann
hildíngmenna,
eðr höfðíngja,
hergötum á,
þann hepti hilmir
hugkænum orðum,
nærri standandi
naðels boðum:
99. „Einrænn auðrunnr!
er-a sæmiligt,
æðru at bregðast
sem blotamanni;
sezt niðr sjálfr,
ok seggjum öðrum
haltu í taumi,
heimfúsum mjök".
100. „Kunna þú ei knátt
konúngs ráð,
Agamemnons

Atreifs magar;
freistar nú fylkir
fölvis reyna;
en höldum mun hann brátt
hefndir búa".
101. „Heyrðum-at vèr allir
á herþíngi,
hvat ræsir ríkr
ræða mundi.
At hann nú ei reiðr
rekka sveitir
bölvi beysti
bráðum móði!"
102. „Er því goðborinn
gramr búinn
svárum móði,
er at sefa þraungvir;
en honum hefir
hilmis veldi
gefit goða faðir,
sá er grami ann".
103. En hvern er hölda
hitti siklíngr
óðan, æpandi
æstum móði:
þann mundi sprota
þeingill ljósta,
ok hörð heiptyrði
honum velja:
104. „Dveldu kyrr, dóli,
dusilmenni!
heyra skaltu mál
heldri skata,
þeirs at frækleik þèr
framar standa;
sjálfr ertu blauðr,
ok at böðvi slakr".
105. Ert-at-tu nýtr
at eimnis veðri;
knátt-at-tu duga
dróttþíngum á;
nè vèr allir hèr
Akkverja megum
vísar verða
eðr vígráðendr".
106. „Er-at öldum holl
öðlínga fjöld;
döglíngr einn
dróttum ráði;
jaðarr einn,
sá er Allföðr,
mögr Kronusar
ins meginslæga,
einum veitti áðr
öðlíngs veldi;
laga læðíngs ráð,
ok lofðúngs sprota,
at þeim mætti þeingill
þjóð of ráða".
107. „Mælti svá mildíngr
meginráðr,
ok her allan
hneigja gjörði;
en fjöld fyrða
fólkumstyrkra
hrannar gotum frá
ok hertjöldum
þysjandi þraungdist
of Þrúðvalds brúði.
108. Brunuðu böðþjóðir,
sem bárur æstar
marghljóðandi
megindjúpa
ægisöndum á
ólmar stynja:
beljar Byrvils leið
brimlöðrandi.

ρ. II, 192-210.

109. Sátu seggir
setbekkjum á;
váru kyrrir karskir
kesju reynar;
en Þersítes einn,
þysmáligr gaurr,
hark nam at vekja,
at hlýddu-t lýðir.
110. Váru þrjóti þeim
þrálig lagin
orð í brjósti,
ok illr vili,
at hann heitaðist
hildínga við,
(vara dællikt slíkt
nè drótt sæmandi),
*hvat* er honum
hlægiligt þótti
Akkverja at
öldum vera.
111. Fór sá með brögnum
at Brjáms vígi
ásýnd armastri
alls of búinn;
bjúgfættr, haltr
á hverjum fæti;
herðar hásettar,
hnúðrbakaðar,
bendust axlir
at brjósti niðr.
112. Há var hausi á
hvirfilstríta,
reifuð rotligum
reikar dúni;
hataði hann mest
í hildar sveitum
Akkilleif ítran
ok Odysseif.
113. Yrtist hann æ
ϱ. II, 211-230.

öðlínga við;
ok nú hrópyrðum
hæðiligum
móðgaði hann mæran
mildíng þjóða,
Agamemnon
Atreifs niðja.
114. Váru honum reiðir
rekkar akkneskir,
hötuðust við hal
hermiliga,
ok bræði brunnu
í brunni munar.
115. Valdi vísi
vargefldum klið
hróp ok heiptyrði
halr grályndr:
116. „Hví þú kveinar nú,
konr Atreifs?
hvers þarftú framarr,
hildíngr, við?
Full hefir þú
af fáðum eiri
hertjöld hvívetna,
ok hildar málmi“.
117. Áttú margar ok
meyjar valdar,
þærs í herbúðum
hýrast inni,
er vèr Akkverjar
efst þèr gáfum,
þá er borgvirki
brotin lètum“.
118. „Eðr þarfnast þú,
þeingill inn fègjarni,
gulls glóanda
gimi ljósu,
þats þèr Tróa nokkurr
tírargjarnra

láti lausnargjald
liðins arfa,
er ek bundinn lèti,
buðlúngr, ok þèr
færðik, eðr annarr
Akkverja nokkurr“?
119. „Eðr vantar þik,
vísir stórráðr,
hrund haddbjarta
hjá at búa,
nýja ok námsæla
námdúkshildi,
er þú einn æskir
öðrum fjarri“?
120. „Sæmir-at sjóla,
þeims sveitum ræðr,
mæðu at móðga
mögu Akkverja“.
121. „Blotamenn blauðir,
ok heima hrat!
karlmanns krepjur
kvennhjartaðar!
munum vèr nú
meginfúsir
heim aptr halda
hafreiðum á“.
122. „Leyfum lofðúngi,
at hann líta knegi
tírargjarn
á Trójuláði
gjafar, ok fái
gjafa notið;
at siklíngr
sèt of fái,
hvárt vèr vísi veg
veita knegum,
eðr honum ok
ógagn vinna“.
123. „Hefir niflúngr nú
ρ. II, 230-248.

naðels boða,
Akkilleif, honum
alls of fremri,
óvirt, ok hans
heiðrsgjöf
siklíngr heldr,
ok sjálfr tók“.
124. „Er-at þó gremi
í geðknerri
Akkilleifi,
nè ofstopi;
því at ella mundir þú,
Atreifs mögr,
hrópi heitast
hinnsta sinni“.
125. Mælti hann svá
meiðyrðum þeim
við Agamemnon
alda stýri;
en Odysseifr
ítrráðr,
stóð af skyndíngu
at skata hlið.
126. Sigu svartar brýr
sjóla reiðum;
á varp orðum
illmæltan hal,
heiptar orðum
hölzti þúngum:
127. „Orðhvass afglapi
ok illmæltr,
þóttu röddu sèr
snjallri gæddr,
hept huga þinn,
nè þú hildíngum
hyggst dólgfrægum
deila einn móti“.
128. „Hygg-at ek ýta
einna nokkurn

grályndari þèr,
greppr, vera,
þeirra er hinnig
at þrymu hèldu,
Brjám at beysta
með burum Atreifs“.
129. „Skylir at því þú
of skjöldúnga
til ok ótamin
orð um velja;
meiðyrði meinráð
mjök þú segir,
ok aptrför
öllum ræðr“.
130. „Knegum-at vèr vita
nè vandla sjá,
hvat böðþjóð
á baugi verðr,
ok hvárt vèr áar
Argosláða
heilir munum halda
heim, eðr ei“.
131. „Sitr þú hèr nú,
seggr inn illi,
meiðandi málhvass
mildíng frægan
Agamemnon
Atreifs niðja“:
132. „Er honum vaskir
veiti Danáar
gjafar góðar,
gripi marga;
þat máttu eigi
þola, afglapi!
en öðlíng sæsir
illri ræðu“.
133. „En þat segi-k þèr,
þat er síðar mun
fremst ok fullkomnat
ρ. II, 248-267.
framgáng hljóta:
ef ek hitti þik
með hætti þeima
örvita illu
æði munar:“
134. „Skal-at Odysseifi
skarar klettr
á breiðum herðum
hafa sæti;
nè ek nefnast skal
niðja míns
tiginn faðir
Telemakkuss:“
135. „Ef ek klæðum ei,
karl, þik fletti,
ok þik allan læt
alskapaðan;
skikkju ok möttul
skal ek nema þèr,
ok skapa skjól,
attu skammast knegir“;
136. „En þik sjálfan
ek senda mun
hljóðandi at hveldum
hrannar gotum;
þik skal ek þjá
þúngum höggum
sveitþíngi af
ok smánarligum“.
137. Mælti hann svá,
ok meginafli
knýði hrygg ok herðar
hörðum geirsprota;
en í keing beygðist
beimr lostinn,
ok tár hrundi
af týrum hvarma.
138. En undan geiri
gulli vörðum

bólgnaði blágarðr
blóði þrúnginn;
en níðmáll níðíngr
niðr settist;
skelfdist munr
fyrir skata reiðum.
139. Sárt sveið und,
fyrir svárum geiri;
glópsligum glyrnum
greppr upp brá,
ok tár þerrði
af týrum hvarma.
140. Hlógu þá at hal
Herjans sveitir,
þótt honum rekkar
reiðir væri;
mælti þá einnhverr
af munni orð
ok síns leit til
sessunautar:
141. „Eru þat undr,
hve Odysseifr,
mildíngr mærr,
hefir margt of framit,
ráð of ráðit,
rekkum gagnat,
fólkjöru framat
ok fölvis leik“.
142. „Hefir þó nú
hilmir frægr
ágætast unnit
Akkverjum gagn,
er hann níðmálgum
neyti tanna
þraungdi á þíngi
þúngum móði“.
143. „Uggir mik, at eigi
aptr muni
þegni rísa þor,
þótt þrár of sè,
meinyrðum meiða
mildínga fjöld,
ok níðmál niflúngum
naprt velja“.

144. Mæltu svá margir
málmþíngs boðar;
en jaðarr böðramr,
Odysseifr,
upp stóð á þíngi,
á hèlt sprota;
hjá stóð Aþena
in augumglæja.
145. Var þá glík
veglig gyðja
kallara, og kn'a
kvaddi at hljóði,
at allir samt
Akkverja lýðir,
innstir ok yztir,
mætti eyrum leiða,
ok ráðvíss ræsis
ráð of nema;
hèill í hugum
hann orð um kvað:
146. „Atreifs niðr,
alda stýrir!
nú vilja Akkverja
niðjar þik
aumastan gera
allra manna
máli mælándi
fyrir mold ofan“.
147. „Halda þeir eigi,
þats heita rèðu,
þá er jóauðga
Argos láði
fóru fyrðar frá,

ρ. II, 267-287.

fjarðar leiðir:
at þeir aptr heim
halda skyldu,
þá er þú Brjámsborg
of brotið hefðir".
148. „Gjöllum gráti
glymja hersveitir,
sem ekkjur bölþjáðar,
eðr brjóstmylkíngar:
harmar þannig
hverr annan við,
fúss at fara
til fóstrjarðar".
149. „Er ok víst harmr
hverjum einum
heim at halda
huga móðgum".
150. „Er ok hal hveim
höfugr leiði,
er hann mánað einn
ægis-gota
margnegldum á
ins mæra vífs
sakna hlýtr,
sefa stúnginn".
151. „Þá er hrannar marr
hörðum byljum
hrekst ok harðmóðgri
hefríngar lá;
en nú er ossum
alda sveitum
ár it níunda
umlíðanda,
bíðandi at böðrömmum
Brjáms hervirkjum".
152. „Lái-k-at því
lýðum þeima,
þótt sè óþolnir
at ægis-gotum;
er þó smán
ok svívirða
leingi at liggja
lýðborgum hjá,
ok jafntómhenta
aptr snúa".
153. „Bíðum nú, bragnar,
biðlund sýnum,
at um síðir vèr
vita fáim,
hvárt satt segir
sjónvíss gumi
Kalkas forvitr,
eðr fleipran tóma".
154. „Vitum allir vel,
ok vel munum,
þeirs ferligar
feigðar dísir
ei mundu leiða
myrkheima til
dimmra í gær
eðr dag inn fyrra";
155. „Þá er áðr
í Álavágum
söfnuðust Akkverja
sævar blakkar,
þeirs aldrtjón
ok illan dauða
Brjámi ok Brjáms liðum
búa skyldu":
156. „Mundum vèr þá,
málmþíngs reynar,
fullkomnar færa
fórnir guðum;
stóðum at stilltri
straumiðu lind,
hástalla hljóðir
helga kríng um".
157. Óx þar yfir eik,

allaufgat trè
platans prýðiligt,
prúðsett limi;
en und myrkum
meiðar rótum
fagrrennandi
foss um lèk".

158. „Sám vèr þar, seggir,
sjónar undr:
bráinn, á baki
blóðlitaðan,
undrsamligan;
en Allföðr
sjálfr sendi hann
sjónum várum".

159. „Varp sèr vinduðr
frá vèstalla,
ok mjúkliga brást
at meiðar limi".

160. „Sváfu þar í brumi
smáfugls úngar,
hæstum á kvisti
und hlynar laufi;
átta váru úngar,
eiða in níunda,
sú er fugla gat
í fagrlima".

161. „Gleypti grafvitnir
gini hvumleiðu
smáfugla, veinandi
veiku hljóði;
en mædd móðir
mundi fljúga
kveinandi kríng um
kona dauða".

162. „Tók tryggðvani
titranda væng
snákr síðan
saknandi móður;

p. II, 307-326.

en er ormr
of etið hafði
móður, ok mæddrar
móður únga":

163. „Lèt þá Allföðr
jarteikn setta,
sá er áðr snák
of sendan hafði;
því at mögr
ins meginslæga
Kronusar steinbúa
í stein breytti".

164. „Stóðum vèr allir þar
undrun fángnir,
er jarteikn slík
oss um birtist;
er undrsjón
uppheimsbúa
hundraðsblóti at
hverfa náði".

165. „En Kalkas spakr
spásagnir þuldi,
vèspjöll vísa
veldisramra:
„„Hví þèr hljóðir
at helgum stalla
hárprúðir standit,
Herjans árar?""

166. „„Hefir mildíngr
meginráðr
Seifr jarteikn sýnt,
svára þjóðum;
mun seingeingin
sjón fram koma,
ok með öldum æ
uppi vera"".

167. „„Eins ok snákr sá
smáfugl gleypti,
ok fugls úngum

fjörtjón rèði,
átta, ok eiðu
enni níundu,
þeirri er fugla
fædda hafði““:
168. „„Munum vèr svá
at múrum Tróju
of ár níu
nöðum veifa,
en á tíunda
tírargjarnir
eyða Brjáms borg
breiðstrætaða““.
169. „Svá mælti spakr
spámaðr þá;
ferr nú eptir allt
orðum þeima“.
170. „Heilir svá, halir,
hèr skulum bíða,
Akkverjar ítrir
eirserkjaðir!
þar til er höfum
at hildar leiki
Brjáms borgvirki
brotin látið“.
171. Svá mælti öðlíngr;
en Argverjar
ópi ypptu
ógurligu;
en ægis hestar
endrkváðu
reginglym rymjanda
refilvaldenda.
172. Þá er þjóðmúgr
þysjandi kvað
lofðúngs lof
Laerts niðja,
mælti þá málsnjallr
mæríngr alda

p. II, 326-346.

Nestor, gerenskr
gramr reiðar:
173. „Eru undr slíkt,
er þèr alls of mælit
sem börn brjóstlaga,
böðvar liðar!
er sem þèr aldri
eimnis hríðir
ok ym randa
hafit áðr þekkt“.
174. „Hvar eru eiðar?
hvar eru rambundin
heit herþjóða,
fyri hjörvum unnin?
Eigu ræsa ráð
ok rekka speki
eldi at eyðast,
ok at eingu verða?“
175. „Eiðar, óblöndnum
unnir veigum;
handsöl hugkvæm,
þeims vèr heilir treystum?
er vèr þannig
orðum keppum,
nè ráð nokkurt
nema knegum,
þótt hèr þreyjum
hölzti leingi“.
176. „Atreifs arfi,
er þú áðr vart
alda öðlíngr
af alhug kjörinn!
leið nú jöru lið
at leiki stríðum
Hildar hjörmála,
ok herbraki“.
177. „Þrífist aldri þeir
þollar branda,
einn eðr tveir,

með Akkverja sveit,
þeirs ráð ráða,
ræsir, þèr
andvígt, ok þèr
ýfast móti“.
178. „Aldri munu þeir
annat fá
frammi haft,
þótt fegnir vildi;
farist þeir, ok farist,
fyrr en koma
þeir aptr heim
at Argos-láði!
farist þeir, fyrr
en fái kannat,
hvárt öðlíngs heit
ægiskjalda
lýðum lánaðist,
eðr lygi reyndist“.
179. „Kveð ek Kronusson
kynjaraman
höfði mæru heit
hafa gefit,
á degi þeim,
er á drafnar mörum
hèldu Argverjar
út á hafs leiðir,
Brjámi at búa
böl ok dauða“.
180. „Lèt þú lofðúngr
leiptr blossa
hægri hendi at,
heilla merki“.
181. „Skyldi því eingi
skjaldar hlynr
heimför heimta,
þótt hugr fýsi,
fyrr en hefir hann
með hrund tróverskri
ρ. II, 346-366.
beð of byggt
at Brjáms sölum;
ok harma Helenu
hefndir tekit,
ok svanna svalat
sorgar stunum“.
182. „En ef einna hvern
alls of fýsir
heim at halda
hjörva reyna,
dragi hann dökkvan
drafnar gota
gljúpan á græði,
ok geði frói,
at hann öðrum fyrr
aldrtila
ok feigð ferliga
fái hlotið“.
183. „En þú, öðlíngr
inn ítrsnjalli,
sinn þú ráðum ok
seggja annarra;
því at eigi munu
ónýt reynast
ráð þau, er ræð-k,
ráðvaldr, þèr“.
184. „Skiptu, skati,
skötnum í sveitir,
ok hölda hluta
í herflokka;
sveit skal sveit styðja
at sverða dunum,
flokkr stoða flokk
í fölvis leiki“.
185. „Kenna muntu gerla,
konúngr, þá,
hverir hraustir eru,
hverir ónýtir,
flokks foríngja

ok fólkskata,
þrimars þjóða
ok Þrúðs liða,
er þeir snúa sèr
svipulhjólum“.
186. „Þá muntu, konúngr,
kanna mega,
hvárt þèr böð banna
buðlúngar himna,
eðr dáðleysi
darra reyna,
ok fávísi
at fólkjöru“.
187. Aptr annsaði
Agamemnon,
vegs um valdr
vísir þjóða:
188. „Ertu fremstr æ,
aldinn skati,
rekkum öllum
at ráðspeki;
Vilda-k þat, voldugr
vísir himna!
Apollon ývaldr!
ok Aþena!
at ek tíu hefðak
hali slíka,
rama at ráðum
ok reginvísi“.
189. „Munda-k þá þráðla
moldu verpa
Brjáms borgvirki
buðlúngs mega;
mundu þá múrar
und mínum höndum
hroðnir ok hrundnir
at hauðri ryðjast“.
190. „En uppheimsvaldr
hefir Allföðr

sárum orpit mik
sorgar meinum;
varpaði vísir
vesölum mèr
út í ófært stríð
ok orða rómu“.
191. „Áttumst ek við
ok Akkilleifr
móði meinsollnum
meyjar vegna,
ok orða leik
illan þreyttum;
hófk ek sjálfr
harða rimmu“.
192. „Ef at hraustir vèr
höldum saman,
nè frekum fjandskap
fremst of annat,
þá munu Tróar
tírargjarnir
harma hlè
hafa sízt at feing“.
193. „Árnit nú, ýtar,
at aptans verði,
at vèr böð brátt
of búit fáim“.
194. „Hvetjið hjörva
at Hildar leiki;
búit buklara
at Bölverks dunum;
veitið fótfrám
fákum töðu;
hyggi nú hverr
at hjörþrymu,
ok ramhvelda
reið of búi“.
195. „At vèr allan dag
drýgja knegim
harðgreypa hildi

ρ. II, 366-385.

hraustum móði,
ok at ekki hlè
höldum verði
vápna veðrs at
vindsvölum dyn,
nema nætrskeið
numit fái
bragna böðvi
bráðæstri frá“.
196. „Þá mun vökna
þveingr skjaldar,
er brjósti býr
bragna verju,
sveita fyrir,
at sigmóðum dreing,
ok við handarfáng
hönd of þreytast“.
197. „Mun silfrtoppr
sveita geta,
sá er rennandi knýr
reiðar þínga;
en hölda hvern,
er ek heyri dvelja
fremst of fúsan
at fjarðar ljónum
skelfiligr skal
skræfu þeirri
böldauði búinn,
at bráð hann verði
hauka ok hrævarga
hauðri ofarr“.

---

198. Mælti svá mildíngr;
en móðhugaðir
Akkverjar æptu
ægum glaumi;
sem á háströndu
hrönn of dynr;
mokar brimi marr
at meitilbergi.
199. Sogast þar sjár
sígjálfrandi
upp ok niðr
fyrir öllum vindum,
þeirs hvaðanæfa
yfir heim þjóta;
verðr-at ládeyða
at lagar hömrum.
200. Stóðu styrkir upp
stúfsvaldendr,
ok at skipum
skunduðu görva;
hófust hyrreykir
herbúðum frá;
sátu ýtar at
aptans verði.
201. Færði fyrða hverr
fólkráðendum
guðum alheilar
áheitsfórnir;
æskti ýta hverr,
at aldrtila
forðast knætti
ok feigðar geira.
202. En Agamemnon,
alda stýrir,
Allföður fórn
færa náði:
frey fimmvetrúngi,
feitum næsta
blótaði buðlúngr
banda vísi.
203. Kallaði konúngr
kappa mesta
ok öldúnga
alda sveita:
Nestor fremstan,

fólkráðan hal,
ok Ídomeneif
jöfur frægan.
204. Kallaði öðlíngr
Aianta tvo,
ok tírglæstan
Týdeifs arfa,
sjötta, svartskýja
Seifi glíkan,
Odysseif mildíng,
at meginráðum.
205. En Menelás
inn málrómsterki
sjálfboðinn sveif
at sifa gildi;
vissi gjörla
í geðknerri
bölmæði bróður
böðvar skati.
206. Stóðu at þjóri
þegnar framir;
tóku blótbygg
bragnar snjallir;
en buðlúngr
bæn um hóf,
Agamemnon
alda stýrir:
207. „Allföðr, alvaldr
aldar jaðarr!
svartskýja sjóli
und sólar hjálmi!
drag þú ei at dúni
Dvalins leiku!
reifa þú ei rökkri
Rindar elju“,
208. „Fyrr en hefi-k
brynja látið
böðvarinn Brjáms
borgkastala,



siklíngs auðsali
sóti dökkva,
ok eldi eytt
öðlíngs hallir“,
209. „Fyrr en hefi-k
Hektori römum
brynju blóðleiku
af brjósti flegit,
ok sigmálmi sárum
sundr höggvit;
margir fallit
mækis reynar
kappa kríng um,
ok kalda moldu
faðmat darraðar
dauðatökum“.
210. Mælti svá mildíngr;
en manna faðir
heyrði-t hilmis bæn,
nè hana framaði;
tók tiggi himna
tírarblóti,
en seggjum sendi
svárar nauðir.
211. En er bænræknir
of beðit höfðu,
ok blótbyggi
bragnar dreift,
beygðu blótsvíra
fyrir banda föður
seggir, ok síðan
slátruðu ok flógu;
212. Ok blótbita
úr blóðgum lærum
skatnar síðan
skera mundu;
huldu mörlaga
milli tveggja,

ok hèr ofan á
brátt of lögðu.
213. Brenndu blótbita
beimar síðan
á skíðum logandi
laufi sviptum,
ok á steikara
stúngu teina,
ok yfir hèldu
hyrjar logum.
214. En er blótbitar
brunnir váru,
ok iðrar etnar
ýtar höfðu:
brytjuðu blótkjöt
bragnar annat,
ok á steikara
stúngu teina;
steiktu gumar allt
gætiliga,
tóku síðan,
ok af teinum drógu.
215. En er erfiði
ok önnum þeima
hættu halir,
hófu upp veizlu;
nè lystíng leið
lýðum gerðist,
neyttu dreingir
af deildum verði.
216. En er lýðir
lystíng höfðu
á bug ekit
áts ok drykkjar,
þá mælti málsnjallr
mæríngr alda,
Nestor, gerenskr
gramr reiðar:
217. „Fólkvaldr frægstr
fölvis þjóða,
Agamemnon,
alda stýrir!
skulum nú dvelja
skamma hríð,
nè fólkjöru
á frest draga,
þá er oss Herföðr
á hendr fól“.
218. „Fremjum fólkvíg nú,
ok fölvis leika
kallarar kalli
knía saman,
aldir akkneskar
eirbrynjaðar,
skriðskjótum at
skipum niðri“.
219. „En vèr munum fremst
í flokki halda
afarvíðan um
Akkverja her,
at vèr fólkvíg
fremst of vekim,
ok dörr dýja
dreingi látim“.
220. Mælti svá mæríngr;
en manna stjóri
var-at óhlýðinn,
Agamemnon;
bauð fyrst buðlúngr
at bragði þegar
herköllurum
hvellrómuðum,
221. At þeir at böðvi
of boða skyldu
hárprúðar Akkverja
Herjans sveitir.
Knía kallarar
kölluðu saman,

ϱ. II, 424-444.

en seggir söfnuðust
í sveitir þegar.
222. En goðbornir
gylfar þutu
ágætan kríng um
Atreifs niðja;
beittu hervaldi,
beimum skipuðu;
en eptir ítrum
öðlíngum sveif
Aþena, gyðja
in augumglæja.
223. Baug darra dís
dúði frægan;
elli ómáðum
ægiskildi
sveiflaði svipmikil
salgarðs freyja,
uppheims undrsjón
ódauðligri.
224. Lèku hundrað
í lopti hreifðir
of hlíf hvelda
heingi-skúfar,
eldrauðum orpnir
ægis ljóma;
var verðr hverr
hundrað tarfa.
225. Hvössum hjörva dís
hvarma mánum
geysaði glóeyg
of geirsveitir;
hvatti hölda,
hverjum vakti
móð megintraustan
í muna sæti,
at þeir hvíldarlaust
hjörvum veifði,

ρ. II, 444-461.

ok dólgdarr
dýja knætti.
226. Gerðist þá aptr
með auðrunnum
sætr í sefa
sverða glymr;
vildu heldr þat,
en heim snúa
at lofsælu
láði feðra.
227. Sem á tindum hám
heiðar fjalla
eimr geysar
ógurligr
í mörk myrkviðar
meginvíðri;
leggr báls birtu
brautir lángar:
228. Svá mundi svífa
sólbliki fáð
birta böðfögr
af bragna hlífum,
feiknbláum undir
foldar hjálmi
hátt að hveldri leið
himinboga.
229. Váru hersveitir
höfgar fjölda,
sem fugla fljúgandi
feikna sveimar;
sem helsíngjar
eðr heiðar-trönur,
eðr lásvanir
lánghálsaðir;
230. Þeirs flug þreyta
þrömmúngs brautir
of Áss-eingi,
eðr aðallindir
Kaýstrs kríng um

klettafossa;
þýtr fugla fjöld
fram ok aptr,
231. Ok víðum vængjum
veifa kátir,
glaumi gjallanda
ok glöðum hljómi;
líða leitum nær,
en láðvellir
endilángir óm
undir taka.
232. Svá mundu svífa
sveitir darra,
feiknum fjölmennar
fjarðar gotum
frá ok herbúðum
at hervelli,
þar er Skamandr
skelfir báru.
233. En Óðins brúðr
undir stundi
geigrliga,
er gullinfaxar
ok málmþíngs meiðir
moldveg tráðu
fallandi fetum,
faldnir málmi.
234. Stóðu styrkir
stúfsvaldendr
Skamandrs á grund
skrúðblómgvaðri,
ótal iðdreingir,
sem urmull laufa
á völlum verðr
vártíma á.
235. Sem flugna fjöld
feiknum úir
sísveimandi
suðu-flugi,
ρ. II, 461-479.

þar er hirðar fè
hafa á stöðli
vártíma á,
er væta skjólu
mjúksætir spena
mjaðarstraumar:
236. Svá mundu margir
móti Tróverjum
sigjöru svárir
sveimar standa
vígvallar á
víðum fleti;
svall móðakarn
morð at drýgja.
237. Fylktu fólkskatar
flokka múgum
morðbráðum at
mækis leiki,
sem þá er hjarðsveinar
hjarðir skilja,
blómgum blandnar
beitlöndum á.
238. Gekk með öðlíngum
Agamemnon,
vegs um valdr
vísir þjóða;
blossuðu bogar
buðlúngs hvarma
ægigeislum
ennimána,
sem Allföðrs
augu skína;
var ok hilmir honum
at höfði glíkr.
239. Váru lofðúngs lendar
linda gyrðar
ægiligum,
sem Ares tjáist;
en buðlúngs brínga

in böðvarhvelda
sem á máttugum
miðgarðs skelfi.
240. Sem í öxna-hjörð
úamargri
vegligstr þykkir
vera griðúngr,
er hann öllum fram
öxnum tekr
mikilleik at
ok meginprýði:
241. Eins gerði Seifr
Atreifs frægan
dróttvaldan nið
á degi þeima;
lofðúng hann lèt
lýðum öllum
fremstan ok fyrstan
fólkþíngum á.

---

242. Teljit mèr, svásar
saungdísir, nú,
þèrs Ólýmps unit
aðalljóma!
hreimgyðjur himneskar!
er þèr hvívetna
æ of erut,
ok allt vitið!
243. En vèr eim einan
eyrum leiðum
Sögu saungva,
sjáum-at neitt;
segit mèr, dísir!
dróttvaldendr,
ok jöfra Akkverja
ítrráða.
244. Munda-k nè minnast
málmþíngs boða,
nè nafni nefna
ρ. II, 479-497.

naðreyna sjót,
þótt ek tíu
túngur hefðak,
ok tíu ómandi
tanna sali.
245. Ok þótt ætta-k rödd
óriífandi,
ok móðakarn
málmí varit:
munda-k-at slíkt
mælt of geta,
nè tölu týframra
tiggja framit:
246. Ef ei Allföður
ægiskjalda
dýrar dætr,
dísir hljóma,
mik á minnti,
ok muna styrkti,
hverir Brjáms borg
at brjóta fóru.
247. Mun ek fólkstjóra
fremst of þylja,
ok græðis dýra
getið láta.
248. Buðu böðþjóðum
Bæótínga
prúðr Leítus,
ok Peneleifr,
Arkesílás,
ok jöru vanr
Kloníus, ok prúðr
Proþóenor.
249. Rèðu þeir höldum,
þeims Hyrju byggðu,
ok Álafoldu
fjöllum setta,
Skínus ok Skólus,
ok skörðótt land,

Eteónuss
jarðar-leiti.
250. Þespíu, Græju,
ok grundarvíða
Mýkalessu mærrar
meginvelli.
251. Byggðu höldar sumir
Harmu kríng um,
Ílesíu
ok Erýþru;
sumir Eleón,
aðrir Hýlu,
ok Peteóns
aðalstöðvar.
252. Byggðu Ókæli,
ok Medeón,
vel of byggða
at borgmúrum,
Kópu, Evtresu,
ok klettnána
dali Þispu
dúfu-auðgrar.
253. Sumir Koróne
kníar byggðu;
sumir hauðrfrjóvan
Halíartus;
áttu pall sumir
at Plateu;
sumir glóð-arin
at Glísanti.
254. Lágþífi sumir
liðar byggðu,
múrstyrka borg
ok böðrama;
sumir Onkestus,
alhelgan stað,
ljúfsælan lund
lagar drottins.
255. Váru sumir
p. II, 497-516.

vínfrjóvum stað
Arne mærum frá,
ok Mídeiu,
Nísu alhelgri,
ok Anþýdóni,
er á liggr
landamærum.
256. Lögðu fimm tugir
lagardýra
borgum þeima frá
á báruslóðir;
en á sèrhverju
seggir váru
tíu tugir,
ok tuttugu.
257. Aspledón sumir
ýtar byggðu,
ok aðalból
Orkómenus
Mínýínga;
en mærir rèðu
Jalmenus öldum
ok Askláfr.
258. Ól öðlínga
Astýokka
at Aktors inni
Áseifs niðja,
heiðvirð mær,
er hún á hápall stè,
Aresi frægum
jöru drottni.
259. Lagðist með ljósri
linnveingis bil
fólkvaldr góða
frægr í leyni.
Höfðu halir þeir
hèlugbarða
þrenna tugi
þópturamra.

260. Fókum fólkstjórar
frægir rèðu
Epístrófus
ok ítr Skedíus;
váru þeir arfar
Ifítusar,
þess er nýtr
Nábólus gat.
261. Byggðu kníar þeir
Kýparissus,
ok Pýþó helga
háfjallaða,
Krísu alhelga,
ok Hýamsborg,
Dális, Anemór
ok Panópis.
262. Áttu aðrir
arinhellur
Kefissus at
köldum straumi;
en sumir liðu
frá Liljuvöllum,
Kefissus efstum
at aðallindum.
263. Höfðu halir þeir
hèlugbarða
fjóra tugi;
en fólkstjórar
Fókum skipuðu
í fylkíngu,
fast at Bæóta
fylkíngar armi
vinstra, váligri
at vígþrymu.
264. Rèði lofðúngr
Lókrum frægr,
Aiant, Eyleifs
arfi getinn;
var-at tiggi
sem Telamons,
Aiant, arfi,
en öllu minni.
265. Var siklíngr
smávaxnari,
lítill vexti,
ok í línbrynju;
en Hellena allra
ok Akkverja
knýði kesju leingst
ok kólf böðvar.
266. Ópúnti frá
ýtar váru,
Kýnosborg,
ok Kallíarus,
Bessu ok Skörfu,
ok blómfögr
Ágíu láð
einnig byggðu.
267. Törfu ok Þróníu
þegnar áttu
heima at Búakrs
bláum straumi;
þat váru Lókrar,
þeir er láð byggja
helgri Evbey
andspænis móti.
268. Höfðu halir þeir
hrannar dýra
tvö ok tuttugu
tírargjarnir.
269. En þeim, er yrktu
Evbey fagra,
Abantum málmþínga
móði þrúngnum,
Eretru, Kalkis,
ok alblómgvaðar
hæðir vínberja
Histíeu,

270. Kýrinþus borg,
á bökkum sævar,
ok Díum fremstum
fjallriðum á,
Karýstusborgar
kníum ok Stýru:
271. Þeim mundi ráða
þeingill böðstyrkr,
Elefinor,
Aress kynstafr,
Kalkódons konúngs
konr frægr;
sá var iðgjörnum
Abantum fyrir.
272. Fylgdu öðlíngi
Abantar fráir,
þeir er hár bera
á hnakka aptr;
vanir vígdómum
varpa girntust
ok bragna beysta
böðvar kólfum;
brynjur brjóta
af bríngum vildu
móðgra morðdólga
málmi speingdar.
273. Höfðu halir þeir
hèlugbarða
fjóra tigi
fremst of dökkra.
274. En þeirs Aþenu
ýtar byggðu,
borg böðstyrka,
ok byggða vel,
þars Erekþeifr
átti heima;
ól upp Aþena
öðlíng mæran.
275. En Fjörgyn fylki
fyrr um gat;
setti herdís hann
at hörgi sínum
[blómgu blíðvörðum
brumi meiða]
fremstan af auðgri
Aþenuborg.
276. Þars beimar at sèr
buðlúng heilla,
öxnum og sauðum,
at Aþenuborg,
at árstíðum
um svífandi
jarðar hvel
alda straumi.
277. Rèði morðmeiðum
Menesþeifr,
prúðr mögr
Peteóuss;
var-at frjósamri
fylki þeim
fremri fólkskati
á fold alinn,
278. Ólmum at stýra
jöru fákum,
ok at skjóma leiki
skjaldar hlynum,
nema Nestor
niflúngr einn;
var því öðlíngs þess
aldr meiri.
279. Höfðu halir þeir
yfir hafs leiðir
tugi fimm
fjarðar ljóna.
280. Hèlt með skip tólf
inn tírarframi
siklíngr Aiant
Salamis frá

ρ. II, 538-557.

[fylkti fólkþjóðum
hjá fylkíngum
Aþenumanna
aldar-stjóri].
281. Þeims Argosvígi
ok umgirða
Týrunsborg
teitir byggðu,
Hermíónu
ok hákastala
Asínus,
at öldu-bakka;
282. Trözen ok aldna
Eíónsborg,
ok Epídárus,
jörð vínfrjóva
Egínu, ok mönnum
Masesborgar,
afspríngi ítrum
Akkverja láðs:
283. Þeim rèði rekkum
rómstyrkr jaðarr
Díómedes,
dörrum vanr,
ok Stenelus styrkr,
stilli borinn
Kapaneifi
inum kynfræga.
284. Rèði ýtum ok
öðlíngr inn þriðji,
Evrýalus
jólnum glíkr;
var hann mögr alinn
Mekisteifi,
týfrömum tiggja,
Talaossyni.
285. En öllum yfir
öldum rèði
rómstyrkr döglíngr
ρ. II, 558-576.

Díómedes;
höfðu halir þeir
hèlugbarða
almjörkvaðra
átta tugi.
286. Þeir, sem Mýkenu,
ina mæru borg
vel of vandaða,
vaskir byggðu,
ok Korint, málmi
ok meiðmum auðga,
ok Kleónu
kunna þjóðum;
287. Þeirs Orníu
ýtar byggðu,
ok Árdyr
unaðfagrar,
ok Sikýón,
þar er siklíngr
Adrastus áðr
yfir rèði;
288. Hýperesíu,
ok háreista
Gonóessu
á gil-brúnum;
ok þeirs Aigíu
ýtar byggðu,
ok Pellene
á Pelops-ey;
289. Ok um alla strönd
Aigíaluss,
ok um Helíku
hauðrs-víða:
hundrað höfðu þeir
hèlugbarða
ýtar allröskvir
at iðleiki.
290. Rèði rekkum þeim
ok reiðum sævar

Agamemnon
Atreifs mögr:
fylgdu fólkskata
flestir ok beztir
at skölkvíngs gný
skjaldar hlynir.
291. Bjóst buðlúngr
björtu skrúði,
alglæstum eiri
ok ægishjálmi;
fremstr framgjarnra
fólknárúnga,
mestr mærínga
fyrir mold ofan;
því hraustastr var
ok her flestan
leiddi lofðúngr
at leiki sverða.
292. En lýðum þeim,
er Lakedemón
byggðu böðvísir
björgum kríngda,
hálsum horfna,
hömrum studda;
293. Faris ok Spörtu,
ok þá er fjöld elr
mærra dúfna
Messuborg,
Brýseu, Ágíu,
ok Amýklu,
ok Elus, ægi
iðbláum hjá;
294. Ok lýðum þeim
er Láas byggðu,
ok þeims at Oitílus
áttu heima:
þeim rèði frægr
fylkis blóði,

ρ. II, 576-596.

Menelás
inn málrómsterki.
295. Sá rèði sex tugum
sævar ljóna;
váru fyrðar sèr
í fylkíngu;
gekk horskr gramr
at gunni fram,
treysti meginmóði,
ok menn hvatti.
296. Var hilmi helzt
í hug lagit,
at hann Helenu
hefndi sorgar,
gráts og gremi,
ok gjallra harma,
tárugs trega,
ok tvistra rauna.
297. En þeims prúðhelga
Pýlus byggðu;
ok Arenu
unaðsæla;
ok Þrýu, þars Alfeus
yfir ferja,
ok Aipuborg
allvel byggða;
298. Ok Kýparissus,
ok Amfígeníu;
Pteleus, Elos
ok Dóríu,
299. Þars saungdísir
inar svásrómuðu
Þamýris hittu
inn þrakverska,
ok hann sætum saung
svipta náðu,
þá er ítr sveif
frá Oikkalíu,

ok frá Evrýtus
inum oikkalska.
300. Þóttist fóli færr
freku drambi
í saung at sigra
svásum gyðjur,
og þótt sýngi sèr
sjálfar móti
Allföður dætr
ægiskjalda.
301. Reiddust þá rómdísir,
ok rök of kváðu;
námu seggi sýn,
ok sól fálu;
tóku saung sætan
ok svása röddu;
lètu grepp gleyma
gígju hljóði.
302. Rèði þegnum þeim
þjóðmæríngr
Nestor, gerenskr
gramr reiðar;
svifu gjálfrdýr
glæstum stöfnum
þrenn þrjátigi
Þvinnils rastir.
303. En þeim öldum,
er Arkadíu
byggðu und klettum
Kýllens hryggjar,
þars haugr Epýts er
öðlíngs vorpinn,
höldum hraustum
í höggorrustu;
304. Þeims Fenu byggðu,
ok fjárkvika
Orkómenus,
ok Enispu
stórviðrum streitta,
Stratíu, Tegeu,
Hrípu, ok munfagra
Mantíneu;
305. Þeims Stýmfalus
styrkva byggðu,
ok Parrasíu
prúðum þjóðum:
þeim rèði ríkr
ræsir, mögr
Ankeifs ágæts,
Agapenor.
306. Höfðu þeir sex tugi
sævar ljóna;
en á hverjum
hèlugbarða
morðvanir geingu
margir liðar
Arkadíu frá
jarðar dölum.
307. Gaf þeim sjálfr
gramr þjóða
Agamemnon
unnar hreina
þóptusterka,
at Þvinnils leiðir
mætti iðdreingir
yfir svífa;
því halir þeir hyggja-t
at hafs iðju.
308. En þeims byggðu
Búprasíu,
ok Elis-jörð,
jólnum helga,
þars yzt halda
Hýrmens leiti,
ok þars Mýrsínus
moldvegr grær;
309. Þars Ólensstapi
ok Áleysa

Ónars dóttur
innilykja:
leiddu liða þá
at leiki sverða
fólkvaldar fjórir
of fjarðar leið.
310. Hafði tiggi hverr
tíu at ráða
báruskjótum
björnum sævar;
en á sèrhverjum
seggir margir
Epear váru
öldu vagna.
311. Rèðu ýtum þeim
Amfímakkus
ok Þalpíus,
þjóðnárúngar;
bræðrum váru báðir
burir getnir:
Kteati ok Evrýti
Aktors niðjum.
312. Rèði flokki
fylkir þriðja
Díóres, arfi
Amarýnkeifs;
en inum fjórða
jólnum glíkr
Pólýxenus
prúðhjartaðr,
arfi Agastens
Ágíassonar.
313. En drótt darra
frá Dúliksey,
ok helgum Ekíns-
hólmum frá,
þeims fyrir haf
handan búa,

andspænis móti
Elis-láði:
314. Þeim rèði Meges
móðhugaðr,
Aresi jafn,
jöru hilmi,
Fýleifs niðr;
en Fýleifr
riddari gat,
ragnaföður kær,
sá er fyrri fór
föður reiðr
dýrr döglíngr
til Dúlikseyjar.
315. Hèldu halir þeir
hrannar dýrum
fjörutigi
yfir fjarðar báru.
316. En Odysseifr
öðlíngr rèð
Kefallenum mærr
móðhuguðum,
ok þeims Íþaks-ey
ok alþakin
laufi Nerítons
leiti byggja.
317. Ok þeims Krokýley,
ok óslèttrar
Aigilípu
urðir byggðu;
Sakýntsey, Sámsey,
ok sævar jaðra
meginlands, ok láð
þat er móti liggr:
318. Þeim rèði ágætr
Odysseifr,
Allföður glíkr
at ítrum ráðum;
hafði skipa tólf

ρ. I, 617-637.

tiggi frægr
hlýrroðinna
at hjörva dunum.
319. Etólum rèði
arfi frægr
Andremons,
ítr Þóas;
þat váru Pleifrumenn
ok Pýlenu
ok Ólens
innbyggjendr;
320. Byggðu Kalkis ok
at kólgu djúpum,
ok Kalýdons
klettahauðr;
því mundu-t þá
fyrir mold ofan
Öneifs ágæts
arfar lifa;
nè sjálfr siklíngr
sólarheims naut;
ok bleikhárr Melakr
bana þáði.
321. Var því Þóas
þeingill kjörinn
Etólum öllum
yfir at ráða;
hafði hilmir
hrannar dýra
at fólkvígum
fjóra tigi.
322. Rèði knífum
Krítareyjar
öðlíngr iðfrægr
Ídomeneifr,
ok þeims Knóssus
kunna byggðu,
ok Gortýnsborg
girða múrum,

ρ. II, 637-656.

Lýktus, Míletus,
ok Lýkastus;
sú er borg of byggð
á bjargi hvítu;
323. Festu ok Hrýtu,
höfuðborgir
allvel byggðar
ok auðsælar;
ok ýtum öðrum,
er eyju Krítar
byggðu, háborgum
hundrað setta.
324. Þeim rèði ágætr
Ídomeneifr,
döglíngr drótta,
dörrum vanr;
ok Meriónes,
manna bana
Aresi glíkr
iðnárúngi.
325. Hèldu halir þeir
hrannar dýra
átta tugum
yfir ægis djúp.
326. Hèlt týframr
Tlepólemus,
horskr ok fagr
Herakless arfi,
ráhjörtum níu
frá Róðeyju;
skipuðu þá röskvir
Róðeyíngar.
327. Róðey byggðu þeir
reynar sverða,
eyju þrískipta
þegna sveitum;
þar Líndus er,
ok Ílýsus

ok Kamírus
á kletti hvítum.
328. Þeim rèði týfrægr
Tlepólemus,
dýrr döglíngr
dörrum vanr,
sá er áðr ól
Astýokka
við Heraklesi
himintíva.
329. Hafði guð hana
frá hauðri Effýru,
þars Selleis
svella straumar;
lèt hann frægra
fólknárúnga
borgir vorpit
bjaðar moldu.
330. En er upp um ólst
að auðsölum
Tlepólemus
inn týframi,
myrði föður hann
móður-barma,
svipti snarliga
siklíng aldri,
Líkýmníus,
lofðúng aldinn,
afspríng Aresar
ítrfrægan.
331. Byggði skjótla þá
bersa sævar,
ok fjöld fyrða
til farar kvaddi,
því at hótunum
hræða mundu
buðlúng burir
ok bura niðjar
Heraklesar
himintíva.
332. Hreppti hafvillur
of hrannar leiðir
ræsir, ok rakst
Róðeyjar til;
var öðlíngr
orpinn nauðum.
333. Byggðu bragnar þar
bólm þrídeildir;
ok þeim Seifr unni
uppheims valdr,
sá er gumna fjöld
ok guðum ræðr
[ok Kronuss arfi
kostsamligum
auði ok unað
of aldir jós].
334. Hèlt Níreifr
hrannar dýrum
sæhröðum þrem
frá Sýmeyju;
Níreifr, námsæll
niðr Æglóar,
ok Karópusar
konúngmennis.
335. Sá var fegrstr
fyrða allra,
er Ilíonsborg
at eyða geingu,
ok Danáa;
þó var einn fegri,
þat var prúðlyndr
Peleifs arfi.
336. En Níreifr
var at naðeli
magnaðr lítt,
nè móðhugaðr;

fylgdu honum ok
fáir liðar.
337. En þeims Nísýrus
nýtir byggðu,
Krapaþus ey,
ok Kasoshólma,
Kós, aðalból
Evrýpýluss,
ok Kalauðnir
kólgu girðar:
338. Þeim mundu ýtum
yfir ráða
Feitippus ágætr,
ok Antífus,
Þessaluss arfar,
ins ítrvalda
Herakless sonar,
*himintíva*.
339. Hèldu halir þeir
hrannar dýra
tugum þrem
at þjóðmorði.
340. Nú mun ek nefna
njóta knáa,
þá er Argos byggðu,
jörð Pelasga;
Alos, Trikkínu,
ok Alópe,
Fiðju ok Hellas,
hrundfagrt láð;
kveða Hellena,
ok kind Akkverja,
ok Mýrmídóna
menn þá heita.
341. Hèlt með höldum þeim
at hjörva dyn
ægis dýrum á
Akkilleifr,
tugum fjórum,

ρ. II, 675-694.

framarr tug einum;
hugðu-t halir þó
at herleiki.
342. Var-at því brögnum
á baugi uppi,
at lofðúngr væri,
sá er leiða knætti
hali hörðum at
hildarleiki,
ok þá fremst færa
í fylkíngu.
343. Því at öðlíngr
Akkilleifr
fótramr lá
at lagar hreinum;
heiptaðist hilmir
fyrir haddfagra
bjarta Bríseiði,
brosfagrt man,
344. Þá er hilmir nam,
ok nauðir margar
fyrir ljósa þoldi,
Lýrnesus frá;
braut borgvirki,
bar út meiðmar
frá Lýrnesus
fylkir, ok Þífi.
345. Myrði Mýnetus,
ok at moldu varp
Epístrófus,
iðstyrka tvá
Evenuss arfa;
en öðlíngs þess
Selepíus var
sagðr faðir.
346. Harmaði mildíngr
meyju þessa;
mundi þó skati skjótt
skálm of veifa.

347. Þeim er Fýlaku
foldveg byggðu,
ok Pýrasus
prúðblómgvat láð,
þar er Demetru
dýran kveða
helgan lund
hauðrs kindir;
348. Ok þeims Ítónu
ítrir byggðu,
þar er lamba fjöld
fóðri gæðist;
ok Antrón, allnærri
ægis djúpum,
ok Pteteu eingi
in iðja-grænu:
349. Þeim rèði prúðr
Prótesílás,
Aresar ættstafr
eljunhraustr,
meðan ljós sólar
lofðúngr sá;
en nú vorpinn var
vísir moldu.
350. Sat siklíngs kván
sefa skörðum
eptir í húsi
at öðlíng liðinn;
var hús höfðíngja
hálfu minna;
en döglíng drap
dardanskr verr,
er hann upp af hljóp
hrannar ljóni
Akkverja fyrstr
allra á land.
351. Váru þó eigi
vísis liðar
foríngjalausir

ρ. II, 695-713.

(þótt fylki þráðu):
bauð þeim Podarkes
inn prúðlyndi,
Aresar afspríngr
ítrfrægr.
352. Sá var arfi
Ifíklusar,
Fýlaks magar
ins fjárauðga,
barmi skilgetinn
böðstyrks vísis
Prótesílásar
ins prúðlundaða.
353. Var Podarkes
ýngri getinn,
en Prótesílás
prúðr ellri;
ok hraustari
at hjörleiki
Aresi alinn
öðlíngr var.
354. Vantaði-t lýði
lýðforíngja;
söknuðu siklíngs þó
ins sigtrygga;
höfðu halir þeir
hrannar dýra
fjóra tugi
at Tróju láði.
355. En þeims Feru
foldveg byggðu,
hjá Böbuvatns
björtum unnum,
þeims Böbuborg
byggja rèðu,
Glafýr, ok Jólkus
allvel reista:
356. Þeim rèði þegnum
þeingill frægr,

Evmelus, arfi
Aðmetusar
(váru ellefu
öldu fákar).
357. Þann gat Alkestis
við Aðmetusi,
salfreyja svásum
sigtívum glík;
var hún Pelíasi
prúðum borin,
döglíngs dætra
dýrst ok fegrst.
358. En þeims Meþónu
moldveg byggðu,
ok Þámakíu
þegnum snjöllum,
*Melíbæn*
*ok* megingrýttrar
*Olidsónu*
innbyggjendum:
359. Þeim rèði frægr
Filoktetes,
sá er boga vel
benda kunni;
hafði sævar sjö
svarta hreina.
360. Geingu gumar
á gnoð hverja
fimmtíu fimir
und flausthramma;
kunnu dreingir þeir
dal at benda
flestum betr
foldar þjóðum.
361. En lofðúngr lá
líkams haldinn
á ey einni
illum nauðum,
lýðhelgum á
Lemnarhólmi;
lètu hann eptir
Akkverjar þar.
362. Þoldi þeingill
þúngar kvalar,
er hann eitrúngr
illr um hjó.
Lá hann þar bölvi
beisku þjáðr;
en þó bráðla
böðþjóð skyldi
mildíngs minnast
at marar ljónum.
363. Váru-t fyrðar þó
foríngjalausir,
en þótt sakna
sjóla gerði;
fyrir þeim Medón
mildíngr var,
Eyleifs arfi
óskilgetinn.
364. Þann gat Hrena
við hilmi frægum
Eyleifi, eyði
aðalborga.
365. En þeims Trikku
ok Íþómu
hrjóstrug byggðu
hamrabelti,
ok Oikkalíu,
Evrýtusar
öðlíngs borg
ins oikkalska:
366. Þeim rèði þegnum
þekkir arfar
Asklepíuss
ins ítrfræga;
læknar lýðfrægir,
lífgefandi,

ρ. II, 713-732.

Makkaón prúðr,
ok Pódalírus.
367. Höfðu halir þeir
hrannar ljóna
tugi þrjá
at þjóðvígum.
368. En þeims byggðu
Ormeníu,
ok Hýperíu
höfgar lindir;
þeims Asteríu
inni byggðu,
ok hvíta tinda
Títans hamra:
369. Þeim rèði ýtum
Evrýpýlus,
ágætr arfi
Evemónuss;
hafði hildíngr
hrannar dýra
fjóra tugi
at fólkþrymu.
370. En greppum þeim,
er Gýrtónu
byggðu, ok Argissu
eiga rèðu,
Orþu, Elónu,
ok Oloossón,
borg háreista
hvíta steini:
371. Þeim rèði prúðr
Polýpötes,
móði magnaðr
at mækis gný,
prúðr arfi
Píriþóuss,
þann er Seifr ól
ódauðligr.
372. Átti hann hrund fræg

p. II, 732-750.

Hippódamía
prúðhjörtuðum við
Píriþóus,
á degi þeim
er döglíngr
á vann feiknloðnum
Ferubúum.
373. Þraungdi lýðum þeim
þeingill ríkr
Pelíoni frá
Píriþóus,
ok þá neyddi
at nema land
aptr, ok byggja
Eþíkum hjá.
374. Var-at hann einn,
en vísi studdi
Leontes, Aresar
ættarstafr;
mögr var hann
ins meginríka
Korónusar
Keneifs arfa.
375. Hèldu halir þeir
hrannar ljónum
fjörutigi
yfir fjarðar djúp.
376. Hèlt Gúneifr
gnoðum frá Kyfos
tveim ok tuttugu
at töru leiki;
fylgdu öðlíngi
Eníenar,
ok Perebar
prúðlundaðir;
377. Þeirs Dódónu
dali byggja,
vindsvölum veðrum
vetrar reifða;

ok þeirs akra erja,
þars unaðsælir
Títaresíuss
titra straumar,
378. Þess er vötn veltast
in vágskæru
í Penes-fljóts
fossa-hylji;
verða nè sólhvítri
silfr-iðu
meinguð Peneuss
meginstrauma.
379. En röst rennr
in reginskæra
sem viðsmjör, vatni
vakin yfir;
er *því* afrennsl
*árstraumr* sá
eiðvatns Stýgar
ins ægiliga.
380. Rèði Proþóus
prúðlundaðr
Magneta þjóðum
móðhuguðum,
týframr arfi
Tenþredónuss.
381. Þeir it laufkvíka
lýðir byggðu
Pelíonsfjall,
ok at Peneus:
rèði fóthvatr
fylkir þeim
Proþóus
inn prúðlundaði.
382. Hèlt hildíngr
at hildar leiki,
fjarðar dýrum
fjörutigi.
383. Þessir váru herskatar
ρ. II, 751-769.

at hildar leiki,
dýrst Danáa
döglínga fjöld;
seg mèr nú, in svása
saunghljóma dís,
hverr mestr mundi
mildínga vera,
384. Bæði buðlúnga,
ok blakka skjótra,
þeirra, er ítrum
Atreifs niðjum
fylgdu at ferligum
fölvis leiki.
385. Beztir voru blakkar
at Brjáms múrum
Ferets afsprings
ins ítrfræga;
ók þeim Evmelus
at iðleiki
fákum fótfrám,
sem fleygir væri,
386. Jóm jafnhærðum
ok jafngömlum,
mörum jafnhávum
at mældum hrygg;
þá ól at Peru
prýðifáka
Apollon, sjóli
silfrbogvaldr;
þat váru hryssur,
ok of hervöll slaungdu
ótta gunntrylldum
geira drottins.
387. En bragna allra
var böðframastr
týhraustr Aiant
Telamons niðr,
meðan reiði ól
Akkileifr;

því fremstr var hann
at fólkroði,
ok fákar fríðir,
er um foldvegu
prúðlundaðr ók
Peleifs arfi.
388. En nú sjóli sat
sjótum fjarri,
at straumdýrum
stafnabjúgum;
brann buðlúngs
bráðr munr
Atreifs arfa til
aldastýris.
389. En lýðir lèku
at lagarjaðri;
vörpuðu steinkrínglum,
ok vigrum stinnum;
ý upp drógu,
ok örvum skutu.
390. Stóð fákr sèrhverr
at sinni reið;
lèt lèttfetum
ljúfr smári,
ok steinselja,
starar vina,
sú er á vátlendum
vaxa náir.
391. En háþöndum
hertjöldum í
reiðir dúkreifðar
ræsa stóðu;
en herskatar
hilmis söknuðu,
mildíngs málmþínga
ins móðhugaða;
hvörfluðu hvervetna
of herbúðir,

ρ. II, 769-787.

nè vígfleinum
veifa knáttu.
392. Geingu gunnþjóðir,
sem of grænan svörð
foldar ferr
funi heitr;
en storð steinvarin
stunum hreifði,
sem fyrir Þrúðvaldi
þrumuglöðum.
393. Þá er beystir hann
böllum móði
jafnharðan jaðra
jörmungrundar,
kríng um Týfóeif,
kvalda óskepnu,
Áreims at
undrlendum,
þars hvílu herma
halir lagða
ófreskju ægrar
í jarðardjúpi.
394. Svá mundi stynja
storðar hvel,
fallandi fetum
fólkþjóða undir,
þá er ýta fjöld
á fram sveif;
tráðu hervöll hart
herfylkíngar.

---

395. Sveif til Tróverja
tírargjarnra
Íris vindfætt
of veðra brautir;
flutti Seifi frá
fregn geigvæna,
Allföður ofan
ægiskjalda.

396. Váru þegnar
at þíngræðum
Brjáms hilmis hjá
hallardyrum;
safnaðir saman
í sveitir allir
úngir ok aldnir
öðlíngar váru.
397. Stóð himindís
in hraðfleyga
nýtum nærri
naðvaldendum;
var mær gyðja
í málrómi glík
Polítes, Brjámi
bornum arfa.
398. Sá hafði svifit
at sjóna hváli,
skjótleik treystandi,
skötnum at spæja;
sat hæst á haugi
hilmis aldins
Æsýtusar
orpins moldu.
399. Beið á haugi þeim
hilmis arfi,
at Akkverjar geingi
elliðum frá;
þeim var guma glík
goðborin dís
Íris, og mælti
orðum þeima:
400. „Eru ætíð þèr,
aldinn skati,
orð þau hugþekkust,
er á hvörfum snúast,
eins ok fyrri
á friðaröldum;
en nú er brögnum böl
böðvar ráðit“.
401. „Kom ek opt at köldum
kvernbíts leiki,
þars morðliðar
mæki dúðu;
sák-at þó sízt
sveim hjörva gnýs
líkan þessum
yfir láð svífa“.
402. „Eru þeir sem lauf
á limi meiða,
eðr sem ögngrúi
ægisanda,
þars þeir of völl
víðan gánga,
vilja borg brjóta
böðvar-rama“.
403. „Kveð ek þik helzt,
Hektor mæri,
attu at gætir
orðum mínum;
því málmþíngs meiðar
margir eru
bandamenn kríng um
Brjáms vígmúra“.
404. „Eru iðdreingir
ýmissa þjóða;
mállýzkur margar
morðvaldenda;
bjóði nú brögnum
buðlúngr hverr,
ok öld leiði,
er hann yfir ræðr,
út á eimnis völl,
ok innbyggjendum
Brjáms borgvirkis
at böðvi fylki“.
405. Mælti svá himindís;

ρ. II, 788-807.

en Hektor lèt
gyðju orð geymd
í geðknerri;
sleit hann skjótliga
skatna þíngi;
bjóst bæsíngs þjóð
böðvar skrúði.
406. Hriktu opnut hlið
á hjarásum
öll; en þjóð þusti
at þjóðvígum,
fáka foríngjar
ok fótgaungumenn;
hvarflaði herglaumr
at himinskautum.
407. Stendr hár hóll
hermúrum nærri,
víðsýnn ok einn sèr,
á vallar grundu,
má hann umhverfis
allan renna;
kalla bjaðar börn
Batíeu;
en ódauðlegir
uppheimsbúar
kveða dauðadys
darra meyjar
Mýrínu, á stökki
meginlèttrar.
408. Þar mundu Tróar
tírargjarnir
ok bandamenn setja
böðfylkíngar.
409. Rèði Tróverjum
týhraustr verr,
Hektor, hróðmögr
inn hjálmkviki
Brjáms ins böðvísa,
at borgmúrum;

fylgdu fylkis nið
flestir ok beztir
málmþíngs meiðar
at morði fúsir.
410. Dardanum rèði
döglíngr fagr
Eneas, alinn
Ankísesi.
411. Þann lèt alinn
Afrodíta
Ankísesi frægum,
á Ídu hálsum;
lagðist gyðja ljúf
á láði fjalla
megi með
moldbúenda.
412. Rèði-t þó einn
öldum skati;
rèðu arfar tveir
Antenors með,
Akamas
ok Arkelokkus,
garpar gagnvísir
of göll hverja.
413. En þeims Seleiu
sveitir byggðu,
Ídu undir
aðalmúlum,
(váru rekkar þeir
ríkir næsta),
at Esepusár
iðdökkri lind:
414. Þeim rèði lofsæll
Lýkáons arfi,
Pandarus hraustr
ok prúðlundaðr;
gaf honum sjálfr
silfrbogvaldr

Appollon ý
úrsvignæman.
415. En þeims Adreste
ítrir byggðu,
ok at Apesus
áttu heima,
Ferju tindfjalla
tírargjörnum,
ok Pitýu
prúðum þjóðum:
416. Þeim rèði Adrastus
ok Amfíus,
lofðúngr lofsæll
línbrynjaðr;
þeir váru mildíngi
Merópi bornir
Perkótu frá
prúðir arfar.
417. Var Meróps
moldbúenda
gæddr allra mest
mærri spávísi;
nè niflúngr
niðjum leyfði
at morðsvárum gánga
mækisleiki.
418. En þeir hilmi
hlýða gerðu-t;
hèldu heldr at
hjörva dunum;
því feigðar nornir
ferligar knúðu
hildínga horska
at heljarþröm.
419. En þeims Perkótu
ok Praktíon
borgir mundu
byggja kríng um,
ok at Sestusborg
ρ. II, 827-846.

sitja náðu,
Arisbu helgri
ok Abýdus:
420. Þeim mundi horskr
Hýrtakusar
arfþegi
Asíus ráða;
drógu dreyrrauðir
döglíng fákar
Arisbu frá
ok undra-stórir,
Selleis frá
svölum unnum.
421. En Hippoþóus
hildíngr rèð
Pelasga drótt
dörrum vanri,
ok þeims Larissu
láðfrjóva byggðu;
þeim rèði horskr
Hippoþóus.
422. Rèð þeim ok Pýleus
prúðlundaðr,
Aresar alinn
afspríngr mærr;
váru lofðúngar
Leþuss niðjar,
tiggja Pelasga,
Teiftams arfa.
423. Rèðu Þrökum
þeinglar frægir
ítr Peiróus
ok Akamas;
þeir hafröstum
Hellu-ála
bægjast beimum frá
bjaðar öðrum.
424. Bauð Evfemus
yfirstýrir

knáum Kíkónum
kesjurömum;
sá var týframs
Trözens mögr,
gylfa Keass
goðborins arfa.
425. Rèði Pýraikmes
Paióna sveitum,
þeirs boga bjúgan
benda kunna,
fjörrum láðum frá,
þars fold víða
Amýdóns vætir
Axíons straumr;
kveða þegnar þær
Þrúðvalds brúði
fegrstar væta
fjallalindir.
426. En Pafflagónum
Pýlemenes
brínguloðinn bauð
böðvar skati,
Enetum frá,
þars ýtar kveða
verða stóð alin
villumúla.
427. Þeir Kýtóru
kníar byggðu,
ok Sesams svörð
svásan örðu;
þeir at Parþens
prýðistraumi
áttu alfrægar
aðalborgir:
Krómnu ítra,
ok Egíalus,
ok jarðar-leiti
Erýþína.
428. En Alizónum
p. II, 846-865.
Odíus bauð,
ok Epístrófus,
frá Alýbu,
fjörrum láðum frá,
þars fold elr
iðgrátt silfr
í aur-kviði.
429. Rèðu Mýsum
mildíngar tveir,
Krómus ágætr,
ok Ennómus,
fugla forsagnir
fremst vitandi;
mundi-t þó mildíngi
mærum bjarga
feigðarnornum frá
fyrirvísi.
430. Því at fótfrás
und fylkis mundum
öðlíngr deyði
Eaks-niðja
árstraumi í,
þars Akkilleifr
Tróum bana bjó
bráðan mörgum.
431. Rèðu Frýgum
Forkýs ágætr,
ok Askaníus
jólnum glíkr;
váru allfjarri
frá Askaníu;
þráðu manna morð
móðhugaðir.
432. Buðu Meónum
Mestles frægr,
ok Antífus
ítrfagr;
váru teitir burir
Talemeness;

Limna grami gat
Gýgar vættr.
433. Rèðu Meónum
mildíngar þeir,
Tmólus frá
tinda riðum.
434. Bauð niflúngr
Nastes Körum;
þeir máli mæla
mest ókunnu;
þeir Míletus
menn of byggðu,
ok Feiru-fjall
fagrlimat.
435. Ok at Meandrs
mærum straumi,
ok at Mýkals
megintindum;
rèðu öldum þeim
Amfímakkus
ok Nastes niflúngar,
Nómíons arfar.
436. Gekk Amfímakkus
óvitrum hug
gulli gagnbúinn
at gunnar dunum,
eins ok mær meyja;
nè þó mildíngr
glapinn gulli lèt
grimman dauða.
437. Því at fótfrás
und fylkis mundum
öðlíngr deyði
Eaks-niðja
árstraumi í;
en Akkilleifr
böðramr buðlúng
baugum svipti.
438. Rèðu lofðúngar
Lýkíumönnum:
Glákus sigfrægr
ok Sarpedon,
fjörru láði
Lýkíu frá,
þars Xanþus höfgri
hverfir iðu.

# ÞRIÐJA KVIÐA.

En er seggja
sveitir váru
fylkíngum festar
ok fyrirliðum,
þá svifu Tróar
tírargjarnir
glym gjallanda,
gnýdimmum þys,
sem fljúga fuglar
fiðrvarðir.
2. Sem himinn hljómar
hauðri ofarr
trana-fjöld fyrir
flugglymjandi,
er þær regnskúrir
ok reginhríðir
flýja, ok ferliga
frera-bylji.
3. Fljúga fuglar þá
at fallstraumum
umferðar iðu
jörmungrundar;
dauða dvergþjóðum
dapran búa,
verpa urðardrótt
aldrtila;
svífa nærr ok nærr
ok neyð færa,
morð ok mæðu
at morguns ári.
4. En Akkverjar
á fram svifu,
þögn var at þjóðum,
þrúnginn sefi,
svall móðr svárr
sigjöru lýð,
at hvárir öðrum
at hjálp veittist.
5. Sem bregðr vindr
á bjarga rið
svifinn suðri frá
svartri þoku,
þá er hirða lítt
hugum fróar;
lýzt þjófum ljúfari
en lágnætti;
6. Þá er seggir sjá
sjóndeildar hríng,
þars at fold fellr
framþeyttr steinn:
7. Þannig þeyttist upp
þyrilsveipr
dusts dynfara
und dreingja fetum;
svifu sóknþjóðir
snarliga fram,
ok megin-móðgir
morðvöll tráðu.
8. En er halir hart
hvárir aðra
naðels nálguðust
ok nær geingust,
gekk fram buðlúngr
fyrir Brjáms liða,
Alexandr
jólnum glíkr.
9. Hafði hildíngr
á herðum sèr
pardus prúðhærða
prýðikápu;
búinn ýboga
ok björtum hjörvi

ρ. III, 1-18.

frammi fylkir stóð
at fylkíngum.
10. Dúði döglíngr
darr eirrekin
mærum mundum tvö
meginfagr;
manaði mærínga
at mímúngs leiki
Akkverja ítrasta
ok iðstyrkasta,
at seggir sèr
sækti móti,
ok þúnga þreyttu
þrúðar rimmu.
11. En er Menelás
móðhugaðr
*fagran* fylki sá
*frammi* standa
*fylkíngum* fyrir
fólkvaldenda,
rennanda röddu
yfir rómu-veingi:
12. Gladdist ítr þá
Atreifs mögr,
sem að drjúgri bráð
dýr it óarga,
dýrsskrokki stórum
ok stæðiligum,
13. Er þat hjört hremmir
hornvaldanda,
eðr húngrat hafr
hitta getr;
etr vargr vel,
alls vindskjótir
hundar elta
ok horskir sveinar.
14. Svá mundi Meneláss
munr kætast,
er hann ítran leit

ϱ. III, 18-36.

Alexandr,
ok öðlíng iðfagran
augum leiddi.
15. Hugðist hilmir
hefnd at veita
guma glysmálgum
ok grimman dauða;
stökk á storð niðr
stillir ofan
vápnum varinn
af vagnhveli.
16. En er Alexandr
jólnum glíkr
fremst at fylkíngum
fólkskata leit,
þá varð hjarta hans
hræðslu sveipat,
glúpnaði munr
í geðknerri.
17. Hopaði halr,
ok í hölda sveit,
at hann feigð flýði,
fremst sik duldi.
18. Eins ok þá gumi
grafvitni lítr
afdal í
eitrfáinn;
hopar á hæl þá
hræddr gumi,
verðr at legg ok lið
lostinn skjálfta;
snýr seggr aptr,
nè sækir leingra,
en dreyri hverfr
af dreings kinnum:
19. Eins mundi ítr
Alexandr
aptr í sveit
ýta hopa,

Tróverja til
tírargjarnra;
óttaðist ágætan
Atreifs niðja.

20. En er Hektor leit
hugblauðan ver,
mælti mæríngr
meiði-yrðum,
illum orðum
eljunsárum:

21. „Heyr, Paris, illu
alinn heilli,
manna fríðastr
fyrir mold ofan!
friðill freklyndr
fljóða hverra!
glópr glysmáligr
við gulls selju!

22. „Vilda-k, at aldri
þú alizt hefðir!
attu ókvæntr
eyðast knættir!
vilda-k þat víst,
at væri svá;
mundi þægra þat
þegnum verit,
en at þannig þú
þjóða hræsi
ok athlægi yrðir
annarra manna“.

23. „Munu Akkverja
ýtar snjallir
hárprúðir hlæja
ok hæða þik,
er þeir þik hugðu
hraustan vera,
alls þú fagr ert,
at fólksveitum“.

24. „En hjarta þitt er

p. III, 36-54.

hræðslu sveipað;
máttlaus ertú,
ok móði sviptr“.

25. „Hve hefir slíkr
halr þorat
of haf at halda
hèlugbarða,
kvatt til farar
knía hrausta,
erlendra ýta
átthaga til?“

26. „Hve hefir slíkr
halr, sem þú,
konu kinnfagra
frá köppum numit
fjarrum láðum frá,
ok fólkramra
bragna tekit
brúði ljósa?“

27. „Föður þínum til
feikna harma,
lýð ok láði til
leiðrar mæðu,
fjandum frekum til
fremstrar gleði,
en sjálfum þèr, slinni!
til smánar-hóta“.

28. „Þorir-at þú nú,
þrjótr, at bíða
Menelásar
ins morðvana.
Veiztu, inn meinragi,
hvat manni var,
er þú ítra namt
eigin-rúnu?“

29. „Ljær-a lið þèr
in ljóðsæla
gígja, nè gjafir
gyðju frygðar,

nè hár it fagrfá
ok fegrð hver,
er þú lágt liggr
í láðryki".

30. „Er nú liðum Brjáms
brostinn hugr;
mundir þú ella,
inn móðvani,
steini orpinn
á storð liggja,
fyrir böl bragna,
er þú búa rèðst".

31. Aptr annsaði
Alexandr
öðlíngi mærum
inn ítrfagri:
„Hektor, er þú mik
hrópi kvaddir,
víst at verðúngu,
ok vánum eptir".

32. „Er hjarta æ,
öðlíngr, þitt,
sem öx iðhörð,
ómáandi,
sú er eyðir ótt
eikar- viði,
ok gegn um geingr,
und guma höndum",

33. „Þess er trè telgir,
ok timbr höggr,
er hann sævar svan
svartan reisir;
en þúng þveita
und þegns mundum
reitt högg rekr,
at riðit fái".

34. „Þannig er lund þèr,
þjóðar skati,
harðmóðig hvívetna
í hjarta lagin;
en lastaðu ei, lofðúngr,
ljúfar gjafir
unaðríkrar
ástagyðju".

35. „Er því eigi
ágætligum
gjöfum guða
á glæ kastanda,
er þeir gumum gefa;
en gumum sjálfum
gefst ei, þó girnist,
gæfu at taka".

36. „Nú ef girnist þú,
niflúngr, sjá
mik at málmþrymu
mæki beita,
þá muntu seggi
setjast láta,
Akkverja alla,
ok öld Tróju".

37. „Mik í miðju set,
ok Menelás,
vápnum vanan
vísi þjóða;
báðir skulum berjast
of it bjarta man,
ok of glóanda
gull it rauða".

38. „En sá er svásan
sigr vinnr,
ok efri verðr
at vápnleiki:
veitist honum vel
vala-málmar,
heim svá haldi
með hrínga selju".

39. „En aðrir þèr
eptir sitjið,

p. III, 55-73.

at eiðum unnum,
í aldar friði,
ok Trója byggit
tírargjarnir,
frjóvan og fagran
fjörgynjar beð".
40. „En halir hinir
halda skulu
aptr at jó-auðgu
Argos-láði,
ok átthaga
Akkverja til,
þars fljóð fegrst
á fold búa".

---

41. Mælti hann svá;
en móðhugaðr
gladdist Hektor mjök,
er hann mál heyrði;
hepti fylkíngar
fölvis reyna,
ok á miðjan fram
morðvöll gekk.
42. Greip gramr hendi
um geir miðjan;
sefuðust sóknharðar
sveitir þegar;
en Akkverjar
af ýbogum
hárprúðir hilmi
hremsur sendu.
43. Stefndu stálbryddum
stúfsvaldendr
gögnum ok grjóti
at grami frægum;
en Agamemnon
alda stýrir
hávum hreifa nam
herði-rómi:

ρ. III, 73-90.

44. „Stöðvit, Argverjar,
æði munar;
sendit grjót ekki
nè gögnflaugar;
stendr því stillir
studdr geiri,
Hektor hjálmkvikr,
vill við her mæla".
45. Mælti svá mildíngr;
en málmþíngs boðar
hættu herleiki,
ok hljóðir urðu
at bragði þegar;
en böðstyrkr
her hvárn við
Hektor mælti:
46. „Heyrit mèr, Tróar
tírargjarnir,
ok bragnar akkneskir
brynhosaðir!
hvat ítr mælir
Alexandr,
sá er víg vakti
ok valdöggvar".
47. „Býðr hann Tróum
týfrömum öðrum,
ok öllum Akkverja
alda sveitum,
at þeir vápn fögr
framla leggi
frjóvan ok fjölblómgan
á foldar þröm",
48. „At sjóli sjálfr
síðan megi
ok Menelás
inn morðvani
miðjum á
mæki reyna
vápna velli,

ok vísar sjálfir
Helenu um
ok auð berjist".
49. „En sá er svásan
sigr vinnr
ok efri verðr
at vápnleiki:
veitist honum vel
vala-málmar,
heim svá haldi
með hrínga selju".
50. „En aðrir vèr
vinir gerumst,
at eiðum unnum,
í aldar friði".
51. Mælti svá mildíngr;
en *málmþíngs* boðar
*hljóðir* urðu
*á* hervelli.
Mælti þá í sveit
siklíngr frægr
Menelás
inn málrómsterki:
52. „Heyrit nú ok mik,
hjörva þjóðir,
alls minn huga helzt
harmr þjáir;
hygg ek at herleikr
hætta megi
Akkverja ok Tróa
tírargjarnra".
53. „Hafit því þèr
þúnga harma
þolat þrautgóðir,
ok þrautir beðit,
af ramri rimmu
ráða minna
ok Alexandrs,
er jöru vakti".
ρ. III, 91-110.

54. „Bíði bana sá,
er brádimmar
feigðarnornir
feigan kjósa;
en ýtar aðrir,
at öllu sáttir,
hætti sem skjótast
hildi síðan".
55. „Leiði nú lömb
lýðir hinnig,
annat hvítt, annat
ullu svartri,
Fjörgyn at fórn
ok fagrahvels ás;
munum Seifi vèr
sækja annat".
56. „Sækit ok Brjám
buðlúng híngat,
at sjóli sjálfr
setji eiðstafi;
eru því arfar
aldins vísa
seggir svikráðir
ok svalbrjóstaðir",
57. „At ýta eingi
eiðum spilli,
nè tryggð rjúfi
ok trúnað eyði;
er því úngum æ
eimnis reynum
á hveli hverfanda
hugr laginn".
58. „En ef aldinn er
með öldum halr,
mun hann sjá, þats var,
ok þats verða mun,
hversu hugkvæmast
hlutir falla,

eiðvinnendum
til yndis báðum“.

59. Mælti svá mildíngr;
en í mun glöddust
Akkverjar ok Tróar
tírargjarnir,
er þeir hugðu
ok í hug væntu,
at eyddist eymdir
eimnis hríða.

60. Hèldu halir þá
höstum fákum
í röð, ok rekkar
af reiðum stigu,
klæddust málmi úr
meginþúngum,
lètu vápn á völl,
váru þètt saman,
ok svigrúm sárlítið
sveita milli.

61. Sendi Hektor þá
herkallara
tvá til böðstyrkra
Brjáms hermúra;
at sauði sækti,
ok siklíng aldinn
bæði Brjám svífa
böðþjóða til.

62. En Agamemnon
alda stýrir
Talþýbíus sendi
inn týframa,
at hann at húfhveldum
hrannar dýrum
svifi, ok sauði
sækja knætti;
nè óhlýðinn var
ítr gumi
orðum allvalds
Agamemnons.

---

63. Hvarf til Helenu
af himinstöðvum
Íris, alfagrs
unaðsvanna;
var veglig gyðja
at vexti glík
arfa Antenors
eigin-rúnu,
Láodíku,
þá er lofðúngr,
hróðmögr Antenors,
Helíkon átti.

64. Sú var sifkona
svásrar Helenu,
björtust alin
Brjáms dætra;
hitti hún Helenu
í herbergi.

65. Hafði uppi
háborin frú
vef vandaðan,
ok vefa knátti
skikkju skrúðfagra,
skrautlitaða,
ofna purpura
prýðilegum.

66. Dreifði fögr drós
dýrðar gliti
dreyrgum á dúk
darra leiki
Tróa fákvaldra,
ok tírargjarnra
alda Akkverja
eirserkjaðra,
þeim er þjóðir
þreyta hlutu

ρ. III, 110-128.

und herguðs höndum,
hennar vegna.
67. Nærri standandi
námdúks hildi
mælti þá Íris
in iðjaskjóta:
68. „Gakk hinnig, göfug
goðborin frú,
attu undrsjón
augum leiðir,
tryggðir Tróa
týfákvaldra,
ok Akkverja
eirserkjaðra“.
69. „Þeirs fyrr váliga
veita knáttu
hvárir öðrum
*hildi* társa
*hervelli* á,
ok helzt of vildu
dýja darr
at dreyrgum undum“.
70. „Sitja nú þöglar
Sviðris þjóðir;
hættr hljómþytr
hjörva veðrs;
standa studdir nú
sterkum hlífum;
eru fleinar festir
í foldarþröm“.
71. „En Alexandr
ok ítrfrægr
Menelás,
inn morðvani,
vilja laungum nú
vigrum berjast,
hvárr þik hljóta skuli,
haddfagrt man!
Svá mantu sögð,
þess er sigr fær,
ljúfust beðja
lögðis reynis“.
72. Mælti svá gyðja,
ok mærum svanna
vakti saknaðar
svása laungun
eptir ýtrum ver,
þeim er áðr naut,
ok foreldrum eptir
ok föðurborg.
73. Bjó sik brúðr
blæju smágjörvri,
silfrglitranda
snjóvi glíkri;
hvarf hilmis kván
úr herbergi;
hrundi hvarmdögg
at hlýrum ljósum.
74. „Var-at hún ein:
henni fylgdu tvær
þekkar úr sal
þjónustumeyjar:
Eþra, prúðlynds
Pítþeifs dóttir,
ok Klýmena
in konúngeyga.
75. Komu skjótliga
skýrar hrundir,
þar er Skæhlið
skulfu á hjörum.
76. Sátu seggir
sveita elztir
at Skæhliði,
skatar þjóða:
Brjámr, buðlúngr
borgar Tróju,
Panþóus knár
ok Klýtíus,

ρ. III, 128-146.

77. Ítr Lampíus,
ok ættstafr
Aresar ágætr,
Íketáon,
Þýmöytes jöfurr,
ok Úkalegon,
ok Antenor
inn ágæti;
váru báðir þeir
bragnar öðrum
fremri at forsjá
ok fyrirvísi.

78. Váru hættir þeir
hildar leiki,
alls þeim elli
aptra náði;
váru þó vitrir
at vígráðum.

79. Váru þeir áþekkir
eingisprettum,
fögru laufi í
fagrlima:
sitja ok sýngja
ok at sjótar eyrum
leiða ljúfan eym
liljusvásan.

80. Sátu þannig
sjótforíngjar
á turni hám
Tróju múra;
en er þeir litu
ljósa brúði,
Helenu, hverfa
at hervirki,
þá mælti einn hverr
annan við
hægt ok hljóðliga
hröðum orðum:

81. „Eigi eru undr,

p. III, 146-165.

þótt Akkverjar
brynhosum búnir
ok Brjáms liðar
of svanna slíkan
sókn of þreyti,
ok eymd ali
aldr lángan“.

82. „Er því brosfögr
brúðr næsta
ódauðligum lík
uppheims gyðjum;
en þótt fögr sè hún
ok fremst kvenna,
þá skal hún árna
at ægis ljónum;
nè hún várra
niðja verði
illt aldrtjón,
þá er aldir líða“.

83. Svá mundu mæla
mildíngar aldnir;
kvaddi hilmir hár
Helenu síðan:

84. „Líð hinnig, ljúfa mín!
ljósfagrt man!
sezt hjá mèr sæl,
svása dóttir,
attu sifjúnga
sjáir ok vini,
ok þanns fyrri var
framligr verr“.

85. „Ert-at-tu minna
meina um völd;
eru guðir valdir
ódauðligir;
vöktu vísar mèr
veldis himna
iðspjöll altárug
Akkverjum mót“.

86. „Seg mèr nafn, svanni,
sókndreings þessa,
sá er stendr þar
stórr um vaxinn;
er hann öðlíngum
Akkverja með
vænn ok vaskligr
á velli at sjá“.

87. „Ok þótt aðrir sè
öðlíngar honum
vexti hærri
með hersveitum,
aldrei augum þó
annan leidda-k
fríðan ok fagran svá
ok fyrirmannligan;
er hann all-líkr
*öðlíng*menni“.

88. Svaraði siklíngi
sjónfagrt man,
Helena, horskust
hauðrs drósa:

89. „Ertu ætíð mèr
öllum hærri,
ok virðíngar verðr,
vers míns faðir!
vilda-k valinn mèr
vándan dauða,
ok faðmlög ferlig
feigðar dísa,“

90. „Þá er ek ítrum
arfa þínum
fremst of fylgdak
af fóstrláði;
þá er ek bjóst
úr brúðsölum,
og fyrir lèt
frændr mína;“

91. „Ok barn mitt, blíðvarit

p. III, 166-184.

bríma ástar,
ok jafnöldrur,
er ek unna fremst.
Mundi-t þá eymd þessi
öldum þjaka;
renn ek því raunmóð
römum tárum“.

92. „Þèr mun ek, gylfi,
gerst of segja,
alls þú spyr mik
ok eptir frèttir:
er öðlíngr sá
Agamemnon,
allvaldr alþjóðar,
Atreifs niðr“.

93. „Fremstr er fylkir
fólknárúnga,
fremstr fólkefldra
fölvis reyna.
Var hann mágr minn,
meinráðs svanna,
meðan Menelás
minn var bóndi“.

94. Mælti hún svá;
en mildíngr
öðlíng undraðist,
ok orð um kvað:

95. „Sæll ertu, ágætr
Atreifs niðr!
goðheillum góðum
á grund borinn!
haldinn hamíngju
hauðri ofarr!
Víst ertu, vísi!
vígmæringa
akkneskra margra
yfirstýrir“.

96. „Fór ek ok fyrrum
at Frýga láði,

völlum víngróða
vöxnum mærum;
fann ek Frýga þar
fjölmennasta,
rekendr röskva
reiðarbríma“.
97. „Váru lýðir þeir
lofðúngum háðir
Ótreifi, ok Mýgdoni
meginfrægum;
lágu hildíngar
herbúðum í
at Saungár-bökkum
svarðar-gljúpum“.
98. „Var ek mækis með
mærum reynum;
lèða-k liðveizlu
lýðum þeima;
þat var tíð þann,
er þrymvanar
svifu skjaldmeyjar
á skilfíngs eingi“.
99. „Váru þó hvergi
hersveitir þær
fráneygum glíkar
fyrðum þeima“.
100. Sá sjóli at þat
siklíng frægan
Odysses, ok fremst
of frètta nam:
„Seg mèr, svás dóttir,
hver sá muni;
nefn mèr ok nafn
niflúngs þessa“.
101. „Er hann lægri
at líkams hæð
Agamemnoni
Atreifs niðja;
eru herðar beims
þ. III, 184-203.
breiðvaxnari,
brínga breiðari
en á böðvaldi“.
102. „Liggja vápn lagin
á láðvelli
fögrum ok frjóvum
at fótum niðri;
en sjálfr hann
sem hornglói
gegn um gumna sveim
greiðla þýtr“.
103. „Jafna-k jöfri þeim
jöru kunnum
ofrhyrníng við
ullarsælan,
þeim er fjár-sveima
svífr gegn um,
fjöld fannhvíta
fríðra sauða“.
104. Svaraði siklíngi
Seifi borin
Helena, horskust
hauðrs drósa:
105. „Sá er lofðúngr
Laerts arfi,
Odysseifr
inn ítrráði,
sá er Íþaks-ey
alit hefir,
hauðr háfjalla
hömrum varit“.
106. „Sá veit vísir
vèlráða gnótt,
slægastr manna
fyrir mold ofan“.
107. Svaraði aptr
svanna mærum
Antenor
inn eljunprúði:

108. „Rètt mundir þú,
ristill, mæla,
ok orð ólogin
þú inna knáttir;
því at Odysseifr
inn ítrfrægi
hafreiðum hèlt
hinnig áðr“.

109. „Hèlt hann þín vegna
hèlugbarða,
ok Menelás
inn meginprúði;
gista-k grami
gestbeinliga;
veitta-k vísum
at vegsölum“.

*110.* „Knátta-k kynnast
*konúngum* báðum
ásýndum at
ok ítrspeki“.

111. „En er Tróum með
tírargjörnum
svifu siklíngar
at sjótþíngi,
þá var Menelás
inn meginprúði
hærri at standendum
herðabreiðr;
en at sitjendum
sjólum þótti
fylkir Odysses
fyrirmannligri“.

112. „Ok er ypptu þeir
fyrir eyrum sveita
rökum ráðdjúpum
ok ráðspeki,
mælti Menelás
mildíngr þá
skjótt ok skapliga,
en þó skýrliga“.

113. „Fór orðum fám
fremst of snjöllum,
nè margmáll
mildíngr var;
gætti gagnorðr
greinar sinnar,
þótt hann at aldri
ýngri væri“.

114. „En er Odysses
inn ítrráði
reis upp reistum af
ræðu-stóli:
stóð stillir æ,
ok á storðu leit;
festi fyrst sjónir
á foldar þröm“.

115. „Veifaði-t vísir
vendi helgum
hinnig og þinnig
í höndum sèr;
hèlt grafkyrrum
gramr sprota,
var guma glíkr
greinar-vana;
halda mundu halir
hilmi vera
mann magnreiðan
eðr megin-heimskan“.

116. „En er ræðu rödd
renndi mildíngr
eljunar landi
iðsvinnu frá,
iðaði orðgnótt
undrsamliga,
sem snjár svífr
frá svölum himni“.

117. „Þá skyldi eingi

ρ. III, 204-223.

Odysseifi
þreyta mun móti
moldbyggjenda;
nè oss furða
framarr virtist
lofðúng at líta
at lýðsveitum".
118. Leiddi augum enn
aldinn skati
þjóðvald inn þriðja,
þrymsterkan hal,
Aiant, ok enn
eptir frètti:
119. „Hverr þar annarr er
öðlíngr sá
mikill vexti
ok mannvænligr?
Hreykir hávaxinn
höfði ofarr
Akkverjum öllum,
ok öxlum breiðum".
120. Annsaði öðlíngi
ágæt brúðr,
svanni seifborinn,
síðmöttlaðr:
121. „Aiant þat er
inn ógnrami,
morðmúrr Akkverja
meginstyrkr;
en á hönd aðra
Ídomeneifr
stendr konúngr
at Kríteyíngum".
122. „Eru safnaðir
sjóla kríng um
kappar Krítar
knáir næsta;
gisti opt mildíngr
at Menelásar,
ρ. III, 223-242.

oru at inni
á Argos-láði,
þá er karskr kom
frá Krítar-eyju".
123. „Sè ek alla aðra
öðlínga nú,
fráneyga fíra
fóstrjarðar;
veit ek alla vel,
ok vísa nöfn
kann ek, konúngr,
kær at telja".
124. „Má ek þó eigi
mildínga tvá
augum leiða
eljunprúða:
mák-a ek mæran
móðnis þreyti,
Kastor, líta,
nè knefastyrkan
Polýdevkes
inn prúðlundaða,
sjóla sammæðra,
sifa mína".
125. „Eðr hvárt hèldu ei
hildíngar frá
láðfrjóvu láði
Lakedemónar;
eðr hèldu þeir
hèlugbörðum
yfir hafs hrannir
at hauðri þvísa?"
126. „Eðr vilja nú
vísar eigi
fólkvíg fremja
ok fölvi reyna,
alls fólkskatar
fyrirverðast,

er ek illri smán-
orpin vark“?
127. Ræddi svá ristill;
en röskvir sjólar
fálust frjóvu í
foldar skauti;
þeim í láðfagri
Lakedemón
fróaði faðmr
fóstrjarðar.

---

128. Fóru kallarar
um konúngs borg;
báru týhelga
tryggðar eiða:
lömb tvö, ok ljúfan
láðvegs gróða,
*gómsætar* gullveigar
í geitbelgi.
129. En Ídeifr
ítr kallari
vínbikar bar
birtu fáinn;
ok gulli glæstar
gumi hreifði
helgum höndum í
heita skálar.
130. Stóð at öðlíngi
aldri vorpnum,
hvatti hilmi
hröðum orðum:
131. „Rístu upp, lofðúngr,
Láomedons niðr!
kalla karskastir
kesju reynar,
Tróar fákfrægir,
ok fólkumvön
eirbrynjaðra
Akkverja sjót“,
ρ. III, 242-260.

132. „Attu at sveitvelli
svífir niðr,
ok böðþjóðir
bindist tryggðum;
en Alexandr
ok öðlíngr
Menelás
inn morðvani
munu svásan um
svanna berjast
lensum laungum
á láðvelli“.
133. „Skal hrund fylgja,
þeim at hjaldri sigrar,
gull ok gersemar,
ok gildir aurar;
en vèr aðrir
munum eptir sitja,
at eiðum unnum,
í aldar friði;
munum Tróju byggja
meginfrjóva“.
134. „En halir hinir
halda skulu
aptr at jóauðgu
Argos-láði,
ok átthaga
Akkverja til,
þars fljóð fríðust
á fold búa“.
135. Mælti hann svá;
en mildíngi
hrollr skelídi
hugar sæti;
bauð sveinum sjóli
silfrtoppum
rennivökrum
fyrir reið beita.
136. Hlýddu hilmi þegar

horskir sveinar;
stè ræsir at þat
á reiðar sæti;
tók í tauma
at teygðum streing
ok at sèr dró
dróttar vísi.
137. Settist Antenor
hjá öðlíngi
hávan hástól á
hvelsvífanda;
hèldu hildíngar
at hervelli
fákum skeið-skjótum
um Skæju-hlið.
138. En er konúngar
of komnir váru
öldum Trója at
ok Akkverja,
renndu sèr ræsar
af reiðum niðr,
á foldveg frjóvan
falinn blóma;
svifu týframir
Tróa milli
ok Akkverja
eljunprúðra.
139. Risu upp rökstjórar
reginvaldir:
Agamemnon
alda stýrir
ok Odysseifr,
allra fremstr
siklínga snjallra
at slægvizku.
140. Geingu göfgir
guma kallarar;
banda blíðra
báru eiðstafi;
blèndu bikar í
björtum veigum;
helltu vatni á hendr
hildar stjórum.
141. Dró Agamemnon
yfir-stýrir
blótsveðju beitta
úr bandhlífum;
hèkk æ eggsár
eimnis systir
at siklíngs hlið
hjá sverðskeiðum.
142. Sneið siklíngr
af sauða höfðum
eiðtoppa alhelga,
ullarmjúka;
en kallarar
kappa stjóra
deildu toppum þeim
dýrstra milli
Akkverja ok Tróa
tírargjarnra.
143. Fórnaði höndum
fólka jaðarr,
Atreifs arfi
Agamemnon,
ok fremst um bað
at frömdum eiði:
144. „Allföðr af Ídu
öld stýrandi,
öllum efri
aldar vèum!
ok Helíus,
þú er hvervetna
augum leiðir allt,
ok allt of heyrir!“
145. „Jörð ok iðuföll
jörmungrundar!
alstyrkir jaðrar

undirheima,
þèr er dauðra at
dæmit vèum
menn meinsvara,
þótt moldu hyljist!
146. „Verit váttar nú,
vísar ríkir!
ljáit yðra vernd
várum eiðum!“
147. „Ef Alexandr
ítrfrægan
Menelás
mæki vegr,
þá skal hildíngr
Helenu fá,
ok iðgnótt aura
alla *taka*“.
*148.* „Höldum vèr þá heim
*hèlugbörðum*
bekkjar blárastir
báru þrúngnar“.
149. „En ef Alexandr
aldrtjón býðr
bleikhárum fyrir
blóða mínum,
þá skulu Tróar
tírargjarnir
Helenu skila
ok skírum meiðmum.
150. „Skulu þeir Argverjum
einnig veita
smánar-bætr,
þær er sæma þykkir,
at viðreign vár
verða megi
nefnd með öldum æ,
ok uppi vera“.
151. „En ef Brjámr
ok Brjáms niðjar
synja mèr slíka
sæmd at veita,
ef ítr fellr
Alexandr
fyrir mærum mundum
Menelásar“,
152. „Þá mun ek þreyta
þrimars leika,
ok of smánar-bót
sókn of drýgja;
hèr mun ek dvelja,
ok darri veifa,
uns ek enda sèk
ímunveðra“.
153. Svá mælti sjóli,
ok sauðkinda
brá á barka
beittri sveðju,
lagði lömb niðr
at láðvegi;
en þau sprikluðu
sperrtum fótum,
þá er lamba líf
leið úr brjósti,
því at eirr eyddi
andartökum.
154. Skvettu skatar
úr skaptkeri
víni skæru af
skálum gullnum;
báðu bragníngar
bænum heitum
jólna allvalda
æverandi;
mundi margr þá
at morðsveimum
Akkverja ok Tróa
orð um kveða:
155. „Seifr, öllum efri

ρ. III, 279-298.

aldar vèum,
ok guðir aðrir
ódauðligir!
eins ok lagar nú
láðvelli á
heili svæfðra
sauðar-kinda,
ok eins ok veigar
um váng renna“:

156. „Látið segg svá deyja,
þann er sinnir eigi
eiðum, ok fyrri
eiðspjöll rýfr;
sjálfan hann afmáit
ok ættarbaðma,
ok fjandr fláir
fljóð hans nemi“.

157. Mæltu þeir svá;
en meginráðr
eigi heyrði þá
uppheims vísir;
mælti þá Brjámr
inn böðsnjalli,
Dardani getinn,
at dólgsveitum:

158. „Heyrit mèr, Tróar
tírargjarnir,
ok bragnar akkneskir
brynhosaðir!
Held ek nú heim
um hæl aptr
allhárri at
Ilíonsborg“.

159. „Mák-at ek því
mínum leiða
augum ítran
ástsælan mög,
þá er hann móti
inum morðvana

ρ. III, 298-316.

mæki reynir
Menelási“.

160. „En Seifr veit,
ok sigtívar
upphimins aðrir
ódauðligir,
hvárn feigðarnorn
faðma muni,
döprum darraðar
dauða-tökum“.

161. Mælti svá ræsir,
ok á reiðar stól
lömb nam at láta
lofðúngr mærr;
stè upp at þat,
ok jótauma
at sèr endlánga
allvaldr dró.

162. Settist Antenor
hjá öðlíngi
hávan hástól á
hvelsvífanda;
hèldu hildíngar
á hjólsætum
aptr ítrir at
Ilíonsborg.

---

163. Stikuðu nú stað
stúfsvaldendum,
einvíg at þreyta
æði þrúngit,
Hektor hjálmkvikr
hróðmögr Brjáms,
ok Odysseifr
inn ítrráði.

164. Hristu hluti
halir síðan
ægi í of þat
eiri vörðum,

hvárr skyldi fyrri
fíra þeirra
morðgeir málmvarinn
úr mundu knýja.
165. Hófu bragnar bæn
buðlúnga til
himins hásala,
höndum fórnuðu;
mundu margir þá
málmþíngs boðar
Akkverja ok Tróa
orð um kveða:
166. „Allföðr, ídu frá
ofan lítandi,
öllum efri
aldar vèum!
láttu þann líða
*ljóssheimi* frá,
*ok* í Hadess heim
hverfa niðr“,
167. „Þann er með þjóðum
þrymu vakti,
ok oss um varp
illum nauðum,
en at oss verði
eiðar geymdir,
tryggðir vèhelgar
ok vinahót“.
168. Mæltu með sèr svá
málmþíngs boðar;
en Hektor hjálmkvikr
hristi luti,
snèri öfugri
ásjónu frá;
upp kom lutr skjótt
Alexandrs.
169. Settist sjót at þat
í sveitraðir,
hverr í sæti sitt
þar er sèr hverjum
fákr festr stóð
fótum-lèttr,
þars lýðvápn lágu
láðvelli á.
170. Bjóst nú björtu
Bölverks skrúði
ok of axlir varp
Alexandr,
vaxtar-fagr verr
vífs ins mæra,
Helenu haddfagrar,
hauðrs ljóma.
171. Festi fagrar
fótleggjum á
brynhosur, speingdar
björtu silfri,
bendi blóðleiku
of bríngu sèr,
átti Lýkáon,
lofðúngs bróðir,
en hjálmgöll fèll
at hildíngs limum.
172. Varpat lèt vísir
á vænar herðar
sverði sárbeittu,
silfrnödduðu,
vápni eirvörðu,
ok víðri törgu,
sterkri ok stinnri,
stillir faldist.
173. Glæstan gullíáin
gramr fagr
setti síðan
sèr á höfuð;
var hrossháris-burstu
hjálmr faldinn;
iðaði jörmunfax
ægiliga.

174. Greip geir stinnan
gramr at þat,
þann er höndum hans
hæfa mundi;
bjóst ok buðlúngr
Bölverks váðum,
Menelás
inn málrómsterki.
175. En er buðlúngar
beggja þjóða
hertýgjazt höfðu
at hersveitum,
svifu þeir snarliga
á svæðis miðju,
Akkverja ok Tróa
ítra milli.
176. Bistum brúnum
buðlúngar hleyptu,
öttu ægum
ennimánum;
furðaði fáklipra
fíra Tróju,
ok bragna akkneska
brynhosaða,
er þeir lofðúnga
líta gátu.
177. Stóðu stríðmóðgir
á stað settum,
mældum morðvelli,
mildíngar tveir;
darr of dýðu,
dólghlíf skóku,
hótuðust heiptyrðum
hræðiligum.
178. Sendi fyrri flein
fríðr sjóli
Alexandr
afarlángan;
hæfði hvelda rönd
hríngborðsjafna,
þá er ítr bar
Atreifs niðr.
179. Gekk-at þó geirr
gegn um törgu
eiri varða;
oddr bognaði
skapts á skæru
skjaldar hveli.
En Atreifs arfi
örðigr reis
hátt herværddr,
hèt á Allföður:
180. „Veit mèr nú, vísi
vegsalar heima,
at ek hefnak hróps
þess ins hermiliga;
at ek Alexandr
ítran deyðak,
er mik fjandskap varp
at fyrra bragði“.
181. „Lát nú hal hníga
fyrir höndum mínum
at ókomnar
aldir skelfist,
ok at optar ei
ýtar veiti
gestvini hverjum
gremi stríða,
er hann áðr þeim
af alúð veitti“.
182. Bað svá buðlúngr,
ok böðvar geiri
vígtrylldr veifði
at vigra leiki;
hæfði hvelda rönd
hríngborðsjafna
hlífar Brjáms burar,
bragníngs fagrs.

ρ. III, 338-356.

183. Gekk geirr stinnr
gegn um törgu
eiri efida,
ítrfáða;
brauzt í gegn um brynju
bragníngs fagra,
hagliga gjörva,
herfleins oddr.

184. Skáru skikkjudúk
skarpar eggjar
beint undir brynju
at buðlúngs nára;
en bragníngr
beygðist niðr,
forðaði fjörvi,
ok feigð of dvaldi.

185. Dró þá ítr
Atreifs mögr
sverð sáreggjat,
silfrnaddat;
hóf upp skati
ok hrotta laust
hjálmstól herkumla.
höggi þúngu.

186. Saung í sverðbrandi
und siklíngs hendi;
brast blóðrefill
brotinn sundr;
þreföld, fjórföld
at foldar jaðri
skullu sköfnúngs brot
úr skata greipum.

187. Þá varð móðakarn
Menelásar
Atreifs arfa
ekka þrúngit;
ok í sverða sorg
siklíngr leit
til upphimins
ok orð um kvað:

188. „Er-at annarr,
Allföðr, þèr
verri ok váligri
vèa nokkurr;
munda-k nú hafa
hefndir tekit
Alexandri á
fyrir eymdir mínar“.

189. „En í mundum mèr
mækir brotnaði,
stökk stúfrefill
stæltr sundr;
hrökk mèr herbrái
hölzti ónýtr
meinlauss úr mundu;
mátti-k-at hal deyða“.

---

190. Þeim kvað þeingill
þúngum orðum;
spornaði foldu fast
fótum styrkum;
þreif höndum hörðum
hástól glæstan
fjörnis faxa
feikngrúfandi;

191. Snèri sjóla við,
ok svárum móði
dró til Akkverja
eirserkjaðra;
herti hjálmreim
at hildíngi;
knúðu hvítan háls
herði-ólar
smátt saumaðar
at svíra bundnar.

192. Dregit hefði dreing
döglíngr þar,

ρ. III, 357-373.

ok sigfrægðar
sèr of feingit,
ef ei it mæra
Allföður jóð
hefði annat ráðit,
Afrodíta.

193. Brá blíðu-dís
böndum sundr,
bola böndum,
þess er bragnar skáru;
hèlt hildíngr
hjálmi tómum
(nè hauss fylgdi)
höndum styrkum.

194. Fleygði fylkir
fjörni tómum,
veifði ægi í hríng,
til Akkverja;
en hann þegar
horskir tóku
ýtar upp
Agamemnons.



195. Aptr freistaði
eljunsárum
móði Menelás
mildíng at vega
vigri eirvörðum;
en voldug gyðja
Alexandr tók
Afrodíta.

196. Var þat hölzti hægt
himins gyðju;
fal hún fríðan ver
firinmjörkva,
hann í svásan sal
setja náði,
ángan ilmanda
ítrsætri.

þ. III, 373-393.

197. Sveif gyðja síðan
svanna at kalla,
Helenu horska,
hrunda prýði;
hitti hún hana
á hávirki;
váru drósir margar
drottníngu kríng um.

198. Snerti sjafna dís
silfrglitaðar
línblæjur ljósrar
lofðúngs brúðar;
var gyðja glík
gamalli hrund,
spuna-konu
sprakka ins mæra.

199. Sú vann ullar
aldin tróða
lagða lángreifða
at Lakedemóni;
sú unni Helenu
hrunda mest;
þeirri gyðja glík
goðborin kvað:

200. „Gakktu hinnig,
it horska man!
vill Alexandr
attu inn svífir;
blundar hann á beði,
brosir hann á dúni,
dreymir hann dýrðligum
draumbríkum á“.

201. „Orpinn er öðlíngr
yndis-ljóma,
ok klæðum kostligum,
nè þú kveða mundir,
at frá hildar hríð
hafi svifit

blíðr bóndi þinn
á beðdýnu“.
202. „Mundir þú heldr
hildíng ætla
búinn með drósum
dans at stíga;
eðr hefði hann
hvíldar leitað
lèttan eptir leik
litla stundu“.
203. Mælti svá gyðja;
en mærum svanna
meirr svall móðakarn
móðgu yndi.
En er hvítan háls
himindísar
víf *it* ljósa leit
*ljóma* undinn;
204. Er hún brjóstbúngur
bylgjandi sá,
ok svásra sjónstjarna
sædjúpan hríng:
undraðist iðfögr,
ok orðum þeima
uppheims-gyðju
ávarpaði:
205. „Hví viltu glepja mik
gælíngar orðum,
gyðja grimmhjörtuð,
gremisárum?
viltu varpa mèr
víðar um jörðu,
fagrreistra til
fleiri borga?“
206. „Frýgíu til
fjóvra láða,
eðr Meóníu
munarfagrar?
áttu þar annan
ástvin, gyðja,
mærri mælandi
manna röddu?“
207. „Er Menelás
at morðleiki
sigraði ítran
Alexandr;
ok mik, mansmán,
at mildíng vunnum
flytja vildi
til fóstrjarðar“.
208. „Svífr þú til mín
slægum vèlráðum
hluta þessarra
þúngráð vegna? —
Svíf þú siklíngs til,
seztu grami hjá;
nè á glæstum gakk
goða brautum“.
209. „Stíg þú ei á stirndan
stólveg himna;
nè þú iljum troð
Ólýmps sali;
harma hans at hlið,
himindís, æ;
vertu honum hlíf
hverra rauna“,
210. „Uns hann þín of fær
at eigin-rúnu,
eðr ánauðga
ambátt gerir;
geing-at ek þinnig,
gram vil-k-at líta;
hygg ek þat sízt
hjarta sæma“.
211. „Sízt mun ek með sjóla
sæng of byggja;
munu meyjar Tróju
mik allar fjá;

hlaðast sorgir mitt
hjarta kríng um,
ótal sorgir,
er ek undin emk".

212. Reiddist bríma-björt
blásalar gyðja,
ok aptr annsaði
ítrum svanna:

213. „Reyt mik ei til reiði,
ríklunduð snót,
at ek ei æfreið
þik yfirgefi,
nè þik jafnfrekri
fjón of verpa-k,
ok nú elska-k þik
inniliga";

214. „At ek yppak ei
ægum raunum,
beysti böðþjóðir
beiskum harmi
Danáa ok Tróa
tírargjarnra,
ok þú sjálf svæfist
smánar-dauða".

215. Mælti gyðja gröm;
en goðborin
hræddist Helena;
hugr glúpnaði;
leið braut línvarin
lágims tróða
glæru glófögr
gliti sveipuð.

216. Leið á braut þegjandi
lofðúngs brúðr;
sá-at snótir,
er hún sveif þeim frá;
leið hún, en leiddi
it ljósa man

ρ. III, 412-430.

hendi hulinni
himins gyðja.

---

217. En er komu þær
Alexandrs
hárrar hallar til
hála fagrar,
þjónustumeyjar
þegar geingu
valdrar vinnu til
vilgi trauðar.

218. Gekk sólfögr
siklíngs beðja
hávan í sal,
þars hilmir lá;
en brosfögr
blíðu gyðja
sæti snjóhvítum
snerti mundum,
setti gagnvart grami
gullfagran stól.

219. Settist sæti á
siklíngs brúðr,
svanni sigtíva
sjóla borinn;
undan sá iðfögr,
ok eigin-ver
ámælis-orðum
ávarpaði:

220. „Komtu knárra frá
kappa leiki?
Vilda-k, at værir þú
of veginn þar
af fólkskata
frægum ok styrkum,
sjá var áðr minn
eigin-verr".

221. „Þóttistu áðr
þrautefldari

at afli ok at armi,
ok at iðleiki;
kvaðstu þik knárri
en konúng mæran,
Menelás
inn morðvana".

222. „Árna nú aptr,
ok öðlíng nýjan
mana morðleik í
méginraman.
En ek þèr of ræð,
inn ráðfái verr!
attu haldir eigi
at hildar leiki";

223. „Attu morðflein ei
Menelás við
bleikháran reynir
at böðvar leiki
(reikanda ráð
ræð ek slíkt vera),
at þèr jöfurr ei
aldrtila
veiti dreyrgum
darra eggjum".

224. Aptr annsaði
Alexandr
horskri Helenu,
hrunda prýði:

225. „Mátt-at-tu mik,
man it ljósa,
ámælis-orðum
illum verpa;
mundi því morðvönum
Menelási
Aþena veita
at einvígi".

226. „Aptr mun ek síðar
öðlíng sigra;
eru með oss einnig
uppheims guðir".

227. „Svíf nú hinnig, svása,
sólfagrt man!
skulum blítt búa
á beði saman;
brann-at mèr brími
í brjósti slíkr
fyrr til þín, Freyja
fagrljósa!"

228. „Eigi, þá lagða-k
frá Lakedemóni,
flutta-k þik blásvörtum
á brimdýrum;
lètum Lofn ráða,
ljúft var yndi,
sátum í sefi
í Svarfeyju".

229. „Unna-k-a þèr þá,
sem ek ann þèr nú;
brenn ek blossanda
bríma ástar;
svellr mèr sefi
sætu yndi,
ok innfjálgum
ástar móði".

230. Mælti svá ítr
Alexandr;
stè á búinn beð,
beðja fylgdi.
Sváfu sæl bæði
á silki-mjúkum
dúni, döglíngr
ok djúpelds leika.

---

231. En Atreifs arfi
æðisgeinginn
hamförum hvarflaði
sem hrævargr,

ef hann hilmis nið
hitta knætti,
Alexandr
inn ítrfagra.
232. Mátti þá manngi
mækis þjóða
vísa hilmi á
horfinn skata;
máttu-t Tróar
tírargjarnir,
nè lofsælir
liðar þeirra
vísa öðlíngi á
Alexandr.
233. Duldu dreingir ei
döglíng horfinn
virðum af vilja
eðr vináttu;
fjáðu fyrðar
fólkragan hal,
sem dauða dimman
dróttir hverjar.
234. Mælti þá mærr
at málmþíngi
Agamemnon
yfirstýrir:
235. „Heyrit mèr, Tróar,
ok Tróju liðar,
Dardana dreingir
darrum vanir!
víst hefir bleikhárr
blóði minn
sólbjartan sigr
sverði vunnit“.
336. „Látið nú af hendi
ljósfagrt man,
Helenu horska,
ok hverjar meiðmar;
veitið ok, virðar,
vegligar bætr,
sjótum sæmandi,
at síðar megi
þat með öldum æ
uppi vera“.
237. Mælti svá ítr
Atreifs niðr;
rómuðu ræðu
rekkar akkneskir.

---

ρ. III, 450-461.

# FJÓRÐA KVIÐA.

SÁTU sigtívar
saman mærir
grami guða hjá
í gullnum sölum;
bar bjór svásan
böndum himna
Hèba, alskærar
ódáins veigar.
Drukkust þar dýrir
döglíngar á
(glatt var með guðum)
af gullkerum;
sáu Trója til
tívar sælir.
2. Freistaði þá
frægr Kronusson,
hilmir hástöðva,
Heru at egna
æsíngar orðum,
ok uppheims dís
— yppti horn-auga —
ávarpaði:
3. „Tvær 'ro gyðjur,
er týframar
stoða Menelás
inn málrómsterka:
önnur er Hera
in argverska;
hin er Aþena,
Alalkomens dís".
4. „Sitja þær ok sjá
sinni glöðu
fjarska í
fölvis leika;
er ólík þeim
Afrodíta:
gætir guma hins
gyðja brosfögr,
ok feigð ferligri
frá honum bægir".
5. „Halp hún honum nú,
er hann hugðist nærri
döprum ok dimmum
dauða laginn;
vann þó vegsælan
vísir sigr,
Menelás
inn meginpráði".
6. „En vèr sjá munum,
sigtíva fjöld,
ok um gætast
gjörðir þessar,
hvárt skulum aptr
hildi vekja,
ok ímunstunur
ægiligar";
7. „Eðr með báðum
böðvar-þjóðum
sátt vèr setjim,
ok sennu hamlim,
ef þat allra er
eptir vilja,
ok hugþekkt
himins búum".
8. „Þá mun borg byggjast
Brjáms ins fólkvalda,
ok stoðir standa
stillis sala;
en Helenu aptr
at Argos-láði
mun Menelás
mæra flytja".

ρ. IV, 1-19.

9. Mælti hann svá;
en málmþíngs gyðja
ok uppheims freyja
ýskruðu við.
Sátu saman
svásar dísir,
hugðu Tróum harm
ok hel at vinna.

10. Sat Aþena,
ekki mælti,
nè mál um lèt
af munni líða;
reið var hún föður
inum reginmáttka,
var hún óðri fylld
eljan-gremi.

11. En Hera ekki
heiptum knátti
gneggi í
grimmum halda;
svall sefi þrúnginn
svárum móði;
mælti heiptug þá
himins freyja:

12. „Ægiguð ógnligr,
arfi Kronusar!
hví þú orðum yppir
allvaldr, svá?
Hví viltu allar
at eingu gera
þrautir mínar,
ok móðgan sveita,
er ek sveittan hefk
at svalri rómu?“

13. „Hafa hölzti þreytzt
hestar mínir,
er ek sjótum saman
safna náði,
or ek Brjámi böl



of búit lètk,
ok hróðmögum
hilmis Tróju“.

14. „Ger þú, inn gimsterki
gramr himna,
ok ráð ráð þú,
er þèr rèttast lízt;
en vèr aðrir
uppheims búar
munum eigi þèr
allir fylgja“.

15. Stundi þúngan við
stillir himna,
buðlúngr blásvartra
bólstra skýja:
„Undarlig“, kvað hann,
„uppheims freyja!
hvert vann þèr Brjámr böl
ok Brjáms kindir,
er þú einatt reið
óðfús þráir
ágæta at eyða
Ilíons-borg?“

16. „Mundir þú harmi
of hrundit geta,
ef þú inn geingin
of aðal-grindr
ok háva múra
horfin yfir
hráan upp ætir
öðlíng mæran,
blóðga bryddir
Brjáms hróðmögu,
ok ýta aðra
Ilíons-borgar“?

17. „Ger nú, gyðja,
þat þèr gagn þykkir,
at eigi rísi
út af þessu

illar deilur,
ok okkar milli,
þín ok mín,
þráttan verði“.
18. „En annat mun ek þèr
orð of segja,
en þú geym
í geðknerri:“
19. „Rísi mèr í brjósti
reginmuni,
ok ek eyða vil
aðrar stöðvar,
aðra borg,
þar er inni byggja
ástvinir þínir
einka-ljúfir:“
20. „Skaltu þá eigi,
skatyrnis freyja,
mínum hamla mun,
heldr mèr hlýða;
þær gaf ek þèr
þekkar borgir,
niflúngum naðeldar,
nauðgum huga“.
21. „Því borga allra
und bjartri sólu,
ok und blástirndum
bogum himna,
þar er dauðligar
dróttir byggja,
ok meiðmum deila
moldbúendr:“
22. Þeirra var mèr sú
Ilíons-borg
innan-brjósts
alhelg kærust;
Brjámr buðlúngr,
ok Brjáms lýðr,

ρ. IV, 37-57.

döglíngs darrskelfis
ins dáðum-fræga“.
23. „Var-at því vant
veizlu-krása
blótstalla mínum
brögnum deildra,
dreyptra dýr-veiga,
ok dásæts ilms,
heiðrs heilagra
himinbúa“.
24. Svaraði svipmikil
sjóla aptr,
sjónfögr, tigin
salar gyðja:
25. „Þrjár erumk borgir
þekkastar allra,
ann ek þeim mest
í munarheimi:
ann ek Argos,
ann ek Spörtu,
ann ek Mýkensborg
inni breiðstrætuðu“.
26. „Eyddu þær, jöfurr!
aðalborgir,
ef þær harm auka
huga þínum;
ei mun ek aptra
armi þínum;
máttu þeim verpa
at moldar jaðri“.
27. „Ok þótt ek vildi
því aptrat láta,
ok þèr eigi leyfa
þær at eyða,
munda-k þó eigi
mega hamla;
er því máttr þinn
miklu ríkri“.
28. „En þó minni ei má

móðr verða
ónýtis til,
nè at öllu máttlauss;
em-k því einnig goð
ok af einum runnin
kynstofni með þèr,
konúngr himna!"

29. „Ól mik alstyrkr
efsta dætra
Kronus, buðlúngr
inn bölvísi,
at kyni bæði,
ok ek kölluð emk
beðja þín, buðlúngr
banda svásra".

30. „En í þessu þó,
þeingill, skulum
hvárt eptir annars
óskum fara:
ek at þínum,
þú at mínum;
munu jólnar oss
aðrir fylgja".

31. „En þú skalt
skyndiliga
bjóða Aþenu
ímun-goði,
at hún til Tróa
ok Akkverja
naðels nauðsollins
niðr svífi".

32. „Ok at rómu dís
of reyna skuli
Tróa at egna,
at þeir Akkverja
dáðfrægri drótt
drýgi fyrri
óvina iðju,
ok eiða rjúfi".

p. IV, 57-77.

33. Mælti hún svá;
en manna faðir
ok gramr goða
gerði hlýða;
lèt Allföðr
Aþenu til
vænghröðum orðum
vikit þeima:

34. „Gakk þegar, Glóeyg,
til gunnar múga
Akkverja ok Tróa
tírargjarnra;
reyn þú, rómu-dís,
reiðum-fræga
Tróa at egna,
at þeir Akkverja
dáðfrægri drótt
drýgi fyrri
óvina iðju,
ok eiða rjúfi".

35. Mælti svá mildíngr,
ok móð of vakti
Aþenu, áðr
eljan-framri;
skundaði skjótliga
sköfnúngs Freyja
alglæstum frá
Ólýmps tindi.

36. Sem þá ins kænvísa
Kronusar burr
síu Múspells
sendir bjarta,
mark á myrkri leið
marlíðöndum,
eðr hjörvönum
hildar sveitum;
þjóta gim-gneistar
frá gunn-ljósi

ótal umhverfis
alla vegu.
37. Þeim var glossa glík
Ginnregins mær,
er hún ofan fór
at foldar jaðri,
ok at svæði rèð
svífa miðju;
undraðist alþjóð
á horfandi,
38. Tróar fákfrægir,
ok fólksveimar
bragna akkneskra
brynhosaðra;
mælti þá einn hverr
annan við,
ok síns til leit
sinna næsta:
39. „Rísa mun aptr
refils glaumr;
munu aptr æsast
illar deilur;
eðr ok Seifr
of setja ætlar
frið ok fólkhlè
með fyrða sveitum,
sá er mönnum með
morði deilir“.
40. Mælti margr svá
í meginsveimum
Akkverja ok Tróa
tírargjarnra;
en Aþena,
Allföður jóð,
at sveitum Tróa
svífa náði.
41. Lík var hún lofðúngi
Láodokusi,
Antenors arfa,
ógnstyrkum ver;
leitaði at prúðum
Pandarusi,
ef nokkurstaðar
næði hann hitta.
42. Hitti ljúfan
Lýkáons arfa,
hraustan, herfrægan,
hjörva Freyja
standanda, en stilli
stóðu kríng um
skarar skálmvanir
skjaldar hlyna.
43. Þat váru þeir,
er þeingli fylgdu
frá Esepus
unnar straumum.
Nærri standandi
naðels boða
vænghröðum gyðja
vèk at orðum:
44. „Mundir þú hlýða mèr,
inn herkæni
arfi Lýkáons.
ítrfrægr?
þá mundir þú þora
þeingli at senda
meginskjóta ör
Menelási“.
45. „Mundir þú árna þèr
allra Tróa
þakkar og þokka
ok þjóðar lofs,
en þó allra helzt
af Alexandri
þakkir þiggja,
þeingils kundi“.
46. „Mundir þú gjafir
geta fríðar

p. IV, 77-97.

fyrst ok framast
af fylkis nið,
ef lofðúngr lítr
lagðan jöfur,
Menelás
inn morðvana
Atreifs arfa,
fyrir ör þinni
ok bölblossanda
á bál stíga".

47. „Heill svá! hremsu
sendu hildíngi
Menelási
inum meginfræga;
heit á Apollon,
inn ýviðs-fræga,
lofðúng lángskeytan
Lýkíu foldar",

48. „Attu frumgetinna
færa skulir
honum hundraðsblót
helgra sauða,
þá er þú heim
of horfinn ert
sváshelgrar til
Seleyjuborgar".

---

49. Mælti svá meginsterk
mækis Freyja,
vakti heimskum hal
hug í brjósti;
tók tvívið
törgu meiðr
skafinn, ok skæru
skrúði búinn.

50. Var hann fráum af
fjalla hafri,
þeim er fylkir
fyrr um deyddi,

ρ. IV, 97-116.

ok brjóst undir
bösl slaungvaði
fárafullu frá
fyrirsátri,
þá er hafr gekk
á hamar fram.

51. Hitti brjóst bokka
bösl at vetfángi;
fèll hann upp í lopt
at arin-björgum;
váru horn há
úr hausi vaxin,
mældar sextán
mundar breiddir.

52. Tegldi hornsmiðr
högum mundum,
ok vandvirkr
vel rèð búa;
fágaði fagran
fenju þeyti,
ok hríng gullinn
á glæ setti.

53. Bendi nú boga
bölþytvaldan
vísir, ok vel
á völl of lagði
studdan storðar þröm;
en stilli mæran
skatnar skálmramir
skjaldborg huldu,

54. At ei ímunþrúð
Akkverja sjót
áðr upp þyti,
ok æsti rómu,
en Menelás væri,
inn morðvani
Atreifs mögr,
at moldu hniginn.

55. Opnaði síðan

örvamæli
fylkir, ok loku
frá nam renna,
tók ör óskotna,
arinfleyga,
eiðu iðnauða
eljan-dimmra.
56, Hagræddi hilmir
hvatvísliga
broddi sárbeittum
á bendum streing;
hèt á Apollon
inn ýviðs-fræga,
lofðúng lángskeytan
Lýkíu foldar:
57. At hann frumgetinna
færa skyldi
*honum* hundraðsblót
*helgra* sauða,
þá er hann heim
of horfinn væri
sváshelgrar til
Seleyjuborgar.
58. Dró streingflaugar
stillir síðan,
ok ýstreing
af oxahúð,
böl-sáma at brjósti
bendan teygði.
en brodd at boga
beittan færði.
59. En er hafði hann
í hríng látið
boga beygðan
at bölvi sáru,
þá gall glymjandi
fyrir grams höndum
streingr álms, en ör
in oddsára
stökk af streing,
ok staðar vildi
neina óðfús
í naðels sveimi.
60. Gleymdu eigi þèr
guðir sælir,
Menelás öðlíngr!
ódauðligir;
fyrst var ok fremst
fólkvígs gyðja,
feingsæl Aþena,
Allföður jóð:
stóð hún, stillir,
sterk þèr nærri,
ok bösl þèr bægði
banvænni frá.
61. Vèk hún valbroddi
frá vísis holdi,
eins ok mær móðir
frá megi sínum
smám, sofanda
sætum blundi,
bægir flugu brott
blíðum armi,
62. Beindi broddi
branda gyðja
þángat, er brynbeltis
bjartar speingr
saman hèldu
of siklíng miðjan,
ok brynju-boðángar
báðir mættust.
63. Flaug dynfara,
ok festist í
brynju-belti
buðlúngs þraungu;
brauzt gegn um búinn
brynju linda,

ρ. IV, 116-135.

ok brynkyrtil
bjartan gegn um.
64. Gegn um bryndregil,
er buðlúngi
hörðum veitti hlíf
hremsum móti,
þann er hafði hann
yfir hörundi:
gekk þar ok gegn um
gagnar oddr.
65. Reist á efstu
öðlíngs hörundi
ben böðvarsárr
broddr fenju;
streymdi þegar
at storðu niðr
dökkr dreyri
frá döglíngs undu.
66. Eins ok þá fannhvítt
fílsbein litar
purpura-liti
logarauðum
kona meónsk,
eðr kárversk snót,
kinnbjörg á fákum
fleygivökrum.
67. Geymdr er gripr
í geymslu-sal;
girnast riddarar
grip þann margir;
en hann göfgum gram
geymdr hvílir,
djásn ok dýrindi
á dunum reiðar,
at hann búníngs-bót
bæði sè
hesti, og heiðr
þess, er hesti ríðr.
68. Í líkíng þessa
litast náðu
lær þín, döglíngr,
dökku blóði
vel of vaxin,
ok, vísir, þèr
ruðust fótleggir
ok fagrir öklar.
69. Skelfdist við þá sýn
skatna stjóri,
aldar öðlíngr
Agamemnon,
þá er hann dökkvan
dreyra sá
laga láði at
frá lofðúngs undu.
70. Hryllti við sjálfan
inn hergjarna
Menelás,
morði vanan;
en er gramr leit
girnis taugar
ok örvar-króka
fyrir utan vera,
þá reis hildíngi
hugr aptr,
ok móðr í brjósti
meginsterkr.
71. Stundi þúngan þá
at þegna kind,
ok orðum yppti
Agamemnon,
tók í mildíngs mund
Menelásar;
en kríng um konúnga
kappar stundu:
72. „Bróðir bezti!
búit hefi-k eiða
þèr til andráns
ok aldrtila,

er ek þèr einum
otaðak fram
fyrir Akkverja
mót öldum Tróju".
73. „Lustu þik lævísir
liðar Tróju,
ok eiði alhelgum
eyða gerðu;
er-at þó eiðr
eingu nýtr,
nè lambs dreyri
á láðvöll runninn";
74. „Nè óblandnar
eiða veigar;
nè hægri hendr,
er vèr hölzti trúðum.
Því þótt allvaldr
Ólýmps vísir
eigi hafi þegar
endalykt veitt",
75. „Mun hann sekt setja,
þótt síðarr verði;
munu þeir ægilig
iðgjöld hljóta:
hausa láta,
hrundir missa,
sonum sviptast
fyrir svik ráðin".
76. „Veit ek því vel,
ok þess víss of emk,
geymi-k þat gjörla
í geðknerri:
77. „Dragast mun dagr
yfir dróttmögu,
er alhelg eyðist
Ilíons-borg,
Brjámr buðlúngr,
ok Brjáms lýðr,
döglíngs darrskelfis
ins dáðum-fræga".
78. „Mun kynja-hár
Kronusar mögr,
sá er upphimin
efstan byggir,
yfir illum þeim
ægiskildi
svardimmum sveifla
sjótum öllum".
79. „Reiðast mun ríkr
ragna-faðir
svikráðum þeim,
er þeir sýnt hafa;
mun þetta allt
eptir gánga".
80. „En mèr, Menelás,
móðgir harmar
fyrir þik rísa
í fylgsnum hugar,
ef þú dapran fær
dauða þannig,
ok mæli fyllir
mærrar æfi".
81. „Munda-k þá aumastr
allra manna
vatnslausra Argoss
vitja láða;
því at þá mundu
mærrar þegar
Akkverjar minnast
móðurjarðar".
82. „Mundum vèr þá
málmþíngs boðar
ósk mærasta
öldum Tróju
ok Brjámi buðlúngi
inum böðfræga,

Elenu argverska,
eptir láta".
83. „En bein þín, bróðir,
bjöð mun feygja,
þars þú lágt liggr
í landi þvísa;
nè þú máttir
mundum knáum
verki snúa
at völdum enda".
84. „Mun þá einn hverr
ofgángsríkra
Trójumanna
máli hreifa,
þá er hösvast hann
á haugi vorpnum
Menelásar
ins meginfræga:",
85. „„Vilda-k, at öllum svá
Agamemnon
reiði-refsíngu
rekkum veitti,
eins ok hann nú hèlt
her ónýtum
Akkverja at
oru láði"".
86. „„Hèlt hann nú heim
hrannar fákum
aptr at fögru
fóstrláði,
ok ítran kappa
eptir skildi,
Menelás
inn meginprúða"".
87. „Mun einn hverr svá
máli hreifa;
en svá mik svelgi
in svarta fold!"
88. Huggaði hilmi
horskr bróðir,
bleikhárr Menelás,
ok beindi ræðu:
„Vertu hugglaðr,
ok hræð eigi,
öðlíngr, iðstyrkan
Akkverja lýð;
hefir-at inn hvassi
holund búit
böðvar broddr
á bana stað".
89. „Hefir brynbelti
björg mèr veitta,
ljóst ok liðugt
lista-smíði;
brynju-skyrta
ok bryndregill,
sá er eirsmiðir
áðr um gerðu".
90. Svaraði aptr
siklíngi frægum
aldar öðlíngr
Agamemnon:
91. „Vilda-k víst óska,
at væri svá,
Menelás
inn meginprúði!
Látum nú lækni
líta á und,
ok á leggja
lyf ok smyrsli,
ef at knegi þau
kvölum eyða
döprum ok dimmum
úr dreyrgri undu".
92. Talaði tiggi,
ok Talþýbíus
ítran kallara
ávarpaði:

ρ. IV, 173-192.

93. „Gakk Talþýbíus,
ok ger at sækja
skjótla Makáon
mæríng hinnig,
mög ins lofsæla
læknis þjóða
Asklepíuss
ins ítrkunna“:
94. „At hann iðvísum
augum leiði
mæran Menelás,
mildíng Akkverja,
þann er einhverr
hefir öru lostið
bogmaðr týframr
Trójumanna
eðr Lýkverja,
til lofs sèr sjálfum
ítrfagrs,
en oss til mæðu“.
95. Mælti hann svá;
en mærr kallari
var-at óhlýðinn
öðlíngs boði;
sveif hann þegar
of sveitir allar
Akkverja lýðs
eirserkjaðra.
96. Skygndist skjaldhlynr
of skatna meingi,
mildíngi eptir
Makáoni;
hitti standanda
stilli mæran;
svifu kríng um hann
sveitir efldar
skrúðvápnaðra
skjaldberenda,
þeir er hestauðgri
ρ. IV, 193-212.

hilmi fylgdu
Trikku frá
at Týs leiki.
97. Gekk kallari
at kappa þegar,
ok vænghröðum orðum
vísi kvaddi:
98. „Fylg þú mèr, arfi
Asklepíuss!
kallar öðlíngr
Agamemnon“,
99. „Attu iðvísum
augum leiðir
mæran Menelás,
mildíng Akkverja,
þann er einhverr
hefir öru lostið
bogmaðr týframr
Trójumanna
eðr Lýkverja,
til lofs sèr sjálfum
ítrfagrs,
en oss til mæðu“.
100. Kvað svá kallari,
ok í kappa brjósti
mæran vakti móð
megin-ríkan;
geingu gumar
gegn um fjölda
úamargan
Akkverja lýðs.
101. En er komu
karskir gumar,
þar er bleikhárr stóð
bölvi lostinn
Menelás
inn meginprúði,
102. Stóðu kríng um hann
kappar beztir

meingis morðliða:
en í miðju stóð
goðum glíkr
gallar stjóri.
103. Dró úr brynbelti
brodd iðsáran
læknir námsæll
nærri skornu;
en er ör
út var dregin,
brotnuðu á bak aptr
bíldu krókar.
104. Spretti brynbelti
af buðlúngi,
brynju-boðángum
ok bryndregli,
er yfir lá
öðlíngs miðju,
ok eirsmiðir
höfðu áðr gert.
105. En er und læknir
hafði á litið,
ok ben blóðga
fyrir broddi sárum,
saug hann úr sári
svartan dreyra;
lèt á laghentr
læknisdóma,
þá er inn kænvísi
Kíron hafði
föður hans fyrri
frægum gefit.

---

106. En á meðan
Menelási
mæríngar hjúkruðu
málrómsterkum:
þá geingu skálmramir
skjaldar hlynir,
ρ. IV, 212-230.
Trójumenn, fram
at Týs leiki;
en Akkverjar
á aðra hönd
björtu bjuggust
böðvar skrúði;
váru óðfúsir
at iðleiki.
107. Mundi manngi þá
mildíng hafa
sèt svefnugan,
sjóla mæran,
Agamemnon,
nè iðtrauðan,
nè vilja vana
víg at hefja.
108. Heldr skundandi
skilfíngr var
heiðrsælum at
hildar leiki;
lèt eptir fáka
fleygivakra,
ok reiðar, eiri
reginvarðar.
109. Hèlt þjónn tiggja
með taumum fríðum
fákum fnæsandi
at fylkis baki,
Evrýmedon,
alinn frægum
Ptólemeusi
Píreifs niðja.
110. Honum hildíngr
at halda bauð
sèr at hlið
silfrtoppum,
þá er þeingils knè
þreytast næði,

er hann hervaldi
of hjörþjóð svifi.
111. En fylkir fór
fótgángandi
of hersveitir
með hervaldi.
112. Þá er fylkir fann
fákvaldandi
Akkverja skunda
at iðleiki,
þar nam staðar
þeingill frægr,
ok hölda hvatti
hröðum orðum:
113. „Látið, Argverjar,
aldri bila
móð meginstyrkan
at mækis leiki;
því vísir himna
mun ei varmenni
sterkr stoða
at storðar þröm“.
114. „Þeir er eiða
ýtar fyrri
rufu ok riptu
af reginsvikum:
þeirra munu nauðfölva
nái slíta
haukar, ok holgrafa
í holdi glópa“.
115. „En vèr, kappar,
munum kvánir þeirra
ok börn flytja
at brimdýrum,
þá er vèr Brjáms borg
of brotið höfum“.
116. En þá er buðlúngr
bragna leit
linliga búast

p. IV, 230-250.

at leiki sverða:
þeim mundi þeingill
þúngar veita
átölur harðliga
ok heiptuliga:
117. „Argverjar, illir
örvaþrjótar!
skammizt èr yðar ei,
skræfur aumar!
Hví þèr hýmit svá,
horfnir móði,
allt eins ok hræddir
hindarkálfar?“
118. „Þeir er þreyttir,
at þreyttu skeiði
víðan yfir völl,
veslir standa;
nè móðbrími
í brjóstum þeirra
hræddra sèr hreifir,
eðr hugar þrek“.
119. „Allt eins standit èr
öndu horfnir,
nè èr hyggit
at hildar leiki.
Eðr hvárt bíðit èr,
at Brjáms liðar
bráðla at skipum
skunda nái,
120. „At brimdýrum
branda-fögrum,
iðgráum at
ægis jaðri;
at èr sjá getið,
hvárt Seifr muni
yðr verndar hendi
halda yfir?“

---

121. Gekk með hervaldi

hilmir þannig
harðfeingar gegn um
hildar sveitir;
kom til karskra
Kríteyínga,
gegn um gángandi
gunnar sveima.
122. Hervæddust halir
at hjörva glaumi
iðfrægan kríng um
Ídomeneif;
var frægr sjálfr
með frumherjum
gramr, gagnstuddr
galtar móði.
123. En Meríónes
mætr hvatti
bakflokka buðlúngs
böðfylkínga.
124. En er sjóli þá
sjónum leiddi,
gladdist ágætr
Agamemnon,
ok orðum blíðum
Ídomeneif
aldar öðlíngr
ávarpaði:
125. „Met ek þik framarr
fákvaldöndum
Danáum öðrum,
Ídomeneifr!
bæði at böðvar
bitrum leiki,
ok einnig at
öðrum störfum",
126. „Ok at veizlu
vegs um ljósri,
þar er döglíngar
dýrstir Akkverja

ρ. IV, 250-269.

deila dýrum at
drykkjar-skálum
skært ok skrauti lýst
skjöldúnga vín".
127. „Því þótt hárfagrir
halir akkneskir
at munar-sumblum
mælt of drekki,
þá stóð þó ætíð,
öðlíngr, þinn
bikarr bálfáinn
barmafullr",
128. „Eins ok mín sjálfs,
attu, öðlíngr,
drekka mættir,
þá er munr hvetti;
en rís nú, ræsir,
at rómu leiki,
slíkr sem þú áðr
sagðist verit".
129. Svaraði aptr
Ídomeneifr,
karskra konúngr
Kríteyínga:
130. „Mun ek þèr, ágætr
Atreifs mögr,
hollr vera æ
hildar sinni,
eins ok áðr ek
hèt þèr, öðlíngr,
ok fest hefi
fullum tryggðum".
131. „En hvet nú hina
hárum-prúða
Akkverja einnig
at orrustu,
at vèr it skjótasta
skálmum veifim,

er Tróar hafa
tryggðir rofit".
132. „Munu þrjótar þeir
þúngum síðan
aldrtila
ok eymdum verpast,
er þeir fyrri
eiða rufu".
133. Mælti þat fylkir;
en fram hjá sveif
(glaðr var öðlíngr)
Agamemnon;
gekk um gramr
gunnar sveima,
kom til Aianta
ítrfrægra;
hervæddust horskir
herkonúngar;
en skýmjörkvi
skjaldar-hlyna
foríngjum fylgdi
fótgángandi.
134. Eins ok sjá getr
af sjóna hváli
geitvörðr mikinn
mjörkva skýja,
þann er svífr fram
sævi yfir
fyrir váblástri
vestan-anda;
135. Sýnist geithirði
at sjá úr fjarska
biki svartari
bólstr skýja,
svífandi yfir
sævaröldum,
byl bráðharðan,
bjöð færandi;
gerist hræddr þá
geita-vörðr,
hóar fè undir
hellis-skúta.
136. Í líkíng þessa
þèttar fluttust
fylkíngar fyrða
með fólkvöldum
Aiantum, sjólum
Seifi bornum,
blásvartar fram
at böðvar dunum,
vigrum reistar,
ok varðar skjöldum.
137. Gladdist gramr,
er gotna sá,
allvaldr alþjóðar
Agamemnon;
lèt þá mildíngr
at morðliðum
vænghröðum orðum
vikit þeima:
138. „Aiantar ágætir,
eirserkjaðra
yfirstjórar
Argosmanna!
hykk-at ek hlýða,
at hvetja ykkr,
nè fram eggja
at orrustu".
139. „Því at sjálfir þit
seggi hvetjið,
at þeir vaskliga
vigra dýi.
Veittu þat, Seifr,
sjóta faðir,
iðfræg Aþena
ok Apollon,
at móðr sami
magnaðr sè

ρ. IV, 269-289.

brögnum öllum
í brjóst laginn“.
140. „Mundu þá hníga
und höndum várum
Brjáms buðlúngs
borgar múrar;
mundum brátt eyða,
ok mæki hrjóða
borg böðstyrka,
ok brjóta niðr“.
141. Mælti hann svá,
ok mildínga
eptir skildi,
en annat gekk.
Hitti hann Nestor,
niflúng frægan,
siklíng Pýlverja
snjallrómaðan.
142. Fylkti lofðúngr
liðum sínum,
ok hvetja nam
til hildar leika;
prúðr hjá þengli
Pelagon stóð,
Alastor knár
ok Kromíus,
Hemon höfðíngi
ok horskr Bías,
fríðr hirðir
foldar þjóða.
143. Fylkti fremstum
fákvaldendum,
gotum með góðum
ok gunnreiðum;
en fótgaungumönnum
fylkir skipaði
bak við riddara
vöskum ok mörgum,
vörzlugarð

ρ. IV, 289-308.

at vigra leiki.
144. En ræsir skýr
rak í miðja
hrædda hali
herfylkíngu,
at þeir nauðugir
nöðum veifði,
móti vilja sínum,
ok morð efldi.
145. Hvatti riddara
ræsir fyrsta,
at þeir hestum fast
hèldi taumum,
ok at þeir eigi
fyrir Óðins veðri
of rekka sveitir
riðlast skyldi:
146. „Treysti eingi
ítri kunnáttu
reiðar, ok remi,
nè renni fram
einn öðrum fremri,
fúss at berjast
Tróa við
tírargjarna;“
147. „Nè á hæl hopi
hölda nokkurr;
veikari þá
þèr verða munut;
en nái nokkurr
naðels boði
vagni öðrum
frá vagni sínum,
skal hann beita þá
beittum vigri;
mun höldum þetta
heilladrjúgast“.
148. „Þannig gerðu
gumar fyrri,

er þeir borg brutu
ok borgar múra;
höfðu huga
halir þenna,
ok grein þessa
í geðknerri“.
149. Hvatti þjóð þannig
þeingill aldinn,
sá er fyrr kunni
at fólkvígum.
Gladdist gramr,
er hann göfgan leit
Nestor, allvaldr
Agamemnon,
ok hann orðum skjótum
ávarpaði:
150. „Vilda-k, siklíngr,
at svá sem þèr
brími böðvar
er í brjóst laginn,
at þèr eins
orka fylgdi,
ok þèr afl væri
innan beina“.
151. „En þik elli
yfir stígr,
sú er öld alla
ætíð beygir.
Vilda-k at annarr
elli bæri,
en at þú geingir
með görpum úngum“.
152. Annsaði aptr
alda stýri
Nestor, gerenskr
gramr reiðar:
153. „Æski-k þess einnig,
Atreifs niðr,
at ek enn værak
afli búinn,
sem þá er áðr
Erevþalíon
öðlíng iðstyrkan
aldri ræenta-k“.
154. „En ei allt veittu,
nè at einu gáfu
mildíngar upphimins
moldbúendum.
Úngr ok efldr
ek áðr vark,
en nú elli mik
yfir stígr“.
155. „Mun ek þó enn vera
með ýtum reiðar,
orðum eggja
ok ítrum ráðum;
er því slíkt
aldinna lof“.
156. „En vigrum verpi
verar úngir,
þeirs mèr at aldri
ýngri eru,
ok treysta týframir
traustum móði“.
157. Mælti svá öðlíngr;
en Atreifs mögr
fram hjá fór
fremst of glaðr;
hitti standanda
hestvaldan gram
Menesteif, prúðan
Petás arfa.
158. Stóðu styrkvan
stilli kríng um
ógn um alkunnir
Aþenumenn;
en allnærri
niflúngi stóð

p. IV, 308-329.

Odysseifr
inn ítrráði.
159. En hjá kappa þeim
Kefallena
fylkíngar stóðu
fremst of traustar;
því at enn eigi
èimnis sveitir
heróp höfðu
hlustum fángat.
160. Heldr einmitt þá
herfylkíngar
saman sigu
sverð at reyna:
Trója liðar
týfákvaldir,
ok Akkverjar
eirserkjaðir.
161. Stóðu því bragnar;
biðu eptir,
at sveit önnur
Akkverja geingi,
ok við Trójumenn
Týs leik fremdi,
víg of vekti,
ok vigra dýði.
162. Átaldi lýði,
er þat augum leit,
allvaldr alþjóðar.
Agamemnon;
lèt at gunnþjóðum
gumna drottinn
vænghröðum orðum
vikit þeima:
163. „Heyr þú, inn prúði
Petás mögr,
siklíngs seifborins
sagðr arfi!
ok þú, fláum
fremst of búinn,
lævíss lofðúngr,
Loka ráðum"!
164. „Hví þit hræddir
hvar fjarri standit,
ok eptir öðrum
ýtum bíðit?"
165. „Sæmir ykkr
siklíngum báðum
fremst at fylkíngum
frömum standa,
ok at brennheitum
böðvar leiki
dýja darr
fyrir dreyrgum röndum".
166. „Fyrstir ok fremstir
fórut it at sumbli,
bragníngar báðir,
at bekkjum mínum,
þá er vèr Akkverjar
yppa náðum
veizlum völdum
virða ríkra".
167 „Þar munr gleðst
fyrir góðum kostum,
steik at eta,
ok steypa veigum
svásum niðr
at sylgjar grunnum,
eins ok lætr lyst
lofðum ráðit".
168. „Fegnir sæit it nú
fránum sjónum,
þótt tvennir fimm
flokkar Akkverja,
ykkr fremri
at fólkvígum,
sárbeytta reyndi
sóknar-málma".

ρ. IV, 329-348.

169. Reiðr varð inn ráðsvinni,
ok með reiðisvip mælti
Odysseifr
til öðlíngs þá:
„Atreifs arfi
inn ítrfrægi,
hvílíkt orð leið þèr
af hvarfi tanna!“
170. „Hversu hermir þú,
hildíngr, oss
raga ok ráðfá,
rimmu at heyja?
þá er vèr Akkverjar
eggja hríðir
vekjum Tróum mót
týfákvöldum:“
171. „Sjá muntu þá,
siklíngr, ef vilt,
ok ef þetta þèr
þykir nokkru varða,
föður týspaks
Telemakkuss
fremstan standa
með frumherjum,
Tróum móti
týfákvöldum;
marklausu, mildíngr,
máli þú hreifir“.
172. Brosti buðlúngr,
böðvar stjóri,
ok orðum yppti
Agamemnon,
þá er hann sá
þeingil reiðan,
vendi annan veg
vísir orðum:
173. „Lofsæll, seifborinn
Laerts niðr,
Odysseifr
inn ítrráði!
er-a mèr þörf
þik átelja,
nè þik at eggja
í orrustu“.
174. „Því at ek veit,
hve var mèr æ
hugr þinn
í hjarta ljúfr;
varstu mèr ætíð
vina beztr,
siklíngr, samhuga
í svárum ráðum“.
175. „Munum vèr, sjóli,
á síðan þetta
báðir með oss
um jafna mega,
þótt mèr hryti nú
heiptar-yrði;
láti þau allvaldar
at eingu verða“.
176. Mælti hann svá,
ok mildínga
eptir skildi,
en annat gekk;
hitti týframan
Týdeifs arfa,
Díómedes
inn dáðum-rakka.
177. Stóð stríðeflidr
stillir á reið
málfetum spenntri,
málmvarinni;
stóð honum frægr
Stenelus hjá,
Kapaneifs
karskr arfi.
178. Átaldi Týdeifs
týframan mög,

ρ. IV, 349-368.

er hann augum leit,
Agamemnon;
lèt vænghröðum
varpat orðum
vísir at tiggja
tírargjörnum:
179. „Heyr mèr, hildíngr,
ins hestvísa
Týdeifs arfi
týfákvalda!
Hví þú hræddr ert,
ok herkvíar
ósvinnum æðru
augum leiðir“?
180. „Var-at svá týframs
Týdeifs hugr,
at hann æðraðist
at eimnis leikum;
fram gekk fylkir
fjandum móti,
leiks of lystr,
frá liðum sínum“.
181. „Herma svá halir,
þeir er hildíng sáu
vígum valda
á velli rómu;
mætta-k honum ei,
nè ek mildíng sák;
en sagðr var hann fremri
fírum öðrum“.
182. „Kom einu sinni
án orrustu,
gestr var mildíngr,
til Mýkenu,
með prúðum guma,
Polýneikes;
leitaði liðsbónar
lofðúngr þá“.
183. „Háðu hjörva leik

hildíngar þá
múrum Þífi
móti helgum“.
184. „Beiddust buðlúngar
böðvar liða
vel ok vísliga
vörpuligra;
vildu menn verða
við vísa bón,
ok góðan róm
gerðu at máli“.
185. „En Seifr eyddi
seggja ráðum,
sýndi ill merki
uppheims-valdr;
en fólkvaldar
fóru þaðan,
ok leiðir lángar
líða náðu“.
186. „Komu til Asópuss
ins unnum-skæra,
straums ins sefdjúpa
ok starar- gróna:
þá sendu Akkverjar
öðlíng Týdeif
á njósn aptr
ítrfrægan“.
187. „Fór á stað fylkir,
fann hann marga
Kaðmúnga þar
karlmannliga;
sátu at sumbli
sveinar góðu
allir at inni
Eteókless“.
188. „Nè þá æðraðist,
þótt einn þar
með mörgum kominn
Kaðmúngum væri

ρ. IV, 368-388.

Týdeifr, tiggi
inn týfákvaldi,
gestr geinginn
at garði fjanda".

189. „Kallaði þá konúngr
at kappleiki;
vann verðlaun hver
vísir hægliga;
slíkan veitti sjóla
sverða Freyja
sigrmátt svásan
at sigförum".

190. „Reiddust konúngi
Kaðmúngar þá,
þeir er skinfaxa
á skeiði þreyta;
ok fyrir fylki
fyrirsát gerðu
margra manna,
ok myrða hugðust".

191. „Váru fimm tigir
at fyrirsátri
sveinar valdir
at siklíngs bana;
en foríngjar tveir
flokks of váru:
Meon Hemons son,
sigtívum glíkr,
ok Átofons
arfi frægr,
Polýfontes
inn prúðlundaði".

192. „En Týdeifr
inn tírargjarni
lèt sneypu-för
seggjum búna;
drap hann alla,
en dreing einn lèt
sendan heim
frá hjörva leiki".

193. „Sendi Meon heim
sjóli þjóða,
hlýðinn merki
himins tíva;
þannig var Týdeifr
inn týfákvaldi,
etólskr öðlíngr,
öðrum fremri".

194. „En son hefir
sjóli getið
sèr linara
at leiki sverða,
en spakara
spjöll at þylja
böðvar ráðum at
með buðlúngum".

195. Mælti mildíngr;
en meginramr
annsaði-t döglíngr
Díómedes;
þá veitti virðíngu
vísa orðum
ríkr kappi
remi-sárum.

196. Mælti þá aptr
ins meginfræga
Kapaneifs konr
at konúngi:

197. „Inn-at-tu, öðlíngr,
ósannindi,
er þú, sjóli, kannt
satt at herma;
þykkjumst vit
þrautstyrkari
okkrum feðrum,
ok öllu betri".

198. „Tókum vit Þífi

traustbyggðan stað,
þar er háreist sjö
hlið of standa;
höfðum lið færra,
ok hèldum þó
ógnstyrkan undir
Aresar múr".

199. „Treystum táknum
tíva himna,
ok hjálpar hendi
Herjaföður;
en þeim eiginn
óverknaðr
hyggjulausum
til heljar kom".

200. „Skalt-at-tu því,
skati, jafna
feðrum okkrum
við okkr saman,
nè gylfum þeima
gunnarskæra
virðíngu velja,
vísir, sem okkr".

201. Brúnölfi þá,
beindi ræðu
Díómedes
inn dólgrami:

202. „Heyr, heilla-karl,
hlýð þú mínu ráði;
ypp-at-tu máli,
nè þú orð um vek;
lái-k-at lofðúngi,
lýða stjóra,
allvaldi mærum
Agamemnoni,
þótt Akkverja
eirserkjaða
hvetji hilmir
at hildar leiki".

ρ. IV, 406-424.

203. „Því at heiðr
mun hilmi fylgja,
ef Akkverjar
eirserkjaðir
Tróum ferligar
feigðir búa,
ok Brjáms borgmúra
of brotna láta".

204. „En þá er harmr
hilmi búinn,
ef Akkverjum
auðna bregzt.
Heill svá, hildíngr!
skulum hreysti sýna
vigra verkum at
ok vígdómum".

205. Mælti hann svá;
ok málmbrynjaðr
stökk at storðar þröm
af stríðsvagni.
Umdi eirbrynja
ægiliga
of brjóst buðlúngs
it böðvar-ramma,
er hann upp æddi,
ok ótti mundi
hal inn hugmesta
of hrifit fá.

---

206. Eins ok holskefla
hefjast náir
margstynjandi at
marar ströndu;
dunar alda á
öldu ofan,
vakin vestanblæ
frá víðis grunnum.

207. Bólgnar blágræn fyrst
blóðughadda;

brotnar síðan
at breiðum söndum;
öskrar æðandi
Ægis hljóði,
beygir brimfalda
ok breka-froðu
brimsaltri spýr
fyrir beystum gjögrum:
208. Svá mundu síga
í sífellu
fylkíngar Danáa
fremst of hraustar,
ákaft æðandi
at orrustu.
209. Bauð hverr sinni
sveit öðlíngr,
geingu þegjandi
garpar hinir;
nè þú kveða mundir,
at körskum þeim
væri brögnum rödd
í brjóst lagin.
210. Óttuðust þöglir
yfirstjóra;
en alla kríng um
ógnar liða
var leiptranda
ljóma slegit
Sköglar skrúð
á skjaldar-hlynum.
211. Váru ýtar Brjáms
sem ær margar,
þærs kauða auðugs
í kvíum standa
hundruðum saman,
ok in hvíta mjólk
hreytt er frá júgrum
í hola skjólu.
212. En þær án afláts
ρ. IV, 424-445.

eru jarmandi,
er þær lamba rödd
leiða eyrum:
eins mundu óp
alda Trója
of her víðan
válig glymja.
213. Var þó öllum ei
ein rödd lagin,
nè glaumr glíkr
gumnum veittr;
því blandnar váru
bragna túngur,
ok margra þjóða
mækis reynar.
214. Hvatti Akkverja
Aþena dýr;
en Ares mannmyrðir
eggjaði Tróa,
ok Skelfíng ok Skelkr
ept' skötnum ráku,
ok þrávallt þjótandi
þrætu-vala,
sú er Aresi
ætíð fylgir
mannmyrði, hans
holdgetin systir.
215. Líðr hún fram
lítil í fyrstu,
en höfuð síðan
við himin styðr,
ok foldar þröm
fótum spornar.
216. Lèt hún váliga
varpat jöfnum
þrætum ok þrasi
með þegna kind;
gekk of gumna sveit
geigrliga,

ok með öldum jók
ímunstunur.
217. En er váru nú
naðels sveimar
saman safnaðir
at svæði einu,
skelldu skjöldum
skatnar saman;
vigrar og vígmóðr
mættust valþjóða.
218. Gall rönd við rönd
reginhvelda;
reis rómu-þyss
refilvaldendum;
hófst unda óp
ok orra-gleði
vápnbitinna
ok vegenda.
219. Varð vígvöllr
valdögg sleginn;
var sem hauststraumar,
er af háfjöllum
steypast sterkliga
frá standbjörgum,
ok vatni velta
váliga fram
djúpum at dal báðir
í dökkum gljúfrum
feiknamiklum frá
fjallalindum.
220. Heyrir hirðir,
sá á hamri sitr,
fossa fallandi
í fjarska duna:
svá gerðist glaumr
með gunnþjóðum
ok skelfingar gnýr,
er skatnar at geingust.

221. Vág Antílokkus
vera fyrstr
Trójumanna einn
tírargjarnan,
fræknan í fremstri
frumherja sveit,
Ekepólus
arfa Þalýsíuss.
222. Hitti þann
halr fyrstr
á ægis knapp
jörmunfextan;
kom höfugt högg
hals á enni
gekk eir-oddr
at innstu beini,
223. Sè sorti dauða
fyrir seggs augu,
fèll fram lostinn
at láðvelli,
eins ok turn, typptr
tindi hávum,
at valglaumi
váðaligum.
224. Tók í fætr
fallins guma
Elefinor
inn ítrvaldi,
Kalkódons mögr,
móðhugaðra
Abanta stýrir
at ægri rómu.
225. Dró ákafliga
öðlíngr hann
undan skeytum,
at it skjótasta
mætti vápnum fletta
valfallinn dreing;

---

. III, 445-466.

var-at þó verk þat
vísis leingi.
226. Því þá er ítr
Agenor
sá, at niflúngr
var ná at draga,
þá rak hann eirspjót
í öðlíngs síðu
nökða hjá skildi,
þá er skati laut,
ok limu hans
lèmagna gerði.
227. Sveif siklíngs önd
frá sólarheimi;
en ægiliga
yfir öðlíngs ná
róma regingrimm
rísa náði
Akkverja milli
ok manna Trója.
228. Geingust at gumar
sem grimmir vargar;
einn at öðrum
æða mundi;
maðr manni
móti barðist;
vágust at verar
í valglaumi.
229. Vág Símóisíus,
son Anþemíons
úngan ok efldan
æsku-móði,
týframr Aiant
Telamons niðr.
230. Þann ól móðir
mög ástkæran,
er hún frá Ídu
ofan fór,
á bökkum Símóis
svarðargljúpum,
þá er hún foreldrum
fylgja náði,
sauði at sjá
síðlagðaða.
231. Því var kallaðr
konr hennar
Símóisíus
af sjótum foldar;
nè frækinn verr
foreldrum kærum
fèkk fóstrlaun
fremst of goldit.
232. Var því skata skömm
sköpuð æfi;
laust hann Aiant
inn ógnrami,
ok darr dýði
í dreings blóði.
233. Laust hann geirvörtu
guma hægri,
þá er hann fremstr gekk
at fólkþrymu;
gekk geirs oddr
gegn um skata
eiri varinn
hjá axlarbeini.
234. Fèll gumi flatr
at foldar þröm,
svá sem ösp laufguð
at láði hnígr,
sú er á váteingi
víðu þróast.
235. Er stofn slèttr,
en á efstum toppi
lim laufvarit
í lopti hreifist.
Höggr ösp háva
hvelvagna smiðr,

ok at fold fellir,
fáðum málmi,
236. At hann hlyn megi
at hríngi knýja,
hála smíðuðum
á hvelvagni;
liggr ösp höggvin
ok upp þornuð
árbökkum á
iðjagrænum.
237. Eins nam arfa
Anþemíons,
Símóisíus,
sjóla úngan,
svipta sigskrúði
ok sefa ræna
Aiant gunnstyrkr
inn goðborni.
238. En þá Brjáms burr,
inn brynju-kviki
Antífus, darr
döglíngi sendi
beitt ok eirvarit,
at böðvar sveimi.
239. Missti hann mildíngs;
en mæran fèlaga
Odysseifs, Levkon,
ljósta náði;
gekk geirs oddr
í grams nára,
er hann dreing dró
dauðan úr val.
240. Fèll þá niflúngr
um ná fölvan,
ok lík missti
úr mundu sinni;
en móðakarn
mótt þrútnaði
Odysseifs
at jaðar veginn.
241. Fram gekk fylkir
of frumherja,
fremst of faldinn
fránum eiri;
gekk nær gramr,
ok gunnkólfi
(sá í kríng vísir)
varp úr mundu.
242. Hopuðu Tróar
tírargjarnir,
þá er kappi
kesju sendi;
nè öðlíngr
til einkis skaut
vigri stinnum
sterkri hendi.
243. Hæfði öðlíngr,
óskilgetinn
son Brjáms döglíngs,
Demókóon;
kom hann ítri frá
Abýdusborg,
ok hryssum frá
fleygiskjótum.
244. Þann laust gramr
á gagnauga
skapti eirvörðu
Odysseifr;
var ræsir reiðr
af ráni andar
fèlaga frækins,
er at foldu hnè.
245. Gekk eir-oddr
annat gegn um
einnig gagnauga
á ítrum hal;
en helmyrkvi

honum faldi
unað eyglóar,
ok fyr' augu seig.
246. Fèll frækinn gumi;
fold við dundi;
hríngluðu hroðnar við
hildar váðir;
hopuðu á hæl þá
halir fremstir,
ok Hektor
inn herskæri.
247. Æptu Argverjar
ógurliga
ok braut náðu
nái draga;
óðu allir mjök
á fram leingra.
248. Reiddist þá Apollon
álmsvaldandi,
leit frá Pergamus
lofðúngr niðr;
æpti Tróa til
tírargjarnra,
ok þá æsa nam
at eimnis leiki:
249. „Rísit upp, röskvir
rómu liðar,
Tróar, fræknastir
fákvaldendr!
látið alls ekki
undan síga
fyrir Argverjum
at orrustu“.
250. „Því þeirra er
þegna eigi
hold af steini
nè stæltu járni,
at þat eiri megi
aptrat láta
holdvinnanda
at hildi sendum“.
251. „Er nè Akkilles
at orrustu,
Þetisar haddfagrar
horskr mögr;
meltir mildíngr
móð hugsáran
stafnbjúgum at
stála hreinum“.
252. Mælti svo máttugr
mildíngr skeyta
frá borgvirki
inu böðvar-rama.
En Akkverja
æsti at rómu
sverða Freyja
in sigfræga,
253. Trítógenía,
tíva dóttir
Allföður, allvalds
uppheims boga;
gekk hún of glæstar
gunnar sveitir,
þars hún lina leit
liða at hildi.
254. Þá nam feigðarnorn
fjörvi ræna
Díóres, arfa
Amarýnkuss;
var lofðúngr
lostinn hrufóttum
á ökla hægra
ógnar-steini.
255. Honum kastaði
hildíngr Þraka,
Píróus, ágætr
Imbrasuss mögr;
var öðlíngr

ρ. IV, 503-520.

frá Enusborg
svífinn sárum at
sverða leiki.
256. Marði grágrjót
gjörsamliga
sinar báðar
á siklíngs fótum,
ok bein buðlúngs
braut í sundr
jarðar negg
it jörmunþúnga.
257. Fèll upp í lopt
öðlíngr þá
lágt at láðryki,
ok at liðum sínum
út rètti arma,
arma báða,
andarslitrum í
ægiligum.
258. En Píróus,
sá er öðlíng laust,
stökk skjótliga
at skjöldúngi,
ok í nafla
niflúngi knýði
darr it dynstinna,
dólgi sínum.
259. Fèllu iðr öll
ok ultu þarmar
holund út um
ægiliga;
en helmyrkvi
honum faldi
unað eyglóar,
ok fyr[1] augu seig.
260. Varpaði at vísi
vaðanda fram
Þóant inn etólski
þúngu darri;
gekk í brjóst grami
at geirvörtu;
nísti lensoddr
niflúngs lúngu.
261. Óð Þóant síðan
at þeingli fram;
kippti kólfi
úr konúngs brjósti;
brá beittum síðan
buðlúngr hjörvi,
ok miðjan hjó
á mildíngs kvið.
262. Ok hann öðlíng þar
öndu rænti,
en eigi vísi
vápnum svipti;
því at í kríng um
konúng stóðu
Þrakar hárvaxnir
á hvirfli efstum.
263. Þat váru lofðúngs
liðar knáir;
höfðu darr laung
í höndum sínum;
ruddu þeir frá sèr
Þóanti braut,
þótt mikill væri
ok máttarríkr,
ok alfrægr
at eimnis leiki.
264. Fór hann undan þeim
í flæmíngi.
Lágu þannig
í láðryki
endilángir
öðlíngar tveir:
höfðíngi Þraka,
ok horskr stýrir

1) ρ. IV, 520-538.

Epeumanna
eirserkjaðra.
265. Hnigu einnig
höldar margir
mildínga kríng um
at moldu niðr.
266. Þar mundi eingi,
sá er at kæmi,
verki vígþjóða
valit ávítur;
þótt hann ólostinn
ok óhöggvinn
ógnar eiri
iðja-sárum
267. Svifi með sveitum;
ok sverða Freyja
leiddi hal við hönd
at herglaumi;
en hún frá beimi
bægja næði
böðvar broddum
bifþjótöndum.
268. Því dreingir margir
á degi þeima,
Tróju alda
ok Akkverja,
lágt of lögðust
at láðryki;
maðr manni hjá
lágu marflatir.

---

p. IV, 538-544.

# FIMMTA KVIÐA.

MUNDI nú týfrömum
Týdeifs arfa
Díómedesi
darra Freyja
vígmóð veita
ok veldis-afl,
at hann auðkenndr
frá öllum gerðist
Argverja lýðum,
ok lof sèr ynni.
2. Óþrotligan jók
ógnar ljóma
á hlíf ok hjálmi
hildar skata;
var logi líkr
leiptrblossa
meginbjartrar
Múspells síu,
3. Er haust höldum
of hauðr boðar,
ok björtust brenn
á boga himins,
lauguð láröstum
lagar bláum,
þeim er um renna
jörmungrundu.
4. Því lèt báli brennt
böðvar Freyja,
á höfði ok herðum
hildar skata;
æsti öðlíng
at ímun miðri,
þars fyrðar flestir
fólkbraut tráðu.
5. Var beimr einn
með Brjáms liðum,
Dares at nafni,
dreingr góðr,
rekkr ríkr
af rauðmálmi,
Hefasts hofgoði
ins hugvitsfræga.
6. Átti arfa tvá
auðkýfíngr:
Fegeif ágætan,
ok Ídeus;
kunnu þegnar þeir
þrautir allar
valdra vígdóma
of vegu sverða.
7. Lètu halir þeir
móti lofðúngi
atgaungu ypptri
einir saman;
óku á reiðum
rekkar báðir,
en fylkir var
fótgángandi.
8. En er allnærri
váru öðlíngi,
ok nær geingust
gildir beimar:
Fegeifr fylki
fyrri sendi
lens lángskeptan
of lopt knúinn.
9. Flaug fleinbroddr
yfir fylkis öxl
vinstri, týframs
Týdeifs niðja,
nè líkam ljósta
lofðúngs náði.

ρ. V, 1-17.

Veifði vísir þá
vigrs eiri
hóti síðarr,
sonr Týdeifs.
10. Nè fylki fló
fleinn úr mundu
afli afrenndri
til ónýtis;
brást fleinn böðvar
at brjósti miðju
Fegeifs frækins;
fèll hann af reið.
11. Reis þá Ídens
af reiðarsæti;
hljóp af hvelvagni
hála fögrum.
12. Þorði fylkir ei
fram at gánga
fyrir ljúfan
liðinn bróður.
Mátti-t þó seggr
af sjálfs valdi
ferliga flýja
feigðar dimmu.
13. En honum halp
Hefasts máttr,
lèt hann þoku
þykkri vorpinn
at eigi yrði
aldinn skati
eymd ok eljansorg
yfir þyrmdr.
14. Rak reiðarbríma
röskr á braut
mögr Týdeifs
ins móðhugaða;
fèkk fèlögum
fáka at reka
at stafnbjúgum
stála hreinum.
15. En er Tróar
tírargjarnir
dýra sáu
Daress arfa:
annan flúinn,
en annan veginn
ok at reið orpinn
aldrtila:
16. Þá skelfdist hugr
í skatna brjóstum.
En Ginnregins mær
in glóeyga
tók at mund Ares
inn mannskæða,
ok hann á varp
orðum þeima:
17. „Ares, Ares,
eyðir manna,
blóði drifinn
borga dólgr!
munum vit eigi
morð of láta
Akkverja drýgja
ok dreingi Tróju,“
18. „At vit sjá getim,
hveim Seifr ann
frægðar at njóta
at fólkvígum;
en vit víkjum
af valslóðum,
ok ragna-föður
reiði flýjum“?
19. Mælti meginsterk
mækis Freyja,
ok Ares mannskæðan
frá morði leiddi;
ok böðvar drottinn

ρ. V, 17-36.

á bakka hávan
Skamandrs setti
sköfnúngs gyðja.
20. Snèru á flótta
seggir Danáa
Trójumönnum
at Týs leiki;
vág þá vísir hverr
at valdunum
einn, ok aldri
alls of rænti.
21. Þar vág fyrstr
frægr skati
Agamemnon
alda stýrir
ok af vagni varp
vaxtarmiklum
Odíus, öðlíngi
Alizóna.
22. Laust hann lofðúngr
laungum fleini,
er hann frá snèri
ok flýja vildi;
hljóp darr flogit
herða milli
ok út um
öðlíngs bríngu.
23. Fèll frækn gumi;
fold við dundi;
hríngluðu hroðnar við
hildar váðir.
24. Vág ágætr
Ídomeneifr
Festus, Bóruss mög
ins meónska;
var Törnu frá
tiggi kominn
svarðarfrjóvri
at sigjöru.
ρ. V, 36-54.

25. Þann vág ágætr
Ídomeneifr
döglíng dýran
darri laungu,
þá er ræsir fram
reið of keyrði;
kom í öxl hægri
á hildíngi.
26. Fèll ofan fylkir
af fólk-kerru;
hreif hann helmjörkvi
hræðiligr;
en vápnum sviptu
vísi fallinn
ágætir sveinar
Ídomeneifs.
27. En Skamandríus,
skata kunnan
veiðum, stríðefldan
Strófíuss nið:
þann laust Menelás
mögr Atreifs
beittu darri
at böðdunum.
28. Var hann vaskr mjök
veiðimaðr;
hafði sjálf Artemis
öðlíngi kennt
dýra hvat
á heiðum skjóta,
þat er upp elr
aldinskógr.
29. En þá ekki gagn
gylfa veitti
Artemis
in örvum-glaða,
nè bogfimi,
sú er buðlúngi

var fyrr leikin
framarr öðrum.
30. Því at Menelás
mögr Atreifs,
dýrr döglíngr
darrum-frægr,
lofðúng ljósta nam
laungum fleini,
er hann undan fylki
flýja vildi.
31. Laust hann hilmi
herða milli;
æddi darr út um
öðlíngs bríngu;
fèll gramr á grúfu
at grundu þegar;
hrínglaðu hroðnar við
hildar váðir.
32. En Fereklusi
feigð um bjó
Meríónes,
megi þjóðhaga
Harmonídess;
en horskr kunni
Fereklus höndum
hagla smíða
hluti alla
fyrir hölda kind.
33. Því at þjóðhaga
af þokka góðum
prúðum unni mjök
Pallas Aþena;
hann byggði borðróna
báru fáka,
upphaf ógæfu
ok ótal rauna,
handa öðlíngi
Alexandri.
34. Urðu gnoðir þær
ρ. V, 54-72.

görpum Trója
at illu einu
öllum saman,
ok sjálfan smið
sorgum vurpu;
því hann ragna ráð
ráða mátti-t.
35. Því Meríónes
á meginskeiði
hal fèkk hrifit
hörðum mundum,
ok í þjóhnapp
þegn of lagði
hægra megin
hvössum fleini.
36. Gekk ginnskarpr
gúngnis broddr
gegn um blöðru
beini undir;
hraut á knè hilmir,
hljóðaði við;
sè dauði dimmr
á döglíngs augu.
37. Vág Pedeus
prúðr Meges,
Antenors arfa
ítrfrægan;
ok þótt væri hann
óskilgetinn,
þá ól hann Þeanó
þokka beztum.
38. Ól hann jafnt upp
eiginbörnum;
blíð var björk hrínga
bónda sínum.
Gekk at honum
gumi frægr
Fýleifs niðr
inn flein-rami.

39. Laust hann svíra
und seggs hausi
fleini flugbeittum
at fólkþrymu.

40. Gekk gunnmálmr
gegn um tennr,
ok undir túngu
í öðlíngs munn;
fèll lofðúngr
at láðryki,
knýðu kaldan málm
klettar góma.

41. En Evrýpýlus
Evemóns niðr
horskan kappa
Hýpsenor vág,
mög Dolópíons
ins móðrakka;
hann var Skamandrs
skýrr hofgoði,
ok af gumum virðr,
sem guð væri.

42. Þann nam at elta
Evrýpýlus
Evemóns arfi
ítrfrægr,
ok á hilmis öxl
höggva náði,
er hann flýja
fremst of vildi.

43. Hjó hildíngr
hrotta bitrum,
hjó hönd af
hilmis trausta;
fèll hún magnlaus
at moldryki
dreyra drifin
fyrir dólgs brandi.

44. En dimmr dauði
dreyra fáinn
svalkaldr sè
fyrir siklíngs augu,
ok iðgrimm dís
aldrtila
svipti sjónir hans
sólarljósi.

45. Mundu þannig
þraut of fremja
dreingir at dunum
darra þúngum.

46. En eingi mundi
augum leiða
mega týframan
Týdeifs niðja,
hvar dólg drýgði,
hvárt með dreingjum Trója
eðr með Akkverjum
ímun fremdi.

47. Því at hann of völl
þjóta náði,
eins ok bjargstraumr
bakkafullr,
er í vatna vexti
vilgi hægr
flóðgarða brýtr,
af fjöllum runninn.

48. Hepta hann eigi
hlaðnar stíflur,
þars hann bjöð beystir
beljandi fram;
nè honum bægja
blómvaxinna
girðíngar þèttar
gróðrreita,

49. Er hann fram veltist
í vetfángi,
ok Seifs regnskúrir
svárar þýngja;

ρ. V, 73-91.

falla forvirki
fíra horskra
fyr' stríðum straumi,
nè standast mega.
50. Svá mundu riðlast
rómu sveitir
Tróa tugmargar
fyr' Týdeifs arfa;
nè naðels boðar
niflúngs biðu
meginmóðugs,
þótt margir væri.

---

51. En er lofsæll,
Lýkáons arfi
lofðúng leit
inn lýðum-fræga,
þars hann of völl
þjóta náði,
ok fylkíngar
fyrir hopuðu:
52. Þá nam hildíngr
hæfíngu gera
týfrömum at
Týdeifs arfa,
ok af boga bjúgum
buðlúngi ólmum
í öxl hægri
öru sendi.
53. Laust brynjuboðúng
böðvarhveldan
ok í gegn um fló
gögn in hvassa,
ok inn um óð
öðlíngs vöðva;
varð björt brynja
blóði litað.
54. Þá æpti hávum
ok hvellum rómi

ρ. V, 92-111.

lofðúngr, Lýkáons
lofsæll mögr:
55. „Rísit upp, Tróar
tírargjarnir,
rennireynar
reiðarbríma;
því at dýrum í
Danáa sveitum
horskastr hilmir
er hremsu lostinn“.
56. „Hygg-at ek leingi
lofðúngr muni
magnat skeyti
mega þola,
alls mik svá leiddi
frá Lýkíu
Apollon hinnig
til hildar leika“.
57. Kvað svá hróðugr
hremsu þeytir,
en þó eigi ör
öðlíng deyddi;
hopaði ræsir,
ok fyrir reið framan
ok fáka sína
frækinn kvaddi
Kapaneifs
kon Stenelus:
58. „Rístu upp, Kapaneifs
konr inn mæri,
stíg af styrkri reið
á storð niðr,
attu mèr úr öxl
ör of dragir,
brodd bölsáran,
er mik beysta náði“.
59. Mælti svá stillir;
en Stenelus
stökk af styrkri reið

á storð niðr;
stóð hjá buðlúngi,
ok beitta hremsu
fremst of dró
úr dreyrgu holdi.
60. En frá bjarthríngum
brynjustúku
dreyri fram
of fossa mundi.
Hèt þá á háva
himins-valda
Díómedes
inn darrum-frægi:
61. „Heyr mèr, horsk dóttir
Herjaföður
ægiskjalda,
Atrýtóna;
hafir þú, sverða dís!
sinni nokkru
mik of stoðat
ok minn föður
mannskæðum at
mækis leiki,
þá veit mèr einnig nú,
víga Freyja!"
62. „Veit, at ek ver þann
vega megak;
lát skata koma
í skotfæri,
þann er mik fyrri
fífu laust,
ok happi hrósar,
at ek hvergi leingi
muni ljúft ljós
líta sólar".
63. Baðst svá buðlúngr
at böðvi fyrir;
heyrði hann prúð
Pallas Aþena;
ρ. V, 111-132.

limi liðuga
lofðúngs gerði,
hendr ok báðar
bjarkir ilja.
64. Nam staðar nærri
niflúngi þá,
ok hann orðum skjótum
ávarpaði:
65. „Vertu hughraustr
víg at drýgja
móti dreingjum Brjáms,
Díómedes;
hefi-k nú þitt
hildar móði
magnat móðakarn,
ok at morði eflt",
66. „Svá sem Týdeifr
tírargjarn hafði,
skeiðfrárra jóa
skjaldar-hlynr.
Hefi-k frá þínum,
þeingill, augum
sorta sveipat,
er sveif þèr yfir",
67. „Attu vel megir,
mildíngr, greina
gumna frá guðum,
at glaumi sverða;
ok ef guð geingr
at gunni nokkurr,
fíra freistandi,
þá far þú eigi
ódauðligum mót
uppheims-búum
öðrum andvígr
at einvígi".
68. „En ef at geingr
Afrodíta
dóttir Seifs

darra leiki,
þá skaltu særa
svárum málmi
ástar-gyðju
ina iðfögru".
69. Mælti þannig
mímúngs Freyja;
gekk frá gunni
Glóeyg at þat;
en Týdeifs arfi
inn týframi
fremst of fór
til frumherja.
70. Var fyrr lofðúngr
lystr at rómu,
ok Brjáms dreingi
darri beysta;
en nú þrefaldr
þeingli römum
magnaðist móðr
ok megin-gremi.
71. Eins og dreyra-gjarnt
dýr it óarga,
þat er hirðir lítt
ljósta náði,
nè drepa mátti,
er móði aukit
stökk inn í fjárgarða
á frjóvu túni,
ótt at sauðum
ullarsælum.
72. En hirðir mátt
ok móð þess æsir;
verst eigi framarr
verr máttvani;
felst í fjárhúsum,
en flýja kindr
varnarlausar
fyrir vargi grimmum.
ρ. V, 132-150.

73. En lágt liggja
lagðir sauðir,
hverr öðrum hjá
í hrúgu margir;
en æðisgeingit
óarga dýr
út stökkr grimmliga
yfir garð hávan.
74. Svá mundi mildíngr
móði þrúnginn
Díómedes
mót dreingjum gánga
Týs leik at heyja
Trójuborgar.
75. Vág þar öðlíngr
Astýnóus,
ok Hýpíron
hilmi þjóða;
rak ræsir öðrum
rekk í brjóst
darr eirrekit
ofarr geirvörtu,
en hinn at öxl
hjörvi lagði
vísir váliga
á viðbeini.
76. Ok öxl alla
öðlíngr hjó
frá háls-svíra
ok hryggjar-liðum.
Lèt hann eptir þar
þegna dauða;
óð at Polýídus
ok Abanti.
77. Þeir váru arfar
Evrýdamants,
draumavíss
döglíngs aldins.
Lèt-at faðir þeim

forspár þuldar
dimmra drauma,
er í dólg of geingu.
78. Heldr váligan
valdi dauða
Díómedes þeim
inn dólgrami;
þaut móti Ksantus
ok Þóni síðan,
Fenóps erfíngjum
elligetnum.
79. Var faðir hrumr
fyrir hám aldri;
átti ekki
aðra sonu,
er notið feingi
nýtra meiðma,
ok arf þegit
at þeingil látinn.
80. Svipti hann þá
seggi gunnmálmi,
ok bana báðum
búa náði;
en föður fèkk
feikna-harma,
ok eymd æsti
eljun-sára.
81. Því at faðir ei
fyrða þáði
aptr at arni
úr orrustu;
en ættíngjar aðrir
ættar-fjarrir
meiðmum sín
á milli deildu.
82. Þá tók hann tvá
tiggja syni,
Brjáms döglíngs,
Dardans magar;
vâru báðir
á vagni einum,
Ekemon karskr
ok Kromíus.
83. Í líkíng þá
sem ljón stökkr
í hjörð nauta
hörðum móði;
sima eðr kvígu
at svíra brýtr,
er þau björkum hjá
á beit eru:
84. Eins lèt týframr
Týdeifs niðr
beimum báðum
brugðit ofan;
nauðga niflúnga
neyddi af kerru,
ok vápnum svipti
vera síðan.
85. Fèkk hann fáka
fèlögum sínum,
at þeir leiddi þá
at ljónum sævar.
86. Þá nam Eneas
öðlíng líta,
er hann feigð freka
fylkíngum bjó;
gekk hann of ægan
orrustu-sveim,
ok geira glym
gunnarþúngan.
87. Goðum glíks
gramr leitaði
Pandaruss, ef hann
hitta knætti;
fann hann lofsælan
Lýkáons arfa
ok iðstyrkan,

p. V, 150-169.

ok orðum þeima
at hildíngs hlið
hann of mælti:
88. „Hvar er nú, Pandarus,
harðr sveigr,
ok flugglaðar
fenjur þínar?
ok list leikin,
lofðúngr, þèr?“
89. „Má-at því manngi
móti þèr keppa
hinnig svifinn
at herleiki;
nè liða nokkurr
í Lýkíu
þykist fremri þèr,
þeingill vera“.
90. „Heill svá, ok hremsu
hvassa sendu
manni þessum
(heit á milding himna),
sá er fram brunar
í böðvar móði,
ok ótal illt
hefir oss um gert“.
91. „Hefir hann mörgum
mönnum hraustum
á knè komit
ok knýð at dauða;
nema nokkurr sè
niflúnga himna
Tróum tý-reiðr
fyrir töfn heilög;
er-a gumnum góð
gremi tíva“.
92. Aptr öðlíngi
annsvör greiddi
Lýkáons lýðfrægr
ok lofsæll arfi:
ρ. V, 170-188.

93. „Eneas, Tróa
eirserkjaðra
ráðvaldr ríkr
at rómu leiki!
hygg ek þeingil
þenna vera
törupprúðan
Týdeifs arfa“.
94. „Kenni ek kappa
á kríngla skjaldar,
ok á Hropts hattar
hárri pípu,
ok er jóa sè-k
jaðars fráa;
veitk-a ek þó víst,
nema vèa nokkurr
sè þat, svifinn
at sigjöru“.
95. „En ef þetta er
arfi Týdeifs,
herkænn hilmir,
sem ek hygg hann vera,
mun hann eigi svá
at óviljandum
hamramr æða
himna guðum“.
96. „Stendr hjá sterkum
stilli nokkurr
ódauðligra
uppheimsbúa,
mjörkva hulinn
herðum yfir,
sá er skjótt skeyti
frá skjöldúngi
líða lèt
of leið aðra“.
97. „Senda-k siklíngi
sára fífu,
ok í öxl hægri

ek hilmi skaut;
brauzt bensárr
broddr örvar
of brynjuboðáng
böðvarhveldan“.
98. „Hugða-k hilmi
hverfa mundu
at niflheimi niðr
ok at ná verða;
en ek hilmi ei
aldri ræntak;
er reiðr víst
ragna nokkurr“.
99. „Eru ok eigi
jóar hèr
ok reið röm,
er ek renna megak;
en í Lýkáons
ljósri höllu
ellefu reiðar
eru fagrar,
nýla naddaðar
ok nýsmíðaðar,
dúkum dregnar
dýrðarligum“.
100. „Standa hjá sèrhverri
samoks-hestar,
jóar tveir
jörmunfextir;
en þeir jóar
á einkorni
ok hvíta-byggi
hastir fæðast“.
101. „Bað mik böðvaldr,
er ek brautu sveif,
öðlíngr aldinn
ítr Lýkáon,
ok ríkt á við mik
ræsir lagði

p. V, 188-208.

heima at hám
hallar sölum:“
102. „At ek hestum
hleypa skyldi,
ok fólkreiðar
fremst of njóta,
þá er ek Tróa
at Týs leiki
leidda lèti
fyrir leifnis-grandi“.
103. „En ek hildíngi
hlýða gerða-t;
hefði þat þó víst
verit betra“.
104. „Því at ek hestum
hlífa vildak,
er ek hræddr vark,
at eldi þryti,
þá er böðþjóðir
um borg sæti,
en grasi gnógu
gotar vanir“.
105. „Lèt ek því eptir
lèttfeta þá;
kom ek gángandi
at görðum Trúju;
treysta-k tvíviði,
treysta-k örum;
vill nú hvárigt
at hildi veita“.
106. „Hef ek hremsu sent
hildíngum frægstum
tveim: týfrömum
Týdeifs arfa,
ok Atreifs nið
ítrfrægum;
báðum buðlúngum
blóð um vakta-k,

veltust valfossar
víst úr undum".
107. „En ek enn framarr
æsa gerði
meginmóðugra
mildínga skap;
hef ek illu
heilli numit
ofan boga
af bitnagla",
108. „Á degi þeim,
er ek dvölum brá,
ok fagrfrjóvrar til
fór ek Tróju,
ok ek liða lèt
leidda hinnig,
Hektori mærum
til mungleði".
109. „Ef ek aptr kem
til átthaga,
ok aptr mínum
augum leiði
föður, ok mína
mæra kván,
ok hallar sali
háræfraða:"
110. „Þá skal þegar
þegn útlendr
höfuð af herðum mèr
höggvit láta,
ef ek eigi þessum
á eld bjartan
sveig of varpa,
ok sundr brýt;
bar ek at böðvi
boga ónýtan".
111. Aptr honum þá
annsvör greiddi
Eneas, tiggi
Tróju-sveitar:
112. „Skalt-at-tu þannig,
skati, mæla;
mun þat ei fyrri
fara veg annan,
en báðir vit
mót beimi þessum
höldum herfákum
ok hveldum kerrum",
113. „Ok við hann þreytum
vápna-fimi;
en heill svá, hilmir,
ok á hvelda reið
kom þú mína,
attu kenna fáir,
hve Trós hestar
hnáir eru,
ok skjótir at skunda
skeiðvelli á,
hvervetna at elta
ok undan renna".
114. „Munu fákar oss
fá of dregit
borgar til,
þótt böðvar lofi
sigfrægan sjóla
Seifr skrýði,
tírargjarnan
Týdeifs arfa".
115. „Taktu nú, tiggi,
tauma glæsta,
ok svipu, at keyra
silfrtoppa;
en ek mun, ræsir,
á reið sitja
ok gunnar gný
gerst of vekja".
116. „Eðr ok þú

mót öðlíngi
tak týfrömum,
en ek traustum munk
at böðvi beita
bitilhreinum“.
117. Aptr honum
annsvör greiddi
Lýkáons lýðfrægr
ok lofsæll arfi:
118. „Haf þú, Eneas,
hesta þína
sjálfr, ok glæsta
gullintauma;
munu marir draga
miklu betr
reið hvolfbjúga
und höldi þeim,
sem vanizt hafa
vakrir fákar,
ef fylki fráan
flýja þurfum“.
119. „Munu annars þeir
æðru geta,
ok af ótta stórum
staðir verða,
nè oss um draga
frá darra leiki,
er þeir sakna
þinnar raddar“.
120. „Þá mun týframr
Týdeifs arfi
at oss ráðast
æðisgeinginn,
sjálfa oss vega,
ok síðan reka
jóa einhæfða
frá orrustu“.
121. „Ráð því reið þinni,
ræsir, sjálfr,

ok hestum þínum
halt við tauma;
en ek mun mildíngi
móti taka
eggjum skörpum
ógnar fleini“.
122. Svá mæltu sjólar,
ok á sigreiðar
fagrsmíðaðar
fremst of stigu,
ok meginmóðgir
móti hèldu
Týdeifs arfa
tauma dýrum.
123. Leit þá Stenelus
stillir frægr,
Kapaneifi
konúngi alinn,
ok vænghröðum
varpat lèt
orðum til
Týdeifs magar:
124. „Díómedes,
dýrr Týdeifs son,
kærstr manna mèr
fyrir mold ofan!
tvá sè ek kappa
kynja-rama,
er við þik vilja,
vísir, berjast“.
125. „Eru þeir auknir
undra þreki;
annarr bogmaðr
beztr þjóða,
Pandarus, er kveðst
prúðr vera
Lýkáons mögr,
lýða hirðis“.
126. „En Eneas

afspríngr læzt
ágæts Ankísess
ítr vera;
en hans móðir
er it mæra goð,
Afrodíta,
sú er ástum ræðr".

127. „Skulum vit því,
skati, flýja
römum reiðum á,
nè þú, ræsir, svá
æð ferliga
gegn um frumherja,
at líf þú látir,
lofðúngr, ei".

128. Sökkti sjóli þá
síðum brúnum
darrstyrkr ok mælti
*Díó*medes:
„Ei skaltu, fèlagi,
flótta minnast;
hlýði-k þèr sízt
at slíkum ráðum".

129. „Vark-at ek slíkr
und sól alinn,
at ek fremst flýði
at fólkvígum;
nè ek æðrast má
at unda flóði;
minn er móðr enn
megintraustr".

130. „Leitt erumk lipri
líða á kerru;
en ek móti þeim
mun svá gánga;
hefir böðvar mèr
bannat Freyja
æðru at geta
fyrir glaumi sverða".

ρ. V, 247-266.

131. „Munu eigi
marir skjótir
döglínga aptr
draga báða
okkrum höndum úr,
þótt annarr flýi".

132. „En annat mun ek þèr
orð of segja,
en þú geym
í geðknerri":

133. „Ef at veitir mèr
víga Freyja
ráðum-rík
róma heiðr,
at ek beima þá
báða vega-k:
okkrum þú halt
jóm of kyrrum
at herðum taumum
frá hvelstóli".

134. „En þú Eneass
á skalt ráðast
mari (minnstu þess)
meginskjóta,
ok Tróum frá
taumdýr þú rek
Akkverja til
eirserkjaðra".

135. „Þèr mun ek inna
uppruna þeirra:
eru sama kyns
jóar þessir
ok þeir, er inn víðskygni
veitti Seifr
Trós konúngi
at tignargjöf".

136. „Gaf hann grami þá
í gjalds skyni
fyrir gripinn son

Ganýmedes.
Þeir eru beztir
bitilhreinar
eygló undir
ok árgeisla“.
137. „Stal kyni því
konúngr þjóða,
Ankíses
ítrfrægr,
ok Lámedon
leyna gerði,
er hann hryssum hèlt
und hófglymjendr“.
138. „Ólu þrenna tvá
þeingli síðan
hryssur fola
at hallar görðum;
fjóra þeirra
fóðra náði
jöfurr at jötu,
jóa skjóta“.
139. „Tvá gaf hann ítrum
Eneasi,
fuglum fljótari
yfir fold skeiða;
ef vit næðim nú,
niflúngr, þeim,
myndum góðan vit
geta hróðr“.
140. Hjöluðu þeir svá
hvárr við annan.
Komu nú skjótla
kappar nærr;
beystu blakka
brugðnum ólum;
mælti þá fyrri
við mildínga
Lýkáons ljúfr
lofsæll arfi:
141. „Meginmóðugr
mækisvaldr,
Týdeifs hróðmögr
ins týframa!
hefir-a, vísir,
veitt þèr bana
ör mín oddsára
ok ógnar-skjóta;
nú mun ek freista,
ok flein láta
okkar milli
of örlög dæma“.
142. Mælti hann svá,
ok meginlaungum
veifaði vigri
vísir í hríng;
skall á skildi
skata breiðum,
Týdeifs arfa
ins týframa.
143. Ok í gegn um
gylfa törgu
óð eirbroddr
allt at brynju;
þá nam at æpa
efldum rómi
Lýkáons mögr
lýðum-frægr:
144. „Laust ek nára þèr,
lofðúngr, gegn um;
nè ek leingi hygg
at þú lifa knegir;
hefir þú hávan
heiðr búit
mèr, mildíngr,
af morði þvísa“.
145. Skalf-at skjöldúngr,

ρ. V, 266-286.

nè skerðist móðr,
annsaði döglíngi
Díómedes:
146. „Ekki laustu mik;
leið mèr hjá skot;
en ek hygg ykkr
ei hvílast munu
fyrr en annarrhvárr
at foldu hniginn
unda iðstraumi
Ares seðr,
óþrotligan
orrustuguð“.
147. Þat mælti kappi,
ok kesju sendi;
en geiri stefndi
gunnar Freyja
*at nefi* buðlúngs
*hjá* brúna mána;
hljóp fleinn gegn um
hvítar tennr;
148. Ok túngurætr
tiggja skáru
gúngnis eggjar
gunnar-skarpar;
en oddr óð
út um kverkar
aptr neðstar
öndvert móti.
149. Fèll ofan frækinn
fylkir af reið;
hríngluðu hroðnar við
hildar váðir
ok Sköglar skrúð
it skriðkvika.
150. En hestar þá
út á hlið fældust
fráir, fótlèttir;
en fólkvaldi

ρ. V, 286-304.

líf úr brjósti leið
fyrir lagi sváru.

---

151. Ofan stökk Eneas
öðlíngr þá
með hlíf hrínglagða
ok hræmæki;
óttaðist hann,
at Akkverjar
ná mundu nema
nýla veginn.
152. Gekk í kríng gramr
guma dauðan,
sem dýr it óarga
þat er afli treystir;
lagði laungu fram
lofðúngr darri,
ok hlíf hrínglagðri
hyljast náði.
153. Vildi vísir þá
vega mann hvern
óðfúss ok æfr
andvígan sèr;
orgaði öðlíngr
ógurliga,
hamaðist höfigum
heiptar móði.
154. Tók þá upp
Týdeifs arfi
stein stórmikinn
styrkri mundu;
mundu nè tveir,
sem menn nú eru,
bjarg þat borit
bragnar hafa.
155. En hann aleinn
ógnar bjargi
(þat var hilmi hægt)
í hríng sveiflaði;

hreytti af hendi,
hitti öðlíng
mæran Eneas
á mjaðmarbeini,
156. Þar sem lærbein
ok bein mjaðmar
(heitir augnakarl)
um kríng leika;
brotnaði beinhnúta
fyrir bjargi þúngu,
ok sina-bönd bæði
brustu sundr.
157. Hruflaði hörund
af holdi allt
snarpr steinn
sendr krapti;
en á knè bæði
kappi fèll;
studdist storðar þröm
styrkri hendi;
sè nótt ok nið
fyrir niflúngs augu.
158. Þar hefði Eneas
Ankísess mögr
bana beðit
fyrir bjargi þvísa,
hefði ei ríkt ráð
of ráða knátt
Afrodíta,
Allföður jóð,
159. Mildíngs móðir,
sú er mög átti
Ankíses við,
er hann öxna gætti;
lèt hún um ljúfan
lofsælan nið
hvítum örmum
hniginn undit.
160. Breiddi hún blæju

ρ. V, 305-324.

ina bjartljósu
fellíngum faldna
of fallinn skata,
at þat vörn væri
fyrir váskeytum,
nè Danáa
nokkurr skyldi
inna reiðkænu
í ræsis brjóst
flein of reka,
ok fjör taka.
161. Tók hún at þat
inn týframa
mög sinn frá morði
meginrömu.
162. Gleymdi ei konr
Kapaneifs
boðum buðlúngs,
þau er boðit hafði
mildíngr mærr,
inn málrómsterki
Díómedes
dáðum-frægr.
163. Stöðvaði sterka
stillir fáka,
ok hlaup hepti
hófskúaðra;
hèlt frá hám
hildar glaumi;
remmdi tauma
frá reiðar stóli;
164. Ok síðan at jóm
Eneasar
fylkir rèðst,
inum faxprúðu;
rak þá Tróa frá
rómu sveitum
Akkverja til
eirserkjaðra.

165. Fèkk þá Deípýlus,
dýrstum vini,
er hann allra mest
unni jafnaldra;
var því hjarta hans
hugprýði búit,
ok skaplíkir
skatar báðir.
166. Bað stillir hann
at stála hreinum
reiðar dýr
at reka niðr;
en sjálfr sjóli
settist á reið,
ok glæsta greip
gullintauma.
167. Hèlt hann skjótliga
hestum síðan
herðastyrkum
eptir harðmóðgum
Týdeifs arfa
af ákefð stórri.
168. En Díómedes
inn dólgrami
elti Kýpris
með eggmálmi;
víst hann vissi,
at var þat gyðja
kraptafá
ok kjarklítil,
169. En eigi nein
naðels dísa,
þeirra er ægum
orrustum ráða:
hvárki Aþena
nè Enýó,
sú er böðvarrömm
borgir rýfr.
170. Fann hann þar Freyju
fagrljósa,
ok hann elti
of ógnar sveima;
stökk fram stillir,
ins stórhugaða
Týdeifs ágætr
tignarmögr.
171. Rèðst ræsir at
reginmóðugr,
ok hvössum fleini
á hendi særði
gyðju frygðar
fagrveikri.
172. Gekk gunnmálmr
gegn um hörund
þegar at bragði,
ok blæju rauf
hreina, himneska,
er höfðu vunnit
Fegurðargyðjur
fríðar sjálfar.
173. Kom lag lófa
ljósum ofarr,
en ódauðligr
út rann dreyri,
ljósglætu lögr,
svá sem lifa náir
alsælum í
uppheimsbúum.
174. Því at einga þeir
eta fæðu,
nè vín drekka
it dökkglóanda;
eiga-t því dreyra
í æðum sínum,
ok ódauðligir
með öldum heita.
175. Æpti hátt upp
ástargyðja,

ok frá sèr fleygði
frægum syni;
tók þá tiggja
traustum mundum
Febus Apollon,
fylkir örva.
176. Huldi hann döglíng
dimmu skýi,
at eingi Danáa
inna jófrægu
skyldi skapt reka
í skata bríngu,
ok fjörvi svipta
fagra limu.
177. Kallaði mildíngr
málrómsterkr
Díómedes þá
til dísar fagrar:
178. „Vík þú fólkum frá
ok fölvis leikum,
dóttir Allföður,
ástargyðja!
er þèr eigi nóg
attu nautnum at
kvenna kjarklausra
krapt of ginnir?“
179. „Hygg ek þat, gyðja,
ef at hildi þú
aptr um árnar
ægiligri,
at þèr ófriðr
ógna muni,
ok þótt fólk fjarri
á fold spyrðir“.
180. Mælti hann svá;
en it mæra goð
braut árnaði
öndu hálfri;

ρ. V, 343-362.

sveið söllin und
sárum kvölum.
181. Tók hana Íris
orrustu frá,
vindfrá dís,
úr valglaumi;
hèldu sjafna dís
sárar kvalar;
dökknaði hörund
it dripthvíta.
182. Fann hún at þat
inn fólk-ólma
Ares, at vígþrymu
vinstra megin;
var darr hans
dökkva hulit,
ok móðgir marir
mjörkva faldir.
183. Fèll á knè gyðja
fyrir guði sverða,
skilgetnum bróður
bríma ástar,
ok inniliga
ægan beiddi
gram um gota
gullbeizlaða:
184. „Bróðir bezti,
bjarga þú mèr!
fá mèr fáka
ina faxprúðu,
at ek Ólýmps til
árna megak,
ódauðligra
aðalstöðva“.
185. „Svíða mèr sárt
svárar undir,
þærs mèr dauðligr
dreingr um hjó,
Týdeifs hróðmögr,

er ek hygg at mundi
nú móti Seifi
sjálfum vega".
186. Mælti hún svá;
en mímúngs tívi
gaf henni gota
gullbeizlaða.
Stè á kerru-stól
stúrin gyðja;
var hugr harmi
höfgum sleginn.
187. Settist henni hjá
hraðfleyg Íris,
ok glæsta greip
gullintauma;
knýði fáka
at keyrðum hrygg;
en þeir ljúft liðu
á loptbrautum.
188. Komu þær skjótla
at skærum tindi
Ólýmps, atsetri
uppheims-guða;
þar nam at stöðva
stríðum taumum
Íris reginskjót
reiðarbríma.
189. Leysti hún hesta
frá hveldri kerru,
ok ódáins fóðr
fyrir þá lèt;
en hin ágæta
Afrodíta
hneig at Díónu
dýrrar skauti.
190. Þat var mær
móðir hennar;
vafði örmum jóð
it ástkæra;
klappaði dóttur
kærri mundu
eiða in ágæta
ok orð um kvað:
191. „Hverr hefir þik
himinbúa
hart svá leikit,
mitt horska jóð,
ósæmiliga,
sem eitthvat þú
hefðir illt gert
fyr' allra sjónum?"
192. Aptr annsaði
Afrodíta
gyðja brosfögr
blíðri móður:
193. „Varp mik váliga
vándu sári
týmóðugr tiggi
Týdeifs arfi,
er ek arfa minn
frá ímun-glaumi
flytja vildak,
frægan Eneas,
er ek mest of ann
moldum ofarr".
194. „Því eigi leingr
einir drýgja
ægan eimnis leik
Akkverja þjóð
ok Trójumenn
tírargjarnir;
heldr Danáar
darrum veifa
einnig guðum mót
ódauðligum".
195. Aptr annsaði
ástar gyðju

ρ. V, 262-381.

Díóna, ágæt
upphimins dís:
196. „Vertu þolinmóð,
þekkust dóttir;
þoldu þrautir vel
þótt þúngar sè;
eru margir vár
vèa himna
illu orpnir
af alda sonum,
þá er harðar vèr
hverir öðrum
raunir reisa
ríkt of vildum“.
197. „Illt hlaut Ares
endr at þola,
er Ótus styrkr
ok Efíaltes
Alóeifs synir
á hann rèðust,
ok hann ferligum
fjötri bundu“.
198. „Lá hann mánaði
lánga þrettán
eirsterkum undinn
jarðar múrum;
mundi þar ólmr
orrustu tívi
Ares hafa
andrán beðit,“
199. „Ef ei stjúpa
stríðsguðs hefði,
ágæt ok fríð
Eríböya
Hermesi hermt
af hörðum leiki,
ok Aresar honum
ófarir tjáð“.
200. „En senditívi
sendan lèt braut
Ares á laun,
ok hann leysa gerði.
Var Ares þá
illa haldinn,
ok þúngu þjakaðr
þófi moldar“.
201. „Illt hlaut ok Hera
endr at þola,
er alstyrkr arfi
Amfitrýóns
hana laust
at hægra brjósti
ör þríyddri
eljansárri“.
202. „Tók af því háleit
himins freyja
ógurligar
eymdar-kvalar“.
203. „Hlaut Hades enn
harm at bíða
afarstórr
undra-þúngan,
þá er inn sami
seggr hann laust,
allramr arfi
Ægiskjalda“.
204. „Þat var at Pýlus,
er inn þrautefldi
Herakles Hadesi
harm of bjó
á vígvallar
víðum fleti,
náum hjá
inum nauðfölvu“.
205. „Var hann svárum
sútum undinn,
er hann ör laust
í öxl hægri;

ρ. V, 381-400.

ok hann til Allföður
ægiskjalda
árnaði, at Ólýmps
efstum tindi".
206. „Reið þá Peon
á raman tíva
smyrslum svásum,
at sefaðist kvöl,
ok hann læknaði;
því at eigi var
Hades dauðligum
hlutum alinn".
207. „Ofdirfsku-fullt
var afarmenni,
sá er eigi sveifst
slíkt at fremja,
er hann óðhröðum
örum særði
uppheims allvalda
Ólýmpsbúa".
208. „En þegn þenna
inn þrautrama
hefir Aþena
eggjat þèr mót.
Fávíss ok skammsýnn
er skjöldúngr,
er hann ei geymir
í geðknerri",
209. „At seggi þeim,
er við sjóla þreytir
uppheims allvalda
ódauðliga,
mun eigi lángr
lánast aldr".
210. „Munu-at börn hans
blíðu kvaki
‚pápa' hjala
hans við knè,
nè hýr honum
heilsa mega
heimkomnum aptr
frá hildar leiki".
211. „Gæti því sín,
þótt gunnramr sè,
tiggi týframr,
Týdeifs arfi;
vel má þat vera,
at við hann þreyti
einnhverr, öflugri
ástar Freyju".
212. „Skeð getr vel,
at skörúngs-kván
Egíalía
Adrastus dóttir
veki þýjar
af værum blundi,
yppi gráthljóði
ok gjöllum harmi",
213. „Er hún grætr
sinn eiginver,
beztan akkneskra
böðvar þjóða,
víf it vegliga
ins vaska grams,
Týdeifs arfa
týfákvalda".
214. Mælti hún svá;
ok mundum báðum
goða-dreyra þó
af gyðju hendi;
varð hönd heil,
hættu kvalar,
ok bölsárar
burtu svifu".
215. En er þat sáu
salar freyjur,
Aþena ok Hera
in augum-ríka,

ρ. V, 400-418.

þá mundu gyðjur
gremi-orðum
Seif Kronusson
sárum æsa.
216. Yppti fyrri
in augum-glæja
orðum Aþena,
ok orð um kvað:
217. „Faðir allvaldr
fíra ok guða!
hvárt muntu móðgast
af mínum orðum?
Hefir nú Kýpris
konu einhverja
akkneska viljat
væna ginna“,
218. „At hún með Tróum
tignum fylgdi,
er hún óðfús nú
unna gerir;
hefir hún klappat
konu nokkurri
sjótar Akkverja
síðmöttlaðri“.
219. „En hún sína
á sylgju gullinni
hefir hönd rispat
ina holdmjúku“.
220. Mælti hún svá;
en manna faðir
ok guða gramr
gerði brosa;
kallaði á
Afrodítu,
gullfagra gyðju
guð, ok mælti:
221. „Er-a þèr gefit,
jóð mitt kæra,
hjörvum at ráða,
nè hildar dunum;
en unaðsælar
annast þú skalt
giptíngar guma;
en gunnar mál
skal Ares öll
ok Aþena dæma“.
222. Hjöluðu þau svá
hvárt annat við.

---

223. Sótti nú eptir
Eneasi
Díómedes
inn darrum-rami;
en þótt vissi hann,
at hendi styrkri
Apollon öðlíngi
yfir hèldi.
224. En einkis virði
örva drottin
mikinn mildíngr
móðhugaðr;
vega vildi hann
ok vápnum góðum
Eneas fletta
inn ágæta.
225. Þrívegis þeingill
þreyta náði
móði morðgjörnum
at mildíngi;
þrívegis Apollon
mót öðlíngi
þrúnginsal
þúngan knýði.
226. En sem siklíngr
at sinni fjórða
æddi tiggja mót
tíva glíkr,
þá æpti Apollon

ægiliga
fjarrvirkr móti
fylki ólmum:
227. „Gæt þín, týframr
Týdeifs arfi,
ok frá vígum vík,
nè þú vèum jafnan
hygg þik, hildíngr,
því at hvergi eru
goða ættir glíkar
gumna jarðar,
þeirra er foldar þröm
fótum sporna“.
228. Svá mælti tívi;
en Týdeifs arfi
hopaði lítt þat
á hæl aptr;
vildi hann forðast
feikna gremi
Febus Apollons
ins fjarrvirka.
229. En Eneasi
frá ímunsveimum
Apollon barg
örva sjóli
Pergams helgu
at hávirki;
þar átti heilagt hof
himintívi.
230. Græddu þar öðlíng
in örvum-glaða
Artemis
ok ágæt Letó
hám ok miklum í
helgidómi,
ok fegrð aptr
fylki veittu.
231. En svip setti
silfrbogvaldr



lofðúngr Apollon
líkan guma,
allt at einu
ok Eneas,
vexti at
ok vápnum bæði.
232. Kríng um svip þenna
svífa náðu
traustir Akkverjar
ok Trójumenn;
ónýttu törgur
af tarfa-leðrum
hverr öðrum fyrir
of hraustum bríngum,
hlífar hrínglagðar
ok hráskinns randir
sundr hjuggu
hvössum bröndum.
233. Þá mælti ólman
Ares við
Febus Apollon
inn fjarrvirki:
„Ares, Ares,
eyðir manna,
blóði drifinn
borga dólgr!“
234. „Mundir þú eigi
mildíngi þeima
ryðja frá rómu
reginefldum?
Þat er týframr
Týdeifs arfi;
mundi hann nú sjálfum
mót Seifi vega“.
235. „Særði hann Kýpris
svása fyrst,
höggvápni á hendi
höggva náði,
síðan at mèr

svífa mundi;
var guði glíkr
gramr óðr".
236. Talaði tívi,
ok á tindi hám
Pergamus síðan
settist niðr;
en mannskæðr
mímúngs Rögni
Tróa æsti
tírargjarna.
237. Var hann þá allíkr
Akamanti,
Þrakíumanna
þeingli skjótum;
hvatti hróðmögu
hilmis Tróju
Brjáms goðborna
böðvar drottinn:
238. „Heyrit, burir Brjáms
ins böðvísa,
gylfa göfugrar
goða ættar!
Hve leingi skal
hrönnum drepa
alþjóð yðra
Akkverja sveit?"
239. „Hvárt á fram
at fara slíku,
uns þeir fyr' borgar
berjast hliðum?
Nú liggr liðinn
lýða stjóri,
sá er hèldum vèr
Hektori jafnan".
240. „Þat er Eneas
Ankísess son,
mærings mannheima
ins móðhugaða.
ρ. V, 459-479.

Heilir svá, halir,
ok úr herstjái
frelsa fèlaga
frækinn skulum".
241. Mælti hann svá;
ok meginþrek
vakti beimi hveim
fyrir brjóst innan.

---

242. Þá nam Sarpedon
svárum orðum
Hektor átelja
inn hugumstóra:
243. „Hvar er nú, Hektor,
hugmóðr þinn,
er þú fyrr um barst
í brjósti þínu?
Hyggstu einn munu
verja hermúra
með sifum þínum
ok sifjúngum,
án böðvar þjóða
ok bandamanna".
244. „Má ek eingan
augum leiða,
nè varr verða
vera þeirra;
sèk-at ek þá nú,
því þeir sik of dylja,
eins ok grey kríng um
it óarga dýr".
245. „En vèr bandamenn
böð of drýgjum,
ok ímunveðri
uppi höldum".
246. „Em ek fjarri frá
fold um svifinn
bandamaðr
at Brjáms múrum;

því at lángt hèðan
Lýkía er,
hjá Ksantus
hörðum straumi“.
247. „Lèt ek eptir þar
it ljúfa víf,
ok barnúngan eptir
bur minn skildi,
ok enn at auki
allmikit fè,
þat er hverr
of hafa æsti“.
248. „En ek eggja samt
ok upp um hvet
Lýkíumenn
at leiki sverða;
ok sjálfr ek
allmjök þrái
manni at mæta,
ok mæki reyna“.
249. „Á ek eigur þó
eingar hèr,
þær er Danáar
darrum-frægir
burtu beri
eðr á braut reki“.
250. „En þú stendr,
starfar vætki,
nè öðrum þú
ýtum býðr
viðnám at veita
ok vígum deila,
víf at verja
fyrir valþjóðum“.
251. „Hræddr er ek um,
at þit herfáng verðit
dólgmögum ykkar
ok dauðligt hræ,
sem værit it

ρ. V, 479-498.

veiddir í neti,
ok möskvum feingsælum
fángnir gjörva“.
252. „En þeir bráðliga
brjóta munu
meginrama
múra yðra.
Skaltu, skati, æ
skygnast of þetta,
dimmar nætr
sem daga ljósa“.
253. „Bið þú, buðlúngr,
böðvar stjóra
lángt of leiddra
liða þinna,
at þeir stöðugir
standa nái;
bezt er þèr stóryrði,
stillir, at lægja“.
254. Þat mælti Sarpedon;
en sjóla frægum
sáryrði sviðu,
ok sál hans kvöldu;
stökk þegar stillir
at storðar þröm
af hveldri reið
í herklæðum.
255. Veifði vísir
vigrum hvössum,
óð ægiliga
um allan her;
eggjaði ýta
at eimnis leiki;
valglaum váligan
vekja náði.
256. Snèrust þá skjótt við
sveitir Tróa,
ok við Akkverjum
öndverðir stóðu.

En Argverjar eigi
æðrast gerðu,
en flokkum samfelldum
fyrða biðu.
257. Sem þá er andvari
ögnum feykir
sáða lauflèttum
um láfa helga,
þá er menn þreskja
it þurra korn,
ok bleikhár Demetra
dýr of skilr
korn ok agnir
at æstum vindi;
en sáðhrúgur
fyrir svárum blæ
dripthvítum verða
dregnar ljóma:
258. Eins urðu Akkverjar
allir hvítir
af moldar-dusti
meginþurru,
þat er fáka fætr
fljótir þeyttu
upp til eirvarins
uppheims boga,
þá er aptr blèndust
böðvar reynar.
259. En kerrusveinar við
knáir snèru;
ok kappar karskir
knýðu mundir
fast at fölum
fáðra branda;
en iðólmr
Ares huldi
vígvöll váligum
víga-mjörkva.
260. Gekk gjörva kríng
geira drottinn,
ok Tróa stoðaði
tírargjarna;
rak svá erendi
rómu tívi
Febus Apollons
ins fagrvæpnta.
261. Hafði Apollon
honum boðit
vekja traustan móð
Trójumönnum,
þá er hann prúða sá
Pallas Aþenu
horfna vera
frá herglaumi;
því Akkverja var
ímun-Freyja
liðsgoð ljúfasta
at leiki sverða.
262. En sjálfr fór til
Silfrinbogi,
tók Eneas úr hám
helgidómi,
auðsælum sal,
ok siklíngi
móðakarn miklum
móði fylldi.
263. En Eneas
í ýta sinna
flokk frægr gekk;
en þeir fegnir urðu,
er þeir lífs litu
lofðúng kominn,
ok heilan á hófi
at hildar leiki,
ok herstyrkum
huga remmdan.
264. Fréttu þeir eingra
fylki tíðinda;

þ. V, 498-517.

því iðja önnur
var ýtum lagin,
er Silfrinbogi
sveitum of bauð,
ok Ares ógnskæðr,
ok Eris leið,
þrávalt þjótandi
þrætuvala.

---

265. En Danáa
dýrir hvöttu
Aiantar báðir
ok Odysseifr,
ok Díómedes
darrum vanr,
at bröndum beitti
böðvar þjóðir.
266. Váru-t sjálfir þó
seggir hræddir,
nè áhlaup æðruðust
ýta Tróju,
nè gunnar glaum
geigrligan.
267. Stóðu kyrrir
kesju-reynar,
eins ok skýmjörkvi
meginþykkr,
sá er Kronusson
í kyrru logni
staðnæmast lætr
á leitum fjalla.
268. Hvíla skugga-ský
á skörðum bjarga,
er norðanvindr
náir blunda,
ok hvassir hverir
hvíla stormar,
þeir er skilja ský
skörpum anda.
ρ. V, 517-536.

269. Eins biðu Danáar
darrum-traustir
Trójumanna
tírargjarnra,
nè undan viku;
en Atreifs mögr
gekk of gunnar þjóð,
ok guma hvatti:
270. „Heyrit mál mitt,
mækis reynar,
sýnit hug hraustan
ok hetju þrek;
blygðist hverr
at blóðgum leiki,
hverr fyrir öðrum
hlynr sverða“.
271. „Því at heima
blygðunarsamra
lifa fleiri æ,
en þeirs at láði falla;
en flýendr
frægð ei geta,
nè nokkura vörn
veita megu“.
272. Mælti svá fylkir,
ok flein of sendi
hart at frumherjum,
hafði mann fyrir;
þat var fèlagi
ins fólkum-djarfa
Eneasar
ok ástvinr:
273. Deíkon prúðr,
Pergass mögr,
þann er Tróar
tírargjarnir
virðu jafnt horskum
hróðmögum Brjáms,

því hann frækinn var
í fylkíngar broddi.
274. Þann laust allvaldr
Agamemnon;
kom lens lángr
í lofðúngs skjöld;
stóðst eigi skjöldr
skotvarp magnat;
gegn um törgu gekk
gúngnis broddr.
275. Gegn um brynbelti
broddr þusti,
neðanverðum at
niflúngs kviði;
dundi darra láð,
er döglíngr hnè;
hríngluðu hroðnar við
hildar váðir.
276. Vág þar Eneas
ágæta tvá
dreingi hrausta
af Danáum:
mögu Díókless
darrum-fræga,
Kreþon ok ítran
Orsílokkus.
277. Átti frægr
faðir þeirra
heima at Feru
fagrbyggðri;
var auði orpinn
öðlíngr mærr,
ok kyn rakti
frá rennslum strauma
Alfeus-ár,
er óðfluga renn
prýðilig ok breið
of Pýlus-veingi.
278. Sú ól ágætan

ρ. V, 536-555.

Orsílokkus,
mildíng mæran
margra sveita;
en Orsílokkus
öðlíngr gat
Díókles hilmi
inn hugum-stóra.
279. En Díókles tiginn
tvíbura ól,
sonu tvá
tírargjarna:
Kreþon ok ítran
Orsílokkus;
kunnu þeir öllum
at ímunleikum.
280. Fóru frumvaxta
fólknárúngar
dökkum á
drafnar mörum
ásamt Argverjum
ítrfrægum
at jóauðgri
Ilíonsborg.
281. Buðlúngar bóta
of beiðast vildu
fyr' Atreifs arfa,
Agamemnon
ok Menelás;
en of mildínga
dauðans mjörkva dró
dís valfallna.
282. Sem ljón tvö,
er á leitum fjalla
alast bæði
einni móður,
í skógarrunni
skugga-dimmum,
ok fjöllaufgum
fagrlima;

283. Ræna þau fjárhús
rekka hverra;
naut of grípa
ok góða sauði;
þar til er ólm
óarga dýr
bana bíða
fyrir beittum eiri
herðum af höndum
hölda reiðra:
284. Svá mundu sjólar
síga til jarðar
fyr' mundum ægum
Eneasar;
fèllu fólkvaldar,
sem furu-trè,
hávar bjarkir
barri vaxnar.
285. Gramdist þá mærum
Menelási,
er hann fallna sá
fólkum-djarfa;
fram brauzt fylkir
of frumherja,
skínanda skrúði
Sköglar fáinn.
286. Dúði darr í mund
döglíngr mærr;
en Ares ákefð hans
æsa gerði;
vildi vígaguð
vísi láta
til jarðar hníga
fyr' Eneasi.
287. Sá hann þá ágætr
Antílokkus,
mögr Nestors
ins móðhugaða;
fór hann þá frumherja
frækna gegn um,
því hann óttaðist
fyr' öðlíngi,
288. At hann eitthvat
illt of gerði,
ok endi eigi
orrustu feingist;
mundu þá báðir
munda vigra
harðydda hildíngar
hvárr mót öðrum;
váru báðir
í vígahug.
289. Gekk Antílokkus
grami nær,
frægum hirði
hauðrs þjóða.
290. En Eneas
ekki við beið,
þótt vaskr væri
vígamaðr,
þá er hann báða
heima leit
sèr á móti
saman standa.
291. En döglíngar
drógu nái
bræðra dauða
Danáa til,
ok öðlínga
ógæfusama
fèlögum feingu
fremst at annast.
292. En sjálfir snèru
siklíngar við,
ok broddi í
börðust sveita.
293. Vágu þeir prúðan þar
Pýlemenes,

Aresi jafnan
at orrustu;
hann var skati
inna skjaldrömu
Paflagóna
prúðhugaðra.
294. Ok döglíngr
inn darrum-frægi
Menelás,
mögr Atreifs,
lens of laust
lagi þúngu
vísi standanda
á viðbeini.
295. En Antílokkus
ítran Mýdon,
kerrusvein vísis,
knúði steini,
ágætan arfa
Atýmníuss,
þá er hann einhæfðum
jóm of snèri.
296. Laust vápnbjarg
ver á olnboga
miðjan ok marði;
en úr mundum fèllu
sigtaumar, settir
snjóvi handar,
ok dýrðligir duttu
í dust niðr.
297. En Antílokkus at
æða náði,
ok grami laust
á gagnauga;
en hann andköfum
ofan fèll
af hvelvagni
velsmíðuðum.
298. Steyptist á höfuð
halr niðr,
skelldist á skalla
skjótt ok axlir,
ok á haus leingi
öfigr stóð;
því at djúpt var dust,
þars hann datt til foldar.
299. Stóð þegn leingi,
þar til er fákar
lustu hann,
ok at láði felldu.
En Antílokkus
jóa keyrði,
ok inn í sveitir
Akkverja rak.
300. En þá er Hektor
hildínga sá
í herflokkum
hrausta æða,
þá fór gramr þeim
grenjandi mót;
fylgdu honum fræknir
flokkar Tróa.
301. Gekk þeim á undan
Ares frægr,
ok Enýó
in ímunríka;
hafði hún með sèr
Hergný óvægan,
reginglymjandi
rómi hildar.
302. En Ares hörðum
höndum í
darr ógurligt
ólmr tvíhendi;
hvarf hann ýmist
at Hektors baki,
ok ýmist frammi
fyrir öðlíngi.

303. Skelfdist þá döglíngr
Díómedes
inn málrómsterki,
er hann mildíng leit;
allt eins ok verr sá,
er of völl geingr
víðan ok stóran
vegu lánga.
304. Nemr hann staðar,
nè nokkut úr ræðr,
at vatnsfalls
váðastraumi,
þat er sævar til
svífa náir,
þá er hann lítr
lá of belja,
ok froðu hvítri
á fjörur þeyta;
hörfar beimr þá
á bak aptr.
305. Svá mundi Týdeifs
tiginn mögr
undan hopa,
ok hann orð um kvað:
306. „Hví mun oss, ýtar,
undrunar fá
Hektor herfrækn
inn hjálmkviki,
þótt vígfimr
vísir of sè,
ok huggóðr
at hjörva leiki?“
307. „Er honum ætíð
einnhverr guð hjá,
sá er bana hans
bægja náir;
ok nú er Ares
at öðlíngs hlið,
dauðligum glíkr
guma nokkrum.“
308. „Heyrit nú, halir,
hörfit at baki
Trójn öldum æ
tírargjörnum;
nè þèr heimsku þá
í hug alit,
at èr við guði
gunni vekit.“
309. Mælti hann svá;
en mundarnærri
váru Tróar þeim
þá of komnir.
310. Vág þar Hektor
inn hjálmkviki
guma tvá
at gunni kæna:
Menestes ítran,
ok Ankíalus;
óku þeir báðir
á einni reið.
311. Reiddist þá Aiant
arfi Telamons,
er hann þá leit
at láði falla;
gekk þá nærr gramr,
geiri blikanda
skaut af hendi
hildarramri.
312. Laust Amfíus
öðlíngr mærr
Selaguss arfa;
sá bjó at Pesus,
afar-auðugr,
ok at ökrum ríkr;
en skapanorn
in skaðvæna
svífa lofðúng lèt

þ. V, 596-614.

lið at veita
Brjáni böðvísum,
ok burum hans.
313. Þann laust Aiant
arfi Telamons;
kom í brynbelti
á buðlúngi,
ok í niflúngs
neðstum kviði
lángskept darr
dreyra vakti.
314. Dundi darr-völlr,
er döglíngr hnè;
hljóp þá til Aiant
inn herfrægi,
ok vápnum vísi
vildi fletta.
315. En Tróar mundu
tírargjarnir
lensa láta
á lofðúng drífa,
meginblikanda
málmi varða,
hvassa vigra,
harða fleina.
316. Tók skjöldr skata
við skotum mörgum;
en hann fæti stè
á fölvan ná,
ok eirdarr
út nam draga
skjótt úr kviði
kappa látins.
317. Mátti þó ei þá
þeingill draga
vápn in vænu
af vísis herðum;
því at á stóðu
öðlíngi skeyti,



ok hann darra drífa
drjúgum þjáði.
318. Óttaðist einnig
öðlíngr mærr,
at Tróar mundu
tírargjarnir
niflúng umkríngja
ok návörn veita;
því margir mundu þar
mækis reynar
styrkir standa
með stinnum darrum.
319. Hrundu þeir þaðan
hildíngi þá,
þótt mikill væri
ok meginramr,
ok fremst of frægr
at fólkvígum;
en hann undan fór
í flæmíngi.
320. Stóðu at starfi
stríðu þannig
gunnfrægir gumar,
geira drottins.
321. En skapanorn
in skaðvæna
vakti tiginn
Tlepólemus
Herakless mög,
mikinn ok fagran,
at hann móti svifi
Sarpedoni.
322. Geingust at garpar
gildir síðan,
sonr Seifs
ok sonarsonr
tiggja skýbólstra;
en Tlepólemus

mundi þá fyrri
máls of vekja:
323. „Sarpedon, lofðúngr
Lýkíumanna!
hver þik nauðr,
niflúngr, knúði
hinnig at hverfa,
ok hèr at æðrast,
er þú ekki kannt
at ímunleikum?“
324. „Ljúga þegnar þeir,
er þik of kveða
arfa Allföður
ægiskjalda;
margs ertu þurfi,
attu megir líkjast
fornmönnum þeim,
er af föður Seifi
kyn sitt höfðu,
ok af honum ólust“.
325. „Víst kveða annan
verit hafa
Herakles, minn
mæran föður,
döglíng dáðfrægan,
djarfhugaðan;
var honum ljónshjarta
lagit í brjóst“.
326. „Kom hinnig öðlíngr
einu sinni,
at heimta lèttfeta
Láomedons;
hafði sex
hrannar gota,
ok fá menn
í för með sèr“.
327. „Eyddi hann ítra
Ilíonsborg,
ok borgarstræti
ρ. V, 632-651.
beimum svipti;
en þú, ræsir,
ragmenni ert;
hníga hrönnum
höldar þínir“.
328. „Hygg ek, at vesöl
virðum Trója
vörn þú verðir,
vettugis nýt,
þóttu frá Lýkíu
þreyta rèðir
leiðir lángar
at landi þvísa“,
329. „Ok hversu styrkr
sem þú, stillir, ert;
heldr hygg ek þik
hníga munu
fyrir mèr, fylkir,
ok of forlig gánga
hlið Hadesar
at heimi neðra“.
330. Svaraði aptr
Sarpedon
lofðúngr frægr
Lýkíumanna:
331. „Víst mundi tiggi sá,
Tlepólemus!
ágæta eyða
Ilíonsborg;
var þat grunnhyggni
grams at kenna,
Láomedons
ins-lýðum-fræga“.
332. „Hreytti hann illyrðum
til Herakless,
nè honum greiddi
gullinfaxa,
þótt honum færist vel,
ok fyrir þá

liðinn væri
úr löndum fjarrum".

333. „En þat ætla ek,
attu aldrtila
ok feigð ferliga
fyrir mèr hljótir
hèr á vígvelli,
ok varga seðjir".

334. „Mèr muntu háva
herfrægð veita,
vísir, veginn
vigri mínum;
en önd þína
muntu, öðlíngr,
Hadesi gefa
inum hestfræga."

335. Talaði Sarpedon;
en Tlepólemus
æfr sveiflaði
eskidarri;
ok jafnsnemma
æða gerðu
lensar lángir
frá lofðúngum.

336. Hitti Sarpedon
á háls miðjan;
óð gerst gegn um
gúngnis broddr;
en svartnætti
fyrir sjónir dró
döglíngs deyjanda,
ok dag huldi.

337. En Tlepólemus
tiggja hitti
á lær mitt
laungu darri;
hljóp oddr æðandi
inn at beini,
en fylkis faðir
sá við fjörtjóni.

338. Báru þá böðfrægir
buðlúngs liðar
Sarpedon braut
frá sverða leiki;
dró döglíngr
darr it lánga;
en þat sársauka
svárum olli.

339. En eingi hafði
hugat at því,
nè gætr gefit
fyrir gunnar móði,
at eskidarr
úr öðlíngi næmi,
at á reið stillir
of stíga mætti;
svá var strítt starf
stúfsvaldenda
svárum ok snúðgum
at sverða leiki.

340. En á hönd aðra
Akkverjar báru
Tlepólemus
tiginn á braut.

341. En er þat sá
Odysseifr,
þeingill inn ágæti
ok þrautgóði,
þá varð hjarta hans
hörðum ekka
sveipat, ok svárri
slúngit gremi.

342. Var þá á hvörfum
hildíngs munr,
nè hann glöggt rèð,
hvat gera skyldi:
hvárt hann fyrst

ins háþrumanda
arfa Seifs
of elta skyldi,
eðr ætti hann
aldri at ræna
liða lýðmarga
Lýkíu-sveita.

343. En þá eigi
Odysseifi
auðit var
öðlíng vega
hjartaprúðum,
ok Herjaföður
vegligum syni
vinna dauða.

344. Snèri þá Aþena
Odysseifi
at liðum hraustum
*Lýkíufoldar*:
vág hann Köyranus,
ok Kromíus,
ok Alastor,
ok Alkander.

345. Vág hann Halíus,
herðimóði,
Nóemon prúðan,
ok Prýtanis;
ok þar enn fleiri
Odysseifr
hefði lágt of lagt
Lýkíumanna,

346. Hefði eigi þá
inn hjálmkviki
Hektor mikli
hans varr orðit;
fram gekk þá fylkir
of frumherja,
skínanda skrúðvarinn
Sköglar málmi.

ρ. V, 672-690.

347. Skaut skjöldúngr
skelk í bríngu
Danáum; en dýrr
döglíngr gladdist
Sarpedon, Seifs mögr,
er sjóli kom,
ok kveinstöfum kvaddi
kynfrægan hal:

348. „Mærr Brjáms mögr,
mik eigi hèr
liggja þú lát
á láðvelli,
at mèr fjandr ei
fjörtjón vinni,
ok mik Danáar
dragi at bráð“.

349. „Nábjörg heldr mèr,
niflúngr, veit;
þá mun ek glaðr
at garði yðrum
svífa sælum frá
sólarheimi,
ok fagra kveðja
foldar daga“,

350. „Með því eigi mèr
mátti auðnast
heim aptr fara
til fóstrlands,
ok kæra kván
at kæti vekja,
ok bur minn blíðan
barnúngan sjá“.

351. Mælti svá hilmir;
en hinn hjálmkviki
annsaði honum,
Hektor eigi;
heldr stríðmóðugr
steðja náði
fram hjá fylki

er á foldu lá,
at hann sem fyrst
Akkverja mætti
morði móðga,
ok marga vega.

352. En fèlagar
fræknir lögðu
Sarpedon sjóla
sárum orpinn
ætibjörk undir
Ægiskjalda
forkunnar-fagra,
fjöllaufgaða.

353. Kippti þá Pelagon
inn prúðfrækni
eskivigri
úr öðlíngs læri;
sá var fèlagi
ok frækinn sinni
Sarpedons,
Seifs hróðmagar.

354. Leið þá ómegin
á öðlíng fallinn,
ok sorti sè
fyrir sjónir dimmr;
en hann aptr at bragði
anda þáði;
blès norðanblær
ok of buðlúng lèk;
lífgaði önd aptr
örmagnaða.

---

355. En Argverjar aldri
undan viku,
nè til svartra
snèru gnoða,
undan Aresi,
ok eirserkjuðum
Hektori, hildíngi
inum hjálmkvika.

356. Nè þeir heldr við
hrökkva gerðu
til mótvarnar,
at mækis leiki;
en þeir hopuðu,
er þeir harðan vissu
Ares stoða
aldir Tróju.

357. Hvern þar vágu fyrst,
ok hvern síðast,
Hektor, hróðmögr
hilmis Tróju,
ok sverða-guð,
svárum málmi,
darra drottinn
inn dreyr-ólmi?

358. Vágu þeir Tevþrant
tívum glíkan,
ok Órestes
inn jóvalda;
Trekkus ágætan
frá Etólíu,
ok ítran enn
Öynómáus.

359. Vágu þeir Helénus,
horskan Öynóps mög,
ok Óresbíus, gram
gyrðilkvikan;
átti halr heima
at Hýlu þessi;
átti glæsta gnótt
af góðmálmi.

360. Bjó kappi sá
at Kefísa-vatni;
en Böyótar fleiri
bjuggu þar kríng um;
váru þar landskostir

lýðum góðir,
at frjóvsælu
foldar skauti.

---

361. En er Hera sá
in hvítarmaða,
at Argverjar
aldrtjón biðu
harðri hildi at,
þá nam himins freyja
orðum vænghröðum
Aþenu kveðja:
362. „Heyr undr mikit,
Atrýtóna,
Allföður jóð
ægiskjalda!
víst höfum vit
ve*itt* til einkis
*Menelási* heit,
*þat* er honum gáfum:“
363. „Þá er hildíngi
of heita rèðum,
at hann Brjáms borg
of brjóta skyldi,
ok at unnu því
aptr halda
heim at ljúfu
láði feðra“.
364. „Er þat ónýtt heit,
ef við hamslausan
Ares látum
æða þannig.
En vèr einnig nú,
naðels Freyja,
skulum máttar neyta,
at morði stríðu“.
365. Mælti svá gyðja;
en in glóeyga
á hlýddi Aþena
orð um kveðin.
366. Fór því næst Hera
hátignarlig,
dóttir Kronusar,
dýrðligs tíva,
ok út bjó
undrskjóta
gota ginnragna,
gullbeizlaða.
367. En hjól in hveldu
Heba setti
hratt á flugharða
himinkerru;
eiri varin,
átta spelum;
járnmöndli studd
at jörmunsvifi.
368. Var hjólfaldr
hverfðr gulli
ok óslítandi
of aldrdaga,
en it efra váru
eirspeingr felldar;
þat var undrsjón
augum at leiða.
369. En hjólnafir
af hvíta-málmi,
ok um renndar
alla vegu;
en kerrustóll
knúinn böndum
úr gulli glóanda
ok grá silfri.
370. En kerrubogar
beygðir váru
tveir í kríng
um kerrusæti;
en frá stóli

var staung lagin;
sú var úr silfri
smíðuð hagla.
371. Batt ágæt gyðja
á yztri staung
glæsiligt ok,
gulli slúngit;
smeygði okreimum
salar freyja
í þat, gullligum
gripum himna.
372. Leiddi undir ok
jóa síðan
Hera hvítörmuð
ok hála keyrði;
svall meginmóði
it mikla goð
eptir ófriði
ok ógnar glaumi.
373. En Aþena,
Allföður jóð
ægiskjalda,
af sèr steypti
möttli mjúkum
at miklum sal
Herjaföður
ins háþrumanda.
374. Var marglitr
möttull gyðju;
hafði sjálf unnit
höndum sínum;
klæddist síðan
kyrtli stórum
skilfíngs Seifs
skýjabólstra.
375. Hervæddist harðröm
hjörva Freyja,
ok at beiskum bjóst
böðvar leiki.
ρ. $V_1$ 729-746.

376. Varp hún of herðar
víðri törgu:
ægiskildi
inum ógurliga,
skúfum skrúðbúnum,
skelfíng um settum
ok náfölvum
nauðum dauða.
377. Þar var á skildi
skrýddum dregin
Vörn, ok Deila
in dólgsæla;
var ok Ofsókn
á örlög-baugi,
frostköldum fáin
feigðar hrolli.
378. Var þar ok geigvænn
Gorgóar hauss,
óvættar illrar
ok ægiligrar;
þat var ógnmerki
Ægiskjalda,
Seifs, þat er blöskra
beimum lætr.
379. Brá bóluhjálmi
böðvar Freyja
fjórbóluðum
fagrgullnum
sèr á höfuð;
ok und honum mundu
halir felast mátt
hundrað borga
allir at einu
í orrustu.
380. Steig síðan *fótum*
fölvis gyðja
upp í logandi
ljóma-kerru;
tók þúngan geir

í gilda mundu
sterkan ok stinnan,
þeims til storðar fellir
máttugs mildíngs jóð
mækisvalda
sveitir svárar,
þá er svellr móðr.
381. Ok síðan snöggt
of snerta náði
svipu snúðgri
silfrtoppa;
en glymjandi
geingu sundr
hurðir sjálfkrafa
himinsalar,
382. Þær er misseris
mærar gyðjur
gæta gerðu,
er gjörvallan
himin geyma,
ok hástöðvar
Ólýmps tinda,
þars tívar búa;
eiga þær jafnt
upp at ljúka
almyrkvu skýi,
ok aptr lykja.
383. Hèldu þær of hlið
himinsala
jóm sprettfráum,
sporum-keyrðum.
384. Hittu þær Kronusar
kon allvaldan,
er hann jólnum sat
öðrum fjarri,
á tindi hæstum
tíva leitis,
marghálsuðum á
meginhnjúki.
p. V, 746-764.

385. Þar mundi Hera
in hvítarmaða
styrkum fákum
stöðvun veita;
ok allvaldan
arfa Kronusar
orðum á varp,
ok eptir frètti:
386. „Seg mèr þat, Seifr,
sigtíva faðir,
leiðist þèr ei iðn
Aresar skæð,
hve hann um eyðir
Akkverja sjót,
svívirðuliga,
ok smán of veldr?“
387. „Svellr mèr sefi,
er ek slíkt of reyni;
ok næðisgóð
at naðeli
Kýpris kætist,
ok konúngr skeyta,
Apollon, sjóli
silfrbogvaldr,
þau er ólman
eggjat hafa
lofðúng þenna,
er við lög ei kannast“.
388. „Muntu reiðast mèr,
ragna faðir,
þó ek ólman braut
Ares reki,
ok sverða guð
svárum höggum
frá böðvi beysti,
inn böðvalda?“
389. Svaraði aptr
sjóli skýbólstra

hátignarligri
himins freyju:
390. „Heyr mèr þá, Hera!
sendu honum mót
fölvis Freyju
ina feingsælu;
sú er vön
sárt at leika
sváru hann
sverða bölvi“.
391. Mælti svá Seifr;
en it svása goð
himna sjóla
heyra náði,
ok bitilhreina
beysti ólum
svipu snúðgrar
salar freyja.
392. En silfrtoppar
svifu viljugir
undir gyðju
á gullreiðu;
fóru mitt millum
moldar jaðra
ok meginboga
Múspells sía.
393. Eins lángt ok eygir,
sá á efstum sitr
bjarga tindi,
yfir bláan ægi:
eins mundu at einu
undir sik leggja
stökki hestar á
hádunandi.
394. En er hávar komu
himins freyjur
Trójuborgar til
ok tærra strauma,
þar sem Símóis
saman hverfir
fossum skjálfandi
við Skamandr.
395. Þar nam at stöðva
styrka jóa
Hera, himindís
in hvítarmaða;
leysti reiðum frá
reiðarbríma,
ok mjörkva miklum
yfir mari brá;
en Símóis
svásan þeim
ódáinssmára
upp lèt renna.

---

396. Geingu svá gyðjur,
í gaungu líkar
skundandi styggum
skógardúfum;
vildu óðfúsar
veita Argverjum
at skæðum leiki
Sköglar dóma.
397. Svifu þángat þær,
er þegnar stóðu
flestir ok fræknastir
kríng um fólkvaldan
Díómedes
inn darrumfræga;
váru þètt þreingdir
í þyrpíngu.
398. Váru halir líkir,
þeim er hrátt eta,
dýrum óarga,
eðr ólmum göltum,
þeim er aldri
aflfátt verðr.
399. Þar nam hvítörmuð

ρ. V, 764-784.

Hera staðar,
ok ægiligu
ópi hreifði;
lík var hún Stentori
inum stórhugaða,
er eirgjallan róm
eiga náði,
sá er raust renndi
úr ranni hljóða,
sem fimm tugir
fíra annarra:

400. „Smán er at slíku,
synir Argverja,
huglausir erut èr,
en horskir sýnum“.

401. „Meðan ágætr
at eimnis leiki
gekk Akkilles
grátvaldanda,
þá mundu Tróar
tírargjarnir
aldri út dirfast
fyrir Dardans hlið“.

402. „Því þeir óttuðust
ógnstyrkan dör
grams ins gunntama
geiskafullir;
en nú heimar lángt
frá Brjáms múrum
dólg of drýgja
at dýrum sævar“.

---

403. Mælti hún þannig,
ok móð of vakti
hal sèrhverjum
í hugar sæti;
en in glóeyga
Ginnregins mær
hljóp til tírargjarns
Týdeifs arfa.

404. Hitti hún hilmi
hjá hestum fráum,
ok reið hveldri,
þar ræsir kældi
und þá, er áðr
öru laust
Pandarus hann
inn prúðlundaði.

405. Ángraði öðlíng
óðr sviti
und fagrkríngdrar
fetli randar;
mæddist í mundu
meginsærðri
skati skærr
fyrir skjaldarþúnga.

406. Hèlt hann upp fetli,
ok fram rennanda
þerraði dreyra
dökkva strauma;
snart þá ok fáka
sverða Freyja,
ok orðum þeima
öðlíng kvaddi:

407. „Er-at iðglíkr
arfi Týdeifs
föður ágætum
at ásýndum;
var Týdeifr
at vexti lítill,
en inn röskvasti
at randa glaumi“.

408. „Ok þá ek áðr
öðlíngi bannaða
darr at dýja,
eðr dólg of reisa,
þá er sendr var

sjóli til Þífi
Akkverjum frá
til afar-margra
Kaðmuss kníа
kröptum stórra“:

409. „Rèða-k þá ræsi,
at með rekkum sæti
at veizlu vegligri,
nè á víg hygði;
en sefa inn sama
sváran hafði
eins ok áðr
ítr sjóli“.

410. „Kallaði hann Kaðmúnga
at kappleiki;
vann verðlaun hver
vísir hægliga;
veitta-k þá slíkan
siklíngi heiðr,
ok sigrmátt svásan
at sigförum“.

411. „Stend ek þèr víst,
stillir, at hlið,
ok þín gerst
of gæta nái;
hvet ek þik, hilmir,
fyr' hvatvetna,
attu heima Brjáms
blóði rjóðir“.

412. „En nú er
eitt af tvennu:
annathvárt ertu
óðri þjáðr
þreytu, þeingill,
í þínum limum
af erfiði
afar-þúngu“,

413. „Eðr ok þik æðra
afllaus veikir,

p. V, 804-822.

ok þik altekr
æstum skjálfta;
en þá ertu ei
arfi Týdeifs,
Öyneifs sonar
ins alfræga“.

414. Aptr annsaði
orðum gyðju
Díómedes
inn dólgrami:

415. „Kenni ek þik vel,
kvernbíts Freyja,
Allföður jóð
ægiskjalda;
mun ek því einlægum
orðum mæla
ok eingu leyna,
nè undan fella“.

416. „Emk-at ek aflvana
æðru haldinn,
nè lúa leiðum
of limu þjáðr;
en ek enn of man
áminníngu,
þá er gafstu mèr,
gyðja, fyrri“:

417. „Bannaðir þú mèr
at beita móti
sigtívum sælum
svárum brandi,
nema ef Allföður jóð,
Afrodíta,
svifi blóðgum at
sverða glaumi“,

418. „Þá skylda-k særa
sjafna dís
yddum eirmálmi,
ok und of vekja;
þessari af

áminníngu
hopa ek nú,
nè ek hjörvi beiti".
419. „Hefi-k öðrum ok
Argverjum boðit
hinnig at þyrpast
hölum öllum;
því at ek skil,
at skálma drottinn
ræðr Ares nú
at orrustu".
420. Annsaði aptr
ítrum sjóla
gyðja in glóeyga,
Ginnregins mær:
„Dýrr arfi Týdeifs,
Díómedes,
hjartkærastr mèr
fyrir mold ofan!"
421. „Ei skaltu þar fyrir
Ares hræðast,
nè nokkurn annan
uppheims tíva;
því slíkan veiti-k þèr
sigrljósan
heiðr at hildi
ok hjálp mæra".
422. „Halt nú fyrst, hilmir,
hestum þínum
móti morðtíva
inum mannskæða;
högg til hjörvaguðs,
ok hvergi æðrast
Ares vígólman
at einvígi".
423. „Þótt óðr þrammi
of þrimars eingi
böðvar bölsmiðr
inn brigðlyndi:
hèt hann okkr fyrr,
Heru ok mèr,
þá er hann okkr
orðum mælti",
424. „At hann heima Brjáms
of beysta skyldi,
ok Argverjum
at ógn um veita;
en hann nú Brjáms
heimum hjálpar;
hefir hinum gleymt
ok úr huga sleppt".
425. Svá mælti sigprúð
sverða Freyja;
ok Stenelus af kerru
til storðar hratt;
kippti heimi
á bak aptr,
en hann þegar braut
of þjóta náði.
426. En sjálf steig
á stól reiðar;
settist hjá dólgrömum
Díómedes;
var í vígahug
vilgi tryggum;
svall sigmóði
sefi drjúgum.
427. Brast ok brakaði
í bjarkar-möndli
reiðsvárum undir
reginþúnga;
því buðlúngr beztr
und boga sólar
ók ok æg gyðja
á gullinreiðu.
428. Sjálf tók þá svipu
ok snúðga tauma
Pallas Aþena

in prúðhjartaða;
hèlt hún einhæfðum
hildarfákum
fyrst mót Aresi
fólka-tíva.

429. Var þá vígaguð
vápn at fletta
af Perífanti
inum feiknstóra;
var hann ítrastr
með Etólum,
ágætr arfi
Okesíuss.

430. Fletti buðlúng þann
böðvar skrúði
darra drottinn
dreyrflekkaðr;
en hulins-hjálmi
yfir höfuð brá
Aþena, at Ares
ei hana sæi.

431. En er ágætan
augum leiddi
Ares dreyrsólginn
Díómedes;
þá lèt hann liggja
lofðúng stóran,
Perífant
inn prúðlundaða,
á svæði því,
er hann svipta náði
fjörvi fallinn gram
fránum málmi.

432. Gekk hann á móti
grami fákprúðum,
Díómedesi
inum dáðum-fræga;
en er váru þeir,
þeingill ok gumi,

ρ. V, 840-859.

hvárr öðrum nærri
á naðvelli,

433. Þá seildist Ares
svárum armi
upp yfir ok
ok jótauma,
ok eirdarri
ólmr lagði;
vildi öðlíng
öndu ræna.

434. En gyðja sverða
in glóeyga
greip um gunnar flein
gildri mundu,
ok út frá römum
reiðar stóli
vigri vendi;
var-at hæfíng nýt.

435. En döglíngr aptr
Díómedes
móti morðguði
máttugum reis,
ok vigr sendi
varinn eiri;
stefndi Aþena
stinnu darri
neðstan í nára
naðels drottins,
þar sem bryngyrðill
brást of miðju.

436. Lostinn var lagi
lögðis tívi;
hljóp it hvítbjarta
hold í sundr;
kippti döglíngr
darri síðan
aptr út
eiri vörðu.

437. Orgaði Ares þá

eirvápnaðr,
sem níu þúsundir
naðels boða,
eðr törgu hlyna
tíu þúsundir
heróp hefja
at hildar leiki,
er saman svartar
síga fylkíngar.
438. Urðu allir
Akkverjar þá
ok skatnar Brjáms
skelfdir ótta;
svá hátt öskraði
ímuntívi,
darra drottinn
inn dreyrsólgni.

---

439. Sem þá svartmjörkvi
sèst á skýjum,
ok niflheims niðdimma
nóttu svartari;
þá er hita eptir
höfgan sólar
stórviðri steðjar
of storðar þröm:
440. Eins var tilsýndar
tívi sverða,
Ares eirvarinn,
fyrir öðlíngi
Díómedes, tignum
Týdeifs arfa,
þá er hann svörtum
sveiptr skýjum
sveif at svalbogum
salar himna.
441. Kom hann skjótliga
at skörðum tindi
Ólýmpus
uppheimsbúa;
settist hjá Sigföður,
svárum orpinn
meginmóði
ok megnum harmi.
442. Sýndi hann Allföður
ódauðligt blóð,
þat er út úr rann
undar djúpi,
ok kveinstöfum
konúng himna
orðum vænghröðum
ávarpaði:
443. „Gremst þèr ei, góðr
guða sjóli,
er þú æg þessi
afarverk sèr?
Erum vèr ætíð
illu vorpnir
himinbúar
hvárr af öðrum,
þá er viljum vèr
virðum foldar
liðveizlu veita
ok lán gefa“.
444. „Erum allir þèr
upp á móti;
því at þú hefir
af þèr getið
óvitra dóttur
ills um valda;
vill hún illsku æ
ok óhæfu“.
445. Því allir aðrir
uppheimsbúar,
þeir er Ólýmpus
efstan byggja,
hlýðni þèr,
hilmir, veita;

erum þèr allir
undirgefnir“.
446. „En þú aldrei henni
ávítur fær,
eigi með orði,
ok ei með verki;
heldr hana þú
helzt of æsir,
er þú sjálfr ólst
illa dóttur“.
447. Æsti hún nú
inn afarríka
týframan upp
Týdeifs arfa,
at hann óðlátr
mót uppheimsguðum
darr of dýði,
ok þeim dreyra vekti“.
448. „Særði hann Kýpris
sverði fyrsta,
á úlnliði,
ofarr mundu;
óð at mèr síðan
einna nokkrum
guði glíkr,
í grimmum hug“.
449. „Hefða-k þá eigi
hörfat undan,
fráum fótum
ok forðast mátt,
þá munda-k valköstum
vorpinn þúngum
leiddr laungum
legit kvölum,
eðr ok hefða-k
fyr' eirvápni
lífs aflvana
of orðit hafa“.
450. Sökkti brúnum
þ. V, 878-897.

sjóli skýbólstra,
ok aptr honum
annsvör greiddi:
451. „Sittu mèr eigi
sýtandi hjá,
brigðlyndr, bölvíss
böðvar drottinn!
ertu mèr leiðastr
allra tíva,
er Ólýmps byggja
aðalstöðvar“.
452. „Eru ætíð þèr
illlyndi kær,
böðvar böl
ok branda glymr.
Hefir þú Heru
harðan þegit
móð, móður þinnar,
ok megínríkan“,
453. „Þeirrar er ek varla
of valdið fæ,
nè með orðum stillt
ógnar sefa;
er þèr nú víst
af völdum hennar
böl þetta búit,
ok beiskir harmar“.
454. „Má ek þó eigi
í muna þola,
attu leingi svá
leiðist kvölum;
ertu mínum af
mætti alinn,
ok þín móðir þik
mèr um fæddi“.
455. „Ef þú, Ares,
ills um valdr,
getinn værir
guðum öðrum,

þá mundir þú
mögum Úrans
fyrir laungu
lagiðr neðarr“.

456. Mælti hann svá;
ok síðan bauð
Peoni at lækna
lögðis tíva;
reið þá Peon
á raman guð
smyrslum svásum,
at sefaðist kvalar,
ok hann læknaði;
því at eigi var
Ares dauðligum
örlögum getinn.

457. Sem fíkjulyf
*fljótt* of hleypa
saman hvítum
safa júgra,
þeim er þunnr snýst
þyrli snúðgum
fyrir hals höndum,
er hræra náir:

458. Svá mundi óðlátan
Ares lækna
Peon skjótliga,
skálma drottin.
En Heba laugaði
hilmi síðan,
ok hann skínanda
skrúði bjó.

459. Settist at þat
hjá Allföður
dáðum-hróðugr
drottinn geira.

460. En þær aptr
í Allföður sal
gánga náðu,
gyðjur máttkar:
Hera in argverska,
ok Aþena,
Alalkomens dís
in augum-glæja;
þá er höfðu þær
hætta látið
Ares manndrápum
inn mannskæða.

---

ρ. V, 898-909.

# SJÖTTA KVIÐA.

DRÝGÐU nú einir
darra leika
Tróar ítrir
ok Akkverjar;
geysaði vígglaumr
af grund víða,
hinnig ok þinnig
hjörvar súngu.
2. Skutu skatnar
sköptum eirvörðum,
annarr annars til,
efldum móði;
þat var á miðil
meginstrauma
Ksantuss særunnins
ok Símóis.
3. Rauf þá týframr
Telamons niðr
Aiant, megin-múrr
mækis-þjóða,
fyrstr fylkíngu
frækinna Tróa,
ok vígljós vegöndum
vöskum færði.
4. Vág hann inn vaskasta
vera þrakneskra,
Akamant, nýtan
Evsórus son,
mikinn vexti,
vænan sýnum.
5. Hitti þann
halr fyrstr
á ægis-knapp
jörmunfextan:
kom höfugt högg
hals á enni;
gekk eirs oddr
at innstu beini;
sè sorti dauða
fyrir seggs augu.
6. Drap inn rómsterki
Díómedes
Axýlus, tiginn
Tevþrants arfa;
sá átti heima
halr vaskr
í Arisbu
ítrbyggðri.
7. Var rekkr ríkr
af rauðmálmi,
ok mannheill
mikla hafði;
því hann gumna hveim
gistíng veitti,
ok á þjóðvegum
þrautrunnum bjó.
8. Gekk þó eingi þá
gram at verja,
ok illum eyða
aldrtila;
nè nokkurr njóta
fyrir niflúng fram
gekk, at hönd honum
fyrir höfuð bæri.
9. Svipti þar báða
seggi fjörvi
Díómedes:
döglíng sjálfan,
ok kerrusvein hans
Kalesíus.
10. Var hann þjónn þá
þeingils frækinn,

ρ. VI, 1-18.

ok fólk-kerru
fèkk at stýra.
þeir hurfu báðir
fyrir hauðrs borð,
ok moldu myrkri
mundu sveipast.
11. Vág Evrýalus
Ofeltíus,
ok Dresus
inn dáðum-rakka;
elti síðan
af ímun-móði
Pedasus ítran
ok Esepus.
12. Þá hafði áðr
Abarbára
alit ægis dís
við ágætum
*Búkolíóni*,
buri fylkis
lofsæls, lýðkunnigs,
Láomedons.
13. Hann elztr var
jöfri getinn:
ól arfa frægan
eiða á laun;
því Búkolíón
með bjartri knátti,
er hann at sauðum sat,
svinnr hvíla.
14. Varð bárubjört
barnshafandi,
ok tvíbura
týframa ól;
þeim vann Mekisteifs
mögr bana,
lèt aflvana
limu gerða;

ok vápn vafði
af vera herðum.
15. En Polýpöytes
inn prúðhugaði
Astýalus
aldri svipti;
ok Odysseifr
með eir-darri
Pidýtes vág
inn perkótska.
16. En Tevkrus vág
inn týframa
Aretáon,
ok öndu rænti;
ok Antílokkus,
arfi Nestors,
Ablerus vág
vigri fáðum.
17. En Elatus
alda stýrir
aldri rænti
Agamemnon;
byggði háva
borg Pedasus,
svásum bökkum á
Satníóis.
18. En Leítus
lofðúngr vág
Fýlakus fræknan,
er hann flýja vildi;
ok Evrýpýlus
öndu rænti
Melantíus
at morðleiki.
19. Þá tók Menelás
inn málrómsterki
höndum Adrestus,
hal lifanda;
því at hestar hans

á hervelli
fælast fremst mundu
fölvis gjálbr.
20. Fældust prúðfextir
í pors-kvisti,
ok fólkvagns staung
fremsta brutu,
en borgar til
báðir runnu,
þángat er fældir flýðu
fákar aðrir.
21. En knár valt
úr kerrusæti
Adrestus ofan
hjá öflgu þjóli;
geysaði gramr
á grúfu niðr
at aurmoldu
ímunvallar.
22. Nam þá staðar
hjá niflúngi
Menelás, Atreifs
arfi frægr;
hafði í hendi
harðmáttigri
lángskept darr
dróttar skati.
23. Tók þá Adrestus
um tiggja knè,
ok buðlúng bað
bænar orðum:
24. „Gef mèr grið, Menelás
mögr Atreifs;
muntu ljósa þiggja
lausnar málma;
er at auðsölum
ógrynni fjár
föður míns
ins feiknauðga“.
ρ. VI, 38-57.

25. „Er þar gulls gnótt,
ok grátt silfr,
ísarn eljanþrátt
it iðseiga!
þess mun ái minn
ógrynni þèr,
vísir, veita,
fyrir veittum griðum,
ef hann mik lífs
at lagar dýrum
spyrja getr
gumna akkneskra“.
26. Mælti hann svá;
en móðakarn
viknaði við
vísis harða;
vildi hann þegar
ver of fá
sveini sínum,
at hann segg leiddi
at stafnbjúgum
stála hreinum.
27. Þá hljóp öðlíngr
Agamemnon
bróður móti
böðvarfrægum;
ok hárri röddu
hildar skati
knár nam at kalla
at konúngi:
28. „Hví þik, blóði
inn böðvarfrægi,
sárt svá tekr
til seggja þeirra?
Hafa víst ágæt
at inni þínu
verk of vunnit
virðar Trójju“.
29. „Skal nú eingi

skatna þeirra
illan um flýja;
aldrtila,
ok harðefldar
hendr várar;
skal-at lind ljósa
lagar skærra
ala mæran mög
í móður-kviði“.
30. „Eigi skal hann
andrán flýja;
en allir skulu
skatnar vegnir
Ilíons-borgar,
ok ógrafnir
nöfnum numdir
fyrir naðmálmi“.
31. Mælti svá hetja,
ok hug snèri
þekkum þegar
þjóðar skata,
því at heilræði
hildíngr kvað.
32. Hratt þá Menelás
mundu knárri
frá sèr ítrum
Adrestusi;
en Agamemnon
yfirstýrir
í nára lagði
á niflúngi.
33. Fèll hann í lopt upp
at láðvelli;
en Atreifs niðr
inn ítrfrægi
nam á fylkis brjóst
fæti stíga,
ok eskidarri
út úr kippti.
ρ. VI, 57-75.

34. Kallaði þá
knúðum rómi
Argverja til
ítr Nestor:
35. „Heyrit, hróðvinir,
hetjur Danáa,
þjónar geira-guðs
gráserkjaðir!
dvelji nú eingi,
nè darra-skrúði
hyggist at svipta
hali fallna“,
36. „At hann sem mest
meiðma flytji
stafnbjúgum at
stála hreinum;
munum heldr vèr
hali vega;
síðan í tómi
taka skulut
vápn á vígvelli
vápnbitinna“.

---

37. Sagði þat sjóli
ok sèrhverjum
dug nam at drýgja
ok dáð í brjósti.
38. Mundu þar Tróar
fyr' tírargjörnum
Akkverjum hafa
aptr hopat
inn í ógnrama
Ilíons-borg
vígþreytu vunnir
ok varnarleysi,
39. Ef ekki til
Eneasar
ok Hektors
hefði geingit

Helenus, horskr
hróðmögr Brjáms,
forsagnir fugla
fremst vitandi:
40. „Eneas (kvað hann)
ok ítr Hektor,
sem á ykkrum helzt
herðum liggr
Lýkíumanna
ok liða Tróju
herstarf ok höfgi
hildar leika“,
41. „Er þit hraustastir
hverra erut,
ok alls of ítrastir
at orrustu,
ok manna mestir
at meginhyggju“.
42. „Nemit staðar hèr,
naðels boðar,
ok brögnum haldit
fyrir borghliðum,
ok um árnit
alla vegu,
fyrr en þeir flýjandi
fljóðum sínum
í faðm falli
ok fjandr kæti“.
43. „En er hafit it
herfylkíngar
eggjat allar fram
at iðleiki,
munum bíða hèr,
berjast við Danáa,
þótt vèr þrekaðir
ok þjáðir sèm“.
44. „Því at nauðr nú
náir bjóða;
en þú, Hektor,

ρ. VI, 76-95.

hald til borgar,
ok á tal tak
tignarliga
móður mína,
móður þína“.
45. „Saman skal hún safna
svinnum tróðum
upp í heilagt hof
í hæstri borg,
þat er glóeygri
Ginnregins mey
helgat hafa
hölda kindir“.
46. „Helgum skal hún hurðum
hofs upp ljúka,
ok at láss lokum
lykli snúa;
möttul skal hún taka,
er mestr henni
virðist ok vegligstr
at vegsölum“,
47. „Ok er mest ann
okkar móðir;
grip skal hún leggja
í gyðju knè,
Aþenu, heilagrar,
haddfagrar“.
48. „Hún skal henni
heiti gefa,
fórn at færa
fjórar þrennar
kvígur ársgamlar
ok ólostnar
at hofs garði
hála reistum“.
49. „Ef at svá mætti
máttug gyðja
yfir aumkvast
Ilíons-borg,

konur kinnfagrar
kesju reyna,
ok barnúnga
buri þeirra“.
50. „Ef at mætti hún
móðgum bægja
Týdeifs arfa
frá Trójn heilagri,
trylldum, týfrömum
törgu skelfi,
flótta-frömuði
fólkum-djörfum“.
51. „Þann kveð ek þeingil
þrautramastan
Akkverja vera
at örlygi;
nè vèr áðr svá
fyrir Akkillesi
æðrast náðum
aldar skata“,
52. „Þótt hann rekkar
runninn kveði
af ginnheilagrar
gyðju skauti;
en þessi ólmr
æða náir;
er honum eingi jafn
at ímunmóði“.
53. Mælti hann svá;
en mærum bróður
hvergi óhlýðnast
Hektor náði;
stökk þegar stillir
at storðar þröm
af hveldri reið
í herklæðum.
54. Veifði vísir
vigrum hvössum,
óð ægiliga
um allan her;
eggjaði ýta
at eimnisleiki;
valglaum válígan
vekja náþi.
55. Snèrust þá skjótt við
sveitir Tróa,
ok mót Akkverjum
öndverðir stóðu;
en Argverjar
undan viku,
ok manndrápum
mundu lètta.
56. Hugðu þeir af himni
horfinn niðr
stirndum nokkurn
sterkra tíva;
svá mundu Tróar
tírargjarnir
snarliga við snúast
móti sigþjóðum.
57. Kallaði þá Hektor
hvellum rómi
tírargjarnra til
Trójumanna:
58. „Ofrhugaðir
ýtar Tróju,
ok liðsmenn frá
löndum fjarrum,
alit meginmóð,
manndáð sýnit,
aukit þrótt ok þrek
at þrymu hjörva“,
59. „Meðan ek til borgar
búumst at snúa;
vil ek öldúngum
ítrum bjóða
ok konum várum,
at kalli þau

ρ. VI, 95-115.

há til hjálpar
himna regin,
ok heiti þeim
hundraðs blótum“.
60. Gekk þá Hektor braut
inn hjálmkviki;
er hann orð slík
innt of hafði;
skalf á herðum,
skall við hæla
leðr lyndi
sá er lagðr var
yzt of rama rönd
reginhvelda.

---

61. Geingu fram á völl
víga miðjan
Glákus hróðmögr
Hippolokkuss,
ok týframr
Týdeifs arfi;
váru báðir
í vígahug.
62. En er nærr geingust
naðels boðar,
annarr annars til
á eingi rómu,
þá mælti fyrri
inn málrómsterki
Díómedes,
ok dólg kvaddi:
63. „Hverr ertu, inn horski
hildar frömuðr?
hverjum dauðligum
dróttum alinn?
Sák-at ek þik fyrr
at sigjöru,
er öld eflir
ítrum heiðri“.
ρ. VI, 114-134.

64. „Hefir þú nú
í hugar-móði
of lángt geingit
fyrir öld of fram,
er þú óvitr
eptir bíðr
mínum lens
inum lángskepta;
því at ólánsmönnum
eru aldir, þeir
mèr sem at morði
móti ráðast“.
65. „En ef ertu
einna nokkurr
ódauðligra
uppheims tíva
svifinn mèr á mót,
munk-at ek þèr
andvígr etja
afli mínu“.
66. „Var-a því laung
lagin æfi
Lýkúrgi, darrstyrkum
Drýants arfa,
þá er atti hann
eljankappi
alsælum mót
uppheims guðum“.
67. „Snèri hann á braut
sinni nokkru
fóstrum óðs döglíngs,
Díónýsuss;
þat var helgum
hátindum á
Nysíons leitis
níðverk framit“.
68. „Vörpuðu þá allar
at velli niðr
blótstöfum brúðir

barðar harðla
af Lýkúrgi
lýðmorðíngja“.
69. „Dýrr þá æðraðist
Díónýsus,
ok í hafs báru
hverfðist niðr;
en hræddum
honum veitti
Þetis skjól
í skauti sínu“.
70. „Því at skjálfta var
skati lostinn
meginmáttugr
af manns þess æði;
en hóglífir
himintívar
ramla Lýkúrgi
reiðast náðu“.
71. „Svipti hann sjónum
sonr Kronusar;
nè hann leingi
lifði at þat,
er hann orpinn varð
eljanfjóni
tívum öllum af
ódauðligum“.
72. „Vil ek eigi morð
magnat þreyta
við góðra goða
ginnhelga sjót;
en sèrtu dauðligra
dreingja nokkurr,
þeirra er ávöxt
eta foldar,
gakk þá, garpr, nærr,
attu gjörva megir
endimörk kanna
aldrdaga“.
ρ. VI, 134-153.

73. Annsaði aptr
ítrum kappa
hróðmögr horskr
Hippolokkuss:
74. „Hví þú mik óf spyrr,
inn hugum-stóri
Týdeifs arfi,
of ættbálk minn?
Eru ættir manna
einkar líkar
laufgu limi
á lindar stofni“.
75. „Lætr vindr sum
at láði falla
lauf; en limfagr
lætr önnur
spretta skógr
af skauti greina,
þá er vártími
völlum fróar“.
76. „Eru allar svá
ættir manna;
sumar upp alast,
aðrar deyja“.
77. „En ef vita vel
viltu þetta,
skal ek segja þèr,
siklíngr, þat,
attu minn vitir
ættar boga;
er hann þó mörgum
mönnum kunnr“.
78. „Heitir Effýra
háborg at vági,
jóauðgu á
Argosláði;
þar var Sisýfus,
slægvitrastr

manna hverra
fyrir mold ofan“.
79. „Sonr Eóluss
Sisýfus var;
hann aptr gat
Glákus frægan;
en Glákus sá
geta náði
Belleróphontes,
brag snillínga“.
80. „Þeim höfðu regin
rík of gefit
fríðleik ok frækleik
fyrirmannligan;
en hann Pröytus
inn prúðlundaði
illum varp
eljanfjónum“.
81. „Var Pröytus
prúðefldastr
Argverja allra
yfirstýrir;
því at Seifr
und siklíngs sprota
hafdi lönd lagit
in lýðfrjóvu“.
82. „Hann rak bragsnjallan
Belleróphontes
leiðir lángar
af landi braut“.
83. „Varð Antea,
in ágæta
Pröytusar beðja,
bundin ástum,
ok samlag hún
hafa vildi
við böðfrægan
Belleróphontes“.
84. „Fèkk-at hún þó
ρ. VI, 153-170.
fram því komit
göfuglyndan við
gunnar mæríng;
þá laug in svása
siglis nanna,
ok við Pröytus
prúðlyndan kvað“:
85. „„Deyja þú skylir,
inn dáðum-snauði;
eðr þú bana vinn
Belleróphonti;
vildi hann við mik
vingott eiga;
en ek ei vildak
vísi þýðast““.
86. „Mælti hún þannig;
en þeingil tók
svár gremi,
er hann slíkt of frá;
var at þó vísi
á vilja landi
lofðúngs lagit
líf at taka“.
87. „Lèt hann lofðúng sendan
til Lýkíu,
ok honum jarteiknir
illar fèkk;
reist hann á rökspjöld
rama feiknstafi,
svára á spjaldi
saman lögðu“.
88. „Þat kvað hann skata
skyldu sýna
teingda-föður
inum týframa,
at bragsnjöllum
Belleróphonti
bani bráðr
búinn yrði“.

89. „Fór til Lýkíu
lofðúngr síðan
með leiðsögn ljúfri
ljúfra guða;
kom hann til Lýkíu
innar láðfrjóvu,
ok Ksantuss
kaldra strauma“.

90. „Tók honum vel
tiggi frægr,
víðrar Lýkíu
lýðkonúngr;
níu daga
veitti niflúngi;
níu uxum
nam at slátra“.

91. „En er tíunda
tígin birtist
mönnum rósfíngruð
Morgunskæra,
þá nam at spyrja,
þá nam at frètta
lofðúng lofðúngr
ljóst of erendi,
ok jarteiknir
á vildi líta,
þær er hefði hann
í höndum sèr“.

92. „En er döglíngr
frá dótturmanni
illa getið
jarteikn hafði,
þá bauð hann fyrst
Belleróſonti
Kímeru at drepa
kynja-stóra“.

93. „Sú var óvættr
af öllgum runnin
ragna rótum,

ρ. VI, 171-190.

en rekka eigi.
Ljón it fremra,
flugdreki it eptra,
haðna í miðju
var Hveðrúngs feima“.

94. „Blès hún brennandum
brísíngs gneistum
undirdjúpi frá
ægi-kverka;
henni bana bjó
Belleróſontes,
treystandi jarteiknum
tíva góðra“.

95. „Barðist hann síðan
í sinni annat
Sólýma við
ina sigfrægu;
kvaðst hann krappasta
kannat hafa
raun þá með ríkum
rekka þjóðum“.

96. „Vág hann it þriðja
inar vergildu
Skjaldmeyjar
skjóma gyrðar.
En er aptr kom
kappi síðan,
valdi vèl aðra
vísir honum“.

97. „Valdi hann landvíðri
úr Lýkíu
lofða hraustasta,
launsátr gerði;
en eingi aptr
ýta þeirra
heim rèð halda
frá hulins-morði;
því at öllum þeim
þjóðum-frægr

Bellerófontes
bana valdi“.

98. „En er öðlíngr
ágætan frá
Bellerófontes
borinn tívum,
þá honum hèlt
hjá sèr jöfurr,
ok dýra gaf döglíngi
dóttur sína“.

99. „Gaf hann honum
helmíng ríkis,
ok konúngstignar
kynbjartastrar;
Lýkíumenn
honum land gáfu
arðrs ok ávaxta
til eiginráða“.

100. „En gylfa dóttir
við goðbornum
Bellerófontes
börn þrjú átti:
Ísander horskan,
ok Hippolokkus,
ok Láodamíu
lokkum-fagra“.

101. „Lagðist inn ráðvísi
með Láodamíu
Seifr, sigtíva
sjóli ríkr;
ok hún eirvæpntan
ala náði
Sarpedon,
sigtívum glíkan“.

102. „En er bönd beystu
Bellerófontes
heiptum harðliga,
ok hatri vurpu,
þá hann einmana

ρ. VI, 190-210.

yfir reikaði
völl Aleions
vaxinn blóma“.

103. „Örmæddi öðlíngr
ágætt hjarta,
ok manna vegu
mundi flýja;
því at Ísander
arfi frægr
hafði fyr' Aresi
ólmum hnigit“.

104. „Þat var í orrustu
við ina iðfrægu
Sólýma sveit;
en svása dóttur
Artemis deyddi
dökkri reiði,
gyðja glófögr
gullintauma“.

105. „En mik horskr ól
Hippolokkus;
kveða mik af hans
kyni runninn;
hann mik til Tróju
hinnig sendi;
lagði ríkt á,
þá er leið ek braut“,

106. „At ek væri æ
efstr at hreysti,
ok annarra ýta
yfirmenni,
ok at ek eigi
ættarleri
aumr yrðak
ættar hárrar“.

107. „Því forfeðr mínir
frægstir váru
í Effýru ok Lýkíu
inni landvíðu.

Þá kveð ek ætt mína;
þykjumst ek vera
af rótum runninn
ríkum þeima".
108. Svá mælti ríkr
reynir sverða;
en málrómsterkr
mundi kætast
Díómedes
inn darrum-frægi.
109. Mundi hann stínga
meginþúngum
geiri í grundu
gagnblómgvaða,
ok á varp
orðum blíðum
þjóðhöfðíngja
þjóðum-frægan:
110. „Ertu þá ljúfr
frá lángfeðgum
gestfèlagi minn
gamals aldrs.
Því at Öynefr
inn ágæti
hýsti bragsnjallan
Belleróf ontes
sínum í sölum,
ok sjóla hèlt
daga tuttugu
dáðum-frægan".
111. „Veitti hvárr öðrum
vísa þar
gestgjafar góðar,
gullfágaðar;
býtti Öynefr
Belleróf onti
brynbelti prýðiligt,
purpura litað".
112. „En inn bragsnjalli

Belleróf ontes
tvíker honum gaf
gulli fágat;
þat lèt ek eptir,
þá er leið ek braut,
ok heiman hèlt
frá höll minni".
113. „En Týdeif eigi
týframan man-k;
úngan hann mik
eptir skildi,
þá er at Þífi
þrymvaldendr
akkneskir urpust
aldrtila."
114. „Em ek því góðr
gestvinr þinn
at jóauðgu
Argosláði;
en þú minn landvíðri
Lýkíu í,
ef ek þjóðbraut svíf
at þvísa landi".
115. „Skulum vit því ei
at skæðri rómu
sköptum skjótast,
nè skjóma deila;
því at margir 'ro mèr
manna Trójn
ok böðfrægra
bandamanna,"
116. „Er ek verpa má
megindauða,
ef þess guð mèr ann,
ok þá elt of fæ-k;
eru þèr ok
ærit margir
ýta akkneskir
at at ráðast"...

117. „Skulum nú skiptast
Sköglar málmi,
svá at verar þessir,
er hèr við eru,
vita megi
ok víst of reyna,
at vit gamlir erum
gestfèlagar".

118. Mæltu svá kappar;
ok af kerrum niðr
stukku til storðar
stríðvápnaðir;
tókust í hendr,
tryggðir seldust,
vina hótum
vænum bundust.

119. Glapti þá Glákusi
guða sjóli
hyggjandi hvat,
er hann hilmi lèt
Sköglar skrúði
skipta fáðu
við dýran Týdeifs mög
Díómedes.

120. Lèt þar gullvápn
Glákus frægr
fyrir eirvarða
ógnar linda,
uxalög talin
tvenn fimmtigi
níu móti
nauta virði.

---

121. Nú er skjöldúngr
at Skæhliði
Hektor árnaði,
ok at ætibjörk,
þá komu konur
ok karskar dætr

ρ. VI, 230-247.

Trójumanna
tírargjarnra.

122. Þyrptust þær kríng um
þjóðhöfðíngja;
frágu vera
flóðelds nunnur,
frágu sona,
frágu bræðra,
frágu vina,
er í fólk of geingu.

123. Bað þá buðlúngr
bjarthaddaðar
allar í röð
á regin heita;
áttu margar
margims tróður
harma fyr' höndum
hölzti þúnga.

124. Kom nú Hektor
til hallar sala
buðlúngs Brjáms
bjartfáinna;
var höll hilmis
höggnum súlum
svölum sett
á Sváfnis brúði.

125. Váru henni í
herbergi fögr
fimmtigi úr höggnum
foldar beinum;
váru nærri
veggjum-fagrir
hvárr öðrum salir
hála reistir.

126. Þar hilmis Brjáms
hvíldu megir
ágætum hjá
eiginkvánum;
en gagnvart þar

at gylfa höllu
váru tignir tólf
traustir klefar.

127. Váru hvervetna
úr höggnum steini
innan hallar,
hvárr öðrum nær.
Þar byggðu dætr
döglíngs fagrar,
Brjáms ins böðfræga,
buðlúngs Trója.

128. Þar hvíldu dýrir
dótturmenn
Brjáms buðlúngs hjá
beðjum sínum.

129. Þá mætti Hektori
heiðvirð móðir,
mild at gjöfum,
ok við mund sèr leiddi
Láodíku,
þá er ljósust var
dætra hennar,
ok dýrust alin.

130. En hin heiðvirða
hilmis eiða
tók í magar mund,
ok máli hreifði:

131. „Hví ertu kominn,
hróðmögr minn?
hví þú yfirgaft
efida rómu?
þjaka þúngliga
þegnum ossum
illir Akkverja
afkomendr“.

132. „Berjast þeir harðla
of borgarvirki,
er þú hinnig nú
hefir snúit,

höndum þínum
til Herjaföður
fremst at fórna
af fólkvirki“.

133. „Bíddu nú, burr minn,
at ek bjór sækja,
mæra munarveig,
munni sæta,
attu dreypir fyrst
dreypifórnir
grami Seifi
ok guðum öðrum“,

134. „Ok at sjálfr þú
síðan hressist,
ef þú vín drekkr
it dökkrauðskæra;
því at vín veitir
verum móðum
afl, ok eykr
orku hverja“.

135. „Ertu nú ok
atþreyttr vorðinn,
er þú vini verr
ok vandamenn“.

136. Annsaði aptr
eiðu prúðri
Hektor hjálmkvikr
hætti þeima:

137. „Ber þú mèr eigi,
blíða móðir,
vín it vegskæra,
nè veigar svásar,
at ek missak ei
afl úr beinum,
ok mik elianþrekr
yfirgefi“.

138. „Eigi þori ek
óþvegnum höndum
myrkskæra munarveig.

p. VI, 247-267.

máttkum dreypa;
samir-a svartskýja
sjóla biðja
iðdreing ötuðum
aurgum dreyra“.

139. „Safna saman þú
svinnum tróðum,
forsprökkum fljóða,
ok með fórnir gakk
upp í feingsællar
Freyju sverða
hof hátimbrað
helgu rjáfri“.

140. „Möttul skaltu taka,
er mestr þèr
virðist ok vegligstr
at vegsölum,
ok er mest þú annt
allra klæða;
grip skaltu leggja
í gyðju knè,
Aþenu, helgrar,
haddfagrar“.

141. „Hála skaltu henni
heiti gefa,
fórn at færa,
fjórar þrennar
kvígur ólostnar,
ok ársgamlar,
at hofs garði
hála reistum“.

142. „Ef at svá kynni
kröptug gyðja
yfir aumkvast
Ilíons-borg;
konur kinnfagrar
kesju reyna,
ok barnúnga
buri þeirra“.

p. VI, 267-287.

143. „Ef at mætti hún
móðgum bægja
Týdeifs arfa
frá Tróju helgri;
trylldum, týfrömum
törgu skelfi,
flóttafrömuði
fólkum-djörfum“.

144. „Far þú nú til hofs
Freyju sverða,
Ginnregins meyjar
ennar glóeygu;
en ek Paris til
prúðs mun árna,
ef hann orðum gaum
gæfi mínum“.

145. „Svelgi hann svartdýpi
Sváfnis brúðar!
því til ills um ól
Ólýmps drottinn
beim þann Brjáms dreingjum
ok Brjámi prúðum,
ok Brjáms börnum;
böl er hann allra þeirra“.

146. „Þá mundi harmr
hverfa mestr
mèr, ok meina stríð
mitt of eyðast,
ef ek sæja segg
svífa niðr
Hadesar heimi
heldimmum at“.

147. Mælti Hektor svá;
en heiðvirð móðir
gekk til herbergja,
griðkonum bauð,
en griðkonur
göfgar snótir

saman kölluðu
um svæði borgar.
148. En drottníng sjálf
í dýrð-ilmanda
geymslusal gekk
in göfuglynda;
þar váru möttlar
mætir geymdir
bifi bjartfáðir
blikhverfanda.
149. Þat váru hannyrðir
hála fagrar
sættverskra snóta,
er sjálfr flutti
Alexander
jólnum glíkr
heim at hávum Brjáms
hallargörðum.
150. Lèt frá Sætt
siklíngs kundr
bekkjar bláröst
brimdýr vaða;
þat var þann tíð,
er þeingill sótti
konu ina kynstóru
kvenna fegrsta.
151. Tók mætan einn
möttla þeirra
ágæt Hekaba
Aþenu at færa,
gliti gagnvarinn
glóandastu,
ok mestan allra
í möttla safni.
152. Stirndi hann stoltbliki,
sem af stjörnu-loga,
ok hann neðstr var
námdúks gripa;
gekk á stað síðan
gylfa brúðr;
fylgdu henni fræg
fyrirkvendi.
153. En er komu þær
til Aþenu-hofs,
hæst í háborg
hála reistri,
lauk þá upp hurðu,
hratt upp vængjum
Þeanó, kona
inn kinnfagra.
154. Hún var Kisseifi
körskum alin,
Antenors brúðr
ins jóvalda;
höfðu hana sett
halir Tróju
hofgyðju hárra
helgidóma.
155. Æptu hástöfum
hrundir allar,
hendr upp hófu
til hjörva Freyju;
tók þá Þeanó,
þekk hofgyðja,
möttul mæran,
margskínanda.
156. Lèt hún hann í skaut
skjóma Freyju,
haddfagrar
himins gyðju;
bænum yppti,
biðja knátti
Ginnregins mey
ina glóeygu:
157. „Heyr mèr, himindís,
hátignarlig,
borgarvörðr,
bragr dísa!“

ρ. VI, 287-305.

158. „Brjót nú í sundr
böðvar stinnan
dör Díómedess,
ins dáðum-rakka;
ok sjálfan hann
hníga þú lát
á grúfu at grundu,
fyrir grindum vestr“,

159. „At vèr nú þegar
þrennar fjórar
megim kvígur þèr,
Málmglöð, blóta
hèr at hofgarði,
hvergi tamdar,
ok ársgamlar,
til yndis þèr,

160. „Ef at knættir þú,
kvernbíts Freyja,
yfir aumkvast
Ilíons-borg,
konur kinnfagrar
kesju reyna,
ok barnúnga
buri þeirra“.

161. Baðst þannig fyrir
blóta Freyja;
heyrði-t Aþena
hennar beiðni.
Þannig hètu
hrundir allar
á Ginnregins mey
ina glóeygu.

---

162. En Hektor árnaði
hallar til
Alexanders
ítrfagrar,
er sjálfr hann
smíðat hafði

ρ. VI, 306-325.

með smiðum beztum
á slóðum Tróju.

163. Höfðu þeir honum
í háborg reist
stofu ok forgarð
ok fagran skála;
þat var nærri Brjáms
buðlúngs garði,
ok Hektors, hróðmagar
hilmis aldins.

164. Inn gekk þar Hektor,
ástvinr Seifs;
hafði í hendi
harðan vigr,
ellefu álna,
eirfalr á;
var ljómandi
listasmíði,
ok hólki harðfest
af hrannar eldi.

165. Hitti Hektor þar
horskan blóða,
Alexandr,
inni í skála;
var hann at handleika
vápn in fögru,
skjöld ok skrúðbrynju,
ok skálg-elmi.

166. En Helena
in argverska
ambáttum hjá
inni sat,
ok þöll hrínga
þjónustumeyjum
hannyrðir bauð
harðla fagrar.

167. En er Hektor leit
Alexandr,
þá hann hal valdi

vilgi mjúk orð;
ámælum þúngum
þjóðhöfðíngi
bjartan blóða
beysta náði:

168. „Heyr þú orð mín,
inn undarlegi;
samir-a þèr
af slíku reiðast;
branda beinviðir
at böðvi hníga,
þeirs of borg berjast
ok borgvirki“.

169. „Leikr böðvar bál
borg í kríng um
bjart fyr' þik, barmi,
ok Bölverks glaumr;
mundir þú öðrum þó
ámæli velja,
ef þú svá sæir
segg ófúsan
ólmum gánga at
ímunleiki“.

170. „Heyr mèr nú, hnefi,
hvatt þú upp rís,
at ei skjótan
skaða fái
borg af óvina
illum funa“.

171. Annsaði aptr
Alexandr
orðum ættarbaðms
jólnum glíkr:

172. „Hektor, er þú mik
hrópi kvaddir
víst at verðúngu
ok vánum eptir,
mun ek inna þèr,
en þú orð mín heyr,

ρ. VI, 325-344.

ok þau gerst of geym
í geðknerri:“

173. „Er-a mèr ógeð
nè óvilji
Trójumanna til,
at ek tefja náa
at húsum inni;
en ek heldr vilda
höfgum harmi
hugrúm veita“.

174. „Hefir nú brúðr
bænarorðum
blíðum mik beðit
at böðvi gánga;
ok þat ek ætlak
alls of betra;
sækja seggir
sigr á víxl“.

175. „Bíð nú eptir mèr,
meðan búast náa-k
Sköglar skrúði
skrauthrínguðu;
eðr árna þú,
en ek eptir kem;
held ek mèr heppnist
þèr, hlýri, ná“.

176. Mælti hann þau
af munni orð;
annsaði hjálmkvikr
Hektor eigi.
En Helena
horskan kappa
orðum innfjálgum
ávarpaði:

177. „Mágr minn mæri,
meinligs svanna,
andstyggiligrar
ok illrar brúðar,
sem ek ógæfu

ok eymdir lètk
glysi glóvarin
yfir gumna svífa!“
178. „Betr væri bragna
búinn hagr,
ef á degi þeim,
er ek dagsbrún leit
fyrst fagrljósa,
at mik flutta hefði
vindbylir bráðir
at björgum fram“,
179. „Eðr at iðdjúpum
unnar hyljum
meginstynjanda
marar gjálfrs,
at braut mèr hefði
bára skolat,
áðr en at bárust
illverk þessi“.
180. „En er hafa nú
himintívar
hrundit harmi þeim
at höndum mèr,
þá skylda-k átt
eigin-bónda
betra ok böðfrægra
en beim þenna,
sá er fjón fyndi
ok frýju hvat,
er honum öld fær
fyrir aumligt skap“.
181. „En þegni þessum
er þunngeði
ok brigð böðvar
í brjóst lagin;
nè hann síðarr mun
sigþrótt geta;
þat man þirfíngi
at þúngu verða“.
ρ. VI, 344-364.



182. „Gakk nú inn, mágr,
ok á greyptan stól
þenna þú sezt;
þúngt er erfiði,
ok sorgir svárar,
er þèr sefa stínga,
minnar fyr' sakar
meginsmánar,
ok Alexandrs
illra glæpa“.
183. „Á okkr hefir
Allföðr lagt
örlög óvægin
illrar smánar;
munu þess minnast
menn óbornir,
ok þat æ eiga
yrkis-efni“.
184. Annsaði henni
hjálmkvikr aptr.
Hektor inn mikli
ok meginprúði:
185. „Mjök er munr þinn
mèr unnandi;
en þú mèr sízt
at sitja bjóð;
ei mun ek þiggja,
því at óðfúss em-k
Trójumanna
til at hverfa;
sakna þeir mín,
alls ek sveif þeim frá“.
186. „En þú eptir rek
Alexandri;
ok flýti hann sèr sjálfr
í fólk at gánga,
svá mèr nái
niflúngs arfi,
áðr úr borg

ek brautu hverf".
187. „Nú mun ek heim
at húsi gánga,
at ek fíra mína
finna mega,
víf it væna
við at mynnast,
bur barnúngan
blíðan at sjá".
188. „Er því óvíst,
hvárt ek aptr sný,
ok til þeirra
ek aptr kem;
eðr hvárt láta mik
uppheims guðir
fyrir fjandmanna
falla höndum".

---

189. Mælti svá Hektor
inn hjálmkviki,
ok at búnu því
braut nam gánga;
kom bráðliga
til kostfagra
húsa sinna
hildar skati.
190. Ekki hann hitti
inni í sölum
ágæta armhvíta
Andrómökku;
stóð grátandi
stillis brúðr
ok harmandi
háturni á.
191. Var með fljóði
fagrmöttluð
þjónustumær
ok þekkr arfi.
192. En er hitti ei
ρ. VI, 364-385.
Hektor inni
víf línvarit
at vegsölum,
þá stóð þjóðskati
á þrepskildi,
ok við ambáttir
inna náði:
193. „Segit mèr, sætur,
ok satt mèr innit;
hvert gekk horsk brúðr
úr herbergi?
Gekk til mágkvenna,
gekk til svilkvenna
Freyja fjölskrúðig
fagrljósa?"
194. „Eðr gekk hún til
Aþenu hofs,
þars aðrar blíðka
bauga þellur
Ginnregins jóð
it geigvænliga,
fagrlokkaða
Freyju sverða?"
195. Svaraði siklíngi
sigfrægum þá
rösk ráðskona
ræðu þeirri:
„Satt man ek segja,
siklíngr, þèr,
alls þú mik þess
eptir frèttir".
196. „Gekk-a til mágkvenna,
gekk-a til svilkvenna
Freyja fjölskrúðig
fagrljósa;
gekk-a til ágætrar
Aþenu hofs,
þars aðrar blíðka
bauga þellur

Ginnregins jóð
it geigvænliga,
fagrlokkaða
Freyju sverða".
197. „Gekk hún á mikit
meginvirki,
jörmunturn efstan
Ilíons borgar;
heyrði því horsk,
at hölum Tróju
veitti þryma þúngt,
en þróttr ykist
ok ógnar afl
Akkverja sveit".
198. „Skundaði skrúðfögr
skilfíngs brúðr
upp á borgar-vegg
bráðum fetum;
lèt sem óð væri,
en ljósri fylgdi
barnfóstra, ok bar
barnúngan svein".

---

199. Ræddi svá ráðskona;
en ríkr gekk
Hektor hraðfetum
frá húsi þegar;
fór feril sama
um fagrlagin
Brjáms böðstyrkrar
borgar stræti.
200. En er of borg
beindi fetum,
ok til Skehliða
skati kom
(þar var leið lagin
lofðúngs kundi
út á víðan völl
valfallinna):
ρ. VI, 385-403.

201. Þá kom gjafsæl
gylfa brúðr
hilmi hjálmkvikum
hlaupandi mót;
þat var Andrómakka,
ágæt dóttir
Eetíons
ins eljunprúða.
202. Bjó ágætr
Eetíon
Plaksfjalli undir
prúðblómgvuðu;
Undirplaks-Þífi
byggði öðlíngr;
rèði kynríkr
Kilíka-mönnum.
203. Hans átti dóttur
hilmis kundr
Hektor, ógnar múrr
eirserkjaðr.
204. Mætti honum þar
málblíðr svanni;
þekkri fylgdi þekk
þjónustumær;
hèlt sú í faðmi
fávitrum kon,
bur barnúngan
bar á hendi:
ástmög Hektors
ynniligan,
fagri smástjörnu
furðu líkan.
205. Kallaði skati hann
Skamandríus,
en Astýanax
aðrir gumar;
því at einn varði
Ilíons borg

Hektor hjálmkvikr,
at hreifðri rómu.

206. Leit faðir fagran
faðmkæran mög;
brosti þegjandi
við blóma úngum;
en Andrómökku
öðlíngi nær
sveiptust sjónstjörnur
söltum tárum.

207. Greip göfug brúðr
gylfa mundu,
ok af munni fram
máli hreifði:
„Ávi, elskhugi
ástríkr minn,
olla mun þèr áhugi
aldrtila“.

208. „Eigi aumkvar þú
þinn úngan son,
nè mik, vesalt víf.
Mun ek þik, mæri,
missa bráðum,
ein þèr eptir sjá“.

209. „Munu þik Akkverjar
aldri ræna
einum allir mót;
ljúfast mèr væri
at liðinn þik
dökkri felast fold“.

210. „Hefk-a ek þá
hugfró neina,
munað á moldar þröm,
er þú liðinn ert,
ljúfsæli minn,
er mèr þá atalt hvat“.

211. „Ák-at ek föður,
ák-at ek móður.
Vág föður fyrrum

p. VI, 403-423.

fólkum-djarfr
Akkilles öðlíngr,
ok eyða náði
kostliga reista
Kilíka-borg“.

212. „Þat var Þífi
in þrúðhliðstóra;
þá drap Akkilles
Eetíon;
fletti hann þó eigi
fylki vápnum;
var-a svá ósvífinn
öðlíngs hugr“.

213. „Brenndi hann öðlíng
í böðvar skrúði,
skæru, skrúðföldnu,
skjaldhrínguðu,
ok haug varp,
at hilmi dauðan,
valfallins yfir
vísis moldum“.

214. „En kríng um hávan
haug of settu
álmvið dætr
Ægiskjalda;
þat váru fagrar
fjalladísir,
þær er björgum á
byggja hávum“.

215. „Átta ek bræðr
at auðsölum
skilgetna fjóra,
framarr þrem;
árnuðu allir
úrgar brautir
á degi sama
draugheima til“.

216. „Vann þeim öllum
aldrtila

fylkir Akkilles
inn fótum-styrki,
þá er dreingir nauta
drattandi gættu,
ok hvítum sauðum
sátu yfir“.
217. „Mín rèð móðir
meginríkjum
Plaksfjalli undir
prúðblómgvuðu;
flutti hana hinnig
harðr skati,
öðrum ásamt·
aurum fögrum“.
218. „Lèt hann þó lausa
lofðúngs brúði,
ok ógrynni aura
aptr þá;
en Artemis
in örvumglaða
hana skaut
at húsum föður“.
219. „En þú, Hektor,
ert mèr faðir,
ok mærust móðir
í munarheimi;
minn ertu bróðir,
minn ertu elskhugi,
minn ertu muni,
mærastr verr“.
220. „Aumkvastu yfir mik,
öðlíngr, nú;
vertu hèr kyrr
í virkis-turni,
attu ei mög látir
munaðarlausan,
ok mik eptir
ekkju verða“.
221. „Fylk heldr fólkum
p. VI, 423-442.

at fíkjuhóli,
þars borg er berust
fyrir böðvar þjóðum,
ok þars helzt megu
harðvítugir
fjandr upp hlaupa
á fastan múr“.
222. „Þrisvar hafa því
þeinglar frægstir
atgaungu öflgrar
á hèr freistát:
Aiantar báðir,
ok Ídomeneifr
fólkum-frægr,
ok fírar þeirra,
Atreifs niðir,
ok arfi Týdeifs,
darrum-dáðrakkr
Díómedes“.
223. „Hefir nokkurr þat
hölum þeima
spágumi ráðit
spjöllum-fróðr;
eðr ok þeirra
eiginn hugr
hefir hetjur þær
hvatt til þessa“.
224. Aptr annsaði,
ok til orða tók,
Hektor hjálmkvikr
horskri beðju:
225. „Hygg ek at öllu,
ok hvers of gæti,
blíð beðja mín,
at böðvar glaumi;
en ek mik framarla
fyrirverð
fyrir Trójumönnum,
ok Trójukonum,

svönnum sváslígum,
síðmöttluðum,
ef ek fólki frá
flýja nái
sem huglauss halr,
hvergi nýtr".
226. „Er þat ok móti
mínu skapi;
em ek vanr æ
verkum hraustum,
fremstr fólkroðinn
fölvi dýja
týfákvöldum með
Trójumönnum",
227. „Er ek frægð föður
fagra stoða;
henni uppi held,
ok heiðri mínum;
veit ek því vel,
ok þess víss of emk,
geymi-k þat gjörla
í geðknerri:"
228. „Dragast mun dagr
yfir dróttmögu,
er alhelg eyðist
Ilíons-borg,
Brjámr buðlúngr,
ok Brjáms lýðr,
döglíngs darrskelfis
ins dáðum-fræga".
229. „Óumk-a því
fyrir ýtum þeima,
er Brjáms borg
byggja víða,
ok eigi heldr
fyr' Hekðbu sjálfri,
nè buðlúngi
Brjámi frægum;"
230. „Nè heldr bræðrum
björtum fyrir,
þótt þeir margir
ok meginríkir
falla fái
at foldar þröm,
óvina ægum
undir höndum;
231. „En fyrir þèr,
ástbeðja mín,
ef nokkurr Akkverja
eirserkjaðra
tárum tvista þik
taka næði,
ok frelsi nema
fagrskæru".
232. „Muntu ítru þá
á Argosláði
ambátt verða
ok vef um annast;
eðr vatn bera
bjartlindum frá
Messu hyldjúpum,
eðr Hýperíu".
233. „Á þèr mun óvæg þá
ánauð liggja,
ok þú hárt of hrjáð
at hörðum þrautum.
Þá mun einhverr
orð um kveða,
er hann grátna þik
getr líta:"
234. „„Þetta er víf
Víga-Hektors,
er hraustastr gekk
at hildar leiki
Tróa fákvaldra,
þá er fólk um ruðu
alhelga kríng um
Ilíons-borg"".

235. „Þannig mun einnhverr
at orði kveða;
en þèr nýr harmr
í hjarta ríss,
er unnusti
eingi bægir
ánauðar-oki
frá augum-svásri“.
236. „Dylji mik dökkvar
dauða-moldir
andaðan, orpnum
undir haugi,
fyrr en fái ek,
fagrvarit,
óp at heyra,
ok ánauð þína“.
237. Mælti þat Hektor;
ok mundir rètti
at barnúngum
buri sínum;
en barn it bjarta
brá við hljóði;
snèrist at faðmi,
í fylgsni brjósta
fagrbeltaðrar
fóstru sinnar.
238. Óttaðist áa
ásýnd mögr,
óttaðist eirmálm
ok jörmun-fax,
þat er grúfði
geigrliga,
ok af hjálm-bustu
hverfðist niðr.
239. Dátt hló þá faðir,
dátt hló móðir.
Tók Hektor hjálm
af höfði síðan
meginblikanda,
ok á moldar þröm
lagði gullfáinn
gildr sjóli.
240. Tók þá tiggi
týfagran mög;
hampaði honum
á höndum sèr;
kæran kyssti
kon inn smáa,
hèt á Herjaföður
ok himintíva:
241. „Seifr, ok sigtívar
sælir aðrir,
veitið mèr, at minn
mögr verði
afbragð týframra
Trójumanna,
efldr at orku,
sem ek em sjálfr“,
242. „At hann ráði svá
ríkisveldi,
sem ek yfir ræð,
Ilíons-borgar;
þá mun einnhverr
at orði kveða,
er hann heim kemr
hernaði úr“:
243. „„Frægri er fólkvaldr,
en faðir hans;““
beri hann þá blóðug heim
böðvar klæði,
flett af fjandmanni
föllnum í val,
en móðir hans geti
gleði ljósa“.
244. Svá mælti Hektor,
ok smáan arfa
lèt í mærar
móður-hendr;

ρ. VI, 462-483.

en hún við megi
mundi taka
í ástríkan
ilmanda faðm;
bros lèk á munni,
björt tár á augum.
245. Þá nam at vikna
Víga-Hektor,
er hann gullvarða leit
grátbrosandi;
klappaði beðju
blíðri mundu,
ok mæru rèð
máli hreifa:
246. „Blíð beðja mín,
bregzt-at-tu sorgum,
nè þú hugróm veit
harmi sárum;
mun mik eingi fram
fyrir örlög senda
Hadesar heimi
heldimmum at“.
247. „En eingan hölda
hygg ek munu
skapadægri
skjótast undan;
stendr þat stöðugt,
stöðvun varit,
huglausum jafnt
sem hugum-prúðum“.
248. „Far þú nú, svása,
til sala þinna,
ok hannyrðum
hygg at þínum:
vef ok snældu,
ok verka-konum
bjóð til vandrar
vinnu gánga“.
249. „En karlmönnum
ð. VI, 483-502.

knáum öllum,
þeir er Brjáms borg
byggja víða,
ok einkum mèr,
at ímun-veðrum
glöðum gánga ber,
ok gúngni dýja“.
250. Mælti svá Hektor,
ok hjálm upp tók
jörmunfextan
af jarðar veingi.
Heim gekk at húsi
hilmis beðja,
sá opt aptr
ept’ siklíngi.
251. Hrundu hvarmdaggar
af hlýrum niðr;
kom til vegsala
Víga-Hektors
brátt brúðr hans
in blíðrómaða;
hitti margar
í húsum inni
þjónustumeyjar
þeingils beðja.
252. Vakti hún öllum hjá
harma sára;
grètu þær lifanda
lofðúng mæran,
Hektor, eignum hans
í húsum inni.
253. Hugðu þær hilmi
hvergi mundu
aptr snúa
úr orrustu,
nè hörðum frá
höndum sleppa
ok ógnar-grimmd
Akkverja lýðs.

254. Dvaldi nè leingi
döglíngs kundr
Alexandr
at inni hávu;
hervæddist hann
hildar málmi
margblikanda,
meginbjörtum.
255. Fór um borg síðan,
fór brunandi;
hljóp hilmis burr
hörðu skeiði.
256. Í glíkíng þá,
er gjafar-hestr,
sá er jötu at
alizt hefir,
festi slítr,
fram á völl hleypr,
lætr hlym hlymja
hófa styrkra,
257. Er hann vanr er
í iðu strauma
fagrrennanda
fljóts at baðast;
höfuð hróðigr
hátt upp reisir;
en mön á mari
móðgum flaksast.
258. En fegrð af
fákr drambar;
flytja fætr hann
fljótt í haga,
vel kunnan váng
vaxinn blómum,
beitlönd bráðskjótra
blóðughófa:
259. Svá fór ágætr
öðlíngs mögr
Paris prúðbúinn

p. VI, 503-522.

frá Pergams-vígi,
feiknum fagrskærr,
sem fagrahvel,
skærum, skinfögrum
af Sköglar málmi.
260. Fagnaði fólkroði
fagrvarinn;
báru buðlúng skjótt
bjarkir ilja;
fann hann brátt fylki,
frægan hnefa,
Hektor, hjálmkvikan
hildar skata.
261. Var þá braut bragníngr
búinn at snúa
þaðan, er hann blíða
beðju hitti;
mælti þá fyrri
af munni orð
Alexandr
jólnum glíkr:
262. „Hlýri inn hugkæri,
hefi ek nú víst
fyrir þèr tafit,
er þú flýta vilt;
hefi ek dvalit
hölzti leingi,
alls þú til settir
tíma fyrri“.
263. Aptr annsaði
orðum bróður
Hektor hjálmkvikr,
hreifði máli:
264. „Hnefi inn hugkæri,
hölda eingi,
ef hann sannsýnn er
í sínum muna,
má þèr framgaungu
frýja górar.

herleiki at,
alls þú hraustr ert".
265. „En þú tíðum ert
tómlátr þat;
nè þú vilja hefir
í vápn at gánga;
svellr mèr sefi,
er ek smáðan þik
týfrömum heyri
af Trójumönnum,
þeirs þúngar þrautir
fyrir þik of drýgja".
266. „Förum nú á stað,
en vèr fremst of munum
hlut þinn rètta,
hnefi, síðarr,
ef oss Seifr ann
fyrir sigtíva
ódauðliga,
þá er uppheim byggja",
267. Frelsis-skaptker
fram at setja,
þakkar-fórn þekka
þrúðheims völdum,
er vèr út rekit
höfum Akkverja
eirserkjaða úr
Ilíons-borg".

# SJÖUNDA KVIÐA.

MÆLTI orðum þeim
meginprúðr
Hektor, ok hljóp
út um hlið borgar;
fór með fylki
frægr hlýri,
Alexandr
jólnum glíkr.
2. Bjó þá í báðum
brími sverða;
svall meginmóðr
morð at drýgja.
3. Eins ok skipverjum
skati himna
sendir blíðan byr
á blám ægi,
er þeir örmagna
eru vorðnir,
þreyttir at þveita
þvínnils döggum
ítrsköfnum á
öldu-sveipum.
4. Verða þá fegnir
vágdýrs liðar:
eins fegnir urðu
ýtar Tróju,
þá er grami þeir
gátu líta
at vígum vaða,
ok á völl gánga.
5. Þar vág ítr
Alexandr
Menesþíus,
ok at moldu varp;
hann var arfi
Areþóuss



öðlíngs ítrfrægs,
er at Örnu bjó.
6. Hann var arfi
Areþóuss
kylfuvaldar
ins kappríka,
ok mikileygri
móður alinn,
Fýlómedúsu,
fljóða bragi.
7. En Hektor aldri
Eíóneif
ræna rèð
römum vigri;
hvarf und hjálmrönd
harðr broddr
í háls hilmis;
hljóp úr limum afl.
8. En Glákus, hróðmögr
Hippolokkuss,
lofsæll lofðúngr
Lýkíumanna:
hann skaut af hendi
hvössum vigri,
gegn um glaum sverða
gunnartrylldan.
9. Kom skot í öxl
á Ifínóus
Dexíuss arfa
dáðum-rökkum,
þá er hann vildi
á vagn upp hlaupa;
fèll hann til foldar
af fólkhveli;
urðu lèmagna
limir þegar.

10. Þá sá in glóeyga
Ginnregins mær
Akkverja hníga
at hildar leiki;
þá fór brunandi
fram af hávum
Ólýmps tindum
Allföður jóð
11. Alhelgrar til
Ilíons-borgar.
Kom þá Apollon
Aþenu mót;
sá frá Pergami
sverða Freyju;
unni sigrs Tróum
örva drottinn.
12. Hittust bæði tvö
himinborin
ætibjörk hjá
ítrfagri.
Þá mælti fyrri
fylkir hremsu,
Apollon, arfi
allvalds himna:
13. „Hví þú svá hart ferr,
hjörva Freyja,
hávum ofan af
Ólýmps tindum?
Hví þèr svellr svá
sverða móðr
sókn at sigjöru
fyrir sefa niðri?“
14. „Viltu nú veita
víga orku
ok svásan sigr
sonum Danáa?
Víst viltu þat,
er þú vilgi náir
yfir aumkvast
Ilíons-borg“.
15. „En ef þú nú vilt,
víga Freyja,
hlíta mínum ráðum,
(hollara væri þat),
þá skulum nú
þrymu svæfa
ok darra dyn
um dag þenna“.
16. „En þeir síðarr meirr
mega sókn um fremja,
uns út gert er
um Ilíons-borg;
alls yðr, ámáttkum
uppheims freyjum,
helzt er í hug
háborg eyða“.
17. Annsaði aptr
Apolloni
Ginnregins mær
in glóeyga:
18. „Svá skulum, Fjarrvirkr,
fólk um ráða;
þessa vegna
þaut ek ofan
Ólýmpi frá,
til Akkverja,
ok Trójumanna
tírargjarnra“.
19. „En heyr mèr, sjóli
silfrbogvaldr,
hversu viltu nú
hildi lægja?
hve viltu móð stilla
mækis reyna?“
20. Annsaði henni
Apollon þá,

sonr Allföður
ægiskjalda:
21. „Æsa skulu vit
eljangremi
Hektori týfrömum,
týfákvöldum;
má vera, at mildíngr
móðigr þá
skori á Danáa,
skjóma at reyna“,
22. „Ok at aleinn hann
iðleik drýgi,
veifi vinnbjarti
at vápna glaumi;
en ófrýnir
munu Akkverjar
ver of velja
vigr at dýja
hjálmkvikum móti
hilmis arfa“.
23. Mælti hann svá;
en mímúngs Freyja
gaum grams orðum
gefa náði.
24. En Helenus
hróðmögr Brjáms
ráðagjörð þessa
ráða knátti;
varð áskynja
ítr gumi,
hvat regin vildu
rök um leiða.
25. Gekk hann Hektors til
ins hugum-stóra,
ok yppa rèð
orðum þeima:
26. „Hektor, hjálmkvikr
hróðmögr Brjáms,
jöfri upphimins
jafn í ráðum,
far nú mínum at,
fylkir, ráðum,
alls ek þinn holdgetinn
hlýri emk“.
27. „Lát nú setjast niðr
sveitir Tróa
ok Akkverja,
alla saman;
en þú, skati,
skora á nokkurn
ítrastan Akkverja
at einvígi“,
28. „At hann þèr gángi,
gramr, móti,
ok við þik freisti
fólk at rjóða;
því at ekki enn
eru örlög þín
endimörkum háð
aldrdaga“.
29. „Heyrða-k himneskra
helga röddu
guða eilífra,
ódauðligra“.
30. Mælti hann svá;
en móðhugaðr
gladdist Hektor mjök,
er hann mál heyrði;
hepti fylkíngar
fölvis reyna,
ok á miðjan fram
morðvöll gekk.
31. Greip gramr hendi
um geir miðjan;
sefuðust sóknharðar
sveitir þegar,
ok Agamemnon
eirserkjaðar

ρ. VII, 37-57.

sveitir Akkverja
lèt setjast niðr.
32. Settust ok Aþena
ok silfrinbogi
Apollon skati;
váru skegg-gömmum lík;
sátu á ætibjörk
Ægiskjalda
hárri, ok af hermönnum
höfðu gaman.
33. Sátu þèttar þar
þrymu sveitir,
branda beinviðir
á blóðvángi,
vigrum reistir,
varðir skjöldum,
hjálmum háfextum
herfaldaðir.
34. Var sem vindkaldr
vestan-andi,
nýla risinn
af regindjúpum,
gráa gjálfrs leið
gárum sveipti;
dökkna fyr' dreka
dimmar bárur.
35. Eins mundu sitja
sveitir Akkverja,
ok Trójumanna
tírargjarnra
mitt á morðvelli;
mæríngr þá
mælti báða við
Víga-Hektor:
36. „Heyrit mèr, Tróar
tírargjarnir,
ok Akkverjar
eirserkjaðir,
at ek mæla mega

s. VII, 57-76.

ok mál hefja,
þats í brjósti býr,
bragníngar, mèr“.
37. „Hefir-a kynja-hár
Kronuss arfi
eiðum at framgánga
unnit várum.
Hefir illan hug
himins valdr
báðum, ok býr
böl ok gremi“,
38. „Þar til er þèr
þrúðturnsterka
Trójuborg takit
ok trylldir eyðit;
eðr sjálfir þèr
sigraðir verðit
haffærum hjá
hrannar mörum“.
39. „Eru með yðr
at ímun-leiki
hraustastir Akkverja
aðalkappar.
Gángi nú hverr fram
á hildar veingi,
sá er hugr
hvetr til þess“.
40. „Gángi hann hinnig
úr gumna sveit,
forvígismaðr
frækinn at vera
móti ágætum
(skulum mæki rjóða)
Hektori, hróðmegi
hilmis Tróju“.
41. „En svá algilt
um ek mæli:
veri Seifr þess
váttr sjálfr,

at ef mik hann vegr,
ok at moldu varpar,
lángeggjaðastum
lýðmorðs eiri",
42. „Þá skal hann fletta mik
fögrum málmi,
ok at skipum hafa
Sköglar klæði;
en líki láta
lýðum skilat
aptr heim
at Ilíons-borg",
43. „At mèr um veiti
ítrar þjóðir
bál ok brísíngs váð,
böðvar sóma;
veiti þat verar
valföllnum mèr
Tróa, ok tignir
Tróju svannar".
44. „En ef Apollon
ann mèr heiðrs,
ok ek unnit fæ
á andvígum,
þá mun ek fletta
fólkskrúði hann,
ok þat inn bera
í Ilíons-borg".
45. „Þat mun ek heingja
á hofsvegg breiðan
lofðúngs ins lángskeyta,
Letóar arfa;
líki mun ek láta
lýðum skilat
þóptusterkum at
Þvinnils mörum",
46. „At hárprúðir
halir Akkverja
megi hinnstan því
heiðr veita,
ok haug verpa
yfir hnignum ná,
hávan, at hafbreiðum
Hellu-álum".
47. „Mun þá óborinna
einna nokkurr
ýta þannig
at orði komast,
er hann lauka mari
margþóptuðum
siglir yfir sæ
sorta drifinn:"
48. „„Þar er vegligr
vorpinn haugr
valföllnum yfir
vigra skelfi,
hraustum ok hugprúðum,
er Hektor vág,
ok lágt of lagði
fyrir laungu darri"".
49. „Svá mun einnhverr
orð um vekja;
en minn mun aldri,
meðan öld of lifir,
hróðr hníga
hildar leika".

---

50. Svá mælti Hektor;
en halir sátu
allir hljóðir,
orð ei mæltu;
var-a viljugt þeim
undan vígi skorast,
nè hólmgaungu
heldr þiggja.
51. Loksins upp stóð
lýðum-frægr
Menelás mildíngr,

ok mæla knátti;
ávítur illar
öldum valdi,
varpaði þeingill
þúngum móði:
52. „Áví, skræfur þèr,
skrumi þrútnir,
karlmanns krepjur
kvennhjartaðar;
smán ok svívirðíng
sárust verðr,
ef eingi Danáa
andvígr nú
Hektori mætum
móti geingr“.
53. „Verði þèr at vatni
ok veingis moldu,
allir ónýtir,
er þèr alls of sitjið
hjartalausir hèr,
hverr einn þannig
hróðrsvani
á hauðrs þremi“.
54. „Mun ek því sjálfr
siklíngi mót
brynjast, ok búast
til bardaga;
en sigtívar
sjótum efri
hersigri halda
í höndum sèr“.
55. Mælti svá Menelás
inn málrómsterki;
ok fögrum vápnum
vísir klæddist.
Þar hefðir þú,
þeingill fríðr,
fyr' Hektors höndum
hlotið dauða.
ρ. VII, 94-114.

56. Hann því at var
hölzti meiri;
dáit þú mundir,
ef ei döglíngar
hefðu Akkverja
upp þá risit,
ok þik, hilmir, hrifit
frá hólmgaungu.
57. Sjálfr Atreifs
arfi frægr,
allvaldr alþjóðar,
Agamemnon,
tók í hægri hönd
hildar skata,
ok orðum ítrum
yppti þeima:
58. „Allmjök ferst þèr nú
óvitrliga,
Menelás, Seifi
sjálfum alinn;
sæmir-at þèr
slík fásinna;
hept þik heldr,
þótt hugr fýsi“.
59. „Hirð-at-tu at heyja
hildar leika
við mann þèr meira
af meginkappi;
skalt-at-tu deila
við dáðmög Brjáms,
Hektor inn hjálmkvika,
þann er hræðast aðrir“.
60. „Þeim æðrast sjálfr
Akkilleifr
mannsæmu at málmþíngi
mót at gánga;
ok þó er prúðlyndr
Peleifs arfi

miklu meiri þèr
at mímúngs leiki".

61. „Gakk nú, gunntamiðr,
til garpa þinna;
sezt niðr, siklíngr,
at sveitum þínum;
annan munu Akkverjar
öðlíng velja,
fram at feta
mót fólka skelfi".

62. „Ok þótt verði sá
óttalauss halr,
ok óþreytandi
at ímun-veðri,
þá hygg ek samt
hann munu feginn
beygja knè
at búnum hvíldum,
ef hann um flýr
æsta rómu,
ok heill kemst
úr hjörva glaumi".

63. Mælti svá hetja,
ok hug snèri
þekkum þegar
þjóðar skata,
því at heilræði
hildíngr kvað;
en Menelás hlýddi
máli bróður.

64. Þá urðu sveinar
siklíngs glaðir;
tóku Sköglar skrúð
af skata herðum.

---

65. Upp stóð þá öðlíngr
með Argverjum,
Nestor ágætr,
ok orð um kvað:
ρ. VII, 114-134.

„Sè þar harm sáran,
svalar meinvættir
of Akkverja
aldir svífa!"

66. „Sárt mundi kveina
siklíngr aldinn
Peleifr víst
inn prúðfákvaldi,
ráðgjafi ríkr
röskra lýða,
mæríngr málsnjall
Mýrmídóna".

67. „Frètti mik fylkir,
fèkk honum gleði,
sínum húsum at
hátimbruðum;
frètti mik of alla,
ok eptir rýndi,
ætt ok uppruna
Argosbúa".

68. „Ef ítr spyrði
öðlíngr nú
hræddan hverjan hal
fyrir Hektors remi,
þá mundi jöfurr
inniliga
hendr hafit
til himins guða;
æskt mundi hann,
at önd sín liði
limum frá
at láðum neðri".

69. „Áví, allvaldr
uppheims faðir,
Aþena aldýr,
ok Apollon!
væri mèr nú veitt
vegsemd úngra,

fornu fjörvi
fremst um hrósa",
70. „Sem þá er áðr
ýtar fundust
karskir hjá straumhörðu
Keladons-fljóti,
Pýlverjar ok Arkadar
prúðskaptvaldir,
und Feju-múrum,
ok fólk um háðu,
þar er döggvar jörð
Jarðans-straumr".
71. „Gekk þar frægr fram
at fólkvígum
Erevþalíon
jafni tíva;
hafði á herðum
hervápn fögr
öðlíngs ágæts
Areþóuss",
72. „Areþóuss
ins jólnum-glíka;
kölluðu kylfíng
konúng frægan
fyrðar ok konur
fagrbeltaðar".
73. „Því at þeingill ei
þjóðvíg framdi
boga bjúgdregnum,
nè beittum geiri;
en með járnkylfu
jaðarr ramr
rauf ok riðlaði
rekka sveitir".
74. „Lofðúng lýðfrægan
Lýkúrgus vág,
meginsvikum,
en mætti eigi;
þat var á þrautillum

þraungum stigi;
mátti-t þeingill þar
þúngum bægja
aldrtila
með járnkylfu".
75. „Því at Lýkúrgus
lagði fyrri
mildíng magnríkan
miðjan gegn um;
en hann til foldar
falla náði
upp í lopt
fyrir lagi sváru".
76. „Fletti hann frægan
fylki vápnum,
er honum Ares gaf
eiri faldinn.
Bar hann þau síðan
at böðvar drottins
þrautum þúngum,
at þeingil dáinn".
77. „En er Lýkúrgus
lofðúngr gerðist
elli orpinn
at auðsölum,
þá gaf öðlíngr
Erevþalíoni
þjóni sínum
þau at bera".
78. „Búinn þvísa
böðvar skrúði
kallaði hann fram
knásta hverja;
bifðust beinviðir
Bölverks iðju,
æðruðust allir,
ok ekki þorðu".
79. „Þá mèr þrautramr
þrýsta náði

hugr at heyja
hildar leika,
af eignu afli;
en ek ýngstr vark
allra at aldri
ýta þeirra“.

80. „Barðist ek bölefldum
móti buðlúngi,
en Ginnregins mær
mèr gagn um veitti;
þar drap ek þeingil,
þegna hverra
stærstan og styrkastan
á storðar hveli;
lá hann endlángr
of láðvöll allan,
undrstærð efldr
ógurligri“.

81. „Vilda-k, at væra-k
sem var ek þá,
efldr ok úngr,
í æskublóma;
þá skyldi hjálmkvikr
Hektor eiga
manni at mæta,
ok mímúng reyna“.

82. „En þèr, hraustastir
allra þeirra,
er ætt eiga
á Argos-láði,
eigi treystizt
öruggum hug
Hektori móti
hjör at veifa“.

83. Átaldi þá þannig
aldinn skati;
en níu naðefldir
við Nestors orð

þ. VII, 152-171.

upp mundu rísa
ramir beimar.

84. Reis upp fyrstr
ríklundaðr
allvaldr alþjóðar,
Agamemnon;
reis upp ræsi næst
reginefldr
dáðmögr Týdeifs,
Díómedes.

85. Þar næst upp risu
Aiantar báðir,
báðir berserkir
böðvar-ramir,
þá ágætr
Ídomeneifr,
ok sinni hans
at sigjöru:
þat var Meríónes,
manna bana
Aresi glíkr,
iðnárúngi.

86. Þá reis upp arfi
Evemons,
Evrýpýlus,
ágætastr;
þá Þóas, arfi
Andremons,
ok Odysseifr
inn ítrfrægi.

87. Allir vildu
einvíg drýgja
hjálmkvikum móti
Hektori þeir;
þá mælti aptr,
ok orð um kvað,
Nestor, gerenskr
gramr reiðar:

88. „Varpit nú, vaskir

virðar, allir
hlutum, ok hal
á hólm of kjósit;
sá mun Akkverjum
olla gleði,
fagrbrynhosat
fólk um kæta".

89. „Sjálfr mun hann sinn
sefa gleðja,
ef hann um flýr
æsta rómu,
ok heill kemst
úr hjörva glaumi".

90. Mælti svá mildíngr;
merkti hverr
hlut sinn halr,
at hristr yrði;
vörpuðu síðan
í vísis hjálm,
Atreifs arfa
Agamemnons.

91. Báðust beinviðir
branda fyrir,
hófu hendr
til himins tíva,
ok at marblám
mána vegi
sá, ok svá baðst
sèr hverr fyrir:

92. „Láttu nú, Seifr,
lut upp koma
Aiants, eðr ok
arfa Týdeifs,
eðr siklíngs sjálfs,
sjótvaldanda
Mýkenu, meiðmum
meginauðgrar!"

93. Svá mæltu seggir;
sveiflaði hlutum
Nestor, gerenskr
gramr reiðar;
hljóp úr hjálmi
sá, er helzt vildu:
hlutr Aiants
ins herjum-ríka.

94. Bar kallari
buðlúngs hlut
of allar sveitir
eimnis þjóða;
reikaði rèttsælis
raddmæríngr,
sýndi höfðíngjum
hölda öllum.

95. Könnuðust eigi
konúngar við;
vísuðu frá sèr,
vildu eigi eiga;
gekk þá kallari
of gumna sveitir
allar, uns ítr
til Aiants kom,

96. Þess er morðhlut
markat hafði,
ok í hjálm varpat
hildar skata;
hann hèlt harðefldri
hendi undir;
gekk til hans kallari,
kastaði í lófa.

97. Kenndi merkt merki
mildíngr þá;
gleði varð grami
góð í sefa;
varpaði hlut
vísir frægr
fætr fyrir,
fèkk at mæla:

98. „Hlutr er þessi,

ρ. VII, 171-191.

hróðvinir, minn;
gleðjumst ek þess gerva,
at mik gunnr kýss;
hygg ek, at Hektor
fyr' höndum mínum
vunninn verði
at vápnglaumi".

99. „Heilir svá, hermenn,
meðan hervápnum
skrýðist ek skærum,
ok Sköglar málmum,
þá skulu þèr
á þrumuvaldan
hjartliga heita
Herjaföður".

100. „Þegjandi skulut èr
þeingil biðja,
at ei aldir Brjáms
eyrum leiði;
eðr ok allir
áheit fremja
í heyranda hljóði;
erum hræddir sízt".

101. „Skal-at skati neinn
at skjóma leiki
viljugr óviljugan
mik vunnit fá,
hvorki af afli,
nè íþrótt fimri;
því at eigi þykjumst ek
alinn vera
nè gumnum getinn
glópr slíkr
á svarðarfrjóvri
Salams-eyju".

102. Svá mælti sjóli;
en seggja kindir
Seif Kronus-son
sigrs báðu,

ok at marblám
mána vegi
sá, ok svá baðst
sèr hverr fyrir:

103. „Faðir Seifr,
er á fjalli Ídu
ríkir ríkastr,
reginmestr,
veit nú Aianti
ítran sigr;
hljóti hann hróðmæran
heiðr at vígi".

104. „En ef at Hektori
hávum þú annt,
ok þú hilmi hán
hefir kæran,
veittu þá báðum,
vísir himna,
mátt ok meginþrek,
ok mætan sóma".

---

105. Svá mæltu seggir;
en sigskrúði
eirvörðu Aiant
ítr klæddist;
en er öðlíngr
í alvæpni
knár var kominn
ok klæddr gerva,

106. Þá nam hann vaða
yfir vallar grundu,
Aresi iðglíkr
ógurligum,
þá er hann geingr
at gunni fram,
þegna þeirra til,
er þrúðheims valdr
att hefir saman,
eljansára

hildi at heyja
höfgum móði.
107. Svá gekk Aiant
öðlíngr fram,
morðmúrr Akkverja
inn meginstóri;
gekk glottandi
at gunnar leiki;
váru váligar
vísa sjónir.
108. Skálmaði skati
skelfiliga,
lèt laungum fetum
láðveg troðinn;
dýði dólgstinnan
dör í hendi
lofðúngr lýðfrægr,
lángskeptaðan.
109. Urðu þá Argverjar
allir glaðir,
er þeir hilmi sá
hermannligan;
en Trójumanna
tíðr skjálfti
kom í knè,
er þeir kappa litu.
110. Barðist þá í brjósti
buðlúngs hjarta
Hektors sjálfs,
þótt hraustr væri;
þá mátti-t þó
þeingill flýja,
nè í hóp hverfa
hölda sinna,
er hann hólmgaungu
hafði boðit.
111. Gekk nú Aiant nærr,
hafði gunnskýli:
törgu traustfellda,

ρ. VII, 210-230.

sem turn væri;
sjöbyrðíng, sigbjörtu
settan eiri;
hafði hann Týkkíus
hagr smíðat.
112. Sá var skinnsmiða
skrúðhagastr;
átti heima
at Hýluborg;
hann gerði handbæra
hlífar-kríngla
af leðrum sjö
sima aldra;
en it áttunda
efst hann sló
lag ljómanda
ljósu eiri.
113. Þess hafði þeingill
þrúnginsalar
týframr vörn
Telamons niðr,
bar fyrir brjósti,
buðlúng kvaddi,
nærr gekk Hektori,
ok hreifði máli:
114. „Nú muntu, Hektor,
hróðmögr Brjáms,
er þú aleinn ert,
allvel reyna,
hverjar hraustastar
hetjur sè
Danáum með,
er í dólg um geingu“.
115. „Ok þótt Akkilles
undan falli,
lofðúngr lýðskæðr,
ljónhjartaðr“.
116. „Sitr nú siklíngr
sjótum fjarri

at straumdýrum
stafnabjúgum;
brenn brjósti í
bráðr muni
Atreifs arfa til,
alda stýris“.
117. „Svá erum vèr hraustir,
siklíngr, þó,
at vèr móti þèr
þorum gánga;
erum margir svá
móðhugaðir;
en þú, buðlúngr,
skalt nú böð of hefja“.
118. Annsaði aptr
ægum skata
Hektor hjálmkvikr,
hreifði máli:
„Aiant,' seifborinn,
ítrfrægr
Telamons niðr,
tiggi þjóða!“
119. „Ei skaltu, mildíngr,
mín of freista,
svá sem orkulaust
úngbarn væra-k;
nè þú freista mín,
sem fákunnandi
væra-k at vígum
vínkers nanna“.
120. „Kann ek kostliga
at kaldri rómu,
varga vel kæta
at valköstum;
kann ek til hægri,
kann ek til vinstri
hráskinns-törgu
handar dýja;
því em ek þrautgóðr
at þjóðvígum“.
121. „Kann ek kerrur
knýja skjótar
ógurligum at
ímun-dunum;
kann ek með köppum
at kvernbíts fundi
darra drottins
dans at stíga“.
122. „En nú vil ek ei
at þèr senda,
slíkr sem þú ert,
svárum fleini;
skal-at væl vándri
vigri kasta;
varpa vil ek honum
með vitund þinni“.
123. Mælti hann svá,
ok meginlaungum
veifaði vigri,
varp úr hendi;
kom í skjöld Aiants
inn ógurliga,
sjöbyrðíng,
sviða in lánga.
124. Kom í eir efsta
yrlygs-kríngla,
lag it áttunda
lagt á skildi;
sveif sex gegn um
sima húðir
eirvápn undroðit,
it eljansára.
125. Línaðist lens
í leðri sjöunda.
Aptr sendi þá
Aiant seifborinn
dör lángskeptan

ρ. VII, 230-249.

loſðúngi mót;
hæſði hvelda rönd
hríngborðsjafna
hlífar Brjáms burar
ins böðvar-rama.
126. Gekk geirr stinnr
gegn um törgu
eiri eflda,
ſtrſáða;
brauzt gegn um brynju
bragníngs fagra,
hagliga gerva,
herfleins oddr.
127. Skáru skikkju-dúk
skarpar eggjar
beint undir brynju,
at buðlúngs nára;
en bragníngr
beygðist niðr,
forðaði fjörvi,
ok feigð of dvaldi.
128. Kipptu þá loſðúngar
laungum darrum
báðir at einu
úr breiðum raufum;
óð hvárr öðrum at,
sem óarga dýr,
hráæt, grimm,
á hávum björgum.
129. Eðr hamslausir
á heiðum uppi
villigeltir,
þeirs váliga
ok óþreytandi
orku hafa.
130. Lagði þá horskr
hróðmögr Brjáms
skapti á miðja
skjaldar kríngla;

ρ. VII, 249-268.

nè hann rönd rauf
reginhvelda,
bognaði geirs-oddr
á búngu harðri.
131. Geiri gagnbeitti,
gekk á lag sjóli
Aiant aptr
at ægum skildi;
gekk geirr stinnr
gegn um törgu;
en hann Hektori
hrinda náði,
þá er hann óð
óðsliga fram.
132. Nam háls nöt
á niflúngi;
vall dökkr dreyri
úr döglíngs undu;
hætti-t þó Hektor
hildi at þreyta,
buðlúngr hjálmkvikr,
nè heykjast náði.
133. Vèk aptr vísir,
ok vaskri mundu
stein stórmikinn
af storð upp nam;
lá á láðvelli
lagar hjarta,
hrufótt, svartdimmum
sveipat litum.
134. Varpaði vísir
vallarbjargi
ógurligan á
Aiants barða;
kom í baugnöf
bjarg it þúnga;
saung í sigremmdum
salbendíngi.
135. Þá hóf aptr upp

Aiant ramr
stein miklu stærra
af storðar velli;
sveiflaði ok sendi,
saung í lopti,
beitti buðlúngr
berserksafli.

136. Svá var steinn mikill
sem mylnusteinn;
brast baugr undan,
brotna náði;
kiknaði konúngr
knjáliðum í,
fèll í lopt upp
á foldar þröm
þrýstr þrúginsal,
en þegar reisti
öðlíng Apollon
aptr á fætr.

137. Hefðu þá hetjur
hjörvum brugðit,
ok í höggorrustu
harða geingit,
ef ei kallarar,
erindsrekar
Seifs ok sjóta,
svifit hefði at.

138. Annarr Tróum frá
týfákvöldum,
annarr frá Akkverjum
eirserkjuðum:
týframr Ídeus
ok Talþýbíus;
báðir váru þeir
bragnar spakir.

139. Hèldu báðir
milli hildínga
sprotum sínum
sendiboðar;

p. VII, 268-287.

mælti þá Ídeus
orðum þeima
(kunni hann ráð
rík ok vitr):

140. „Dýrir döglíngar,
drýgit ei leingr
hólmgaungu harða,
nè hjörvum veifit.
Báðum ykkr ann
uppheims valdr,
sjóli skýbólstra
Seifr faðir“.

141. „Báðir eru þit
at böðvi ramir,
vitum allir þat,
ok at vigrum færir;
nú ferr at nótt
af norðrstraumum;
nýtast er njótum
nótt at hlýða“.

---

142. Aptr annsaði
ítrum beimi
arfi Telamons,
Aiant ramr:
„Heyr mèr, Ídeus,
Hektori seg
ítrum at yppa
orði þvísa“.

143. „Því at hann á hólm
hefir skorat
horskasta hverja,
hreysti at reyna;
byrji hann því sjálfr,
en ek brátt mun þá
heilræðum hlýða,
ef hlýðir hann“.

144. Aptr annsaði,
orð nam at mæla,

Hektor hjálmkvikr
at horskan sjóla:
145. „Aiant ógnframr,
alls þèr veitt hefir.
guð mátt mikinn
ok meginvöxt,
vitrleik varinn,
ok þú, vísir, ert
Akkverja hverra
at hildi mestr:“
146. „Nú skulum darra
í dag hætta
dimmum dunum,
ok deilu hverri;
en dólg síðarr
vèr drýgja skulum,
þar til er guð
greiðir dóma
okkr með,
ok öðrumhvárum
sigr veitir
at sigjöru“.
147. „Nú skal oss, niflúngr,
nótt um skilja;
nýtast er njótum
nótt at hlýða“.
148. „Gleðja mantu þá,
gramr, sinna
hverja at álfákum
Akkverja lýðs,
fremst þó fèlaga
frækna þína,
ok hölda horska,
er þèr, hilmir, fylgja“.
149. „En at Brjáms borg
inni böðvarmiklu
ek mun gleðja
ýta Trójn,
ok Trójn svanna

síðmöttlaða;
þær munu gánga
at goða sölum,
heilög vinna heit
fyrir heill minni“.
150. „Nú skulum báðir
býtast gjöfum,
fögrum ok frægum,
fagrvörðum,
svá at Akkverjar
ok ýtar Trójn
þannig kveði
ok kalla megi“:
151. „„Börðust bæði,
ok branda reyndu
ofrkappi af
eljansáru;
aptr sættust,
ok sáttir skildu
vísar veglyndir
vinahótum““.
152. Svá mælti sjóli,
ok silfrnaddaðan
bar fram bæsíng,
buðlúngi gaf;
fylgdi fölvi
fetill vel skorinn,
ok blóðvörtu
beðr luktr.
153. En Aiant horskum
Hektori gaf
brynbelti, purpura
prýðifáit;
skildu skálmramir
skatar síðan;
annarr til Akkverja
öðlíngr hvarf,
annarr Tróa til
týfákvaldra.

p. VII, 287-307.

154. Fegnir urðu Tróar,
er þeir fylki sá
heilan ok lifanda
frá hólmi gánga,
heimtan úr höndum
inum harðgreypu
Aiants, ógnmóðigs
ímunreynis.
155. Leiddu þeir lofðúng
til lýðborgar;
hugðu sízt hilmi
heimta mundu;
en á aðra hönd
leiddu Akkverjar
ítran Aiant
til Agamemnons;
glaðr var gramr
af góðum sigri.

---

156. En sem ýtar
til Atreifs magar
búðar váru
vaskir komnir:
þá Agamemnon,
alda stýrir,
Allföður fórn
færa náði;
frey fimmvetrúng,
feitan næsta,
blótaði buðlúngr
banda vísi.
157. Flógu þeir bola,
búa knáttu;
hjuggu hvervetna
hold í sundr;
brytjuðu hagla
höggvinn drjóna,
ok á steikara
stúngu teina;
steiktu gumar allt
gætiliga,
tóku síðan
ok af teinum drógu.
158. En er erfiði
ok önnum þeima
hættu halir,
hófu upp veizlu;
nè lystíng leið
lýðum gerðist;
neyttu dreingir
af deildum verði.
159. En Aianti
til ágætis
lagði heilan hrygg
himinrjótar
Atreifs arfi
inn ímunfrægi,
allvaldr alþjóðar,
Agamemnon.
160. En er lýðir
lystíng höfðu
á bug ekit
áts ok drykkjar,
þá bar Nestor fram
þjóðmæríngr
fyrstr ráðagerð
ráðsnjallasta.
161. Hans þóttu ætíð
hyggiligust
ok völdust vera
vitrmæli;
ítrfrægum
eimnis reynum
heill í hugum
hann orð um kvað:
162. „Atreifs arfi,
ok aðrir þèr
hraustastir alþjóðar

Argosláða;
nú eru margir
af mönnum várum
hnignir at hildi
hárum-prúðum".

163. „Þeirra hefir dreyra
dökkvum roðit
bakka Skamanders
böðvar drottinn,
Ares ógnbráðr,
en andir þeirra
í Hadesar heim
hurfu niðr".

164. „Skaltu því hepta
frá hildar leiki
dreingi akkneska
dag komanda;
þá skulum safnast,
sjóli, ok hinnig
nautum ok múlum
nái draga".

165. „Skulum vèr vegna
vera brenna
skammt upp frá skipum,
at skatna hverr
bragna megi bein
börnum færa,
þá er aptr förum
til fóstrjarðar".

166. „Einn skulum haug verpa
öllum dánum
seggjum á sóknveingi,
sameiginlegan,
kríng um brennanda
brísings loga;
skulum út árna
at iðju þeirri".

167. „Þá skulum timbra
turna háva



hjá skatna haugi
skyndiliga;
vörn skal þat vera
viggjum sævar,
ok beinviðum
böðvar skýja".

168. „Skulum á háturnum
hlið of timbra,
hurðum vel felldum
hála búin;
þar skulu reiðar
renna mega
út, ok aka
um opnar brautir".

169. „En fyrir hliðum
hávum utan
gröf skulum grafa
geysidjúpa;
hún skal umkríngja
hervirki allt,
forvígi fyrða
ok fáka vera,
at ei Trójumenn
tírargjarnir
oss fái borit
ofrliði".

---

170. Mælti svá mæríngr;
en mildíngar
allir á fèllust
öðlíngs ræðu.

171. En Tróar ítrir
at Ilíonsborg
fund á hávirki
halda knáttu,
at Brjáms dyrum;
var-a dælt á þíngi,
ótti ok órói
aldir þjáðu.

172. Þá mælti Antenor
ítrspakr
fyrstr á fundi,
fèkk orð talat:
173. „Heyrit mèr, Tróar
tírargjarnir,
Dardanar horskir,
ok hjálparliðar;
at ek fram mæla-k,
þat er inni mèr
býr í brjósti,
ok býðr hugr“.
174. „Skulum vèr nú aptr
Atreifs mögum
Helenu láta
horskri skilat,
ok meiðmar allar
mundum telja;
vegum vèr á sættir,
vegum á tryggðir;
eigi mun þat oss
örlög bæta“.
175. Svá mælti sjóli,
settist at þat;
þá stóð ítr upp
Alexander;
hann var eiginverr
argversks svanna,
Helenu horskrar,
innar haddfögru.
176. Lèt vænghröðum
varpat orðum
vísir at vísi,
vakti ræðu:
177. „Erumk undarligt
orð þín heyra,
Antenor; aldri
ek á þau föllumst;
betra þú knátt,
buðlúngr, ráða,
ef þú þat vill,
vitrum sefa“.
178. „En ef þú þessar
af alvöru
tillögur leggr
lýða kindum,
þá hygg ek guði
úr geðknerri
þèr hafa numit
nýta speki“.
179. „Nú mun ek láta
fyr' njótum sverða
atkvæði mitt
upp um borit;
ekki mun ek aptr
ítri skila
konu kinnfagri
köppum Grikkja“.
180. „En ek mun öllum
aptr skila
meiðmum munskærum,
er ek margar nam,
ok heim frá Argos
hafa náða;
mun ek þeim skila,
ok meiru við bæta“.

---

181. Svá mælti sjóli,
settist at þat;
þá stóð upp dáðrakkr
Dardans arfi,
Brjámr buðlúngr,
banda jafníngi
ríkum at ráðum
ok ramri hyggju;
heill í hugum
hann orð um kvað:
182. „Heyrit mèr, Tróar

ρ. VII, 347-368.

tírargjarnir,
Dardanar horskir,
ok hjálparliðar,
at ek fram mælak,
þat er inni mèr
býr í brjósti
ok býðr hugr".
183. „Neytið nú, sem áðr,
aptans-verðar,
um borg mína
böðvar-rama;
gángi síðan
gumar at verði;
vaki vaskir menn
at vígmyrkrum".
184. „En at morguns ári
upprennanda
Ídeus haldi
at hveldum skipum;
segi hann ítrum
Agamemnoni,
ok Menelási,
mögum Atreifs";
185. Flytji þeim orð
Alexanders,
er af hans völdum
hafa víg of risit;
bera skal hann boð
til buðlúnga,
hvárt þeir hernaði
hætta vilji,
þar til er brennt höfum
bleika nái".
186. „En dólg síðan
vèr drýgja skulum,
þar til er guð
greiðir dóma
okkr með,
ok öðrumhvárum
þ. VII, 368-388.

sigr veitir
at sigjöru".
187. Mælti svá mildíngr;
en margims brjótar
buðlúngi hlýddu,
boða hans gættu;
en at ári morguns
Ídeus fór
niðr at hveldum
hrannar mörum.
188. Fann hann Danáa
dróttþíngi á,
glaða gunnþegna
geira drottins;
váru hjá skuti
skeiðar hávum
allvaldar alþjóðar,
Agamemnons.
189. Stóð stillis þegn
studdr túngu
mitt at magnremmdri
mildínga fjöld;
mælti kallari
málsnjall síðan,
ok orðum varp
af vörrum fram:
190. „Atreifs arfi,
ok aðrir þèr
hraustastir aldar
Argos-láða,
bauð mèr buðlúngr
Brjámr frægr,
ok aðrir Tróar
tíri faldnir,
191. „Yðr at inna,
ef yðr væri
ljúft ok lyndiskært,
lofðar, at heyra,
orð Alexanders,

ástmagar Brjáms,
þess er valdit hefir
víga leikum“:
192. „Meiðmum mætum,
þær er mildíngs arfi
flutti Trógu til
á traustum gnoðum —
ávíl öðlíngr
áðr skyldi
farizt hafa,
ok fjörvi tapat!“
193. „Þeim vill hann öllum
aptr skila,
ok enn fleirum á
ofan bæta;
en eiginrúnu
kveðst hann eigi munu
mærri skila
Menelásar,
en þótt Tróar þess
tiggja fýsi“.
194. „Bauð mèr ok buðlúngr
boð at færa:
hvárt þèr hernaði
hætta viljit,
glaumi gjallanda
gunnar ægum,
þar til er brennt höfum
bleika nái“.
195. „En dólg síðan
vèr drýgja skulum,
þar til er guð
greiðir dóma
okkr með
ok öðrumhvárum
sigr veitir
at sigjöru“.
196. Mælti hann svá;
en málmþíngs reynar
ρ. VII, 388-407.
allir hljóðir
orð ei mæltu;
seint reis á þíngi,
ræðu vakti,
Díómedes
inn dáðum-rakki:
197. „Nú skal ei njóta
náins grundar,
nè aura þiggja
Alexanders,
ekki sváseygðan
sjálfan heldr
svanna taka,
þótt sjólar bjóði“.
198. „Því at þjóð öll,
en þótt fávís sè,
skilja hlýtr
ok í huga sjá,
at öldum Tróju
eru albúin
endimörk yztu
aldrtila“.
199. Mælti svá mildíngr
inn málrómsterki;
æptu Akkverjar
ok undir tóku;
dáðust dróttmegir
at dýrri ræðu
Týdeifs magar
ins týfákvalda.
200. Ávarpaði þá
Ídeus vitran
allvaldr alþjóðar
Agamemnon:
„Sjálfr máttu nú
mál of heyra,
Ídeus, aldar
Argos-láða“.
201. „Heyrir þú, hverju

þèr halir svara;
sjálfr ek samsinni
sjótar máli;
en ekki meina-k
nè móti stend,
at brenndir verði
bleikir náir“.
202. „Því at eigi má
undan fella
fallinna at friða
fyrða svipi,
ok á bál bera
böðvar reyna,
er þeir at hjaldri
hafa látizt“.
203. „Veri vottr oss
vísir Seifr,
Heru verr
*háþrumandi*;
sáttir þessar
hann sjálfr bindi“.
204. Svá mælti vísir,
ok veldis sprota
hóf upp til allra
himins guða;
en Ídeus
aptr hvarf
alhelgrar til
Ilíons-borgar.
205. Sátu allir
á samkundu
dreingir Trója,
ok Dardanar;
sátu safnaðir
seggir, ok biðu,
at Ídeus
aptr kæmi.
206. Kom kallari,
gekk til kappa fram
ρ. VII, 407-426.

öldum erendi
inna náði;
bjuggust þá halir
hvárstveggja til:
sumir lík sækja,
sumir við draga.
207. En á aðra hönd
sendu Argverjar
þóptusterkum frá
Þvinnils mörum;
hvárstveggja til
hali kvöddu:
suma lík sækja,
suma við draga.

---

208. Ýngstum álfröðull
á akrlendi
geislum glóandum
gerði skjóta,
nýla upp runninn
af iðjalygnum,
jörmundjúpum
Jarðarstraumi
upp á heiðríkan
himins boga.
209. Mættust þá mætir
málmþíngs boðar;
var torvelt þá
teitum rekkum
ver hvern valfallinn
vel at greina.
210. Þógu þegnar
þykkvan dreyra,
blóð bráðstorkið
af bleikum náum;
helltu út halir
heitum tárum;
hófu lík háva
á hvelvagna.

211. Leyfði-t lofðúngr
lýðum Trója
Brjámr inn böðframi
at bylja gráti;
lögðu þegjandi
lík á elda;
var hjarta hvers
harmi þrúngit.
212. Brenndu á báli
bleika nái;
hèldu at þat
til helgrar borgar.
213. En á aðra hönd
Akkverja sjót,
fagrbrynhosaðir
fölvis reynar,
lögðu á líkelda
lèmagna nái;
var hjarta hvers
harmi þrúngit.
214. Brenndu á báli
bleika nái;
hèldu at þat
til hveldra flausta.

---

215. Vöknuðu valdir
kríng um valkastar
loga ljósan
lýðir akkneskir;
nè mönnum lýsti
Morgunskæra;
glaprökkri gríma
yfir grund of leið.
216. Fóru út fírar,
feikna-mikinn
einn haug urpu
kríng um aldrnara;
hlóðu at haugi
hjörva sveitir
múr stórmikinn,
meginraman.
217. Timbruðu síðan
turna háva,
vörn vágdýrum
ok verum sjálfum;
ok á háturnum
hlið of gerðu,
hurðum vel felldum
hála búin,
at þar reiðar
renna mætti
út, ok aka
um opnar brautir.
218. Grófu garpar
fyrir garð utan
gröf í grundar svörð
geysi-djúpa
gröf ginn-stóra,
geysi-breiða,
ok í storðar þröm
staura ráku.
219. Störfuðu þannig
þjóðir sverða,
halir akkneskir,
hárum-prúðir.

---

220. Sátu sigtívar
at sjóla himins,
hjá Þrúðvaldi þjóða
þrumu-glöðum;
sá goðþjóð,
gerði undrast,
stórvirki Akkverja
eirserkjaðra.
221. Mælti þá fyrstr
á feikn-þíngi,
ok orð um vakti,
Jarðarskelfir:

222. „Hvárt muntu, heimsvaldr
Herjafaðir,
á fold feiknstórri
fírar vera
nokkrir, þeirs nái
niflúngum himna
hug sinn herma,
ok af högum inna?"
223. „Sèr þú ei, sjóli,
at sjót Akkverja
hervirki háreist
hefir búit
fyrir ofan fley,
en at firin-garði
gröf hafa grafit
garpar þessir".
224. „Nè þeir niflúngum
náðu færa
himna hundraðsblót
heiðri fáin;
en af ógnvirki þvísa
mun orð of gánga
eins lángt ok árgeisli
ferr eyglóar".
225. „En garðr hinn
mun gleymdr látinn,
sá er hlóðum vit
himins tívar,
ek ok Apollon,
öðlíng fyrir
Láomedon,
lögðum orku fram".
226. Stundi þá Seifr,
sjóli skýbólstra,
annsaði aptr
ægis tíva:
„Hví þú slíkum
svárum orðum
foldhristir, ferr,
inn feiknvaldi!"
227. „Mætti annarr einn
uppheims tíva
ógnvirki undrast
it jörmunstóra,
sá er miklu þèr
minni væri
afli at
ok eljan-móði".
228. „En þinn mun fara
frægðar vegr
eins lángt ok árgeisli
ferr eyglóar".
229. „Heill svá, hrannvald
þá er hárprúðir
aptr heim fara
Argos-liðar,
ok hveldum halda
yfir humra leið
fleyjum framgjarnir
til fóstrjarðar:
230. „Þá skaltu brjóta
böðvar timbr,
garð gjörvallan
í græði fella,
sandi síþekja
sævar ströndu;
svá muntu, öðlíngr,
eyða mega
hervirki Akkverja
undra-stóru".
231. Töluðust svá við
tívar sælir,
ok þau orð annarr
öðrum valdi.

---

232. Sveif nú sól niðr,
ok sjónum hvarf;

ρ. VII, 446-465.

þá höfðu Akkverjar
endat vinnu;
slátruðu uxum
síðan at búðum,
ok kvöldverð tóku
kvernbíts reynar.
233. Váru Lemney frá
lagar hreinar
margir komnir,
fluttu mun-veigar;
þá hafði senda
sjótum kunnr
Evneus, ágætr
Jasons niðr.
234. Þann hafði alit
Hýpsípýla
við horskum Jasoni,
hirði þjóða.
235. En auk þess
hafði Jasons niðr
ítrum sent
Atreifs mögum
mæla þúsund
munarsætra
veiga, vegsælum
vísum at gjöf.
236. Þar keyptu ítrir
Argos-liðar
hunángsveigar
hárum-prúðir:
237. Sumir við eiri,
sumir við járni,
eljan-fáðum
ísarnmálmi;
sumir létu húðir,
sjálf naut aðrir,
sumir þræla,
ok sumbl um höfu.
238. Sátu at sumbli,
sèr vel undu,
gersta grímu
garpar akkneskir;
en í Brjáms borg
böðvar liðar
með bandamönnum
bjuggu gleði.
239. En uppheims sjóli
illum huga,
Seifr inn ráðvísi,
til rekka sá:
gersta grímu
gný nam vekja,
reiðar dunur
regindimmar.
240. Urðu Akkverjar
ótta fölvir;
helltu úr kerum
á hauðrs þröm
víni vegsælu;
nè verr einn þorði
fyrri at drekka,
en dreypt of hefði
Kronusar arfa
kynja-römum.
241. Geingu til hvíldar
garpar síðan;
nutu svefngjafar
sætrar værðar.

---

ρ. VII, 465-482.

# ÁTTUNDA KVIÐA.

SVÁS mundi sunna
í sóllauks-möttli
heimskrínglu alla
hjúpa árborin;
þá átti Þrúðvaldr
þrumnglaðr
þíng með sigtíva
sælum þjóðum.

2. Sátu heimsvaldar
á hæstum tindi
Ólýmps, meginhnjúks
ins marghálsaða;
mælti þá Seifr,
mildíngr himna;
hlýddu gjörvallir
guðir á ræðu:

3. „Heyrit mèr, gjörvallir
goðheims vísar,
ok gyðjur allar,
gerst of hlýðit,
at ek fram mælak,
þat er inni mèr
býr í brjósti,
ok býðr hugr“.

4. „Skal-at nokkurr nú
niflúnga himins,
guð nè gyðja,
gerst of reyna
orð mín ónýta,
ok at eingu gera,
þats ek setja munk
mætti bundit,
at ek it skjótasta
ætlan þessa
framkvæmt fáa,
ok at fullu endat“.

ρ. VIII, 1-18.

5. „Ef ek verð þess varr,
at vèa nokkurr
hèðan hverfi
af himinstöðvum;
vilji lið veita
virðum Trójo,
eðr Danáa
dróttir stoða:“

6. „Þá skal hann ægum
óvægiliga
þrumufleini
þegar beystr
Ólýmps til
aptr rekinn“.

7. „Eðr ek tíva
tek, ok varpa
at ógnarheims
undirdjúpum,
lángar leiðir
frá ljóssheimi,
í afgrunn dýpst
fyrir jörð neðan“.

8. „Þar 'ro járngrindr
jörmunstyrkvar,
ok eirþröskuldr,
allt ómurligt;
sá er heimr
fyrir Hades neðan
eins lángt ok himinn
yfir hauðri stendr“.

9. „Finna skal sá,
ok fremst of reyna,
hve ek miklu guða
máttkastr emk;
komit til, tívar,
ef kanna viljit,

at èr gjörvallir
getið reyna:“
10. „Heingit festi
frá himins boga,
rauðum rammeflda
Rínar málmi;
takið allir í
ok á hángit,
guðir gjörvallir,
ok gyðjur hverjar“.
11. „Eigi munut þó
ofan draga
ráðum ríkastan
ragna-föður
himins hæðum frá
at hauðrs þremi,
hversu fast hlekki
sem haldit í“.
12. „En ef af alvöru
ek á tæki,
munda-k hægliga
hlekki upp draga;
munda-k jörð alla
upp um toga;
munda-k ægi allan
upp um hefja,
ók alla yðr,
uppheims tívar!“
13. „Mætta-k gullfesti
meginstyrkri
kríng um Ólýmps hnjúk
efstan varpa,
ok um bjarg binda,
en byrðr snúru
höfga harðteygðrar
hèingi í lopti“.
14. „Svá em ek styrkvari,
svá em ek meiri

p. VIII, 18-37.

guðum ok mönnum
und miðgarði“.
15. Mælti Seifr svá;
en sigtívar
allir hljóðir
orð ei mæltu;
urðu forviða
við fylkis ræðu;
hafði Þrúðvaldr
þúngt of talat.
16. Seint kvað á þíngi
Sigföður jóð,
ok orð vakti Aþena
in augum-glæja:
17. „Heyr, várr faðir
himinbúa,
æðstr öðlínga,
arfi Kronusar!
Vitum þat vel,
at veldi þitt
er at afli
ósigranda“.
18. „En vèr allir þó
aumkva náum
Danáa dróttmögu,
í dólg um geingna,
er þeir illum
örlögdómi
fallnir faðma
foldu dreyrga“.
19. „Munum oss þó
frá morði halda,
alls þú býðr,
buðlúngr, svá;
en vèr ráð munum
ráða Danáum,
þat er þeim dugi
at darra glaumi,
at þeir ei allir

aldri rænist,
mildíngr, fyrir
móði þínum".
20. Brosti Seifr,
sjóli skýbólstra,
annsaði aptr
orðum gyðju:
21. „Vertu hughraust.
mitt horska jóð,
Trítogenía,
tala-k eigi
alvöru af
orð in sváru;
æ skal ek þèr
eptirlátr".
22. Svá mælti sjóli;
snæfrum beitti
jóm eirfættum
fyrir jörmunreið;
þeim váru manar
á málfetum
gulli gimskæru
glóandfaldnar.
23. Gulli nam klæðast
goða faðir;
greip gildri mundu
gullna svipu
fagrsmíðaða,
ok á firinhvelda
reið of stè
ragna sjóli.
24. Beysti jólum
bitilhreina,
at þeir fram rynni
of feiknstigu;
flugu viljugir
fákar ólmir
mitt á millum
moldar jaðra

ρ. VIII, 37-55.

ok meginboga
Múspells sía.
25. Leið til lindríkra
leita Ídu,
þar er skörð ala
skógdýra fjöld,
á Gargars-tind,
þars grams um stóðu
hof ok ilmandi
helgr stalli.
26. Stöðvaði þar fáka
faðir manna,
gramr goða,
gullinfexta;
beitti frá kerru
bitilhreinum,
ok þá mjörkva brá
miklum yfir.
27. Settist sjálfr
síðan á tind
dáðum-hróðugr
drottinn heima;
sá til Brjáms borgar
böðvar-ramrar,
ok til Akkverja
öldu-hreina.

---

28. Tóku nú dagverð
dróttir skjótla,
halir akkneskir
hárum-prúðir;
en at búnu því
björtum klæddust
skatnar skálmramir
Sköglar málmi.
29. En á aðra hönd
halir Tróju
inni í Brjáms borg
búast náðu;

váru mannfærri,
en meginfúsir
víg at vekja
í valglaumi.
30. Því at þjóðum þörf
þrýsta gerði
börn at verja
ok brúðir ljósar.
31. Hriktu opnut hlið
á hjar-ásum;
þustu þegnar út
at þjóðvígum:
fáka foríngjar
ok fótgaungumenn;
hvarflaði herglaumr
at himinskautum.
32. En er váru nú
naðels sveimar
saman safnaðir
at svæði einu:
skelldu skjöldum
skatnar saman;
vigrar ok vígmóðr
mættust valþjóða.
33. Gall rönd við rönd
reginhvelda;
reis rómuþyss
refilvaldendum;
hófst unda-óp
ok orra-gleði
vápnbitinna
ok vegenda;
varð vígvöllr
valdögg sleginn.
34. Meðan lýsti mær
Morgunskæra,
ok dagr dýrsigndr
dafna náði:
flugu fleinar

ρ. VIII, 56-76.

í fylkíngar;
fèllu fyrðar
at fólkroði.
35. En er Helíus
um himins boga
miðjan ók
meginhveldan:
hèlt upp tveim
af hrannar eldi
vísir himna
vágarskálum.
36. Lèt í varpat
valkyrjum tveim,
heljar-dimmum
hlutum dauða:
Trójumanna
týfákvaldra,
ok Akkverja
eirserkjaðra.
37. Tók um vísir
vágar mundáng;
seig niðr Akkverja
örlögdagr;
settust Akkverja
örlögdísir
á margfrjóva
moldar blæju,
en Brjáms beima
banagyðjur
hurfu hveldum at
himins boga.
38. En Seifr sjálfr
senda náði
undra þrumur
af Ídu tindum,
blossa brennanda
brögnum sendi
Akkverjum ramrar
reiðar dunu.

39. En sjáandi
sjót undraðist,
greip geigr bleikr
gjörvallan her.

---

40. Þorði þá eigi
Ídomeneifr
nè Agamemnon
at öldum dvelja;
eigi biðu þá
Aiantar heldr,
þegnar gunntamir
geira drottins.
41. Einn þá beið
aldar vörðr:
Nestor, gerenskr
gramr reiðar;
var-a viljugt þó
vísi dvelja;
en fákr sjóla
sárr var orðinn.
42. Laust hann skeyti
líkr goðum
Alexander,
ítrs svanna,
Helenu hárfagrar,
horskr bóndi.
43. Kom í hvirfil efst
á hófvarpni,
efstir þars jóm
aflast toppar
ok í hausi
haldast mega;
þar er höggstaðr
hættligastr.
44. Hljóp í heila inn
harðr broddr;
hljóp í lopt lèttfeti
lostinn kvölum,

ρ. VIII, 76-95.

fældi ferligr
fáka aðra,
veltist á vángþremi;
var fast skeyti.
45. Stökk upp skjótla
stillir aldinn,
vildi hjör höggva
herði-ólar,
hliðar haldreimar,
þær er hesta teingdu.
46. Mundu þá Hektors
í meginflótta
raunfráir renna
reiðar-brímar;
hlupu með Hektor
hugum-stóran,
kynja-knáan
kerrustýri.
47. Hefði hilmir þar
hlotið dauða,
aldinn mæríngr
málsnjallastr,
ef þess ei skjótla
hefði orðit varr
Díómedes
inn dáðum-rakki.
48. Æpti öðlíngr
ógurliga
Odysseifs till,
ok orð um kvað:
49. „Seiðborinn sjóli,
slúnginn ráðum,
Odysseifr
arfi Laertess!
hvert flýr þú, hilmir,
hefir baki við snúit,
sem huglauss halr
í hölda sveit?“
50. „Vara þik, vísir,

at þèr vigri eingi
bak of beysti,
er þú brautu flýr;
bíð þú, buðlúngr,
bægja skulum
berserki þessum
bragníngi frá“.

51. Svá mælti hann;
en sjóli heyrði-t
þrautgóðr, ágætr
Odysseifr.
Fór hann fram hjá
fylki römum
Akkverja at
öldu hreinum.

52. En Týdeifs arfi,
þótt einn um væri,
forvígismanna
fetaði til;
nam staðar niflúngr
Neleifs-sonar
fyrir reið framan;
fljótum orðum
konúng aldraðan
kveðja náði:

53. „Eru nú úngir
erviðir þèr
naðels boðar,
niflúngr aldinn;
horfit er þèr afl
úr hraustum limum;
sækir ill elli,
öðlíngr, þik“.

54. „Kjarklítinn hefir þú
kerruþjón,
ok seinfæra
silfrtoppa.
Heill svá, hilmir,
hvelda mína

p. VIII, 95-115.

sezt á reið,
ræsir frægr“,

55. „Attu gerst fáir,
gramr, vita,
hve Trós fákar
eru framgjarnir,
skjótir at skunda
skeiðvelli á,
hvervetna at elta,
ok undan renna“,

56. „Þeir er ek áðan tók
af Eneasi,
flótta flugskjótir
fremst at drýgja;
skulu nú fólksveinar
fáka annast,
en þessum hèr
vit halda munum.
Tróum móti
týfákvöldum,
at Hektor fái
huga kannat,
hvárt í greipum mèr
geirr minn æðir“.

57. Mælti hann svá;
en máli hlýddi
Nestor, gerenskr
gramr reiðar;
en kerrusveinar
knáttu fáka
Nestors annast,
naðels-ramir.

58. Þat var Stenelus
inn stríðmóðgi,
ok Evrýmedon
ítrvaldr;
en döglíngar
á Díómedesar

kerru báðir
knáttu stíga.
59. Tók Nestor tauma
tírarglæsta,
teygði höndum
traustar ólar,
keyrði fáka,
knúði at skeiði;
bar skjótt hildínga
at Hektori.
60. En er hjálmkvikr
Hektor óðr
á fram ruddist,
þá til öðlíngs skaut
dáðmögr Týdeifs,
Díómedes,
ok hilmi hvergi
hitta náði.
61. Hæfði heldr
hörðum málmi
kerrusvein öðlíngs,
Eníopeif,
Þebeuss þrúðmóðigs
þekkan arfa,
þann er herðum hèlt
hesta-taumum.
62. Kom í brjóst guma
hjá geirvörtu;
fèll hann af fólkvagni
(en fákar skjótir
aptr hrukku,
hræðast náðu);
hvarf líf, ok lèmagna
limir urðu.
63. Lagðist um lofðúngs
af láti þvísa
Hektors hjarta
harma þúngi;
hèlt frá honum

hilmir síðan,
sárt þó at sviði
fyrir segg dauðan.
64. Lèt hann liggja,
leitaði annars
kerrusveins
kröptum búins;
nè lángt of leið,
at lèttfetum
vant um væri
vega-stýris.
65. Fann brátt fylkir
fólkum-röskvan
Arketólemus,
Ifítuss nið;
hann lèt hilmir
á hvel of stíga,
ok honum fáka fèkk
fagra tauma.
66. Hefði þar eymdir
ægar risit,
ok bótlaust böl
brögnum vorðit;
hefði þar ýtar
í Ilíons-borg
eins ok sauðir
inni kvíazt:
67. Ef ei skjótliga
skynjat hefði
guða ginnmáttkra
ok gumna faðir;
þrumaði Þrúðvaldr,
ok þrumublossa
hleypti hauðrs til
hvítglóanda.
68. Hraut frammi fyrir
fólka kerru
Díómedesar
dyn-glaums funi;

en loga lagði
leiptrum ægan
upp af brennandu
brísíngs eldi.
69. Brugðu báðir við
beystir ótta
fákar fóthvatir
at fólkkerru,
ok úr höndum hilmi
hrjóta náðu
Nestori gunnfrægum
glæstir taumar.
70. Ræddr varð ræsir,
ok ræðu vakti
við Díómedes
inn dáðum-rakka:
71. „Snú aptr, týframr
Týdeifs arfi;
lát jóa einhæfða
undan halda;
sèr-at-tu, sjóli,
at þèr Seifr bægir
svásum sigri frá
at sverða glaumi?“
72. „Veitir vegsæla
vísir himna
Hektori dáðfremd
á degi þeima;
en á morgun mun,
ef mildíngr vill,
hann oss heiðr
hávan veita“.
73. „Má-at maðr því
máttigs breyta
ráðum ríkum
ragna-föður,
nè þótt ámáttkr
ok efldr sè;

hans því afli er
öllu meiri“.
74. Annsaði aptr
orðum mærings
Díómedes
inn dólgrómsterki:
75. „Satt þú segir,
siklíngr aldinn,
allt, er þú mælir
af munni fram;
samt erumk þýngst
ok í þokka sárast,
sorg sútfaldin
mèr sefa stíngr“.
76. „Því at Hektor mun
máli hreifa,
er hann Tróa til
tala náir:“
„„Fyrir mèr flýði
fólkum-djarfr
Týdeifs arfi
at öldu hreinum““.
77. „Svá mun stæra sik
stillir á síðan.
En fyrr mik svelgi
in svarta jörð!“
78. Annsaði aptr
orðum vísa
Nestor, gerenskr
gramr reiðar:
„Týdeifs dáðmögr
ins dólgum-kunna,
hvílíkt orð leið þèr
af hvarfi tanna!“
79. „Þótt þik huglausan
Hektor kveði,
ok dáðlausan
at dólgleiki,
þá munu eigi

ýtar Trója
nè Dardans dróttir
trúa döglíngi“.
80. „Nè tiggja
trúa munu
skatna skjaldfimra
skærar brúðir,
er þú fellt hefir
fíra únga,
bændur þeirra
ok blómliga“.
81. Mælti svá mæríngr,
ok málfetum
einhæfðum, fljótum,
at flótta snèri;
fóru flaughraðir
á feril snúðgan.
82. En Trójumenn
týfákvaldir
ok Hektor æptu
hræðiliga;
lètu at skötnum
skeyti drífa;
stundu stálbroddar
stríðum hvini.
83. Æpti Hektor þá
ægum rómi
at Díómedesi
inum dáðrakka:
84. „Fyrr þik, Týdeifsson,
týfákvaldir
Danáar virðu
dreingjum framarr,
at sæti ok at sumbli,
ok at svásum veigum,
björtum bjórskálum
barmafullum“.
85. „En nú ýtar þèr
óvirðíng fá,
því at konu hjarta
er þèr huglaust lagit;
haf þik á brautu,
blotamenni,
hundsauga hvergi nýtt
it hrykaliga!“
86. „Skal-at ek, seggr,
sinni nokkuru
fyrir illum þèr
undan láta;
nè þèr turna á
ora hleypa,
hávirki hátimbruð
höfuðborgar“.
87. „Ei muntu meyjar
á marar ljónum
frá oss um flytja
fagrbeltaðar;
fyrr skal ek sendíngu
senda láta
illa þèr
óhamíngju“.
88. Mælti svá Hektor;
en magar Týdeifs
hugr var á hvörfum
hvárt gera skyldi:
hestum snúa,
halda móti
Hektori, ok heyja
hríð, eðr ei.
89. Velti þrisvar hann
í huga sínum
hugsan þessarri,
en hvárigt rèði;
þrívegis Þrúðvaldr
þrumu sendi
ægiráðr
af Ídu tindum.
90. Gaf tákn tívi

ρ. VIII, 154-171.

Trójumönnum,
sigrs ok sœmdar
at sigjöru.
Þá nam Hektor
hávum rómi
Trójumanna til
tiginn kalla:

---

91. „Tróar ok Lýkverjar
tírargjarnir,
ok Dardanar horskir
at höggorrustu,
aukizt nú afli,
ok eljanþreki;
minnizt móðigrar
málmþíngs remi".
92. „Veit ek nú víst,
at af vænum hug
hefir mèr Kronusson
heitið sigri,
frægð ok fólkljóma,
en falit illum
alla Danáa
örlögdómi".
93. „Heimskir váru halir,
þá er hervirki
gerðu þetta þeir,
þráir glópar,
ei at neinu nýtt
naumasmíði;
mun-at þat mínum
móði aptra".
94. „Munu gröf grafna
gullinfaxar
hægliga hlaupa
hraustir yfir".
95. „En þá er holum at
hrannar ljónum
em ek um svifinn,
ρ. VIII, 171-193.

þá seggja nokkurr
eptir því muni,
at hann eld hafi,
at ek upp brennak
blakka sævar,
ok beimum sjálfum
bana vinnak".
96. Mælti hann þannig,
ok málfeta
orðum kvaddi
ímunskjóta:
97. „Bleikr ok Blossi,
Blóðhófr, Glói,
gjaldit nú it góða,
gotar, eldi,
þat ykkr um veitti
Andrómakka,
Etíons ágæts
öðlíngs dóttir".
98. „Fyrri hún yðr
fóðr um veitti,
lèt yðr hveitis
ljúfa fæðu;
færði hún yðr þat
fyrr en mèr,
ek þótt hennar sè
eiginn bóndi".
99. „Skyndit nú, skinfaxar,
skeiðit samtaka,
at ek fremst megak
fagran nema
böðskýli Nestors,
sem hans bjartr nú
hvarflar hróðr
með himinskautum;
þann kveða fírar
fagrbláinn,
ok gripsteingr hans,
af gulli rauðu".

100. „En af ógnskata
ægum herðum,
Díómedesar
ins dáðfákvalda,
fagri vil ek fletta
fólka-skyrtu,
er Hefestus gerði
inn hugvitsfrægi“.
101. „Ef vèr getum þá
gripi báða,
þá munum vèr
á þessi nóttu
naðels boða
niðr hrekja
gángskjótum at
gotum sævar“.
102. Mælti svá hilmir,
var hróðigr.
*En* rík nam reiðast
ragna freyja;
hreifðist á hástóli,
en hávir tindar
bifðust bjartsala
banda svásra.
103. Ávarpaði þá
uppheims freyja
afli alfrægan
ægis drottinn:
104. „Sjá undr mikit,
Jarðarskelfir,
vítt um valdr
vísir sævar;
glúpnar þú ei, gramr,
í geðknerri,
er þú Danáa sèr
drepna þannig?“
105. „En þó veita þèr
verar fórnir
margar ok munsvásar,
marar drottinn,
bæði at iðfögrum
Ægis hörgum,
ok hátimbraðri
Helíku í“.
106. „Unn þeim sigrs nú,
ægisvaldr!
því ef allir vèr
uppheims guðir,
er Danáa viljum
dáðum stoða,
ef ýta Tróju
vildum aptr hrekja“,
107. „Ok ef víðskygnum
vildum Seifi
bægja frá böðvi,
bönd in mæru:
þá mundi glúpna
guða sjóli,
sitja alls of einn
á Ídu tindi“.
108. Stundi þúngan,
ok stillis freyju
aptr annsaði
Jarðarskelfir:
109. „Djarfmælt ertu nú,
drottníng himna,
er þú slíkt mælir
af munni fram;
sízt mun ek sigtívum
svásum ráða
kappi at etja
við Kronuss arfa;
hann því at er
hvervetna meiri
öllum öðrum
uppheims guðum“,

---

110. Töluðust þannig við

ρ. VIII, 194-212.

tvö alvoldug,
guð ok gyðja,
of grein þessa.
111. Óku nú Akkverjar
ímunkerrum,
ok geingu skatnar,
skjaldvaldendr,
saman þyrptust,
svæði fylltu,
þat er frá ál-dýrum
upp um lá
grafar milli
ok gunnar turna.
112. Hrakti hali
Hektor þángat,
ástmögr Brjáms,
ógnar-skjótum
Aresi jafn
ímuntíva;
gaf honum Seifr þá
sóma fríðan.
113. Hefði Hektor þar
hjálmkvikr eytt
báli brennanda
báru hreinum,
ef ei ráð hefði
rík of gefit
Hera allvaldi
Agamemnoni,
114. Þótt hann óðr væri,
önnum kafinn,
skjótla at eggja
Akkverja fram;
fór af stað hilmir
til herbúða,
ok til Akkverja
öldu hreina.
115. Hafði á hendi
hilmir þrekinni
möttul prúðmikinn,
purpura-fáinn;
staðar nam stillir
at stála hreini
dökkum Odysseifs,
dúfu-hveldum.
116. Sá var at miðjum
meginflota;
kallaði hilmir,
svá heyra mátti
handa beggja til,
hávum rómi,
at Danáum
dólgum-kunnum:
117. „Smán er at slíku,
synir Argverja;
huglausir erut èr,
horskir sýnum;
hvert eru nú horfin
hreysti-yrði,
er vèr vaskastir
vera lètumst?“
118. „Þá er at Lemney
lètuð gánga
sterk stóryrði,
staðleysu-hjal;
átuð ærna gnótt
af uxa holdi,
bola beinhyrndra
brytjaðan verð“.
119. „Drukkut dökkrauðum
dýrstum veigum
bikara barmfulla,
bragnar hróðgir;
hugðist mót hundraði
eðr hundruðum tveim
sèrhverr Brjáms seggja
svífa knega“.
120. „En nú erum vèr

p. VIII, 212-234.

einum móti
Hektori hvergi
horskum færir;
mun hann nú brátt brenna
blakka sævar
bjartblossöndum
brísíngs gneistum“.
121. „Hefir þú, heimsvaldr
Herjafaðir,
nokkurum niflúnga
í neyð slíka
stórráðra steypt,
ok stillis sóma
nýtan numit,
sem nú þú gerir?“
122. „Kveð ek mik, Allföðr,
aldri hafa
fram hjá fetað
fögrum þínum
blótstalla, buðlúngr,
á blakki sævar,
er ek hinnig hvarf
at helnauðum“.
123. „Hef ek öllum á
uxa mörva
blótstöllum þínum
brennda látið,
ok lær lagfeitust,
lýðum-rama
óðfúss at eyða
Ilíons-borg“.
124. „En þá, Allföðr,
mèr ósk um veit,
ok þú auðnu lát
eptir gánga:“
125. „Veit, at sjálfir vèr
váða flýim,
ok þú oss um bæg
aldrtila;
ρ. VIII, 234-253.

lát eigi Akkverja
æfitjóni
beysta þannig
fyrir Brjáms liðum“.
126. Svá mælti sjóli,
ok sáran grèt;
aumkvaði öðlíng þá
uppheims faðir;
heita nam hilmi,
heilan at láta
her, ok ei hniginn
fyrir hjöreggjum.
127. Lèt þegar ara
ofan svífa,
fugla forsagna
firinmestan;
hèlt í hörðum klóm
hindar-kálfi
ölnum eikþyrni
iðjaskjótum.
128. Niðr varp neffölr
nýtum kálfi
at blótstalla fögrum.
banda föður,
þar er Akkverjar
alspávaldi
fórnir færa
flestar knáttu.
129. En er gunnþjóðir
gátu líta
fugl fljúganda
frá föður himna,
hlupu enn óðarr
á ýta Trója
ok ímunglaumi
uppi hèldu.

---

130. Þar mundi eingi
af alþjóð Danáa,

þótt fjöld væri,
framarr halda
hestum fótfráum
at fólkþrymu
Týdeifs arfa
inum týframa,
út frá ginndjúpu
grafar síki,
nè framarr orrustu
uppi halda.

131. Tók hann fyrstr
tróverskan hal,
skærum skrúðbúinn
Sköglar málmi:
Agelás, fræknan
Fradmons arfa,
er hann fákum
til flótta snèri.

132. Laust hann lofðúngr
laungum fleini,
er hann frá snèri
ok flýja vildi;
hljóp darr flogit
herða milli,
ok út um
öðlíngs bríngu;
fèll frækinn gumi,
fold við dundi;
hríngluðu hroðnar við
hildar váðir.

133. Horskum hilmi næst
hart fram geingu
Atreifs arfar:
Agamemnon
ok Menelás
inn málrómsterki,
þá ógn um efldir
Aiantar tveir,
þá ágætr
Ídomeneifr,
ok sinni hans
at sigjöru.

134. Þat var Meriónes,
manna bana
Aresi glíkr
iðnárúngi;
þá Evrýpýlus,
Evemons
arfi, fram æddi
ítrfrægr.

135. Níundi Tevkrus
at naðeli
dal staðharðan
draga náði;
stóð und skrúðhveldri
skjaldar búngu
týframs Aiants
Telamons arfa.

136. Hleypti til hliðar
hetja törgu;
litaðist þá um
lofsæll Tevkrus;
hleypti hremsu
af hörðum álmi
at einum hverjum
í ímunsveimi.

137. Fèll sá dauðr
at foldar þremi,
ok líf sitt lèt
fyrir lofðúngs skeyti;
þá nam at hörfa
hetja aptr,
ok undir falsk
Aiants baugi,
sem barn und mæru
móður skauti.

138. En Aiant undir
yrlygi fal

Tevkrus fólkfrægan
fagrvörðum.
139. Hverjum bana bjó
buðlúngr þar
Tevkrus týframr
af Trójumönnum?
Orsílokkus fyrst
aldri rænti,
þá Ormenus,
ok Ofelestus.
140. Detor ok Kromíus
knýði dauða,
ok goðum líkan
Lýkofontes;
Amopaon, prúðan
Polýemons nið,
ok Melanippus
mundi vega.
141. Lèt hann alla
lofðúnga þá
hvern at öðrum
hníga niðr
at margfrjóvum
moldar þremi,
ok lágt leggjast
fyrir lögum skeyta.
142. Gladdist þá gramr,
er hann guma sá,
allvaldr alþjóðar
Agamemnon,
er hann fylkíngar
felldi Tróa
sterkum álmi
staðarhörðum.
143. Nam staðar niflúngr
næmskeytum hjá,
ok hann á varp
orðum þeima:
„Tevkrus, týframr

ρ. VIII, 272-291.

Telamons arfi,
þekkr vinr minn,
þjóðhöfðíngi“!
144. „Hæf þú þannig,
ok þegna veg,
at þú oss verðir
til ítrs sóma,
ok föður þínum
er þik fyrst um ól,
Telamoni,
ok at tírsölum
þik nam at annast
óskilgetinn“.
145. „Skaltu nú fylki,
þótt fjarri sè,
hárrar hefja
til herfrægðar.
En ek eitt mun þèr
orð um segja,
þat er fremst of mun
framgáng hljóta:“
146. „Ef at Seifr mèr
ægiskjaldi
ok Aþena glóeyg
gerst of veita,
borg at brjóta
böðvar-rama,
ok Ilíons eyða
aðalstöðvum:“
147. „Þá mun ek fyrst,
þeingill, veita
heiðrsgjöf
hendi þinni,
sjálfum mèr næst:
af sævar logum,
þrífót, eðr hesta
með hvelum sjálfum;
eðr ok svanna,
er sæíngu

megi mildíngr,
með þèr byggja“.
148. Aptr annsaði
orðum sjóla
týframr, Tevkrus,
Telamons arfi:
149. „Hví þú mik, alfrægr
Atreifs niðr,
eggjar, óðan
allmjök sjálfan?
Ei mun ek hætta
nè af láta,
meðan mátt ek hef,
meginskotum“.
150. „Frá því, er fyrða
fremst vèr rákum
upp at ógnstyrkri
Ilíons-borg,
hef ek lagi sætt
lýði at vega,
boga bjúgum
beysta láta“.
151. „Hef ek átta nú
oddum-lángar
örvar sent
af álmi mínum;
höfðu allar
í holdi stað
vígfimra virða
vísis Tróju“.
152. „En hund þenna
inn heljarólma
mák-at ek hæfa,
nè hremsu ljósta“.
153. Mælti svá ítr,
ok aðra sendi
af streing stælta
stilli hremsu,
Hektori hjálmkvikum;
ρ. VIII, 291-309.

í hug lángaði
lífi at láta
lofðúngs farit.
154. Geigaði gögnflaug,
nè gylfa hæfði;
kom í gunnframan
Gorgýþíon,
Brjámi böðfrægum
borinn arfa;
kom bösl í brjóst
á buðlúngs syni.
155. Þann ól móðir
mög ástkæran
(var gefin áðr
frá Esýmu)
kinnfögr kván
Kastíaníra,
iðglík alfögrum
uppheims gyðjum.
156. Líkt ok valmeyjar
vaxin lilja,
sú er í garði grær
grænum lauki,
höfuð hneigir,
ok á hlið leggr,
höfigt fyr' gróða
ok gróandskúrum:
157. Hneig svá hliðar til
á horskum ver
skarar fjall
fyri skeyti sendu;
nè Hropts hattar
höfgum þúnga
valda mátti
vángr brúna.
158. Sendi nú annat
af álmsíma
Tevkrus skeyti
inn týframi;

stefndi Hektor á,
ok hæfa vildi
hilmi hjálmkvikan
herðimóði.
159. Geigaði aptr
gögnflaug sjóla,
hana því Apollon
til hliðar sveifði;
en iðröskvan
Arketólemus
hæfa nam
hremsa flogin.
160. Hann Hektors ók
hvelum römum,
raunframr rekkr,
þá hann at rómu leið;
kom broddr beittr
ok í brjóst guma
at geirvörtu
geysandi óð.
161. Fèll hann af fólkvagni
(en fákar skjótir
aptr hrukku,
hræðast náðu);
hvarf líf, ok lèmagna
limir urðu.
162. Lagðist um lofðúngs
af láti þvísa
Hektors hjarta
harma þúngi;
hèlt frá honum
hilmir síðan,
sárt þó at sviði
fyrir segg dauðan.
163. Bað Kebríónes
bróður sinn
(hann var allnærri
öðlíngi þá),
at hann fólktauma
ρ. VIII, 310-329.

fremst of tæki;
var-at hann óhlýðinn,
er hann orð um heyrði.
164. En sjóli sjálfr
af sigreiðu
stökk á storð niðr
stríðgljáandi;
hóf upp hrufótt bjarg
heljar-mikit;
grenjaði gunntamr
geigrliga.
165. Óð tírfaldinn
Tevkrusi mót;
vildi vápnsteini
varpat láta;
en hann hvassa ör
hafði tekit
örvamæli úr,
ok á álmstreing lagit.
166. Ok er upp draga
álm hann vildi,
þá nam Brjáms burr
bjargi varpa;
kom í öxl vísi
viðbeini hjá,
er háls deilir
frá hugar láði.
167. Þar er höggstaðr
hættligastr;
þar skall á Sköglar
skarðvarit bjarg,
rètt sem týframr
Telamons niðr
öru senda
óðr vildi.
168. Brast boga-streingr
fyrir bjargi þúngu;
ok úlnliðr öðlíngs
örmagna varð;

fèll á knè fylkir,
fold um studdist,
ok dalr datt
úr döglíngs höndum.
169. Eigi lèt þá Aiant
ítran bróður
yfirgefinn
á jörð um fallinn;
ljóp lofðúngr
ljúfan kríng um,
ok hann rönd varði
reginhveldri.
170. En fèlagar
fræknir tveir
sèr á herðar
hófu skata;
þat var Mekisteifr
mögr Ekkíuss,
ok Alastor
jólnum glíkr;
þeir báru þeingil
þúngt stynjanda
holum at
hrannar ljónum.

---

171. Vakti nú vöskum
virðum Trójn
hugmóð at nýju
Herjafaðir;
hröktu þeir Akkverja
at ægidjúpri
gröf stríðmóðgir
stefnu beina.
172. Gekk garpa fremst
gunnhróðigr
Hektor hjálmkvikr
höldum móti;
var í líkíng þá
sem valglitni

ρ. VIII, 330-349.

eðr hráætt ljón
hundr grípr.
173. Frárra fóta
fremst hann neytir;
aptan þrífr
eltan fjanda;
lær of þrífr
eðr lendar bítr;
gætir at, ef dýr
gerir við snúast.
174. Eins nam at elta
Akkverja sveit
hárum-prúðra
Hektor frægr;
vág ávallt
þann, er aptastr gekk,
en hinir undan
hilmi flýðu.
175. En er yfir staura
stúfsvaldendr
ok gröf djúpa
váru gerst flúnir,
ok er margir
und mækis eggjum
hnignir váru
fyr' höndum Tróa,
176. Þá gumar sik
at gnoðum niðri
stöðva gerðu,
ok staðar námu;
fórnuðu höndum,
fremst á hètu
(hvöttust halir)
himinsvalda.
177. En Hektor jóm
jörmunfextum
hálsum hvelbeygðum
í hríng sveiflaði;
brunnu buðlúngi

brúna leiptr,
sem Gorgóns gýgi
eðr geira drottni.
178. En þá er Hera
in hvítarmaða
Akkverja sá,
hún aumkvast náði.
Ávarpaði þá
uppheims freyja
Aþenu alfræga
orðum þeima:
179. „Sjá undr mikit,
ægiskjalda
dóttir dýrmáttig
döglíngs himna;
eigum eigi nú
efla Danáa,
er þeir hallast
at heljar þremi?“
180. „Eyðast nú ýtar
fyrir eins móði,
ok illum verpast
aldrtila,
er um æðir
óvægiliga
Hektor Brjáms burr;
banat hefir hann mörgum“.
181. Annsaði þegar
orðum gyðju
Aþena aptr
in augum-glæja:
182. „Víst mundi hans
hermdar-æði
ok ginnríkr
geinginn ofsi,
ok hann aldri
fyr' Argverjum
fremst of ræntr
at fóstrjörðu“,
ρ. VIII, 349-369.

183. „Ef faðir minn
móði þúngum
orpinn eigi
óðr væri,
ræsir reginsvárr,
rángsleitinn mjök;
er hann æ mótsnúinn
mínum ráðum“.
184. „Man hann nú eigi,
er ek margsinnis
arfa horskum hans
hjálpa náði,
höldnum hörðum
heljar þrautum,
er hann á lagði
Evrýsteifr“.
185. „Þá harmþrúnginn
til himins lèt
raunmæddr svífa
raunatölur,
sendi mik Seifr,
syni at hjálpa,
himni frá
at hauðri niðr“.
186. „Hefða-k þessar
í huga mínum
reginríkum
raunir þá sèð,
er hann Evrýsteifr
ofan sendi
harðlæstrar hallar
Hadesar til“,
187. „Garm at sækja
gylfa myrkheima
ægiligs
frá undirdjúpum:
þá skyldi skati ei
skaðlauss komizt

yfir straumdjúpa
Stýgar ála".
188. „En nú hirðir ei
Herjafaðir
um mik, en Þetis
mest of stoðar;
því at hún buðlúngs knè
kyssa gerði,
ok hans of höku
hendi tók;
bað hún blíðföður,
böðvar sóma
Akkilli veita,
eyði borga".
189. „Þar mun þó koma,
at kallar mik aptr
goða gramr:
Glóeyg kæra;
en þú nú jóa
einhæfða skalt
okkr út búa
eljanskjóta",
190. „Meðan ek geing
í grams niðr
ægiskjalda
ítra höllu;
mun ek hervæðast,
harðra búast,
himins freyja,
til hildar leika".
191. „Sjá vil ek, ef sjóli
í sefa kætist,
Hektor inn hjálmkviki,
hróðmögr Brjáms,
þá er svífum vit
at sverða glaumi,
himins gyðjur,
of herkvíar".
192. „Ok þótt láti ei
undan skati,
þá skulu nokkrir samt
njóta Tróju
í val falla
hjá víðis hreinum
Akkverja, ok ístru
seðja óarga
hunda ok hræfugla,
ok holdi sínu".
193. Mælti hún svá;
en miðgarðs drottníng
var-at óhlýðin
orðum gyðju.
194. Fór himins freyja
hátignarlig
dóttir Kronusar,
dýrðligs tíva,
ok út bjó
undrskjóta
gota ginnragna,
gullbeizlaða.
195. En Aþena,
Allföður jóð
ægiskjalda,
af sèr steypti
möttli mjúkum
at miklum sal
Herjaföður
ins háþrumanda.
196. Var marglitr
möttull gyðju;
hafði sjálf unnit
höndum sínum;
klæddist síðan
kyrtli stórum
skilfíngs Seifs
skýja-bólstra.
197. Hervæddist harðröm
hjörva Freyja,

ok at beiskum bjóst
böðvar leiki;
steig síðan fótum
fölvis gyðja
upp í logandi
ljóma-kerru.

198. Tók geir þúngan
í gilda mundu,
sterkan ok stinnan,
þeims til storðar fellir
máttugs mildíngs jóð
mækisvalda
sveitir svárar,
þá er svellr móðr.

199. En Hera snöggt
of snerta náði
svipu snúðgri
silfrtoppa;
ok glymjandi
geingu sundr
hurðir sjálfkrafa
himinsalar.

200. Þær er misseris
mærar dísir
gæta gerðu,
er gjörvallan
himin geyma,
ok hástöðvar
Ólýmps tinda,
þars tívar búa;
eigu þær jafnt
upp at ljúka
almyrkvu skýi,
ok aptr lykja.

201. Hèldu þær of hlið
himinsala
jóm sprettfráum
sporum keyrðum.

---

ρ. VIII, 388-405.

202. En er frá Ídu
uppheims faðir
gyðjur sá,
þá hann gremi tók;
sendi Allvaldr
Íris þegar,
gyðju glóskyggða
gullnum vængjum.

203. „Heyr þú“ (kvað heims-valdr),
„hraðfleyg Íris,
snú aptr gyðjum,
nè þær svífa lát
á fram; því uggir mik,
at ósætr
verði fundr várr
at fólkjöru“.

204. „Þat því at ek
þèr um segik,
fremst skal orð þat
framgáng hljóta:
at ek fljótum skal
fákum láta
fætr brotna
fyrir hvelreiðum“.

205. „Skal ek varpa
af skrúðhvelum
gyðjum grimmliga
af geimi niðr,
sundr brjóta
svifhvels ása,
alla mölva
uppheims kerru“.

206. „Ok á árshríngum
umrennöndum
tvennum fimm
á foldar hjálmi
munu-t bjóðast þeim
bætr sára,

römu raunþjáðum
reiðarslagi“.
207. „Þat mun Glóeyg
gerst of reyna,
ef hún föður mót
fólk um þreytir.
En ek Heru ei
eins mjök reiðist,
nè henni ámæli
eins um fæ;
því at æ gerir
uppheims freyja
ráðum mínum
ríkum hamla“.
208. Mælti svá gramr;
en gyðja reis
vindfætt, vísis
vèmál færa.
Sveif sendidís
af svölum tindum
Ídufjalls
at Ólýmpi.
209. Mætti hún gyðjum
at meginhliði
Ólýmps, hálsum
horfins gerva;
aptraði ógnvöldum;
ægiskjalda
orðum skilaði
uppheims sjóla:
210. „Hvert þit haldit svá
hörðum gángi?
Hví ykkr svárr svá
svellr móðr?
Ykkr leyfir ei
arfi Kronusar
Argos-lýðum
lið at veita“.
211. „Hefir kynjahár
Kronusar burr
hótað svá,
hann mun þat enda:
fljótum þegar
fákum láta
fætr brotna
fyrir hvelreiðum“;
212. „Ykkr varpa
ofan af kerrum
gyðjum grimmliga
af geimi niðr,
sundr brjóta
svifhvels ása,
alla mölva
uppheims kerru“.
213. „Ok á árshríngum
umrennöndum
tvennum fimm
á foldar hjálmi
munu-t ykkr bjóðast
bætr sára,
römu raunþjáðum
reiðarslagi“.
214. „Þat muntu, Glóeyg,
gerst of reyna,
ef þú föður mót
fólk um þreytir;
en Heru ei
eins hann reiðist,
nè henni ámæli
eins um fær;
því at æ gerir
uppheims freyja
ráðum hans
ríkum hamla“.
215. „En þú, ósvífin,
ofstopa þrúngin,
þèr mun reiðast
ragna-faðir,

ρ. VIII, 405-424.

ef dirfist þú
drottni móti
geir at dýja
geigrligan“.
216. Mælti svá Íris
in iðjaskjóta,
ok brautu sveif
sendigyðja.
En Hera knátti
hátignarlig
Aþenu ávarpa
orðum þeima:
217. „Heyr undr mikit,
Allföður jóð
ægiskjalda;
eigi ráðumk ek
fólk at þreyta
mót föður Seifi
dauðligra vegna
darra reyna“.
218. Deyi drótta hverr,
sem deyja skal;
lifi lýða hverr,
sem lifa á;
en ríkr ráði,
sem ráða vill,
Herjafaðir
horskra milli
drótta Brjáms
ok Danáa“.
219. Mælti svá gyðja,
ok málfetum
einhæfðum snèri
snúðgum taumum;
en misseris
mærar dísir
faxprúðum beittu
fákum frá reið.
220. Bundu bráðvakra
bitilhreina
himneskar jötur við,
hála fagrar,
ok at sólbjörtum
salar veggjum
reið hölluðu
í hásal fremra.
221. En gyðjur sjálfar
á gulli varða
horskar hölluðust
hvíldarstóla;
blèndust böndum
blíðum öðrum;
váru hryggum hug
fyrir harmi lostnar.

---

222. En Allföðr
af Ídu tindi
hjólstyrkri hèlt
himinkerru
ok jóm iðskjótum
at Ólýmpi;
sveif á samkundu
svásra tíva.
223. Ok alfrægr
Jarðarskelfir
beitti frá kerru
bitilhreinum;
lèt ræsir reið
á ris-palla;
huldi himneskri
hana blæju.
224. Settist víðskygn
vèa faðir
á hásæti, horfit
hrannar ljóma;
en und fótum
firinvaldar

bifðust albjartir
Ólýmps tindar.
225. Sátu einar sèr
uppheims freyjur,
Hera ok Aþena,
ámáttigar,
nè á yrtu
öðlíng himna;
einskis spurðu
uppheims sjóla.
226. Varð þess varr
vísir himna
geðknarrar gleyggvum
ginndjúpum í,
ok gyðjur ámáttkar
ávarpaði:
227. „Hví þit svá
sitja náit,
Hera ok Aþena,
harmi orpnar?
Víst þó eigi
vorðit hefir
ykkr erfiðligt
ýta vega
at mannsæmum
mímúngs leiki
Brjáms ins böðsnjalla,
er þit beystið gremi“.
228. „Víst munu eigi
vèar snjallir
(svá er máttr minn
ok móðr remmdr)
mik fá hrakit,
þótt margir byggi
Ólýmps albjartar
aðalstöðvar“.
229. „En ykkar fagrir
fyrri limir
skjálfa mundu,

skelfdra dísa,
en þit sjá feingit
fólkorrustu,
ok gjörníng gunnar
geigrligan“.
230. „En þat mun ek
orð um segja,
þat er fremst of mundi
framgáng hlotið“:
231. „Þit mundut eigi
til ódauðligra
jólna stöðva
Ólýmps komit
kerrum ykkrum á,
ef ægiligum
þjáð hefða-k ykkr
þrumufleini“.
232. Mælti hann svá:
en málmþíngs Freyja
ok uppheims drottníng
ýskruðu við;
sátu saman
svásar dísir,
hugðu Tróum harm
ok hel at vinna.
233. Sat Aþena,
ekki mælti,
nè mál um lèt
af munni líða;
reið var hún föður
inum reginmáttka,
ok óðri fylld
eljan-gremi.
234. En Hera ekki
heiptum knátti
gneggi í
grimmum halda;
svall sefi þrúnginn
svárum móði;

ρ. VIII, 443-461.

mælti heiptug þá
himins freyja:
235. „Ægiguð ógnligr,
arfi Kronusar,
hví þú orðum yppir,
allvaldr, svá?
Vitum þat vel,
at veldi þitt
er at afli
ósigranda“.
236. „En vèr allir þó
aumkva náum
Danáa dróttmögu,
í dólg um geingna,
er þeir illum
örlögdómi
fallnir faðma
foldu dreyrga“.
237. „Munum oss þó
frá morði halda,
alls þú býðr,
buðlúngr, svá;
en vèr ráð munum
ráða Danáum,
þat er þeim dugi
at darra glaumi,
at þeir ei allir
aldri rænist,
mildíngr, fyrir
móði þínum“.
238. Annsaði Seifr,
sjóli skýbólstra,
aptr armhvítri
uppheims freyju:
239. „Tigin, augum-djúp
tíva drottníng!
muntu, ef þú vilt,
at morguns ári
Kronuss arfa sjá
kynja-raman
gjörr ok glöggvarr,
er hann geirvaldöndum
Akkverja eyðir
ærit mörgum“.
240. „Því at eigi mun
afar-remmdr
Hektor hætta
hildar leiki,
fyrr en fóthvatr
at flaustum ríss
prúðdólgvaldr
Peleifs arfi“.
241. „Eru svá undin
örlaga rök;
en ek hirðik ei,
þóttu allmjök reiðist“.
242. „Þóttu til yztu
endimarka
hauðrs hvarflir
ok hafstrauma;
þar er hamramir
Hveðrúngs megir,
Kronus ok Japetus,
járnum haldast“,
243. „Þeirs eigi álfröðuls
yndisljóma
niðmyrkri orpnir
njóta mega;
uppheims úr
þeim æva fróar;
eru þeir alkríngdir
ógnar-djúpi“:
244. „Þóttu þángat
þreytir leiðir,
þá þat eigi
á mèr festir;
raunlítt hirði-k
of reiði þína,

óvætta verst
í aldar heimi“.

---

245. Mælti svá mildíngr
manna ok tíva;
annsaði eingu
uppheims freyja.
246. En í Jarðarstraum
jörmundjúpan
vafrlogi heims
veltast náði;
dró af djúpum sæ
dökkva grímu
yfir moldar þröm
meginfrjóvan.
247. Þá var Brjáms þjóð
þeygi glýjuð,
er sæl settist
sól í ægi;
en Akkverjum
þat yndi jók,
þá er jörmundimm
yfir jörðu fór
margþreyð myrkfara
in munar-æsta.
248. Stefndi nú Hektor
stúfsvaldöndum
þjóðfrægr á þíng
þeingils Tróju;
leiddi lýði braut
frá lagar dýrum,
iðstraumhörðum
árfossum hjá.
249. Þat var auðum á
jarðar stöðvum;
var-a þar valköstum
völlr um orpinn,
stigu þar á storð
af styrkum kerrum

ρ. VIII, 483-501.

halir ok heyrðu
hilmis ræðu.
250. Talaði á þíngi
tiginn gramr,
vinr Valföður,
Víga-Hektor;
hèlt í hendi
hilditamri
ellefu álna
ógnar geiri.
251. Var eiroddr
á efstum vigri,
ljómanda, logbjart
listasmíði;
en um utan
allan kríngdist
hólkr af heiðfránum
hrannar eldi.
252. Stóð stillir frægr,
studdist geiri,
orðum óðhröðum
ýta kvaddi:
253. „Heyrit mèr, Tróar
tírargjarnir,
Dardanar horskir,
ok hjálpar liðar!
Hugða-k mik, halir,
hrannar dýrum
ok Akkverjum öllum
eyða mega,
ok at ek aptr svá
árna mundak
veðrnæmrar til
Trójuborgar“.
254. „En nú hefir fyrr
yfir foldu svifit
rökkr vindsvölum
af Vestra hjálmi;
barg þat brimdýrum

ok böðvar þjóðum
Argos-láða
at ægis-ströndu“.
255. „En nú munum vèr
nóttu dimmri,
fölvis reynar,
fremst of hlýða
ok náttverð búa;
en þèr nýtum beitið
hófglymjöndum
frá hvelkerrum,
ok fyrir þá
fóðri varpit“.
256. „Skulut sækja
skyndiliga
uxa úr borg
ok bekra feita,
ok dýrveigar
dróttum ljúfar
fremst of fáit,
fírar, yðr“.
257. „Fáit ok brauð
úr borgsölum,
ok við gnógan,
garpar, berit,
at vèr allmarga
elda kyndim
gersta grímu,
uns glóa tekr
mönnum árborin
Morgunskæra,
ok at hyrbjarmi
við himin nemi“,
258. „At eigi Akkverjar
árna megi
úrgar brautir
yfir ægis hryggi
ok fólkum frá
flýja reyni,
meðan myrkfara
yfir mold dvelr“.
259. „Skyli sízt skatnar
skapkyrrum hug
ramhveld á stíga
Ránar skíði;
skal um und
einnhverr heima
blóði bifdrifna
binda sína“,
260. „Lostinn skeyti
at leiki dreyrgum,
eðr iðhvössum
ógnar fleini,
þá er hann hveldan
á hrannar gota
stökkr, at forða
fjörvi sínu“,
261. „At annarr einn
eigi dirfist
(skelfist hann skelfíngu
Sköglar þessi)
Tróum at bjóða
týfákvöldum
harmi harðvorpna
hildarleika“.
262. „En kallarar,
kærir vinir
Kronusar arfa,
skulu kunngjöra
um Brjáms borg,
at bragnar úngir
ok halir aldnir,
fyrir hærum ljósir,
gángi á goðreista
gunnar turna,
þeirs borg girða
böðvar-rama“.
263. „En blíðu bjartar

bauga þellur
skulu bál mikit
brenna heima,
hver í húsi
hávu sínu“.

264. „Skulum vörð hafa,
vel at gæta,
at ei inn hverfi
hleypiflokkr
í borg vára,
þá er böðvar-liðar
úti eru
annarstaðar“.

265. „Skal nú haga svá
hlutum þessum,
sem ek, sigreynar,
segi fyrir;
þat hefi-k þulit,
sem ek þjóðum fann
hollast ok heilnæmast
horskum vera“.

266. „En ek annat
at inna hyggst
mönnum ráð
at morguns ári“.

267. „Þess bið ek Allföður,
ok aðra tíva,
ok þá ván ek el
at efldum raunum,
at þeir hèðan
hunda reki,
þá er feigðar dísir
fluttu hinnig“.

268. „Skulum nú vár,
skatnar, gæta,
meðan myrkfara
yfir mold dvelr;
en með ýngstum
skulum árgeislum
brynjum bjartsveiptir
at böðvi gánga,
valglaum vekja
vilgi sætan
hveldum hjá
hrannar ljónum“.

269. „Þá mun ek reyna,
ef ramr fær
dáðmögr Týdeifs
Díómedes
hrakit mik
frá hrannar dýrum
upp at böðremmdum
borgar múrum“.

270. „Eðr hvárt ek þann
hildar málmi
vinna má
vigra skelfi,
ok blóðga
böðvar skyrtu
burtu bera
bragníngs hnigins“.

271. „Má at morgni
mildíngr sýna
afl sitt ok ítra
eljanremi,
ef hann þorir
eptir bíða
geiri mínum
gunnfljúganda“.

272. „Nei, ek heldr hygg
hilmi munu
lágt of liggja
með lýðum fremstum,
ok sinnar margir
sjóla kríng um,
þá er sól at morgni
úr sævi ríss“.

273. „Óska vilda-k þess,

ρ. VIII, 520-538.

at ek eins vissak
glöggliga ok gerva
í geðknerri
ódauðligan mik
ok ellivana
(nyta-k æsku æ
alla daga)",
274. „Ok at ek virðr værak,
sem virð of eru
Aþena alfræg
ok Apollon,
sem ek víst um veit,
at veita mun
Danáum þessi
dagr nauðir".
275. Talaði Hektor
tiginn á þíngi;
rómuðu Tróar
ræsis tölu;
leystu fáka
frá fólkreiðum,
oki undan,
eljansveitta.
276. Batt bragna hverr
bitilhreina
sinni kerru hjá
snúðgum ólum.
Sóttu þá skatnar
skyndiliga
uxa úr borg
ok bekra feita.
277. Ok dýrveigar
dróttum ljúfar
fremst sèr feingu
fírar horskir;
feingu ok brauð
frá borgsölum,
ok við gnógan
garpar báru.
ρ. VIII, 538-556.

278. Færðu fullkomnar
fyrðar síðan
hundraðsfórnir
himintívum;
bar vindblær
at boga himins
upp af dólgvángi
dásætan ilm.
279. En sigtívar
sinna gerðu-t
helgum, hávum
hundraðsblótum;
vildu vilgi
vísar neyta
sælir ok svásir
af sjóta fórnum.
280. Því at hermdar-hug
himintívar
báru til borgar
böðvar-ramrar
Ilíons,
ok til öðlíngs Brjáms,
ok Brjáms arfa
ins iðskaptvalda.
281. En stórráðir
stúfsvaldendr
gersta grímu
á gunnar vángi
sitja gerðu,
ok sjótum hjá
brann bála fjöld
björtum loga.
282. Eins ok at alkyrrum
uppheims djúpum
meginfagrar
Múspells síur
blika á iðblám
Austra hjálmi

glófagran kríng um
geisla mána,
283. Þá stjörnur allar
ýta sjónum
skærar skína
of skatyrni;
en hirðir fremst
at heiðu lopti
glaðr verðr
í geðknerri.
284. Eins mundu eldar
Ilíons-borg
fyrir framan
fagrir brenna,
þeirs Tróar kyntu
týfákvaldir,
milli málfeta
marar hveldra
ok Ksantuss
æstra strauma.
285. Brunnu þúsund
á blóðveingi
brísíngs blossar;
en hjá báli hverju
sátu fimm tigir
fölvis reyna,
æstum ljóma í
aldrnara.
286. En einkorns
jóar neyttu
ok hvítabyggs
hófglymjandi;
stóðu hjá kerrum,
ok stólgullinnar
biðu málfetar
Morgunskæru.

# NÍUNDA KVIÐA.

SÁTU nú Tróar
týfákvaldir
(váru vakandi)
á verði þannig;
en Akkverjum
ægiligr
flótti hèlt
á herbrautum.
2. Sá er ótta
ins ískalda
sinni sífelldr
at sigjöru;
váru hraustastir
hildar þjónar
óbæriligum
orpnir harmi.
3. Sem vindar tveir
víðis djúpum
öllum upp róta
iðfiskríkum;
blása frá vestri,
blása frá norðri,
þjóta úrgum frá
Þraka björgum;
4. Svífa snöggliga
yfir sævardjúp;
ríss regindimm
Ránar dóttir;
en úr æstum
ægis geimi
þeyta þotgustar
þaungla hrönnum:
5. Eins var Akkverja
á áttum tveim
hugr í hjarta
fyrir harma veðri.

ρ. IX, 1-17.

6. En Atreifs arfi,
undra þúngum
harmi horskr
í hjarta sleginn,
hann bauð köllurum
hvellrómuðum,
at þeir at þíngi
þegna kveddi,
ok nafni með
njótum byði,
en eigi ríkri
röddu beitti.
7. En siklíngr
sjálfr mundi
fremstum með fólkstjórum
framla ráðgast;
settust sorgþrúngnir
Svölnis kindar
á ráðstefnu
ræsar svinnir.
8. Upp stóð þá ágætr
Agamemnon;
hellti höfgum út
hilmir tárum;
sem af gljúfrum fram
fjallslind veitir
iðblá óljósum
Ýmis dreyra.
9. Svá nam at andvarpa
alda stýrir,
ok Argverja
orðum kvaddi:
10. „Heyrit mèr, hollvinir,
höfðíngja sjót,
Argverja ítr
yfirmenni!

Hefir kaldráðr
Kronusar burr
eymdum orpit mik
afar-þúngum“.
11. „Svalr er sefi
siklíngs himna,
er hann mèr hèt
höfði mæru,
at ek svá aptr heim
halda skylda,
at Brjáms borgvirki
brandi eyddak“.
12. „En nú hefir
hermiliga
vælum vorpit mik
vísir, ok býðr,
at ek aptr farak
frægðum snauðr,
at málmþíngs meiðum
mörgum liðnum“.
13. „Svá vill nú siklíngr
svalbrjóstaðr
ráð reginvælt
ráðit láta.
Hefir háborgir
hilmir sá
margar ok málmvarðar
moldu orpit;
mun ok margar enn
múrum eyða;
eru því ráð ríkust
ragna-föður“.
14. „Heyrit nú, höldar,
hvat ek horskum býð,
hlýðit, rekkar, nú
ráðum mínum:
flýjum aptr framast
til fóstrjarðar
marar málfetum
margnegldum á;
munum-at því
meginrama
Brjáms borgtinda
brotna láta“.
15. Mælti hann svá;
en mímúngs reynar
allir hljóðir
orð ei mæltu;
leingi dáðmegir
Danáa sátu
sorgbitnum sefa,
svara nè máttu.
16. Seint þá svaraði
á sjótþíngi
Díómedes
inn dólgrómsterki:
17. „Mun ek nú, fylkir,
í fyrsta sinni
móti þèr mæla,
alls þú meinráð vilt;
þat skal á þíngi,
þeingill, gera;
nè þú, ræsir, mèr
reiðr verðir“.
18. „Áðr hefir þú mèr
at aldar þíngi
frækleiks frýjat
í fólkjöru;
kvatt mik kraptlausan
ok kjarklítinn
svífa æ svölum
at Sviðris leiki“.
19. „Vitu þetta allt
vinnbjarts reynar
úngir ok aldnir
Argverjaláðs;
en þèr Kronuss burr,
kænvíss jaðarr,

p. IX, 18-37.

gjöf hefir gefit,
ok gjöf um synjat“.
20. „Gaf hann þèr, vísir,
veldissprota,
virðíngar at njóta
virða framast;
en hann þèr eigi gaf,
þat er með gumnum ræðr,
ok þat mest sèr má,
meginremi“.
21. „Hyggr þú, hróðvinr,
hali akkneska
vera þá, er þú
þá hefir sagða:
þróttlausa at þrymu
ok Þrúðvalds dunum,
máttlausa, ok móði
mætum svipta?“
22. „Ef at sjálfan þik
sefi hvetr
heim at halda,
skaltu heim snúa;
opin ægis leið
jöfri stendr;
standa ok styrkvir
stála hreinar
öldum allnæiri,
þeir er áðr fylgdu
margir mildíngi
Mýkenu frá“.
23. „En aðrir hinir
hárum-prúðir
munu hèr Akkear
eptir verða,
þar til höfum vèr
hildi-rama
Brjáms borg
brotna látið“.
24. „En ef sjálfir þeir
svífa vilja
heim yfir hálar
humra brautir,
haldi þeir þá
með hrannar gota
heim at ljúfsælu
láði feðra“.
25. „En ek ok Stenelus
stála drífu
drýgja munum
dáðrakkir tveir,
þar til er örlög sjám
Ilíons-borgar;
vísaði okkr hinnig
vèa nokkurr“.
26. Mælti hann svá;
en málmþíngs reynar
rómuðu döglíngs mál
ins dáðfákvalda;
fannst mikit fírum
um fylkis ræðu;
upp stóð þá riddari
reiðum-frægr,
Nestor, ok mælti
at mannþíngi:
27. „Víst ertu, týframr
Týdeifs arfi,
styrkr ok staðramr
at stála drífu;
efstr ertu, jöfurr,
jafnaldra þinna
ráðstefnu á
ok ráðsvinnastr“.
28. „Munu þèr eigi,
mildíngr, bregða,
þóttu mælir svá,
megir akkneskir,
nè mót þèr mæla;
en at máls enda

ρ. IX, 37-56.

ert-at-tu, öðlíngr,
efstum kominn".

29. „Úngr þú ert
ok á æsku skeiði;
mættir þú mögr
minn of vera
ýngstr alinn;
en til Argverja
mælir þú meginsvinn
mærðar-yrði;
kveðr þú konúnga
kosta-góðum
orðum allvitrum,
iðja-sönnum".

30. „Heyr nú, hróðvinr,
er ek hyggjumk vera
efri þèr at aldri
ok at ára-fjöld;
allt mun ek inna,
allt mun ek ræða,
mun ek at máls enda
efstum þreyta".

31. „Munu-t málprúðir
málmþíngs reynar
umræðum mínum
óvirðíng fá,
nè hèldr sjálfr
naðrameldr
allvaldr alþjóðar
Agamemnon".

32. „Frændlauss er víst
fíra hverr,
arins áni
ok allra laga,
sá er leiðu ann
lýða morði,
innanlands-ófriði
eljan-svárum".

33. „En nú munum vèr

ρ. IX, 56-74.

allir láta
nóttu niðdimma
njótum ráða;
efnum til kvöldverðar,
en aðalverðir
fást skulu til
úr flokki hverjum".

34. „Hafa skulu höldar
fyrir hergarð utan
náttból at gröf
inni geysidjúpu;
þat mæli-k úngra til
eimnis reyna".

35. „En síðan skaltu
fyr' skötum gánga,
Atreifs arfi
Agamemnon;
því at þú ert
alda sona
höfðíngi mestr
at hildar leiki".

36. „Bú þú bragníngum
bjór ok gildi;
sæmir þat þèr,
sjóta jaðarr;
fullar áttu búðir
af bjór ok veigum,
er Þvinnils marir
frá Þraka landi
Akkverja draga
á degi hverjum
dimmt, drjúgbreitt
yfir drafnar hvel".

37. „Áttu allar, vísir,
veizlu gnóttir;
áttu mörgum ok
yfir at ráða;
en á herþíngi
þú hlýða skalt

þeim, er raunbeztum
ráðum mælir".
38. „Þurfa nú Akkverjar
allir ráða
valdra ok vitra,
er váfjandr
orir upp kynda
elda marga,
stafnbjúgum nærri
stála hreinum".
39. „Hverr mundi gumna
glaðr vera
at svá búnum
böðvar málum;
því at þjóðum mun
þessi gríma
frelsi fá,
eðr feigð of búa".

---

40. Mælti svá mæríngr;
en málmþíngs boðar
heilræðum hans
hlýða náðu;
þustu bjartbúnir
böðvar skrúði
út úr vígtjöldum
varðar sveinar.
41. Gekk út nýtr
Nestors arfi,
Þrasýmedes
þjóðhöfðíngi;
geingu út Askláfr
ok Jalmenus,
þegnar gunntamir
geira drottins.
42. Meríónes ok
Afareifr,
ok dáðrakkr
Deípýrus,

ρ. IX, 74-94.

ok goðum líkr
Lýkómedes,
knár ok kostsamr
Kreons arfi.
43. Váru foríngjar
varðflokka sjö;
hafði þeirra hverr
hundrað liða;
þeir geingu þegar
með þjóðskötum,
dýðu drjúgum-laung
dörr í mundum.
44. Hèldu halir þeir
yfir hauðr fram,
ok milli settust
megindíkis
ok hergarðs,
ok hörvi kyntu;
efndi aptans verð
ýta sèrhverr.
45. En Atreifs arfi
Akkverja leiddi
halla bragnínga
búð sína í;
gladdi dýra þar
at dýrsumbli,
miðlaði mærum þar
munarveigar.
46. En halir rèttu
hendur sínar
at fram reiddum
rètta gnóttum;
ok er lýðir
lystíng höfðu
á bug ekit
áts ok drykkjar,
47. Þá bar fyrstr upp
þjóðmæríngr
Nestor ráð ramt

fyrir rekka sveitum;
hans þóttu ætíð
hyggiligust
ok völdust vera
vitrmæli;
ítrfrægum
eimnis reynum
heill í hugum
hann orð um kvað:
48. „Ítrsnjallastr
Atreifs mögr,
allvaldr alþjóðar
Agamemnon!
kveð ek þik, konúngr,
kappa framast;
fyrstum ok hinnstum
ek heilsa þèr“.
49. „Því at mörgum þú
þegnum ræðr,
lèði Seifr þèr
laga dróma,
ok veldissprota,
at værir þú
öðlíngr alda,
ok ítr ráð gæfir“.
50. „Því skaltu, þeingill,
þegnum framarr
orð upp kveða,
ok á hlýða,
ráð framkvæma
rekka annarra,
þá er góð ráð
gumar kveða“.
51. „Því at þú munt,
þeingill, ráða,
hvat ríkast verðr
á ráðstefnu;
en ek mun inna,
þat er ítrast mèr
ok seggjum hollast
í sefa þykkir“.
52. „Eingum því at mun
í eljanlandi
betra ráð spretta
ok bjargardrýgra,
en þats ek hefi
í hyggju-ranni,
áðr bæði
fyr' aldr liðinn“,
53. „Sem ok einnig nú,
frá því er, öðlíngr,
sjóli seifborinn,
sveift at tjaldi,
ok burtu namt
Brísesdóttur
æfareiðum frá
Eaks niðja“.
54. „Var-a þat eptir
váru skapi,
alls ek þèr afrèð,
öðlíngr, þat
mjök ok margtalit,
en þú meginríki
fram rètt fara,
ok firinskapi“.
55. „Svárr ok svalráðr
svívirðir þú
mann inn mesta
ok meginæðsta,
þann er tívar sjálfir
tign um slúngu;
namt heiðrsgjöf hans,
ok halda ræðr“.
56. „En nú skulu vèr,
skatnar, reyna,
hvort vèr mýkt fáim
mildíngs gremi,
gjöfum góðum

p. IX, 94-113.

gram blíðkaðan,
ok orðum góligum
gladdan látið“.

57. Aptr annsaði
orðsnillíngi
allvaldr alþjóðar
Agamemnon:
„Aldrænn öðlíngr,
ei þú mælir
ósönn orð
um ójafnað minn“.

58. „Ráði framarr
ek rasa gerðak;
sjálfr játa-k mik
sekan vera;
víst er verr sá,
er Valföðr ann
hugástum, ígildi
hölda margra“.

59. „Svá hefir ok nú
sjóli tíva
þenna týframri
tign um slúngit;
en Akkverja
hann aptr lèt
hlut allneðarla
at örlögdómi“.

60. „En er mèr nú
hefir á vorðit,
er ek sefa svæfða-t
svalráðastan,
þá vil ek aptr
illt um bæta,
ok ógrynni greiða
unnar ljósa“.

61. „Öllum skal ek yðr
upp um telja
gjafar góðfagrar,
er ek gefa vilk:
þrífætr sjö,
þeir nè hyr kenna;
vættir tvennar fimm
Vala málma“;

62. „Katla tuttugu-
kynja-bjarta,
ok enn tólf
alna fáka,
sigrsæla
at sigskeiði,
verðlaun vinnandi
vörpum hófa“.

63. „Nè sá mundi
at meiðmum snauðr
er auð slíkan
eignazt feingi,
nè fátækr
at fjarðar degi,
sem þau er jóar
einhæfðir mèr
sigrlaun hafa
svás of unnit“.

64. „Sjö mun ek honum
svanna gefa,
þá er hannyrðir
horskar kunna;
konur lesbeyskar,
er ek kjósa nam,
þá er Lesbey sjálfr
sjómarga tók;
váru fljóðum fremri
at fegrð hverjum“.

65. „Þar mun ek allar
þeingli gefa;
þeim skal ok fylgja,
sú er ek fyrr um nam,
Bríseifsdóttir
baugum varin“.

ρ. IX, 113-132.

66. „Vinn ek þess svardaga
svarrastan fremst,
at ek á hennar hefk-at
hvílu stigit,
nè ásta notið
með ítru mani,
svá sem venja er
með virða kindum,
mönnum ok meyjum
fyrir mold ofan“.

67. „Skulu allar þessar
skata gjafar
þegar til reiðu
ríkar standa;
en ef valtívar
oss um veita
Brjáms meginborg
brjóta niðr“,

68. „Þá skal stillir
at stála hreini
sínum gánga,
ok gagnhlaða
unnar eygló
ok eiri rauðu,
þá er vèr Akkverjar
deilum iðfángi“.

69. „Sjálfr skal tiggi
tróverskar velja
konur tuttugu
kostsamligar,
þærs fegrstar sè,
at fránuminni
Helenu argverskri,
hrunda prýði“.

70. „En þá er akkneskt
í Argos komum,
foldreit frjóvastan
fóstrjarðar,
þá skal döglíngr
dýrrar njóta
dáðum-rakkr
dóttur minnar“.

71. „Skal ek heiðri hann
horskum sæma,
Órestesi jafnt
arfa mínum,
sá er ástkærr
upp vaxit fær,
fríðri fullsælu
fremst um studdr“.

72. „Þrjár á ek dætr
þekkiligar,
vel fellda fyrir
veggi innan;
eru Krýsoþemis,
ok Láodíka;
ein er ok enn:
Ifíanassa“.

73. „Þeirra má hilmir
horskr kjósa
hverja, sem hann vill
ok hafa girnist,
ok án brúðgjafa
brautu flytja
Peleifs háreistra
prúðsala til“.

74. „En ek honum mun
margar velja
gjafar, ok góðra
gersema fjöld,
svá at aldrigi
með eigindóttur
fleira lèt faðir
fagrmálma“.

75. „Skal ek buðlúngi
borgir gefa sjö:
Íru grassæla,
ok Enopu,

Kardamýlu,
kynhelga Feru,
Anþíuborg
eingjadrjúga“.
76. „Gefa skal ek honum
gróna vínbarri
Pedasus, ok Epíu
iðjafagra;
settar eru allar
at sævi frammi,
yztar í prúðsendins
Pýluss landi“.
77. „Eru þar auðgir
innbyggjendr
af ásauðar
ok uxa hjörðum;
munu þeir gjöfum
mildíng sæma,
svá sem væri hann
vèa nokkurr“.
78. „Munu þeir grami
greiða skyldir
rífligar ríkum,
meðan ráða náir“.
79. „Allt þetta mun ek
öðlíngi gjalda,
ef hann af reiði
ramri lætr;
hepti nú hilmir
heiptar æði,
ok undan láti
fyr' orðum mínum“.
80. „Því at Hades einn
er ómýkjandi,
ok feikna-svárr
fíra kindum;
því er hann dauðligum
dróttum jarðar
hvumleiðastr
hárra vèa“.
81. „Við mik nú vægja
vísir skyldi,
er ek honum emk
æðri veldi,
ok ek þykkjumk
þeingli vera
fyrri alinn
á foldar þröm“.
82. Annsaði aptr
alda stýri
Nestor, gerenskr
gramr reiðar:
83. „Ítrfrægastr
Atreifs mögr,
allvaldr alþjóðar,
Agamemnon!
fagrar 'ro gjafir,
nè þær fjá megu,
er þú ítrum velr
Akkilleifi“.
84. „Heyrit nú, halir,
skulum hölda senda,
kjörna skjótliga,
til skata gánga,
at til Akkilless
ofan svífi
búðar, prúðmóðigs
Peleifs arfa“.
85. „En ef þèr, vísar,
viljit heldr,
þá skal ek nefna
njóta til farar,
en þeir skulu mèr
allir hlýða“.
86. „Fremstr skal Fenix
með fírum gánga,
ástvinr almáttigs

uppheims sjóla;
þá skal Aiant
inn afar-stóri,
ok Odysseifr
jólnum glíkr".
87. „En af köllurum
köppum fylgi
Odíus
ok Evrýbates".
88. „Hellit nú á hendr
helgum laugum,
ok hölum bjóðit
hljóðum at vera,
meðan Kronusson
Seif vèr biðjum
máttar oss
ok miskunsemdar".
89. Mælti svá mæríngr
ok málmþíngs reynum
hreifði orðum helzt
hugarljúfum;
helltu kallarar
á hendr þeim
laugum ljóstærum
lindar strauma.
90. Skaptker sveinar
skærum veigum
barmafull
fyrir bragna settu;
deildu öllum
dreingir ok síðan
skötnum í röð
skálar feingu.
91. En er dreypt
ok drukkit höfðu
halir horskir,
sem hugr kvaddi,
þá geingu skýrir
úr skata tjaldi,
ρ. IX, 168-187.

Agamemnons
Atreifs niðja.
92. Hvessti gerenskr
gramr reiðar,
Nestor, sjónir
at siklíngum;
lagði ríkt á
við lofðúng hverjan,
en þó allra helzt
við Odysseif,
at þeir freistaði
fylkis muna
prúðum at snúa
Peleifs arfa.

---

93. Geingu gramir
at gráum jöðrum
margstynjanda
marar gjálfrs;
báðu jöfrar til
inniliga
jarðkríngjanda
Jarðarskelfis,
at þeim vel veitti
vísis at snúa
huga ógnstórum
Eaks niðja.
94. Þá til búða
ok báru dýra
komu mildíngar,
Mýrmídóna.
95. Hittu hilmi,
hug um gladdi,
hörpu hljóðskæra
hreifði við mundu;
var harpa fagrt
fremdar-smíði,
á var lykil-ok
af alsilfri.

96. Þá hafði hörpu
af herfángi,
þá er Etíons borg
eyða náði;
hörpu nam hilmir
huga kæta,
kvað um afreksverk
kappa ramra.

97. Var manngi
mildíngi hjá;
einn sat Patróklus
andspænis móti;
beið þegjandi,
þar til buðlúngr,
Eaks hróðmögr,
hætti óði.

98. Geingu þá gramir
gunnskata nær;
fyrir fór ágætr
Odysseifr,
ok frammi fyr'
fólkum-prúðum
niflúngi niflúngar
námu staðar.

99. Undraðist Akkilles,
upp nam at skynda,
nè hann hörpu gáði
úr höndum láta;
reis af sæti
ríkr sjóli,
því er áðr hann
á nam sitja.

100. Svá nam ok Patróklus
prúðr upp standa,
er hann horska sá
hali koma;
kvaddi fóthvatr
fylkir ljóna,
Akkilles, ok þá
ávarpaði:

101. „Heilir hróðvinir,
hjartkærstir mèr;
víst yðr nauðr
nokkur rekr,
er þèr, Akkverja
mèr ástsælastir,
reikit til mín,
er ek reiðr emk“.

102. Mælti svá ógnhvatr
Akkilleifr,
ok öðlínga
innarr leiddi;
lèt lofðúnga
á legubekki
setjast, ok prúðfagra
purpura dúka.

103. Þegar at bragði
þeingill mælti
Patrókluss til
ins prúðhjartaða
(hann stóð niflúngi
í námunda):

104. „Skipa þú skaptker,
skati, it meira;
á set þat, Meníts
mögr inn ljúfi;
blanda vín styrkara,
en blöndum jafnan,
ok borðker sèrhverjum
bragna þú set“.

105. „Því at hróðvinir
hollastir mínir
inn hafa reikat
ráf mitt undir“.

106. Mælti hann svá;
en máli hlýddi
Patróklus vinar

ϱ. IX, 188-205.

ins vegs um ljósa;
setti fram konúngr
kjötborð mikit
í iðbjarma
aldrnara.
107. Lagði á borð
fyrir lofðúnga
krof af ásauð,
ok aldri höðnu;
alisvíns hrygg
enn bar hann fram;
sá var af spiki
sígljáandi.
108. Hèlt Átómedon
hryggjarstykki,
en ágætr skar
Akkilleifr;
brytjaði vandla
buðlúngr síðan,
ok steikara
stakk á teina.
109. En mærr kappi,
Meníts arfi,
eld allmikinn
upp nam at kveykja;
en er útbrunninn
eldr of var,
ok slokknaðr
seyðis logi,
þá nam skati
skara sundr
eisu, ok teinum
yfir halda.
110. Þá dreifði sjóli
salti helgu
(teina lèt á hlóðir)
á hryggjarstykki;
en er stillir kjöt
hafði steikt of látið,
ok á bjóð lagit
brytjað niðr,
111. Þá tók Patróklus
inn prúðlundaði
brauð úr fögrum,
fáðum körfum;
deildi döglíngr
dýrhleif á bjóði,
en Akkilles knár
kjöt skamtaði.
112. Settist siklíngr
sjálfr móti
Odysseifi
jólnum glíkum
við öndverðan
vegg í tjaldi.
113. Bað hann Patróklus
böðfrægan vin
guðum góðum
at gefa fórnir;
en frumfórnum
fylkis sinni
á albjartan
eld kastaði.
114. Rèttu halir
hendr sínar
at fram reiddum
rètta gnóttum;
en er lofðúngar
lystíng höfðu
á bug ekit
áts ok drykkjar,
115. Báknaði Fenixi
böðvíss Aiant,
en Odysseifr
þat allvel sá;
skeinkti þá skati
skærar veigar

p. IX, 205-224.

í drykkjarker,
drakk til Akkilless:

---

116. „Heill sèrtu, Akkilles!
hvergi skortir oss
krásir jafndeildar
kostsamligar,
hvorki í búð buðlúngs
ins böðvarríka,
Agamemnons
Atreifs magar",
117. „Nè heldr, niflúngr,
nú hjá þèr;
er oss dýrra gnægð
deildra krása;
en nú er eigi
við iðja-ljúfa
hugr várr
veizlu slúnginn".
118. „Erum vèr allir
óttafullir,
sjóli seifborinn,
er vèr sjáum nú
heljar tjón oss
at höndum snúit,
ok á tveim leikr
auðna baugum":
119. „Hvárt megum vèr
marar fákum
heilum halda,
eðr heldr missa
þóptustyrka
þvinnils mari,
nema þú, öðlíngr,
afli klæðist".
120. „Því at Trójumenn
tírhugaðir
náttból nú
nærri hafa
skipum ok garði;
ok görpum fylgja
lángt at leiddir
liðar þeirra".
121. „Brenna þeir bál mörg
á böðvar svæði;
kveðast ei hildi
hætta munu;
heldr munu þeir
hrannar gotum
ólmir at vaða
ok eydda láta".
122. „Kætir þá Seifr,
Kronusar arfi,
jarteiknum himins
heillavænligum;
eldíngar lætr
uppheims vísir
blossa blám
und boga skýja".
123. „Hróðigr treystir
Hektor afli,
á fram æðir
æstum móði;
treystir Seifi
nè tíva óttast
mönnum meira
moldbyggjendum".
124. „Brýzt um buðlúngr
í berserksgángi;
æskir hann nú mest,
at Morginskæra
skyli sem skjótast
á skýja-boga
renna rósfögr
af Ránar brún".
125. „Segist sjóli
af sævar hreinum
skuttrjónum skuli

skella hávum;
en fley sjálf
funa garmi
öllum eyða
orum munu“.

126. „Kveðst hann á Akkverjum
at ægis ljónum
vinna munu,
vígtrylldr árr,
þá er svæla
ok seyðis reykr
lèmagna lætr
limu þeirra“.

127. „Erumk ótti
ægiligr
geysiþjáðum
í geðknerri,
at stóryrðum
stillis þeima
fólkvaldar himna
framgeingt láti“.

128. „Erumk ótti,
at oss auðit verði
bana á týframra
Tróa láði,
lángt frá jóauðgum
Argosgrundum“.

129. „Rís nú upp, ræsir,
ef þú rísa vill,
ok þótt sè, sjóli,
seint upp risit,
attu Argverjum
undan bjargir
hergný týrömum
Trójumanna“.

130. „Mun þèr síðarr
sárna, gramr,
böl böðþjóða,

ok beiskir harmar;
nè bót má
böls um vinna,
þess er unnit er
fyrir aldr laungu“.

131. „Skaltu nú heldr,
hilmir, ráða,
ok með sjálfum þèr
í sefa remma,
hve illum degi
aldrtila
megir þú frá Danáum
dýrum bægja“.

132. „Heyr mèr, hróðvinr,
hefir þèr faðir
Peleifr boðit
inn prúðlundaði,
á degi þeim
er hann þik of sendi
til Agamemnons,
frá ítri Fiðju:“

133. „„Burr minn (kvað hann),
munu blíðar gyðjur,
Hera ok Aþena,
hjálp þèr veita,
ef at vilja svá
vegs um sælar;
en þú stóran svæf
í sefa láði
hug, ok honum
halt í taumi““.

134. „„Betri er brögnum
blíðr muni;
lát af lýðdeilum;
lýðum þær eyða;
at þik framarr
fái virða
úngir ok aldnir
Argos fírar““.

135. „Þeim mælti orðum
aldrænn sjóli;
en þú, gunnhvatr,
gleyma mundir;
hætt nú samt, hilmir,
ok heipt þú lát,
eyðir hún hug,
en harma vekr“.
136. „Býðr þèr öðlíngr
Agamemnon
gjafar góðar,
ef þú gremi lætr;
heyr nú mál mitt,
inn hugum-stóri,
upp skal ek telja,
ok allt um segja“.
137. „Skal ek þèr allar
upp um þylja
gjafar, er þèr tiggi
í tjaldi hèt:
þrífætr sjö,
þeir nè hyr kenna;
vættir tvennar fimm
Vala málma;“
138. „Katla tuttugu
kynja bjarta,
ok enn tólf
alna fáka,
sigrsæla
at sigskeiði,
verðlaun vinnandi
vörpum hófa“.
139. „Nè sá mundi
at meiðmum snauðr,
er auð slíkan
eignast feingi,
nè fátækr
at fjarðar degi,
sem þau er jóar
ρ. IX, 259-279.
einhæfðir vísi
sigrlaun hafa
svás of unnit“.
140. „Sjö mun hann þèr
svanna gefa,
þá er hannyrðir
horskar kunna;
konur lesbeyskar,
er kjöri sèr,
þá er Lesbey sjálfr
sjótmarga namt;
váru fljóðum fegri
at fegrð hverjum“.
141. „Þær mun hann allar þèr,
þeingill, gefa;
þeim skal ok fylgja,
sú er hann frá þèr nam,
Bríseifsdóttir,
baugum varin“.
142. „Sver hann þess svardaga
svarrastan fremst,
at á hennar eigi
hann hvílu steig,
nè ásta naut
með ítru mani,
svá sem venja er
með virða kindum,
mönnum ok meyjum
fyrir mold ofan“.
143. „Skulu allar þessar,
skati, gjafar,
þegar til reiðu
ríkar standa;
en ef valtívar
oss um veita
Brjáms meginborg
brjóta niðr“,
144. „Þá skaltu, stillir,
at stála hreini

þínum gánga,
ok gagnhlaða
unnar eygló
ok eiri rauðu,
þá er vèr Akkverjar
deilum iðfángi“.

145. „Sjálfr skaltu, tiggi,
tróverskar velja
konur tuttugu
kostsamligar,
þærs fegrstar sè,
at fránuminni
Helenu argverskri,
hrunda prýði“.

146. „En þá er akkneskt
í Argos komum,
frjóreit frjóvastan
fóstrjarðar,
þá skaltu, döglíngr,
dýrrar njóta
dáðum-rakkr
dóttur skata“.

147. „Mun hann þik heiðri
horskum sæma,
Órestesi jafnt
arfa sínum,
sá er ástkærr
upp vaxit fær,
fríðri fullsælu
fremst um studdr“.

148. „Þrjár á hann dætr
þekkiligar,
vel fellda fyrir
veggi innan;
eru Krýsoþemis
ok Láodíka;
ein er ok enn:
Ifíanassa“.

149. „Þeirra máttu, hilmir
horskr, kjósa
hverja, sem þú vill,
ok hafa girnist,
ok án brúðgjafa
burtu flytja
Peleifs háreistra
prúðsala til“.

150. „En hann þèr mun
margar velja
gjafar, ok góðra
gersema fjöld,
svá at aldrigi
með eigindóttur
fleira lèt faðir
fagrmálma“.

151. „Mun hann þèr, buðlúngr,
borgir gefa sjö:
Íru grassæla
ok Enopu,
Kardamýlu,
kynhelga Feru,
Anþíuborg
eingjadrjúga“.

152. „Gefa mun hann þèr
gróna vínbarri
Pedasus, ok Epíu
iðja-fagra;
settar eru allar
at sævi frammi,
yztar í prúðsendnu
Pýlus-landi“.

153. „Eru þar auðugir
innbyggjendr
af ásauðar
ok uxa hjörðum;
munu þeir þik gjöfum,
mildíngr, sæma,
svá sem værir þú
vèa nokkurr“.

ρ. IX, 279-297.

154. „Munu þeir, gramr, þèr
greiða skyldir
rífligar ríkum,
meðan ráða náir“.
155. „Allt þetta mun hann þèr,
öðlíngr, gjalda,
ef þú af reiði
ramri lætr“.
156. „Nú þóttu Atreifs
nið um fjáir
öðrum framarr
í öndu þinni,
ok þóttu vilgi
viljir þiggja
gjafar nè góðmálma
af grams höndum“,
157. „Þá muntu aumr,
öðlíngr, sjá
á öðrum Akkverjum
at ímuntjöldum;
eru þeir óvægum
orpnir nauðum;
virða þik, vísir,
sem vèa nokkurn“.
158. „Muntu herfrægð nú
hljóta mega
mikla ok mæra
at málmþíngi;
nú muntu Hektor
hremmdan láta,
er þèr hár hilmir
í hendr geingr,
bölvi brimþrúngnum
berserksmóði“.
159. „Kveðr hann nú eingan
kappa vera
jafnan sèr
at sverða dunum,
þeirra er hinnig

ρ. IX, 298-315.

hrannar blakkar
fluttu Danáa
yfir drafnar hvel“.

---

160. Aptr annsaði
öðlíngs ræðu
ógnhvatr öðlíngr
Akkilleifr:
„Lofsæll, seifborinn
Laerts arfi,
mærr Odysseifr
inn margráðugi!“
161. „Ætlan mína
ek mun segja
fortakslaust,
nè falsat láta,
sem ek hana geymi
í geðknerri,
ok þat mun fremst
framgáng hljóta“,
162. „At þèr eigi
at mèr rennit
hvaðanæfa,
ok harma þyljit;
því at gram þann
þráfaldliga
fjái-k sem Hadesar
hlið in dimmu,
er hann eitt felr
á eljanlandi,
en annat mælir
af munni fram“.
163. „En ek mun segja,
þat er sefa mínum
þekkast þykkir,
ok þeli ræðr;
þat hygg ek sízt,
at þjóðkonúngr,
Agamemnon

Atreifs mögr,
nè aðrir Danáar
dólgum-prúðir,
telji hughvarf mèr,
eðr mèr um snúi".
164. „Er því litlu launat
lýða kindum,
þótt sí ok æ
sverð of dýi,
ok móti fjandum
fölvi beiti
afláts án
at orrustu".
165. „Jöfn eru iðgjöld
þess, er inni sitr,
ok þess, er ákaft ferr
at ímunleiki;
fær jafnan heiðr
fyrir hervirki
huglauss halr,
sem hraustmenni".
166. „Fellr halr jafnt
at eingu nýtr,
sem sá, er margt vinnr
at málmþíngum;
er-a mèr hollara,
er ek hugraunir
beiskar bíð
ok bölvi þjáist,
at ek æ láti
lífi mínu
hætt í hjörþrymu
und hendr fjanda".
167. „En eins ok fugl
úngum færir
fæðu ófleygum,
at þá fæða megi,
er hann henni nær,
en heldr sjálfr
neitar sèr
nautnar hverrar:"
168. „Svá hefi-k svefnlauss
setið marga
grímu ginndimma,
nè getið drauma;
marga hefi-k barizt
blóðga daga,
ok brandi beitt
móti bölfjandum
fyrir yðrar
eiginrúnur".
169. „Hefi-k á styrkum
stála hreinum
aðalborgir tólf
eyddar látið;
leið ek of land,
ok á láði Tróju
eydda-k iðfrjóvu
ellefu borgir".
170. „Tók ek öllum úr
aðalborgum
meiðmar margar
ok meginfríðar;
lèt ek þær allar
í lofðúngs hönd,
Agamemnons
Atreifs magar".
171. „Sat siklíngr
at sævar ljónum,
tók við fólkmeiðmum,
en fátt deildi;
fátt gaf hann fáum
fagrmálma,
en flest átti
fylkir sjálfr".
172. „Gaf hann þó hraustustum
hildar reynum
ok herkonúngum

ρ. IX, 315-334.

heiðrsgjafar:
hafa höfðíngjar
hodda sína,
ok fremdar launa
í friði njóta".
173. „En frá einum mèr
öðlíngr nam
góða gjöf mína
grimmum sefa;
heldr nú hilmir
ok hvergi sleppir
svanna mínum,
er ek sætast ann".
174. „Sitji hjá sætu
sjóli glaðr!
Hver þörf er Akkverjum
ófrið at drýgja,
ok Brjáms móti
böðvar þjóðum
víg of vekja
fyrir vápnglaumi?"
175. „Hví nam Atreifsson
Agamemnon
safna sigþjóðum,
ok svífa hinnig?
Var þat ei vegna
vífs ins mæra,
haddfagrar Helenu,
herverk framit?"
176. „Eðr hvárt munu
megir Atreifs
einir alda
unna sprökkum?
Hygg ek víst hal
hugum-ljúfan
ok ágætan unna hvern
eiginrúnu",
177. „Svá sem ek unnak
armbaugs þellu,
er ek elskaðak
af alhuga,
ok þótt hún væri
vigrum bláum
numin at naðeli,
ok nauðum sára".
178. „En er hefir nú
heiðrsgjöf mína
tiggi tekit,
ok mik táli beitt,
þá skal alls eigi
öðlíngr freista
sefa mínum snúa,
er ek sjóla kenni".
179. „Ráðgist hann við þik,
inn ráðum-slúngni
Odysseifr,
ok aðra höfðíngja,
hversu ferligum
megi funa bægja
margþóptuðum frá
marar ljónum".
180. „Hefir ok hilmir
hluti marga
framit ok fullráðit
at fjarrum mèr;
hefir nú hergarð
hlaða látið,
ok gröf grafit
geysidjúpa
djúpt í storðar þröm,
ok staurum varit".
181. „En þó eigi
öðlíngr má
váligum bægja
Víga-Hektori".
182. „En meðan ek
með Akkverjum
darr of dúða

ρ. IX, 334-352.

at dólgþrymu,
þá vildi-t Hektor
víg of drýgja
borgarmúrum frá
böðvarrömum".
183. „Komst þá at ætibjörk
ok at Skehliðum,
nè feti framarr
feta þorði;
beið mín þar öðlíngr
einu sinni;
fèkk vart á flótta
fjörvi borgit".
184. „Nú, er ek einga
ágirni hefk
móti Hektori
hjörvi beita,
mun ek á morgun
mærum goðum
fórnir færa,
ok föður Seifi".
185. „Fley mun ek ferma,
ok fremst of þýngja,
þá er ek á dröfn
þau dregit hefi;
þá muntu sjá,
ef þik sjá lystir,
ok hugr hvetr,
hildíngr, þik:"
186. „Fyrstum mærum með
morgunbjarma
gnoðir grásteindar
gánga mínar
yfir Hellusund
it humrum kykva,
ok ýta á leggjast
öldusveipi".
187. „Ef leiði gefr
Landaskelfir,
mærr marar guð,
mínum gnoðum,
mun-k á degi þriðja
til þýð-jarðfrjóvrar
fljúga fleyjum á
Fiðju-grundar".
188. „Á ek eigur þar
afar-miklar,
er ek eptir lèt,
er ek illu heilli
hinnig hvarf;
en ek hèðan mun
hafa þat, er hlaut ek
at herfángi:"
189. „Gim glóandi
græðis djúpa,
ok eirmálm
iðja-rauðan,
fljóð fólknumin,
fagrbeltuð,
ok járn iðgrátt,
allt nem ek þat".
190. „En heiðrsgjöf,
er mèr hilmir gaf,
sjálfr tók sjóli,
sjálfr nú hefir;
hefir mèr svívirðu
svára feingit
allvaldr alþjóðar
Agamemnon".
191. „Berit nú öðlíngi
orðsendíng mína,
ok hljóði heyranda
hilmi kveðjit,
at einnig Akkverjar
fyrir öðlíngi
gremi geti,
ef gramr hyggst
enn aðra Danáa;

ρ. IX, 352-371.

dul um beita,
þar hann ætíð er
ósvífni búinn".

192 „Dirfist eigi hann,
hundvíss fóli,
fyrir augu mèr
fram at gánga;
eigi vil ek ráðgast
með ræsi þeima,
nè verk fremja
með vísi nokkut".

193. „Hefir mik svívirðu
sjóli beittan;
hefir tældan mik
tálvíss jaðarr;
skal-at mik aptr
orðum glepja
niflúnga níðíngr;
nóg er af slíku".

194. „Rasi ræsir
fyri ráð sitt fram;
skal ek ei hilmis
hepta farar;
brautu hefir Seifr
buðlúngs tekit
hyggjuvit
úr hugar grunni".

195. „Leiðar eru mèr
lofðúngs gjafar;
met ek vettugis
varmennis grey,
ok þótt tiggi mèr
tífalt bjóði,
ok tvítugfalt
við tírmálma,
þá er á hann nú,
ok eignast kynni".

196. „Þótt mèr gulls gnótt
gramr um bjóði,

ρ. IX, 371-391.

er til Orkómens flytja
auðgra sala,
eðr til egipzkrar
aðalborgar,
Þífi, þar mest kveða
meiðma liggja",

197. „Þar er hlið hundrað
á hjörum rymja,
ok um hlið hvert
hölda mega
hundruð tvö
með herkerrum
ok fríðum fákum
fremst of gánga";

198. „Þótt hann þjóði mèr
bjarta málma,
svá sem aurr ok sandr
er of jarðar þröm,
þá skal aldri mèr
Agamemnon
hughvarf telja,
nè hug um snúa,
fyrr en iðgjöld
hefir jaðarr feingit
smánar þeirrar,
er hann sýndi mèr".

199. „Eigi vil ek eiga
Agamemnons
Atreifs magar
ítra dóttur,
en þótt hún gullfagri
gyðju ástar
jöfn sè at vænleik
ok vaxtar prýði".

200. „Vilk-at ek hana,
þótt við hún jafnist
Aþenu, glóeyga
Ginnregins mey
hannyrðum at;

heldr hann kjósi
annan henni
af Akkverjum,
er grami
geðjast betr,
meira mèr
at mildíngs ráðum".
201. „Því ef vèar mèr
veita gæfu,
ok at ek heill komist
at heima mínu,
þá mun Peleifr
prúðr biðja
hrundar sjálfr
til handa mèr".
202. „Eru heilmargar
á Hellasláði
ok í Fiðjuborg
flóðelds nönnur,
dætr döglínga,
er dróttborgum
ítrríkum
yfir ráða".
203. „Mun ek hverja,
er ek hafa vil,
eignast þeirra
til eiginrúnu".
204. „Hefir mik opt hvatt
hugr ríkr,
at ek þar geingi
gefn at eiga
mæra marbranda,
þá er mínum væri
huga ljúfust
ok lyndi mínu",
205. „Ok at ek yndi
aurum síðan,
þeim er Peleifr
prúðr aflaði".
ρ. IX, 391-412.

206. „Mák-a ek lífi
ljúfu jafna
alla auðlegð við,
þá er ýtar kveða
Ilíons borg
inni geyma
friðartímum á,
áðr fjandskap hófu
dróttmegir Danáa
dólgum-prúðir".
207. „Meirr er þat vert,
en sú meiðma fjöld,
er í steinhörgum
styrkum geymist
Febuss Apollons
fífu drottins,
klúngrum Pýþós í
klettavörðum".
208. „Ræna má nautum
ok nýtum sauðum;
eignast má þrífætr
ok jóa bleika;
en önd ýta
má-at aptr nást;
kemr aldri aptr,
þá er einu sinni
fram er flogin
af fíra vörrum".
209. „Mín segir móðir
af minni gæfu,
Þetis, silfrfætt
sævar gyðja,
at dragi tvennar
dauða-nornir
mik til moldar
frá munar-æfi".
210. „Dveljist ek eptir hèr,
ok dólg fremji
at Brjáms múrum

böðvarstyrkum,
kveðr hún mik heimför
hvergi geta,
en ódauðligan
munu öðlast heiðr“.

211. „En ef ek aptr
til ættjarðar kem,
þá fæ ek eigi
frægð herskæra;
en ek una mun
aldrdögum,
nè mèr skjótla skínn
skapadægr“.

212. „Mun ek nú öðrum
málmþíngs reynum
ráða heilræði,
at þeir heim fari;
er yðr eigi
auðit verðr
allháva eyða
Ilíons borg“.

213. „Heldr víðskygn
hendi sinni
henni yfir
Herjafaðir,
en borgar lýðr
böðvar móði
fylldr er
ok fremdar hug“.

214. „Haldit hèðan nú,
hildíngar, braut,
berit buðlúngum
beztum Akkverja
erendi þetta
aptr at sinni
(þat er heiðr svâss
sendimanna):“

215. „At þeir annat
upp um hugsi

ρ. IX, 412-432.

ráð hollara
ok herðimeira,
þat er brögnum
borgit fái,
öldu hreinum,
ok Akkverjum
húfhveldum hjá
hrannar gotum“.

216. „Því at ráð þetta,
er þeir nú rèðu,
ónógt er
ok eigi tjáir,
meðan ek móði
meginsvárum
hvergi bægi
frá hjarta mínu“.

217. „En Fenix
eptir verði,
ok sofi hèr
um svarta grímu,
at hann á morgun
megi heim líða
á húfhveldum
hrannar mörum,
ef hann sjálfr vill;
en ek sízt mun leiða
vilja vana
af veingi braut“.

---

218. Mælti hann þannig;
en mildíngar
allir hljóðir
orð ei mæltu;
furðaði fræga
á fylkis ræðu,
hafði ríkt mælt
ræsir snjallr.

219. Gat orð loks
aldrænn halr,

Fenix fákvaldr,
fólkum-prúðr;
hrundi hvarmdögg
af hilmis augum;
óttaðist öðlíngr
fyrir öldu hreinum:

220. „Akkilles öðlíngr,
ef þú einráðinn
ok albúinn ert
aptr at snúa,
ok þú alls eigi
öldu hreina
frelsa vilt ferligum
funa undan,
er þèr sefi svellr
svárum móði,“

221. „Hversu má ek þá,
mögr inn ljúfi,
við þik skilja,
verða einn hèðra?
Lèt mik riddari
roskinhærðr
Peleifr með þèr
prúðr fylgjast“.

222. „Þat var dag þann,
er þik hann sendi
úngan at aldri
til Agamemnons
Fiðju frá,
fólki ókunnan;
þá vartu óvanr
vígum hverjum“.

223. „Nè þú vanr vart
virða fundum,
þeir er fyrða frægð
fremst um hefja“.

224. „Þá lèt hann mik
með þèr fara,
at ek þik skyldak,

ρ. IX, 432-452.

skati, læra,
orðum at yppa
at ýta þíngi,
verk at vanda
at vígleikum“.

225. „Vil ek því eigi
við þik skilja,
barn mitt, síðan,
nè þèr svífa frá;
ok þótt sjálfr
sólar vísi
heita mèr
hár of gerði“,

226. „At ek knætta
ellibelg varpa,
ok at aptr yrða-k
æsku búinn,
svá sem ek vark,
þá er sveif ek braut
fyrr af hrundfögru
Helluláði“.

227. „Flýða-k þá föður
firinreiði,
Amýntors
Ormenuss magar;
var hann mèr reiðr
fyrir vífs sakar,
friðlu sinnar
fagrhærðrar“.

228. „Unni henni hann,
en heiðvirða
mína móður
mjök smánaði;
bað mik æ brúðr
á beygðum knjám,
at ek með lagkonu
leggjast skyldak,
at hún ei þýðast
þeingil knætti“.

229. „Munda-k þá móður
minni hlýða,
gerða-k sem bauð
brúðr in ljósa;
en er faðir
þat fregna náði,
þá varð hann svárum
sollinn móði“.
230. „Bað hann óbæna
blóðgrimmastra;
hèt á harðmóðgar
Hefndarnornir;
kvaðst aldri mundu
á knè setja
svein þann, er fæddist
af frygð minni“.
231. „En grams lètu
guðir bænum
framgeingt verða,
ok fremst of heyrðu
Seifr svartheima
sjóli dimmr,
ok ógurlig drottníng
undirheima“.
232. „Vilda-k þá föður
veginn láta
hvössum málmi,
hörðu eiri;
en guð nokkurr
gremi stillti,
ok sefa minn
svæfa náði“.
233. „Blès mèr í brjóst
banda nokkurr
orðrómi alþýðu
ok ámæli,
at ek með fírum
föðurbani
kallaðr myndak
meinligr verða“.
234. „Fèkk þá alls eigi
óþolnum mèr
hugr haldit
at heima föður;
mátta-k alls eigi
yndi festa
at ranni ræsis,
er hann reiðr var“.
235. „Geingu þá frændr
ok frægir vinir
mínir at mèr,
ok mjök um báðu;
báðu mik hýrast
heima kyrran;
hèldu mèr horskir,
at ei hèlda-k braut“.
236. „Hjuggu hrúta
halir feita
marga, ok slátruðu
seggir at auki
drjónum drattandi,
drjónum bjúghyrndum;
margir váru geltir
meginfeitir
sviðnir á sólbjörtum
seyðis loga“.
237. „Drukku dreingir
dýrar veigar
stórum af steinkerum
stillis ins aldræna;
níu nætr
njótar vöktu
óþreyttir yfir mèr
at auðsölum“.
238. „Höfðu til skiptis
halir gæzlu,
nè sal-funi

slokkna náði;
brann þar einn
brísíngs logi
í ranns forgarði
ramla girðum;
en eldr annarr
var í yztum sal,
herbergis frammi
fyrir dyrum“.
239. „En er tíunda
af unnum Vestra
yfir mik svartnætti
svífa náði,
þá nam ek upp brjóta
ok út um gánga
herbergis dyr,
hála felldar“.
240. „Hljóp ek hægliga
yfir hallar-garð,
nè varðmenn
vakna knáttu;
duldist ek dreingjum
í dökkva nætr,
duldist ek ambáttum
ánauðigum“.
241. „Flýða-k þaðan,
fór ek landflótta
um hauðrsvíðar
Hellugrundir;
kom ek til Fiðju
frjóvrar síðan,
þar er iðfeitir
alast sauðir“.
242. „Kom ek til Peleifs,
prýðiskata;
tók við mèr öðlíngr
af ítrum hug;
unni hann mèr,
svá sem unnt getr

ρ. IX, 472-492.

faðir ástkærum
arfa sínum“,
243. „Þeim er hann einan
í elli gat,
er hann fjöld á
fagrmálma;
gaf hann mèr iðgnótt
auðs ok hrínga,
ok alþjóð ýta
yfir at ráða“.
244. „Bjó ek yzt fögru
í Fiðju-landi;
rèða-k Dolópa
dróttum yfir;
unna-k þèr hugástum,
Akkilleifr
jólnum glíkr,
ok þik ítran gerða-k“.
245. „Vildir þú eigi
til veizlu fara
mönnum öðrum með,
nè matar neyta
inni at auðsölum,
nema ek þèr hèlda
í knjám mínum,
konúngs arfa,
nema ek brytjaða
bornar krásar
fyrir þik, vísir,
ok vín skeinkti“.
246. „Lèztu möttul minn
margopt vættan,
er þú blèst á bjór,
of brjósti mínu;
er barnæska
eldri mönnum
ódæl ok óljúf,
þeim er um hirða“.
247. „Margt hefi-k svá,

sjóli, þolat
fyrir þik,
ok fyrrum unnit;
gætta-k þess gerst,
at goð ei hefði
látið afsprings mèr
auðit verða".

248. „Því tók ek þik,
þeingill alfrægr,
Akkilleifr,
í arfa stað,
at þú síðarr
sorgum knættir
bægja mínum,
sem burr minn værir".

249. „Hept nú ógnsváran,
Akkilleifr,
bölva bríma
í brjósti þínu;
er-a sæmiligt,
siklíngr, þèr
gnegg it grimma
í geðknerri".

250. „Telja má sjálfum
sjólum himna
hughvarf, ok þeirra
huga snúa;
eru þó meiri
ok máttkari,
ok tignari,
tiggi, en þú".

251. „Biðja þá bragnar
bönd, ok snúa
bænum með
ok brenniförnum,
dreyptum dýrveigum
ok dýrilmi,
þá er syndgazt hafa
móti sigtívum".

ρ. IX, 492-511.

252. „Því at Bænir eru
blíðar dætr
Seifs, alvoldugs
uppheims sjóla;
hrukkóttar, haltar,
ok hvervetna
augum hjáleitum
horfandi fram".

253. „Strita stikandi
stillis dætr,
ok Glæpsku fylgja
framhleypinni;
en Glæpska glöð
geysa náir,
hraust ok fótstyrk,
at fólsku verkum".

254. „Því má hún árna
á undan lángt,
ok um alla jörð
æða náir,
glepr guma;
en góðar Bænir
úr á eptir
öllu bæta".

255. „Sá er ljúfliga
ok með lotníngu
tekr dætrum Seifs,
er þær svífa nær,
þeim munu mærar
manni hjálpa,
ok bæn hans heyra,
er hann biðja gerir".

256. „En ef mærum maðr
móti stendr,
ok þeim neitar
illum sefa,
þá svífa svásar
til Sigföður,
Kronusar konar,

ok konúng biðja,
at þeim Glæpska æ
guma fylgi,
uns hann iðgjöld fær
fólsku sinnar".

257. „Lát nú, Akkilles,
Allföður dætrum
heiðr hjartnæmum
hávan búinn;
því at heiðr hrærir
hjörtu fíra
göfuglyndra
á grund hverra".

258. „Því ef Atreifsson
eingar byði
gjafar þèr
ok góðmálma,
heldr síðarr þeim
hèti öllum,
ákafri æ
undinn gremi",

259. „Þá skylda-k ei þèr,
þeingill, ráða,
gremi at sefa
í geðknerri,
nè Akkverjum
ítrum hjálpa,
þótt þeim á liggi
ákafliga".

260. „En nú gefr gramr
góðmálma þèr,
ok þèr enn fleirum
á eptir heitr;
valdi hann líka
ljóna bezta
af alþjóð Akkverja
til þín, öðlíngr,
þeir er kærstir
eru konúngi

ítru alnir
á Argosláði".

261. „Máttu því eigi,
mildíngr, þeirra
orð um smána
nè erendi;
var-a þèr láanda,
lofðúngr, fyrr,
þótt gremi
gætir svára".

262. „Höfum vèr þat heyrt
af hetjum fornum,
köppum kynfrægum,
kostsamligum,
þá er huga hreif
hávan þeirra
gremi geysandi
ok ginnmóðr,
þá mátti grami
gjöfum blíðka,
ok orðum hreifa
við öðlínga".

263. „Man ek forna
frásögn eina;
er-a þat nýtt
efni ræðu;
þat mun ek segja,
ok í sögn færa,
vinir mínir
vegsamligir".

264. „Börðust Kúretar
at Kalýdonsborg,
ok Etólar
ímunsvárir;
lètu þar lýðir
fyrir lagvápnum
hvárir öðrum
í hel komit".

265. „Vörðu Etólar

iðja-fagra
Kalýdonsborg,
knáir sinnar;
en Kúretar
kvernbítsramir
eyða vildu þeim
aðalstöðvum".

266. „Hafði Artemis
Etólum sent
gullinstóla
ginnsendíngu;
gröm var gyðja
grami Öynefi,
er hann frumfórn henni
færa gerði-t
iðfrjóvu á
akrlendi".

267. „Sátu þá sigtívar,
sèr vel undu,
hundraðsblótum at
hála búnum;
ein var Allföður
ágæt dóttir,
sú er eigi hlaut
helga skamta".

268. „Var þat af gleymsku,
eðr gramr eigi
gætti heiðr
gyðju at veita.
Þat var verk váligt
ok vilgi tryggt
glappaverk guma
af glópsku framit".

269. „Reiddist ríklunduð
in reginborna
Örumglöð
af æði þvísa;
sendi iðfrjóvu
akrlendi

ρ. IX, 531-549.

gölt hvíttentan
herjum-grimman".

270. „Vann hann illvirki,
ok Öynefi
sváran skaða bjó
of sáðlendi;
varpaði at veingi
viðum blómgum,
feiknhám, fjöllaufgum
á foldar þröm,
reif upp með rótum,
ruddi eikum,
ok aldinum iðfögrum
of jörð dreifði".

271. „Safnaði mönnum,
safnaði hundum
Meleager þá,
mögr Öynefs;
váru margir
úr mörgum borgum;
þá var valglitnir
at velli lagiðr".

272. „Máttu því eigi
ýtar fáir
dauðligir vega
dýr it grimma;
válig var vábeyða,
ok vera marga
lèt á bál borna,
beysta tönnum".

273. „Lèt þá af gelti
gyðja rísa
ys ok ódæmi
illþyrmilig;
reis þat af höfði
ok hárum-stríðri
galtarhúð
með guma sjótum".

274. „Var þat Kúreta

karskra milli,
ok Etóla
ítrhraustra;
en meðan ástvinr
Aresar gekk,
Meleager,
at morðleiki“,

275. „Þá veitti miðr
þegnum at rómu
Kúreta-liðs,
þótt knáir væri;
nè þeir búa máttu
fyrir borg utan,
þótt heilmikinn
hefði liðsafla“.

276. „En er Meleager
móði fylldist,
þeim er svella lætr
seggjum móðakarn
bragna brjóstum í,
þótt búnir sè
horskum huga
ok hróðspeki:“

277. „Þá var um kyrrt
konúngr heima,
at Kleópötru,
kván inni ljósu;
reiðr var ræsir
ríkri móður
Alþeu, er áðr
öðlíng fæddi“.

278. „Var Kleópatra
kostsamligri
alin Marpessu,
inni öklafríðu
Evenuss dóttur,
ok Ídasar;
sá var manna þá
meginramastr“.

ϱ. IX, 549-568.

279. „Hann benti boga
buðlúngi mót
Febusi Apolloni
inum fjarrvirka;
barðist við bölvísan
boga drottinn
um armbaugs þellu
öklafríða“.

280. „Var Kleópatra
at viðrnefni
Alkýóna
ítr kölluð;
kallaði móðir,
kallaði faðir
unaðmey svá
at auðsölum“.

281. „Því meyjar móðir
mundi láta
eins ok ísfugl
orpit kveinstöfum,
þá er fjarrvirkr
fljóði rænti
Febus Apollon,
örva drottinn“.

282. „Hvíldi mani hjá
Meleager,
ok svára
sökti gremi;
var váliga
vísir reiðr
óbænum mærrar
móður sinnar“.

283. „Sárnaði sætu
af sifa morði;
knátti óðsliga
jólna biðja;
barði bjaðar
brumþrúngit skaut,

áköfum andar
ekka þrútin“.
284. „Hátt nam á Hades
heita brúðr,
ok undirheims drottníngu
ægiliga,
beygðum knjám
á blómþremi;
vöknaði vífs skaut
fyrir vágum hvarma“.
285. „Beiddist brúðr
burar dauða;
heyrði Hefndarnorn
frá heimum neðri,
sú er rík reikar
of regindimmu;
heyrði meginglym
frá Myrkheimi;
er hennar hjarta æ
hörku varit“.
286. „Vöktu þá Kúretar
knáir brálla
brak ok böðvar gný
fyrir borgar hliðum;
skutu kólfum,
sköptum sendu
á háturna
höfuðstöðva“.
287. „Báðu þá buðlúng
heimar aldrænir,
sendu hofgoða
horskasta tíva,
at hann út geingi,
ok ýtum bjargaði;
hètu heilmiklum
hilmi gjöfum“.
288. „Báðu sèr velja
vaxit blóma
akrlendi
öðlíng mæran,
þar er frjósömust
fold of grèri
í Kalýdons landi
kostafögru“.
289. „Fimmtigi plóglönd
fylki buðu;
helmíng vínreitar
váng allfrjóvan;
helmíng plógland
prýðiblómgvat,
eingi kvistlaust
til akrvinnu“.
290. „Bað ok tiggja mjök
týfákvaldr
aldrænn Öynefr,
at ímun drýgja;
steig á háþröskuld
háræfraðrar
hilmis hallar,
hurðir knúði
hála felldar,
ok fèll á knè
iðfrægum fyrir
arfa sínum.
291. „Geingu at systr
ok gram báðu,
ok heiðvirð móðir,
mörgum bænum;
en hann þverliga
þó neitaði;
undan skoraðist
ýtum at hjálpa“.
292. „Geingu góðvinir,
ok gram báðu,
er hann unni mest
allra manna;
en þeir alls eigi
öðlíng knáttu

ρ. IX, 568-587.

vaskan vinna,
þótt vel bæði“.
293. „Var-a þat fyrr,
en fremst um höfu
skothríð Kúretar
á konúngs sal;
skutu skarpliga
skatnar óðir;
hlupu á háturna,
hugðust allt brenna“.
294. „Bað þá bónda sinn
brúðr in ljósa,
Meleager,
mjök grátandi;
tiggja alla
taldi harma,
þá er mönnum mæta
at morðleiki,
þá er fjandr fara
fíra borgum“.
295. „Dróttir drepnar,
dreingi fallna,
borg upp brennda
björtum loga;
börn brosfögr
ok brúðir ljósar,
fagrar, síðgyrðar,
fluttar á brautu“.
296. „Gekkst þá hugr við
grami frægum,
er hann níðíngsverk
náði heyra;
hèlt á stað hilmir
ok herværddist
skrúðfögrum, skínanda
Sköglar málmi“.
297. „Svá nam öðlíngr
frá Etólum
illum bægja
ρ. IX, 587-606.
aldrtila;
þat var at eignum
öðlíngs vilja;
gáfu-t honum gumar
gjafar fagrar,
margar ok munskærar,
en meinum bægði
öðlíngr samt
allt at einu“.
298. „En þú, öðlíngr,
annat slíkt
lát þèr eigi
í lund koma;
snúi þèr æva
sigtívar þángat,
vinr valdasti,
sem vísi þeim“.
299. „Verra mun verða
váða at bægja,
þá er hyrr heldr
hrannar dýrum;
gakk heldr nú,
er gjafar standa
þèr til boða,
ok þik um virða
Akkverjar jafnt
uppheims tívum“.
300. „En ef þú árnar
at ímun-dunum
gjafalauss
gumum leiðum,
þá muntu ei jafna
með jarðar dróttum
virðíngu hljóta,
þóttu váða bægir“.

---

301. Annsaði aptr
öðlíngs ræðu

Akkilleifr
inn ógnhvati:
302. „Heyr mèr, Fenix,
faðir aldræni,
fóstrsonr Seifs!
frægðar þeirrar
lítt þarfnast ek,
því ek ljósan hygg
vera heiðr minn
af völdum Seifs“.
303. „Hann mun vara
at húfhveldum
fögrum flaustum,
ok fróa mèr,
meðan önd lifir
á eljanlandi,
ok hreifast knè
horsku fjörvi“.
304. „En ek annat mun
þèr orð um segja,
en þú geym
í geðknerri:
ángra þú eigi
öndu mína
með kveinstöfum
ok kynjastunum“,
305. „Þá er þú öðlíng
Agamemnon
stoða vill
af styrk þínum;
vertu eigi vinr
vísis þess,
attu minn eigi
óvinr gerist“.
306. „Ángra þú þann
er mik ángra náir,
þat sæmir þèr,
þegn inn aldræni;
eig þú allt veldi

ρ. IX, 606-624.

til jafns við mik;
njót svá helmíngs
af heiðri mínum“.
307. „Skili þessir
skatar erendi;
en þú hèr eptir,
öðlíngr, dvel;
hvíl þik í rekkju
ok á hægindi
mjúku, mildíngr,
at munarblundi“.
308. „En er mær rís
Morginskæra,
þá munum ráðgast
ok ráð geta,
hvárt vèr heim
halda skulum
til drótta várra,
eðr dvelja hèr“.
309. Mælti svá mildíngr,
ok mærum benti
prúðvini sínum
Patróklusi,
þegjandi báknaði
brúna hvolfum,
at hann Fenixi
fremst of byggi
mjúka rekkju
at munarblundi,
310. At halir hinir
it hvatasta
byggist úr búð
til buðlúngs aptr.
Þá mælti Aiant
jólnum glíkr
Telamons arfi
inn tírargjarni:
311. „Lofsæll, seifborinn
Laerts niðr,

mærr Odysseifr
inn margráðugi!
Snúum nú aptr;
sýnist mèr eigi
erendi várt
mega afrekast
þessu móti með
hjá mildíngi".
312. „En it skjótasta
skulum Danáum
orð þetta aptr
ítrum flytja,
þótt vilgi búi
vísis ræða
höldum huggun
at helnauðum".
313. „Bíða nú ýtar,
at vèr aptr snúim;
en Akkilleifr
hefir ógn um trylldan
huga sinn
inn herjum-stóra".
314. „Miskunarlauss
er mildíngr,
er hann eigi skeytir
skatna bænum,
vina valdastra,
er vèr virðum hann
um fram aðra menn
at öldu hreinum".
315. „Þegna margr þó
þiggr bætr
af bróðurbana,
þeim er böl of vakti,
eðr son fyrir,
er fallit hefir
orpinn iðsvárum
aldrtila".
316. „Færr þá vegandi
p. IX, 624-642.
at fullum bótum
látnum fyr' látinn
landsvist aptr;
en bragna hverr,
er bætr þiggr,
móð sinn heptir
ok meginskap".
317. „En þèr, gramr,
guðir lètu
hjarta í brjóst
hart ok grimmúðigt;
eina fyrir
elr þú reiði
Freyju fjölskrýdda
fjarðarljósa".
318. „Þótt vèr bjóðim þèr,
þeingill, mæra
svanna sjö,
svásasta allra,
ok önnur fleiri
iðgjöld viljum
(undr eru slíkt!)
á þat leggja".
319. „Mýktu nú, mildíngr,
móð inn svára;
lát heiðr horskan
húsi veittan;
reikuðum vèr
ráf þitt undir,
svifum Danáum
dólgprúðum frá".
320. „Viljum vèr þínir
vera sinnar
um fram aðra
Akkverja sjót,
virkta-vinir,
valdir fèlagar,
konúngr kynfrægr
inn kostsami".

321. Annsaði aptr
öðlíngs máli
Akkilleifr
inn ógn um skjóti:
322. „Aiant, týframr
Telamons arfi,
sjóli seifborinn,
sjóta vörðr!
virðist mèr þú
valit hafa
flesta af einlægni
flutta ræðu“.
323. „En af reiði svellr
sefi minn,
þá er minnist ek
meginsmánar,
er mik Atreifsson
um orpit hefir
augum Argverja
allra fyrir“,
324. „Svá sem væra-k
sóma vani
reikunarmaðr
rekkum leiðr;
en snúit aptr,
siklíngar, nú,
berit orð mín
til Agamemnons“.
325. „Fyrr mun ek eigi
á fölvis leika
blóðga hyggja
ok bensveita,
en Brjáms burr
ins böðvísa
Hektor ágætr
á fram sækir
meginbúðum at
Mýrmídóna,
ok stafnbognum
stála hreinum“.
326. „Þá er öðlíngr
öld of vegr,
ok snekkjur svælir
seyðis loga,
hygg ek, at muni
hætta vígum
Hektor iðramr,
þótt óðr sè,
þá er hann at mínum
marar fáki
blám er kominn
ok búð minni“.

---

327. Talaði hilmir;
en tiggi hverr
tvíker tók,
ok tívum dreypti;
geingu aptr
at gnoðum sínum;
árnaði á undan
Odysseifr.
328. En Patróklus
prúðlundaðr
ýtum bauð
ok ambáttum,
at sem skjótast
skata byggi
Fenixi rekkju
fremst um mjúka.
329. Hlýddu þær hilmi,
hvílu gerðu,
svá sem buðlúngr
bjóða knátti;
breiddu gærur,
breiddu dúka,
breiddu línblæjur
bif-glitsmáar.

330. Þar hvíldist öðlíngr
inn aldræni,
ok mærrar beið
Morginskæru;
en Akkilles
í innstu tjaldi,
gramr geðprúðr,
gekk at blunda.
331. Hvíldi hilmi hjá
hrund in mæra,
er frá Lesbeyju
lofðúngr nam,
Díomeda,
drós kinnfögr,
Forbants dóttir
in fagrljósa.
332. En hinu megin
hvíla náði
Patróklus vaskr
hjá vífi mæru;
þat var Ifís, fljóð
it fagrbeltaða;
hana gaf öðlíngi
Akkilleifr,
þá er skilfíngr
Skyreyju tók,
borg Enýeifs,
at böðvar leiki.



---

333. En er öðlíngar
til Atreifssonar
búðar váru komnir
böðvarsnjallir,
stóðu styrkir upp
stríðmóðigir
konir Akkverja
fyrir konúngum.
334. Sínum úr sætum
seggir þá kvöddu;
drukku til döglíngum
dýrar veigar,
gullnum skálum af
renndu gullnum miði;
frèttu fólkvalda
fremst of erendi.
335. Frètti fyrstr
fólkum-prúða
allvaldr alþjóðar
Agamemnon:
336. „Inn mèr, allofaðr
Odysseifr,
sómi Akkverja,
seg mèr at vísu,
hvárt hann verja vill
víðis hreina
ferligum fyrir
fjanda loga?“
337. „Eðr hvárt neitar
niflúngr því?
ríkir reiði
í reginmuna
hildíngs enn
ins hugum-stóra?“
338. Annsaði aptr
öðlíngs máli
þolgóðr, ágætr
Odysseifr:
„Öðlíngr iðfrægr,
Atreifs mögr,
allvaldr alþjóðar
Agamemnon!“
339. „Eigi vill gramr
gremi stilla,
heldr meirr ok meirr
móði fyllist
hjarta hilmis
ins hugum-stóra,

p. IX, 662-679.

nè hann þínar vill
þiggja gjafar“.
340. „Biður hann þik sjálfan
með böðþjóðum,
ræsir, ráðgast
of ráð þessi,
hversu þú bjargir
blökkum marar,
ok Akkverjum
frá ógæfu“.
341. „Hótaði hilmir
herjum-kunnr,
þá er mær birtist
Morginskæra,
drafnar blakka
draga at sævi,
barðkalda, borðróna,
ballþóptaða“.
342. „Hótaði hilmir,
at hann hvètja skyldi
hölda aðra
til heimfarar:
„„er yðr eigi
auðit verðr
allháva eyða
Ilíons borg““.
343. „„Heldr víðskygn
hendi sinni
henni yfir
Herjafaðir;
en borgar lýðr
böðvar móði
fylldr er
ok fremdar hug““.
344. „Svá mælti gramr;
en gumar þeir,
er mèr um fylgdu,
mega þat ok segja;
Aiant þat er,

p. IX, 679-699.

ok at auki tveir
kallarar, vitrir
verar báðir“.
345. „En Fenix aldrænn
fór at hvíldum,
eins ok ítr bauð
Akkilleifr,
at hann á morgun
mildíngi fylgi
fleyjum á
til fóstrjarðar,
ef hann vill svá;
en segg nauðgan
mun-at mildíngr
með sèr flytja“.

---

346. Talaði tiggi;
en tyrfíngs reynar
allir hljóðir
orð ei mæltu;
leingi váru lýðir
ljóðir á þíngi,
synir Akkverja,
sorg um horfnir.
347. Mælti loksins
at málmþíngs reynum
Díómedes
inn dólgrómsterki:
348. „Atreifs arfi,
ýta frægstr,
allvaldr alþjóðar,
Agamemnon!
þú skyldir aldri
skata beðit,
prúðhugaðan
Peleifs arfa,
nè stórgjafar
stilli boðit“.
349. „Er, hvárt sem er,

hugum-ríkr
nógu dramblátr
döglíngr sá;
nú hefir þú alit
í öðlíngs hug
dramb enn meira
ok magnat látið".

350. „Skulum vèr sjálfráðan
sjóla láta,
hvárt hann dvelja vill,
eðr halda brautu;
berjast mun buðlúngr,
er býðr hugr,
ok er guð eggjar
gunni at fremja".

351. „Heyrit nú, fírar,
hvat ek fremst um mæli;
skulum vèr allir því
eptir fylgja:
skulum huga várn
hressa þegar
á mat mætum
ok munveigum,
en síðan hverfa
til hvíldar allir;
dug ok dáð slíkt
dróttum vekr".

352. „En er rósfíngruð
á reginstigum
birtist mönnum
Morginskæra,
þá skaltu skjótliga
skötnum fylkja
ok málfetum
fyrir mar-jóm frammi;
eggja til orrustu,
ok at iðleiki
fremstr fíra,
fylkir, berjast".

353. Mælti hann svá;
en mildíngar
góðan róm allir
gerðu at máli;
fannst mikit um,
hvat málrómsterkr
mælti á dróttþíngi
Díómedes.

354. Þá dreyptu döglíngar
dreypifórn;
gekk síðan sinnar til
sèrhverr búðar;
á sik niflúngar
ok naðels sveimar
báðir tóku,
nutu svefngjafar.

---

þ. IX, 699-713.

# TÍUNDA KVIÐA.

SVÁFU nú alþjóðar
öðlíngar þannig
gunnar-tamir
at gnoðum niðri
gersta grímu
góðum blundi,
bundnir svefns böndum
of brúna ljósum.
2. Nè þó Atreifsson
Agamemnon,
buðlúngr böðþjóða,
blunda knátti;
var-a sætr svefn
sjóla laginn;
hvarflaði hugr
hilmis víða.
3. Eins ok eldíngar
æsa náir
hárfagrar Heru
himneskr verr,
þá er steypi-hríð
stillir vekr
hræðiliga,
eðr haglveðr.
4. Eðr hann fannbylji
á fold um rekr,
þá er snjór sárhvítr
sáðlönd hylr,
eðr opnar hann
ægidýpi
styrjaldar stríðrar
stórbeiskastrar:
5. Eins mundi ótt
Agamemnon,
stillir inn stórráði,
stunum hreifa
ρ. X, 1-18.
neðst frá neggi
neyðarsvárum:
skalf skýrr hugr
skata inni,
6. Hvert sinn er sá
á sigvelli
tiggi lið
Trójumanna;
furðaði buðlúng
á bálum mörgum,
þau er fyrir borg
brunnu frammi;
furðaði fylki
fjölraddaðan heyra
hljóm hljóðfæra
ok hölda þys.
7. En er til skipa
skjöldúngr leit,
ok hers Akkverja
hárum-prúðra,
þá reif ræsir
með rótum upp
hár úr höfði sèr
fyrir Herjaföður.
8. Stundi stórum
stilli þjáðum
mótt móðakarn
it meginfræga;
leizt honum þá
ljúfast vera
ok hollast ráð
í hugar-fylgsni:
9. Fyrst at hitta
frægan sjóla,
Nestor nýtan,
Neleifs arfa,

ef hann nokkut ráð
ráða knætti
heillum hollvarit,
þat er herþjóðum
mætti Danáa
drjúgt um verða,
ok af stýra
illum vanda.
10. Reis upp ríkr,
ok um ræsir brjóst
kyrtil ljósfagran
leggja náði;
lèt lofðúngr
und ljósa fætr
ilskó fagra
frægr bundit.
11. Lagði á herðar sèr
hilmir síðan
húð af dumbrauðu
dýri óarga,
miklum meinvargi,
tók at mildíngs fótum;
nam ok niflúngr
nöt í mundu.

---

12. Eins var ok Menelás
meginskelfdr,
nè blund niflúngr
nema knátti;
seig-at svefn sætr
á siklíngs brár.
13. Því hann óttaðist,
at Argverjum
váði váligr
væri búinn,
er herþjóð
fyrir hans sakar
yfir báru braut
hafði breiða liðit,
Týs leik at vekja
í Trója landi.
14. Huldi breitt bak
buðlúngr fyrst
flekkóttum, fögrum
felldi pardus,
ok eirhjálm
upp um hóf;
brá á skarar fjall
skati ægi.
15. Tók þeingill geir
í þrekna mundu;
gekk af stað brálla
bróður vekja,
þann er Akkverjum
yfir rèði,
ok virðr var
sem vèa nokkurr.
16. Hitti hervæddan
hilmir blóða,
er hann hildar málm
of herðar lagði,
at skutstafni
skeiðar sinnar;
glaðr varð buðlúngr
við bróður komu.
17. Kvaddi þá fyrri
konúng at máli
Menelás
inn málrómsterki:
18. „Hví þú, kæri minn,
hervæðist svá?
Muntu, niflúngr,
nokkurn senda
fèlaga þinna
fremst at spæja
Trójumanna til
tírargjarnra?“
19. „Óumk, at eingi

p. X, 19-39.

ýta muni
þeirra til starfa
þessa bjóðast,
einn at árna
til andvígra
njósnarmaðr
á nætrþeli;
því at hugdjarfr
skyli halr sá“.
20. Aptr annsaði
orðum blóða
allvaldr alþjóðar
Agamemnon:
21. „Mildíngr seifborinn,
Menelás!
þurfum nú báðir vit
vitra ráða,
þeirra er váligum
váða bægi
Argverjum frá
at öldu hreinum“.
22. „Hefir nú Seifi
hugr snúizt;
hneigist himneskr
Herjafaðir
heldr at Hektori,
ok hans of þiggr
fórnir framliga,
fúsum vilja“.
23. „Sák-a ek endr,
nè sögur heyrða-k
orðum ypptar
með ýta kind,
at einn maðr
á einum degi
slík hafi verk vunnit,
sem Víga-Hektor“,
24. „Slík sem framdi
fylkis mögr
af sjálfs dáðum,
á sonum Akkverja;
er-a þó gramr
gyðju sonr,
nè góðum getinn
guðum himna“.
25. „Hefir þó unnit
hergrimmr þegn,
þat er leingi munu
lýðir muna;
svá margar hefir hann
harðar raunir
unnit Akkverjum
at ímunleiki“.
26. „Skunda nú skjótla
at skipum niðr;
kalla á Aiant
ok Ídomeneif;
en ek mun árna
til ítrs. Nestors,
ok fylki biðja
á fætr rísa“.
27. „Vil ek þat vita,
ef vill öðlíngr
til heilags flokks
fara varðmanna,
ok þeim bjóða;
því at buðlúngi
helzt munu hlýða
höldar þeima“.
28. „Er því Nestors
nýtr arfi
fyrir varðmönnum,
ok frægr sinni
mæts Ídomeneifs,
Meríónes;
höfum vèr þeim hölda
á hendr falit“.
29. Annsaði aptr

öðlíngs máli
Menelás
inn málrómsterki:
30. „Hví þú mèr svá
hilmir, býðr?
hver er ætlan þín
með því, öðlíngr?
á ek at bíða
hjá ýtum þaðra,
þar til er kemr þú,
eðr þik aptr hitta,
þá er ek erendi
hefi afrekat?“
31. Aptr annsaði
orðum blóða
allvaldr alþjóðar
Agamemnon:
32. „Bíð þú mín þaðra,
at vit á brautum sízt
farimst á mis,
ok finnimst eigi;
eru því víða
vega-slóðir
um herbúðir
hála reistar“.
33. „Kalla þú skalt,
þar er kemr þú;
bjóð böðrömum
brögnum at vaka;
kenn þú kappa
at kynstaf feðra;
vel þú lofsyrði
lýðum hverjum,
nè þú dramb deila,
döglíngr, skalt“.
34. „Því at einnig vit
at verki hljótum
gánga, sem aðrir,
geysiþúngu;
þat hefir Allföðr
á okkr lagt,
þá er fyrrum vit
fæðast náðum“.

p. X, 60-80.

---

35. Mælti þannig
ok þeingil sendi
brautu buðlúngr,
bauð gleyggliga;
gekk sjálfr gramr,
gætinn vildi
Nestor hitta,
hirði þjóða.
36. Hitti hilmi
at hertjaldi,
dökkum hjá
drafnar blakki;
lá lofðúngr
lýðum-frægr
rekkju reifaðr
röggvarfeldum.
37. Lágu hilmi hjá
hervápn skínandi,
sköpt ok skjöldr,
ok skrúðhjálmr;
ok kvikliðugr
hjá konúngi
gyrðill glæstr
gunnar hvíldi.
38. Þeim mundi ávallt
aldinn skati
gyrðr gánga
at grimmum vígum,
þá er fólkum hann
fylkja náði;
eigi lèt undan
elli leiðri.
39. Upp reis öðlíngr,
studdist olnboga,

hóf upp höfuð
frá hægindi;
Atreifs mög
ávarpaði
orðum þeima
þeingill reiðar:
40. „Hverr er halr sá,
er um hrannar gota
hvarflar einn
í herbúðum
um nótt niðdimma,
þá er njótar aðrir
sætum sofa
svefnblundi í?“
41. „Ypptu hljóði,
halr reikandi,
nè þú at mèr svíf
svá þegjandi;
hvat viltu, halr?
hvert er erendi?“
42. Aptr annsaði
öðlíngs máli
allvaldr alþjóðar
Agamemnon:
„Nestor nýtr
Neleifs arfi,
sómi Akkverja
svásúðligr!“
43. „Hèr máttu kon
kenna Atreifs
Agamemnon,
þann er aldafaðir
öðrum mönnum meirr
meginhörmum
orpit hefir
iðjasvárum“.
44. „Munu harmar þeir
megnir lifa,
meðan önd bærist
í brjósti mínu,
ok meðan kröptum
í knjám hreifir
fjör fróandi
á foldu mèr“.
45. „Hvarfla ek víða,
því at værr eigi
festist blundr
á brám mínum;
erumk órótt
af ófriði,
ok Akkverja
eymdum þúngum“.
46. „Ángrast ek dýra
fyrir Danáa;
hvarflar hugr minn
hvumleiðan veg;
em ek ángráðr,
ok úr eljanlandi
mitt vill móðakarn
móðigt flýja;
titra fótlimir
traustir mínir“.
47. „En ef þú, vísir, vill
vinna nokkut,
er þú heldr eigi
mátt hvíldar njóta,
þá skulum árna
at einu báðir
varðmanna til
at vita fáim“,
48. „Hvárt eigi sè
halir bugaðir
þreytu af
ok þúngum vökum;
hvárt þeir nú hvílist,
hafi með öllu
verði gleymt
ok vinnu sinni“.

ρ. X, 80-99.

49. „Sitja allnærri
óvinir várir;
vel mèr virðist
vera mega,
at þeir hyggi
á hildarleika,
þótt nótt niðdimm
njótum hamli“.

50. Aptr annsaði
öðlíngs máli
Nestor, gerenskr
gramr reiðar:
„Atreifs arfi,
ýta frægstr,
allvaldr alþjóðar,
Agamemnon!“

51. „Mun-at hinn ráðvísi
ræsir himna
Hektori allar
óskir veita,
þær er hilmir nú
helzt um girnist“.

52. „Hygg ek, at heldr
hann of muni
meiri sæta
meginraunum,
ef Akkilles
ógnarmóði
bægir, ok bölsvárum
bríma gremi“.

53. „En ek vil, gramr,
þèr gjarna fylgja;
munum ok virða
vekja aðra,
Týdeifs mög
inn tírarframa;
ok Odysseif
ítrráðan“,

54. „Ok Aiant
ógnar-skjótan,
ok Fýleifs
frækinn arfa;
væri ok vel,
ef vildi nokkurr
guma gánga,
ok garpa kalla:
Aiant iðstóran,
jólnum glíkan,
ok Ídomeneif
aldastýri“.

55. „Eru því skip
skata þeirra
fjarrust hèðan,
ok hvergi nærri“.

56. „En ek mun
Menelási
ávítur velja,
allkærum mèr;
ok þóttu af því,
þeingill, reiðist,
þá mun ek eigi
öðlíng leyna,
hversu sefr hann,
en herstarfa
felr þèr allan,
fylkir, á hendr“.

57. „Skyldi hann nú biðja
bænar-orðum
helzta ok horskasta
höfðíngja sveit;
því at nauðr nú
njóta rekr
óvægiliga
til iðju svárrar“.

58. Annsaði aptr
öðlíngs máli
allvaldr alþjóðar
Agamemnon:

ρ. X, 100-119.

„Ræð ek þèr, ræsir
roskinhærðr,
attu í annat sinn
áteljir hann“.
59. „Því at tiggi opt
tómlátr er;
vill varlega
til vinnu gánga;
er-a þó hvárki,
at hann of sigri
viljaleysi
nè vankunnátta“.
60. „En hann til mín
ávallt lítr,
ok þess fremst bíðr,
at ek fyrri verðak;
en at sinni þvísa
sjóli vaknaði
fyrri mèr,
ok fór til mín“.
61. „Senda-k sifa
sjóla at kalla,
þá er þú nýla
nefna gerðir;
nú skulum árna,
munum ýta hitta
fyrir hlið framan
með fírum varðar;
því at þar bað ek
þegna alla
saman svífa
sóknum-prúða“.
62. Aptr annsaði
orðum sjóla
Nestor, gerenskr
gramr reiðar:
63. „Ef svá er,
þá mun öðlíngi
eingi reiðast
ρ. X, 120-139.
af Argverjum,
þá er hann brögnum
bjóða náir,
ok hali hvetr
til herstarfa“.
64. Kvað svá kappi,
ok kyrtil lagði
sèr á brjóst,
bjartofinn dúk;
lèt und fætr
fasta síðan
ilskó fagra
fylkir bundit.
65. Spenntist buðlúngr
bjartri skikkju,
purpurarauðum
prýði-dúki;
var tvíbrotin
ok víð gerva;
var ullarló
á ofnu klæði.
66. Tók geir stinnan
gramr í mundu,
fremst of faldinn
fránu eiri;
hèlt á stað
til hrannar gota
Akkverja
eirserkjaðra.
67. Vakti gerenskr
gramr reiðar,
Nestor, nýtan
niflúng fyrstan
Odysseif
upp af svefni,
jafnan Allföður
at ítrum ráðum.
68. Kallaði konúngr;
en kappi nam

þegar hilmis hljóð
hlustum fánga;
gekk úr hertjaldi,
grami kvaddi
ræsir ráðsvinnr
ríklundaða:

69. „Hví svá halir
um hrannar gota
hvarfla einir
í herbúðum,
um nótt niðdimma,
þá er njótar aðrir
sætum sofa
svefnblundi í?
Hver nauð höldum
hart svá þrýstir?"

70. Annsaði aptr
öðlíngs máli
Nestor, gerenskr
gramr reiðar:

71. „Seifborinn, Laerts
lofsæll arfi,
mærr Odysseifr
inn margráðugi;
Reiðst eigi, ræsir,
því raunir margar
yfir Akkverjum
illar váfa".

72. „Fylg oss, fylkir,
at fáim vit
aðra vakit
eimnis reyna;
viljum ráðgast
með rekka kind,
hvárt flýja skuli
eðr fjandum mæta".

73. Talaði öðlíngr;
en Odysseifr
inn í búð
nam aptr gánga;
huldi marglitum
herðar skildi;
fylgdist síðan
með fólkvöldum.

74. Geingu til týframs
Týdeifs arfa,
Díómedess,
ok döglíng hittu
búinn böðskrúði
fyrir búð utan;
sváfu sinnar
sjóla kríng um.

75. Höfðu skildi
und skarar fjöllum;
en á aurfölum
í jörð um stóðu
geirar gumna,
glóðu oddar
fránir í fjarska,
sem funi skýja.

76. Svaf þar sigfrægr
sonr Týdeifs;
var húð und vísi
af villi-uxa,
en und höfuð
hála fagr
dúkr skínandi
var skata breiddr.

77. Staðnæmdist þar,
ok stilli vakti
Nestor, gerenskr
gramr reiðar;
snart með fæti
sjóla raman,
hvatti öðlíng
ok hann ávítaði:

78. „Vakna þú, týframr
Týdeifs arfi!

ρ. X, 139-159.

hví þú gersta grímu
gerir at sofa?
Er-a þèr kunnigt,
at á einni hæð
sitja Tróar
snekkjum nærri,
en örskammt svæði
miðil sigþjóða?“
79. Mælti hann þannig;
en mögr Týdeifs
brálla blundi
bregða náði;
stökk upp stillir;
stillti orðum
óðhröðum þegar
at öðlíngi:
80. „Stórmiklum ertu,
stillir, búinn
kynja-krapti,
kannt ei mæðast!
Gánga ei aðrir
ýngri sveinar
Akkverjum með
at ímunleiki?“
81. „Þeirs hvervetna
hverfa megi,
ok buðlúnga
af blundi vekja?
En þik, öðlíngr,
ekki bugar,
nè á þèr vinnr,
þótt aldrænn sèrt“.
82. Annsaði aptr
orðum sjóla
Nestor, gerenskr
gramr reiðar:
„Satt þú kveðr,
kostvinr minn;
víst þú talaðir
at verðúngu“.
83. „Á ek hrausta
arfa bæði;
á ek ok mörgum
yfir at ráða;
mætti einnhverr
manna þeirra
karskra kalla
á konúnga“.
84. „En nauðr nú
njótum þrýstir,
ok virða vefr
vanda svárum;
því á tvísýnu,
tiggi, leikr
líf Akkverja
ok aldrtili“.
85. „Gakk nú, gramr,
alls þú getinn ert
ýngri mèr,
ef mik aumkva náir;
vek upp Aiant
ógnar-skjótan,
ok Fýleifs
frækinn arfa“.
86. Talaði tiggi;
en Týdeifs mögr
varpaði ljóns húð
yfir herðar sèr,
dýri óarga
dumbrauðu af;
tók meginfeldr
at mildíngs fótum.
87. Tók geir gramr
í gilda mundu;
hèlt á stað síðan,
hetjur vakti;

kom með kappa
konúngr at þat.
88. En er þángat
þeinglar komu,
sem varðmenn
á verði sátu,
fundu þeir eigi
foríngja þeirra
svefni sigraða;
sátu fírar
vakandi vápnaðir,
varðar gættu.
89. Eins ok hundar
óróir vaka
fjárborg í
yfir feitum sauðum,
er it frána fróns dýr
fremst þeir heyra,
er um fagrlima
af fjöllum svífr.
90. Gerist þá gnýr
garma ok fyrða,
er nærr geingr
gumars fjandi;
flýr svefn sætr
sèrhverja þá:
91. Eins af brám flýði
blundr þeirra,
er þeir váliga
vöktu um nóttu;
því at æ verðir
at velli snèru,
ef þeir við Brjáms ýta
yrði varir.
92. Gladdist þá gerva
gramr inn aldni,
ok þá upp hvatti
orðum þeima:
93. „Þannig skulu þèr,
þegnar mætir,
vel ok vandliga
á verði sitja;
sigri svefn eingan,
at sèm vèr ei
óvinum orum
at augnagamni“.

---

94. Svá mælti stillir;
stökk yfir gröf;
en horskum
hilmi fylgdu
konúngar Argverja,
er kallat hafði
ríkr á ráðstefnu
reiðar sjóli.
95. Geingu með mildíngum
Meríónes
ok Nestors
nýtr arfi;
því at þá höfðu
hugum-prúðir
rekkar með sèr kvatt
til ráðagerðar.
96. En er yfir gröf
geingnir váru
djúpa niflúngar,
þá þeir niðr settust;
þat var auðum á
jarðar stöðvum,
var-a þar valköstum
völlr um orpinn.
97. Þar hafði Hektor
herjum-grimmr
aptr snúit,
þá er Argverja
felldi fylkir,
ok of foldu dró

ρ. X, 179-201.

nótt niðdimma
af norðrstraumum.
98. Settust þar sigfrægir
siklíngar niðr,
ok um gættust
gunnar vanda;
mælti þá fyrstr
með fólkvöldum
Nestor, gerenskr
gramr reiðar:
99. „Heyrit, hróðvinir,
mundi hölda eingi
áræða af þrótti
eignum sínum,
nú at hverfa
til hugum-ríkra
liða Brjáms
of brautir dreyrgar?“
100. „Ef feingi hann
höndum tekit
yztan óvina
einna nokkurn;
eðr ok á tal
Trójumanna
heyra knætti,
hvat kníar rèði“,
101. „Hvárt þeir muni
at hrannar gotum
fjærri borg
fremst of dvelja,
eðr aptr búast
til borgar gánga,
er þeir á Akkverjum
unnit hafa“.
102. „Ef allt þetta
einnhverr fregn,
ok hann alheill kemst
aptr til vár,
þá mun heiðr
hans of fara
hvervetna undir
himins boga,
til manna allra
er moldu byggja;
mun gjafar góðar
greppr hljóta“.
103. „Skulu skatar,
er skipum ráða,
hæstir ok horskastir
honum velja
á alsvarta,
á með lambi;
slíka skal sèrhverr
seggi um gefa“.
104. „Því at eign eingi
of jafnazt fær
lamb-á við
með lýða kindum;
æ skal hann sitja
at sumblum várum,
ok veizlum völdum,
í vina skauti“.
105. Mælti hann svá;
en málmþíngs reynar
allir hljóðir
orð ei mæltu.
Yppti þá orðum
við öðlínga
Díómedes
inn dólgrómsterki:
106. „Hvetr mik hugr
ok hjarta ríkt,
Nestor, til fjanda
flokka svífa,
ok í herbúðir
hvarfla þeirra;
eru þeir allnærri
orum sveitum“.

ρ. X, 201-222.

107. „Væri þó hollara
ok hugum betra,
ef mèr annarr
einnhverr fylgdi;
því ef seggir tveir
saman gánga,
þá einn öðrum
æ getr sjá“.
108. „En ef halr einn
augum leiðir,
þá verðr hugr hans
hölzti dræmr;
ok úrræði
eigi tjáir
einum hal,
en ónýtt verðr“.
109. Mælti svá mildíngr;
en margir vildu
fylgja dáðrökkum
Díómedesi;
vildu Aiantar,
vígprúðir tveir,
þegnar gunntamir
geira drottins.
110. Vildi morðvanr
Meríónes;
vildi Nestors fúss
nýtr arfi;
vildi darrfrægr,
dólgrómsterkr
Menelás, Atreifs
arfi ríkr.
111. Vildi ok þolgóðr
þeingill fara,
Odysseifr,
til ímunsveima
Tróa týframra,
því tiggi hafði
móðakarn mærum
móði þrúngit.
112. Ávarpaði þá
öðlínga þannig
allvaldr alþjóðar
Agamemnon:
113. „Heyr mèr, týframr
Týdeifs arfi,
kærstr manna mèr
fyrir mold ofan!
kjós þèr nú til fylgdar
fíra þessra
hvern er þú vill,
ok horskastr þykkir“.
114. „Því margir vilja
með þèr fara;
skalt-at-tu, vísir,
láta virðíng ráða,
attu inn hraustara
eptir skiljir,
en fáráðara hal
til farar veljir“.
115. „Skalt-at-tu, öðlíngr,
á ættgöfgi
lofða líta,
þótt ljós um sè:
skalt-at-tu velja,
virða horska,
þótt sè konúngar,
ok kníum ráði“.
116. Mælti svá öðlíngr;
óttaðist fyrir
mærum blóða,
Menelási;
mælti þá aptr
at mildíngum
Díómedes
inn dólgrómsterki:
117. „Með því mèr bjóðit,

ρ. X, 222-242.

mildíngar, nú,
sjálfum til fylgdar
segg at kjósa,
hve ek þá mundi
horskum gleyma
ágætum öðlíngi,
Odysseifi?"
118. „Er þeingli þeim
í þrautum öllum
hugr ok hjarta
horskt of lagit;
ok honum ann
dóttir Allföður,
Pallas Aþena
in iðjaskæra".
119. „Þá er fylkir sá
fylgir mèr,
þá munu vit báðir
til bragna heim snúa,
ok þótt gim glóanda
of gánga skyldim,
því ríkr er ræsir
at ráðsnilli".
120. Annsaði aptr
orðum skata
mærr Odysseifr
inn margráðugi:
121. „Ei skaltu, týframr
Týdeifs mögr,
mèr um of hrósa,
nè ámæla;
vitu þat Argverjar
allt, er þú nú
mælir, öðlíngr,
af mærum hug".
122. „Förum nú, fylkir,
fram er nótt liðin,
ok mær nærri
Morginskæra;
síga síur Múspells
at sölum vestr;
er meginhluti
liðinn myrkföru,
þriðjúngar tveir,
lifir þriðjúngr einn".
123. At mæltu því
mildíngar bjuggust
skelfíng um horfnum
Sköglar málmi;
fèkk Þrasýmedes
inn þrúðmóðigi
sverð tvíeggjat
Týdeifs arfa.
124. Því Díómedes
at drafnar mörum
hafði sinn eggfáinn
eptir látið;
fèkk hann ok fylki
fagrbláinn;
setti ægi
á öðlíngs höfuð.
125. Sá var hjálmr
af húð uxa,
hafði ei bólu,
hafði ei skúf;
heitir brynhúfa;
bera höldar úngir.
226. En mærum Odysses
fèkk Meríónes
sverð ok álm,
ok örvamæli;
lèt hjálm á höfuð
hilmis síðan,
hjálm af leðri
hagla gervan.
127. Var innanverðr
ótal brugðinn
ólum harðliga

ρ. X, 242-263.

hattr rómu;
en at utan
alhvítum settr
galtartönnum,
gert var þat hagla;
váru þèttar raðir,
en þeirra milli
fyllt var flóka
á fjörni styrkum.
128. Þann hafði endr
Átólýkus
numit af Amýntor,
Ormenuss megi,
at Eleonsborg,
þá er öðlíngr
höllu hilmis
háreista braut.
129. Sendi skati hjálm
til Skandíu,
gaf Amfídamanti
á Kýþeru;
en Amfídamant
aptr hann gaf
grami Mólusi,
til gesta heiðrs.
130. Gaf Mólus hann
Meríónesi,
arfa ástkærum,
aptr síðan;
nú var hann látinn
lofðúngi hlífa,
Odysseifi
inum ítrráða.
131. Skrýddust þannig
skjöldúngar tveir
skelfíng um horfnum
skrúða rómu;
hèldu af stað
um herbrautir;
skildu svá við
skata alla.
132. Sendi þeim hegra
hægra megin
nálægt vegi
voldug gyðja,
Pallas Aþena
in prúðmóðiga.
133. Máttu ei eygja
með augum hann,
niðmyrkri fyrir
næturblæju;
en gjallanda
gramir heyrðu
fugl um fljúga
foldu yfir.
134. Gladdist af jartekn
Odysseifr,
ok bæn gerði
til böðdísar:
135. „Heyr mèr, Allföður
ægiskjalda
dýrust dóttir,
er mèr dáðir eykr!
ok mèr at hlið
ávallt stendr
í þrautum öllum,
ok þrótt mèr veitir“.
136. „Unn mèr einkum nú,
ímun-Freyja!
Veit, at vit aptr
at öldu hreinum
frægð um faldnir
fremst of snúim;
vinnim stórvirki,
er virðar Tróju
mætir megi
muna leingi“.
137. Baðst því næst fyrir,

ok á böðdísi hèt
Díómedes
inn dólgrómsterki:
138. „Heyr mèr einnig,
Atrýtóna,
dóttir Allföður
ægiskjalda!
Fylg þú mèr, fólkmær,
svá sem föður minn
leiddir þú týframan
Týdeif endr,
þegar til Þífi
þeingill fór
sendiför frægr
fyrir Akkverja“.
139. „Skildi öðlíngr
við Akkverja
at Ásopsá
eirserkjaða;
svá fór siklíngr,
ok sættir bauð
Kaðmúngum, körskum
kappa þjóðum“.
140. „En er þaðan
þeingill snèri,
vann hann stórvirki
á vegi mörg;
veittir þú gylfa þá,
gunnar Freyja,
ok miskunsöm mundir
mildíng stoða“.
141. „Ver mèr nú eins,
víga Freyja,
stoð ok styrkr,
statt mèr at hendi;
þèr skal ek fórna,
fölvis gyðja,
kvígu ársgamla,
ennibreiða,

þ. X, 283-302.

ókunna erfiði
ok arðrtrjám“.
142. „Skal ek fórnfæra
frenju þèr,
ok horn hennar
hrannar eldi
öll um búa
ítrliga“.
143. Svá mundu buðlúngar
biðjast fyrir;
heyrði þá prúðmóðig
Pallas Aþena;
en er höfðu þeir
Þrúðvalds dóttur
fremst á heitið,
ok hana beðit,
144. Þá liðu lofðúngar
glíkir ljónum tveim
gegn um grímu
ginnmyrkrs leið;
óðu vígvaðla
ok valhrannir,
dökkvan dreyra
ok darraðar skrúð.

---

145. Lèt eigi týframa
Tróa heldr
Hektor njóta
hvílu værða;
stefndi stríðmóðigr
stillir saman
höfðíngjum öllum
höfuðborgar.
146. Kallaði kostsamr
kappa saman,
tignarhöfðíngja
Tróa og skata;
en er siklíngar
váru saman komnir,

bar upp ráð ræsir
reginvitr:
147. „Hverr vill hölda
heita at þíngi
verk at vinna,
er ek velja mun?
Sá skal stórgjafar
seggr hljóta,
ok at launum
ljósa málma“.
148. „Gefa mun ek honum
gunnar kerru
ok málfeta tvá
makkareista,
þá er bezta
bragnar finna
hjá Akkverja skjótum
skipum niðri“.
149. „Þat mun ek gefa
þegna hverjum,
er sèr þat vinna vill
til vegsemdar:
til örskreiðra
öldu hreina
niðr fara,
ok njósn um geta:“
150. „Hvárt vörðr er haldinn
at víðis dýrum,
eins ok Akkverjar
áðr um gerðu;
eðr hvárt lægra lut
lofðar báru
várum í viðskiptum
at vígleiki“,
151. „Ok hvárt höldar nú
hyggja á flótta,
nè sèr um njólu
njótar treysta
vaskir at vaka,
er virða þjáir
þreyta reginröm,
ok raunamæði“.
152. Mælti hann svá;
en málmþíngs reynar
allir hljóðir
orð ei mæltu.
153. Var einn með Tróum
tírargjörnum,
Dólon, arfi
Evmedesar,
kallara kostsamligs,
kynauðigr
af ægis eldi
ok eiri rauðu.
154. Ljótr var ásýndum
eyðir bauga;
fljótr á fæti
framarr öðrum;
hann var einkason
auðigs föður;
átti systr fimm
auðkýfíngr.
155. Hann nam við Hektor
horskan mæla
tírargjarnra
á Tróa þíngi:
156. „Mik hvetr, Hektor,
hugarmóðr
ok framgirni
til farar þessarar;
skunda mun ek skjótra
til skeiða niðr,
ok um njósna
njóta hagi“.
157. „En þú, ræsir,
rètt upp sprota,
ok mèr svardaga
sváran um vinn,

at þú skulir mèr,
skati, gefa
kerru eirvarða
ok iðfáka,
þeim er ekr
Akkilleifr,
prúðlundaðr
Peleifs arfi“.
158. „Mun ek þèr eigi
ónýtr reynast
njósnarmaðr,
niflúngr, þá,
eigi fjarri því,
er þú ætlast til“.
159. „Svá mun ek lángt hverfa
inn í herbúðir,
uns ek at aski kem
Agamemnons,
þars ræsar hæstir
ráðgast munu,
hvárt flýja skuli,
eðr fjandum mæta“.
160. Mælti halr svá;
en Hektor tók
sprota í mundu,
mælti svardaga:
161. „Viti Seifr sjálfr
svarrdunandi,
himneskr Heru
hátignarverr,
at fákum þeima
skal fíra eingi
ekit fá
af öldum Tróju“.
162. „Heiti ek þèr því,
at þú hesta skalt
æ ok æ hafa
til ágætis þèr“.
163. Svá vann siklíngr
svardagaleysu,
en Dólon fram
til dáða hvatti;
varpaði bjúgum
boga á herðar
seggr þegar,
er svífa vildi.
164. Klæddist yzt klæða
kesju þeytir
vargshúð vá-grárri,
vilgi snjáðri;
lèt á höfuð
hjálmi komit
af marðarskinni,
tók í mundu flein.
165. Hèlt af stað halr
frá herbúðum
örskreiðra til
öldu hreina;
átti honum eigi
auðit verða
Hektori at flytja
fregnir aptr.
166. En er hann út úr var
jóa kominn
ok málmþíngs meiða
megingrúa,
þá gekk feigr
fram eptir vegi;
skundaði snarliga
sverða reynir.
167. Varð seifborinn
siklíngr þá
Odysseifr varr,
hvar aumr um fór;
mælti þá ræsir
ráðum-snjallr
við Díómedes
inn dólgrómsterka:

ρ. X, 322-340.

168. „Dreingr ferr þar,
Díómedes,
kemr frá herbúðum;
hitt veit ek eigi,
hvárt hann njósna vill
um várar gnoðir,
eðr valfallna vera
vill hann ræna".
169. „Látum ver líða
á láðvöll fram
lítt at þat fyrst,
fram hjá okkr;
hlaupum svá hvatliga,
ok höndum tökum
bauga brjót
ballum móði".
170. „En ef hann skjótari
okkr verðr,
þá skaltu halda
hal at skipum,
ok ávallt bægja
frá búðum niðr;
eltu hann, gramr,
haf geir í mundu,
at hann ei til borgar
bruna knegi".
171. At mæltu því
mildíngar snjallir
lögðust í val
vegi nærri;
en heimskr halr
hvatliga rann
fram hjá framsýnum
fólknárúngum.
172. En er hann frægum
var fjarri kominn,
svá sem múlar at einu
mega arðr um draga
(þeir eru uxum
at erja knárri,
arðr at draga
alnaddaðan
yfir svarðardjúpt
sæðis eingi),
þá hlupu hildíngar
honum eptir.
173. Stóð gumi við,
er hann glym of heyrði;
hugði fèlaga
frækna vera,
svífa frá Tróju
sik at kalla,
ok sèr heim hverfa
at Hektors boði.
174. En er þeim svá
var seggr fjarri,
sem kólfi má
kasti varpa,
eðr ok minnr,
þá hann mundi skilja
at sik fjandr
finna vildu.
175. Þá hann fljótra
til fóta tók;
rann á flótta,
flýja vildi;
en hildíngar
horskir runnu
hvatliga hvötum
hal á eptir.
176. Svá sem tveir
tönnum-hvassir
dýrhundar, veiðum
vanir, renna,
hindarkálf elta
eðr hèra fráan;
renna æ ok æ
óðir garmar

skóglendi yfir,
en ýlandi ferr
hræddr hrísbúi
hvatt á undan:
177. Eins eltu fræknir
fóthvatan hal:
Týdeifs arfi,
ok Odysseifr
borga-brjótr,
ok frá böðþjóðum
bægðu æ ok æ
auðskýfanda.
178. En er allnærri
ýtum varðar
hann var hvötu
horfinn skeiði,
ok leið lagði
at ljónum sævar,
þá hugarmóði
í hjarta blès
Aþena týfrömum
Týdeifs arfa,
179. At eingi Akkverja
eirserkjaðra
happi hróðigr
hrósa skyldi,
at hann fyrstr
hefði fólkdreing sært,
en siklíngr sjálfr
seinni vorðit.
180. Óð þá at dreing
Díómedes,
dýði geir mundu,
mæla náði:
181. „Stattu grafkyrr,
gumi, þaðra,
ella lýst ek þik
laungum geiri;
munt-at-tu leingi

ρ. X, 362-380.

frá minni hendi
aldrtila
mega af stýra“.
182. Mælti hann svá,
mundi skapt senda,
missti viljandi
nè mann hæfði;
en fleins oddr
flaug ins bjarta
hægri yfir
öxl á guma,
nam í grundu
grænni staðar.
183. Við stóð þá Dólon,
varð allhræddr;
hapt varð á loptvægi
ljóðpundara;
gnötruðu guma
ok gerst of skullu
kjálka-bogum á
klettar góma.
184. Varð verr fölr
fyrir ótta;
námu halir hann
hlaupmóðir þar;
höfðu á hendr,
en hræddr gumi
grátandi nam
við grami mæla:
185. „Gefit mèr líf, lofðar;
lausnarmálma
ykkr skal ek greiða,
gersema fjöld;
heima er í húsi
hrannar eldr,
eir ok iðseigr
ísarnmálmr“.
186. „Mun af því faðir
feikn um láta,

ok ykkr ógrynni,
öðlíngar, gjaldà,
ef hann mik lífs
at lagardýrum
spyrja getr
gumna akkneskra“.
187. Aptr annsaði
orðum guma
mærr Odysseifr
inn margráðugi:
188. „Vertu óhræddr;
eigi þú lát
hel nè dauða
þèr í hug koma;
en þú mèr um inn,
ok inn með sanni,
hví þú einn hvarflar
herbúðum frá
gnoða til
um grímu dimma,
þá er svefni sofa
seggir aðrir?“
189. „Viltu valfallna
vera ræna?
Sendi þik Hektor
af holum flaustum
allt at njósna
af ýtum þar?
Eðr fórtu, seggr,
af sjálfs hvötum?“
190. Annsaði Dólon
döglíngs máli,
skulfu knè
á skjaldar hlyni:
„Hefir Hektor
hyggju mína
táli tryggðlausu
teygða látið,
er hann mèr hèt

ρ. X, 380-402.

hófglymjöndum,
hestum einhæfðum
Eaks niðja“.
191. „Hèt mèr ok hilmir
hildar-kerru,
al-varinni
eiri rauðu;
bauð mèr um svipula
svífa nóttu,
drýgja dökkfarar
með dróttmögum“.
192. „Bauð mèr at halda
herbúðum nær
fjanda várra,
fręmst of spæja,
hvárt húfhveldir
hrannar gotar
væri verði geymdir,
sem váru áðr“.
193. Eðr hvárt lægra lut
lofðar báru
várum í viðskiptum
at vígleiki,
ok hvárt èr nú
hyggizt flýja,
er þèr nè treystizt
um nótt at vaka,
er yðr röm þreyta
ok raunir halda“.
194. Glotti við gramr,
ok guma annsaði
mærr Odysseifr
inn margráðugi:
195. „Sízt eru smáar,
er, seggr, þú,
gjafar, girnist,
með gumnum frægar,
bjartljósum búnir
bitilhreinar

ſmunkunnanda
Eaks niðja“.
196. „Er dauðligum
dróttum jarðar
ærinn vandi
jóm þeim stýra,
ok við ráða,
nema ræsi einum,
er ódauðlig
eiða um gat“.
197. „En herm mèr, halr,
ok herm með sanni:
hvar namtu skilja
við skata frægan
Hektor, er þú hinnig
hvarfla náðir?“
198. „Hvar eru hervápn
ok hestar sjóla?
Hversu er til varðar
virðum Trója
skipat á hervelli?
Hvar sofa þeir?“
199. Annsaði aptr
orðum sjóla
Dólon, arfi
Evmedesar:
„Allt mun ek inna,
öðlíngr, þèr,
ok með sanni
sèrhvat herma“.
200. „Hektor er á þíngi
með höfðíngjum;
ráðgast öðlíngr
hjá Ílusar haugi
lángt frá lýðglaumi;
en er þú, lofðúngr,
vill um verði
vita gerva“,
201. „Þá er eingi
einka-vörðr
köppum kosinn.
at kunni geyma
herbúða orra,
eðr at gæta“.
202. „Eigu eldstæði
ýtar Tróju;
er þegnum þörf
þau at hafa;
vaka virðar
um vádimmu,
eggjar hvárr annan
iðvörð halda“.
203. „En lángt um leiddir
liðsmenn sofa;
hafa vörð falit
virðum Tróju;
eigu því eingar
eiginrúnur
nè börn barnúng
bragníngar hèr“.
204. Annsaði aptr
orðum guma
mærr Odysseifr
inn margráðugi:
205. „Hversu er þat?
Sofa halir þeir
blendnir Tróum
tírargjörnum?
eðr sofa þeir
sèr um einir?
Seg mèr þat, seggr,
at ek sjá megak“.
206. Annsaði aptr
orðum skata
Dólon, arfi
Evmedesar:
„Allt mun ek inna,
öðlíngr, þèr,

ρ. X, 402-427.

ok með sanni
sèrhvat herma“.
207. „Næstir kólgu
Kárar liggja,
ok Peónar
prúðbogvaldir,
knáir Lelegar
ok Kákónar,
ok Pelasgar
prúðhugaðir“.
208. „Þá eru Lýkverjar
á Þýmbruvelli,
ok Mýsar
meginprúðir,
Frýgar fákvaldir,
ok fimir gumar,
er málfetum stýra
frá Meóníu“.
209. „En hví spyrjit mik,
öðlíngar, þess,
ok mik allt þat
inna látið?
Því ef ykkr
at árna lystir
týframra í sveim
Trójumanna“,
210. „Þá eru Þrakar
þegna yztir,
njótum fjarri,
nýla komnir;
ræsir er rekka
Resus með þeim,
Eióneifs arfi
ítrfrægr“.
211. „Hans sá ek hesta
á hauðrs þremi
mesta ok mætasta
af málfetum;
hvítari snjóvi
hvatt þeir fljúga
yfir láð lèttfetar,
sem leiki vindr“.
212. „Er herkerra
hilmis fáguð
gulli glórauðu
ok grá silfri,
en vápn varin
vinduðs dúni,
ógna-stærðar
undrasmíði“.
213. „Þau hafði hilmir,
er hann hinnig sveif;
mun-at höldum hæft
hauðrs feigum
vápnum valda,
en þau vèum hæfa
ódauðligum
í uppheimi“.
214. „Færit mik nú
til flausta skjótra;
eðr bindit mik
böndum hörðum,
ok mik hèr
eptir skiljit,
uns þèr, öðlíngar,
aptr snúit,
ok vita fáit,
ef fregn sanna
hef ek ykkr hermt,
eðr hluti logna“.
215. Brúnölfi
þá beindi ræðu
Díómedes
inn dólgum-rami:
216. „Hygg-at-tu, halr,
úr höndum várum
leiðr at líða,
ok lífi halda,

þótt frètt hafir
hermt allgóða,
er þú í greipar gekkt
gumi, okkrar".
217. „Því ef vèr, seggr,
sleppum þèr nú,
ok þik látum
lífi halda,
þá muntu síðarr
at sævarljónum
skjótum Akkverja
árna niðr".
218. „Mantu annathvárt
fyrir ýta spæja,
eðr þú oss munt
móti berjast;
en er þú nú
fyrir okkrum mundum
líf þitt lætr,
þá þú lýðum eigi
optarr munt
til ills verða".
219. Mælti svá döglíngr;
en Dólon vildi
taka gildri mundu
um mildíngs höku,
ok sèr lífs
ok líknar biðja;
en siklíngr
sverð um reiddi,
hjó á háls þveran,
hjó sinar báðar.
220. Skall skarar fjall,
er sköfnúngs reynir
mæla vildi,
á mold niðr;
tóku marðskinnshúfu
mildíngar þar
af hals höfði,
ok hata feld;
tóku álm
úrsvignæman;
tóku flein fránan,
firinlángan.
221. En Odysseifr
inn ágæti
fyrir feingsælli
Freyju sverða
hátt uppi hèlt
hildar skrúði
mundu magnstyrkri,
kvaddi mímúngs gyðju:
222. „Þigg þetta þú,
Þrúðvalds dóttir;
því at þik fyrsta
munum frægra vit
jólna á kalla
á Ólýmpi".
223. „Leið okkr nú,
lýðvoldug dís,
þángat sem þrakneskir
þegnar hvíla;
leið oss at náttbóli
lýða þeirra,
ok málfetum
meginprúðum".

---

224. Mælti svá hilmir,
ok hervápn festi
hátt á porsbjörk upp
prúðblómgvaða,
setti merki
á mæran við,
þat er öld mætti
augum leiða.
225. Saman lagði sjóli
sígrænan reyr,
ok porskvisti

þrúðblómgvaða,
at þeir aptr
mætti á hitta,
er þeir um grímu
geingi dimma.
226. Komu skjótliga
skatnar síðan,
at flokki Þraka
þrúðmóðigra;
óðu vígvaðla,
óðu valhrannir,
ok vígrofinn
vef darraðar.
227. Sváfu þreyttir
sigrvaldendr
lágu vápn lýða
á láðvelli;
vel ok vandliga
váru þau sett
í raðir þrjár;
en hjá rekk hverjum
váru samoks-hestar
svárbundnir tveir.
228. Lá í miðju
lýða sjóli,
Resus; en skjótir
reiðarbrímar
bundnir stóðu
hjá buðlúngi
ólum með
við yztan hlýra
á rönd fagri
reiðar sætis.
229. Sá Odysseifr
sjóla fyrri,
ok dáðrakkan kvaddi
Díómedes:
230. „Þar máttu líta
lofðúng frægan,
Díómedes,
er Dólon lýsti,
sá er drápum vit,
en hjá döglíngi
eru fákar festir
fleygiskjótir“.
231. „Heill svá, hildíngr,
hreif nú móði
styrkum ok staðríkum;
standa nè hæfir
athafnarlausum,
öðlíngr, þèr,
skærum skrúðbúnum
Sköglar málmi“.
232. „Leystu nú lèttfeta,
eðr þú lýði veg;
en ek fáka mun
fremst um annast“.
233. Mælti hann svá;
en móði blès
glóeyg Aþena
í grams hjarta;
hjó hann hölda
á hendr báðar;
vöknuðu válig óp
vápnbitinna;
rauðst jarðar rönd
rauðum dreyra.
234. Svá sem at hleypr
hirðislausum
dýr it óarga
í illum hug
hjörðum geita,
eða hjörðum sauða;
drekkr dreyra
dólgr kvía:
235. Eins rèðst týframr
Týdeifs arfi
á Þraka þjóð

þrúðmóðiga,
uns tólf hafði
í hel komit.
236. En Odysseifr
inn ítrráði
stóð hjá týfrömum
Týdeifs arfa;
hal hvern, er hilmir
hjörvi vá,
þann dró út öfigan
Odysseifr,
dró braut bragna
á björkum ilja.
237. Lèt þat ráð lofðúngr
lofsæll framit,
at faxprúðir hægla
fákar rynni
gegn um guma hrönn,
nè gæti ótta,
er þeir nái
yfir liði;
váru óvanir
valköstum enn.
238. En er týframr
Týdeifs arfi
öðlíng á hitti
iðja-frægan,
þá drap hann þeingil
inn þrettánda,
ok lofðúng lýðsnjallan
af lífi tók.
239. Varpaði öðlíngr
öndu þúngri;
blöskruðu buðlúngi
ballir draumar.
240. Leysti þrautgóðr
þeingill á meðan
Odysseifr
fáka einhæfða;

ρ. X, 487-508.

batt saman ólum,
ok álmi sínum
reiðarbríma
rak úr sveimi.
241. Því at þeingill ei
þess um gætti,
fagra svipu
fremst um nema
kynfögrum úr
kerrustóli;
blístraði buðlúngr,
bendíngu gaf
Díómedesi
inum dáðrakka.

---

242. En öðlíngr beið,
ok um hugsaði,
verk at fremja
firindjarfast:
hvárt hann herkerru
hefja skyldi,
þar er vápn lágu
in ljósfögru.
243. Kerru upp lypta
á kerrustaung,
ok út bera,
öllu valda;
eðr hvárt enn fleiri
öndu skyldi
svipta Þraka
sigrvaldenda.
244. Meðan öðlíngr
um þat gættist,
þá gekk at glóeyg
Ginnregins mær;
nærri stóð niflúngi
naðels Freyja,
ok öðlíng
ávarpaði:

245. „Hygg nú á heimför,
hróðmögr Týdeifs,
Díómedes,
ins dáðum-rakka,
at húfhveldum
hrannar gotum,
attu ei flóttferli
farir heim aptr“.
246. „Óumk, at einnhverr
uppheims-búa
Tróa veki
týfákvalda“.
247. Mælti hún þannig;
en þeingill heyrði,
at gyðju rödd
glymja náði;
steig þá hvatliga
hilmir á fáka,
en Odysseifr
álmi keyrði;
flugu fólkvaldar
á fljótum mörum
at örskreiðum
Akkverja gnoðum.
248. Sat-at til einskis
silfrbogvaldr,
dalar drottinn,
á dólgverði,
þá er hann leit
laufa Freyju
fylgja týfrömum
Týdeifs arfa.
249. Reiðr varð rögnir
reginskeyta
sverða dís,
fór í sveim Tróa,
vakti herfrægan
Hippokóon;
hann var þeingill einn
Þrakíumanna.
250. Sá var frændi
fylkis vegins;
hann reis af svefni,
ok svæði leit
autt, þar er jóar
endr um stóðu,
ímunjóar
iðja-skjótir.
251. Sá hann seggi
særða sprikla
í undroði
eljansváru;
hátt nam at hljóða
hildíngr þá;
kallaði á sinna
sèr um kæran.
252. Reis þá með rekkum
röskum Trója
óp ok undrþyss,
allir at skyndu;
furðaði fárvirki,
er framit höfðu
vegendr, ok vaðit
at víðis hreinum.
253. En er kappar
komu frægir
þángat, er höfðu
Hektors vegit
njósnarmann
naðar eggjum,
254. Þá nam at stöðva
stillir fáka
Odysseifr,
Allföður kærr;
en Týdeifs arfi
týframr stökk

af fákum niðr
á foldar þröm.
255. Fèkk í hendr
hilmir frægr
vápn aldreyrug
Odysseifi,
fór á bak síðan,
fáka keyrði;
en viljugir fákar
fljúga rèðu.
256. Heyrði fyrstr hlym
hófglymjenda
Nestor alfrægr,
ok orð um kvað:
257. „Heyrit mèr, Argverja
æðstir skatar,
fyrirliðar
fölvis þjóða!
Mun ek hègóma
herma einan,
eðr mun ek satt
sagt of geta?“
258. „Býðr hugr mèr
at herma þat:
heyri-k hlym hlymja
(hauðr dunar;
lýstr hljóð hlustir)
hófskúaðra“.
259. „Vilda-k, at ágætr
Odysseifr
ok Díómedes
inn dáðum-rakki
ræki nú skjótliga
reiðarbríma,
jóa einhæfða,
frá ýtum Tróju“.
260. „En ek óttast mjök,
at öðlíngar
hafi tjón beðit

ρ. X, 528-549.

tignir nokkut
af skarkala
skatna Tróju“.
261. Hafði-at hilmir
heilt orð talat,
þá komu karskir
konúngar heim;
stigu styrksælir
á storðar þröm;
en gumar allir
glaðir urðu;
kvöddu hildínga
handabandi,
ok orðum blíðum
báðu heila.
262. Fyrstr þá frètti
fólknárúnga
Nestor, gerenskr
gramr reiðar:
263. „Seg mèr, sjóli,
sómi Akkverja,
lofsæll Odysses,
Laerts arfi,
hve þit um tókut
hesta þessa?
Hvárt hurfut it Tróa
í hersveima?“
264. „Eðr mætti ykkr
uppheims guða
nokkurr, ok skinfaxa
nam ykkr gefa?
Eru iðglíkar
iðja-fögrum
mylens mungeislum
manar þeirra“.
265. „Hefi-k opt Týs leik
við Trójumenn
háð hermiligan;
nè ek hygg mik kyrran

dvelja at dökkum
drafnar mörum,
en þótt ek gamall
gánga at rómu“.
266. „En jóa slíka
hefk-at ek augum leitt,
nè varr vorðit
vegs um bjartra;
hygg ek því,
at hafi nokkurr
ykkr guð mætt,
ok gefit fáka“.
267. „Því báðum ykkr,
buðlúngar, ann
Seifr, svartblárra
sjóli skýja,
ok in glóeyga
Ginnregins mær,
dóttir Allföður
ægiskjalda“.
268. Annsaði aptr
orðum sjóla
mærr Odysseifr
inn margráðugi:
„Heyr mèr, Nestor
Neleifs arfi,
Akkverja allra
ítr sómi“!
269. „Hægliga má,
ef hugr um býðr,
guð of gefa
gullinfaxa
betri en þessa
bríma reiðar;
eru því ámáttkir
uppheims tívar“.
270. En fákar þessir,
er þú fregnar nú,
konúngr inn aldræni,

ρ. X, 549-569.

eru komnir nýla;
eru þrakneskir
ímunfákar“.
271. „Drap Díómedes
inn dáðum-rakki
eiganda þeirra,
ok ýta tólf
vág hann hans at hlið,
hverjum öðrum
hölda hraustari
at hildar leiki“.
272. „En þrettánda
þegn of vágum
guma njósnanda
hjá græðis dýrum;
sendi Hektor,
sendu Tróar
guma þann
gerst at spæja“.
273. Mælti þat gramr,
ok gröf yfir
einhæfða rak
ímunfáka;
kýmdi kátliga
kostráðigr;
geingu með grami
glaðar sveitir.
274. En er kappar
of komnir váru
at tjaldi traustu
Týdeifs arfa,
þá bundu bragnar
bitilhreina
ólum vel sniðnum
at jötu-stalli.
275. Þar er dólgfákar
Díómedess
váru vegskjótir
vanir at standa;

þar er lèttfetar
ljúffeingt átu
hveitis korn
af hám stalli.
276. En Odysseifr
upp nam heingja
blóðugt böðvarskrúð
á brimdýrs skut;
vápn váru þat
vegins Dólons;
skyldi þat skrúðgjöf
skjóma Freyju.
277. En öðlíngar
í ægis báru
þúngan þrymsveita
þógu gerva;
þógu fætr,
þógu hálsa,
þógu læri
í þekkri lá.
278. En er af hörundi
hafði þeirra
bára látið
líða sveita,
ok er hildíngar
höfðu svalat
hjörtum sínum
af hörðu erfiði:
279. Þá stigu vísar
vel skafin í
laugar-ker,
ok laugast gerðu;
en at búnu því,
þá er buðlúngar
höfðu smurzt viðsmjörs
viðar feiti,
280. Þá settust öðlíngar
at aptans-verði;
jósu iðskært vín
af ítrum skálum;
dreyptu til dýrðar
darra Freyju
fullum af skaptkerum
skírar veigar.

---

ρ. X, 569-579.

# ELLEFTA KVIÐA.

Reis úr rekkju
rósfögr dís
frá mærum Tíþóni,
Morgunskæra,
sú er ófeigum
uppheims goðum
ok feigum ljós færir
foldbyggjöndum.
2. Sendi þá Seifr
at sævar ljónum
Akkverja þráliga
Þrætu-gyðju;
hún ófriðar
illu teikni
hèlt í höndum,
er til hölda sveif.
3. Nam hún staðar
at stórhúfuðum
Odysseifs
ægis hreini;
sá var í miðjum
megin-flota,
svá at hljóð heyrast
mátti á hendr báðar,
4. Bæði til hertjalds
ins herjum-kunna
Aiants, týframs
Telamons arfa;
ok til Akkilless
einnig mátti
þaðan heyrast,
ef hljóðat var.
5. Höfðu þeir skorðat
hrannar gota
yzta allra,
með ímunþjóðum;
ρ. XI, 1-19.

orku treystu
ok afli handa
hamramir hildíngar
herjum-frægir.
6. Stóð þar, ok stórvaxin
streittist við himni,
ægiliga æpandi
ófriðar dís;
jók þrótt þrúðmikinn
þjóðum Akkverja,
afláts án
orrustu drýgja.
7. Þá nam alfrægr
Atreifs mögr
hátt at kalla,
hljóði beita;
bauð böðvar þjóðum
buðlúngr mærr
herváðast harðra til
hildar leika.
8. Bjóst sjóli sjálfr
sigrvaldandi
skærum, skrúðfögrum
Sköglar málmi.
9. Lèt brynhosur
bundit fagrar
fyrstar fylkir
um fótleggi;
váru fóthlífar
fylkis kræktar
silfrspöngum
sólarfögrum.
10. Brá buðlúngr
brynju fagri
ballr yfir brjóst
it böðvarhvelda;

þá hafði blóðleiku
bragníngi endr
Kinýras gefit
til gesta heiðrs.
11. Hafði Kinýras
til Kýpreyjar
frama frèttan
þann inn firinljósa,
at Akkverjar
yfir ægis djúp
vildu týframir
at Trója halda.
12. Því gaf Kinýras
konúngi brynju;
þat var vina-gjöf
vegsamligust.
13. Á váru tvennar fimm
fólka skyrtu
ræmur blakkfjallu
af blástáli,
tólf af iðgljáum
ægis logum,
ok tvennar tíu
af tini gervar.
14. Lágu at hálsi
heiðar laxar
þrír hváru megin
af heiðblá stáli;
váru raun-fiskar
sem regns bogar,
er í skýjum skorðar
skati himna,
merki mæltum hveim
moldbyggjöndum.
15. Varpaði vísir
vitni of herðar,
glóðu gullnaglar
á grindloga;
en umgjörð af silfri
ρ. XI, 20-42.

var at utan lagin,
fetlum gullligum
fest at linda.
16. Tók þá tiggi
törgu víða,
hagla smíðaða,
herjum-þúnga,
fríða ok fagra,
með fimm tvennum
randar baugum
af rauðu eiri.
17. Tíu tvennar
af tini váru
bólur á baugi
bjarthvítastar;
en í miðforni
var miðjum lagin
nöf blakkfjallu
af blástáli.
18. Þar var á skildi
skrýddum hríngdregin
Gorgóns gýgr
in geigvænliga;
velti váliga
vitum hvarma;
á var ok Ótti
ok Eltíng dregin.
19. Var skjaldar fetill
af skíru silfri;
þar nam at slaungvast
snákr af blástáli;
váru hausar þrír
hríngum unduir
vaxnir úr einum
vinduðs hálsi.
20. Brá bóluhjálmi
böðvar skati
fjórbóluðum,
faxi vörðum,

sèr á höfuð;
en yfir hildíngi
iðaði jörmunfax
ægiliga.

21. Tók geira tvá
tiggi síðan,
sterka ok stinna,
stælta eiri,
hvassa herfleina;
en til himins lagði
blossa af málmi
böðvarfránum.

22. Lètu þá Hera
ok hjörva Freyja
dunur dynja
af drögum skýja;
leið leiptra hljóð
til lofðúngs dýrðar,
meiðmasæls mildíngs
Mýkenuborgar.

23. Bauð nú kappi hverr
kerrusveini
sínum at halda
hestum við díki,
ok málfetum
meginskjótum
í röð vandla
rèttri halda.

24. Þustu þá fræknir
fótgaungumenn
á stað, búnir
böðvarklæðum;
reis reginhár
refilvaldöndum
dróttum dólgglaumr
í dagsljósi.

25. Því fótgaunguliðar
fyrri urðu
sèr at fylkja

p. XI, 42-60.

fram við díki;
en riddarar
raunlítt at þat
eptir komu
öldum þeima.

26. Upp lèt þá illan
arfi Kronusar
gný of geysa
með gunnþjóðum;
sendi dagg-dropa
drifna blóði
hátt úr hvelbognum
himna sölum.

27. Því at þá vildi
vísir himna
mörgum ok mætum
til moldar varpa
horskum hetjum
Hadesar til.

28. En Brjáms liðar
búast rèður
hinu megin
á hæð vallar.

29. Váru fyrir vígþjóðum
Víga-Hektor,
ok prúðlyndr
Polýdamant,
ok Eneas,
er ýtar Trójn
virðu, sem væri
vèa nokkurr.

30. Váru Antenors
arfar þrír:
Polýbus, ok ágætr
Agenor,
ok Akamant,
úngr gumi;
hann var guðum
glíkr mærum.

31. Var Hektor fremstr
í fylkíngu;
hafði hilmir skjöld
hríngborðsjafnan.
32. Sem Múspells sía
in meinsamliga
skína frá skýjum
skugga slúngnum;
blikar blossandi,
en brálla aptr
skundar at skuggdimmu
skýja baki:
33. Eins mátti öðlíng
iðrakkan sjá
ýmist með öptustum,
ýmist með fremstum;
eggjaði ýta,
allr ljómaði
bjartbrennanda
böðvarmálmi,
eins ok Allföðar
ægiskjalda
um uppheimslopt
eldr glóir.

---

34. Í líkíng þá,
sem láta vaskir
kornskerumenn
korn um slegit;
gángast gumar
gerva móti;
hlaða hveitis gras
hátt í múga
á auðkýfíngs
eingi frjóvu;
falla málhendr
mundarnær saman:
35. Eins mundu at gángast
ýtar Tróju
ok Akkverjar
ægiliga;
gáðu hvárigir
gumnar flótta,
skaðvænligs
fyrir Sköglar móði.
36. Hèldu halir
herfylkíngum
öllum jafnt,
ekki hopuðu;
en sumir óðu
sem úlfar grimmir,
böðvi brennandum
berserksmóði.
37. Gaman var þá unnit
ófriðar dís,
er hún á horfði
ímunleika;
var hún ein
uppheims tíva
viðstödd, er verar
at vígum geingust.
38. Váru-t aðrir
at vígleikum
uppheims öðlíngar;
alkyrrir sátu
sínum at sölum,
þar sèrhverr bjó,
marghálsuðum á
Ólýmps tindi.
39. Átöldu allir
uppheims sjóla,
svartskýja drottinn,
son Kronusar,
er Tróverjum
tiggi vildi
gagn of veita
at gunnar iðju.
40. Skeytti ei ávítum

ρ. XI, 61-80.

skati goða;
settist allfjarri
öðrum tívum,
megin-munglaðr
mætti himneskum.
41. Sá Tróju til
tíva sjóli,
ok Akkverja,
alvoldugr;
sá á vápnleiptr
ok vígbruna,
sá á vápnbitna
ok vegendr.
42. Meðan lýsti mær
Morginskæra,
ok dagr dýrsigndr
dafna náði:
flugu fleinar
í fylkíngar,
fèllu fyrðar
at fólkroði.
43. En í þat mund,
er mið-degis-verð
maðr býr,
sá er meiða höggr
í fjalldölum
fögrum uppi,
er hann lúinn er
í limum orðinn
af meiðar-höggi,
ok í muna leiðr,
en matlystíng
megna finnr:
44. Í þat mund eggjuðu
aðrir hvára
Danáar hraustir,
ok hreysti sýndu;
riðluðu röðum,
rufu fylkíngar

ρ. XI, 80-101.

óðir iðdreingir
óvina þá.
45. Var Agamemnon
allra fremstr,
drap hann Bíenor,
bragna skata;
ok sinna hans síðan
siklíngr vág,
Öyleif
iðfákvaldan.
46. Hafði Öyleifr
ekit kerru;
stökk ofan, ok stóð
stilli beint móti;
en er hann á fram
æða vildi,
þá enni hans
Agamemnon
darri laust
dólgum-skörpu.
47. Nè hjálmrönd
höfig eiri
lofðúngs lagi
lèt af hrundit;
gekk hjálm gegn um,
ok í gegn um haus;
blandaðist heili
blóði inni.
48. Vág hann þar ver,
er hann vaða hugðist
fram at fólkvígi;
fíra eptir skildi
allvaldr alþjóðar
Agamemnon,
þá er ljómandi
lofðúnga brynjur
sèr á brjóst hafði
hilmir látið.
49. Óð at Isusi

ok Antífusi;
vildi vísir
vega báða;
váru burir Brjáms,
var borinn annarr
í hjúnskap hilmi,
en hinn á laun.
50. Óku báðir
einni kerru;
hèlt jótaumum
óskilgetinn;
en Antífus
inn ágæti
hjástöðu-maðr
at hildi var.
51. Þá hafði eitt sinn
Akkilleifr
vera bundit
víðitágum
á Ídu-fjalls
efstum hálsum,
þá er seggir tveir
sauða gættu;
gaf þeim lausn lofðúngr
fyrir ljósa málma.
52. Laust þá víðlendr
vísir þjóða,
Agamemnon
Atreifs niðr:
annan at geirvörtu,
geiri hvössum
bragníng lagði
í bríngu feigan.
53. En Antífus
at eyra hjó,
ok kastaði
af kerru ofan;
hljóp þá til
ok hali báða

fögrum vápnum
fletta rèði.
54. Þekkti þeingils jóð
þjóðkonúngr;
hafði fyrr um sèð
hjá flaustum skjótum,
er ógn um frár
Akkilleifr
flutti öðlínga
af Ídu-leitum.
55. Í líkíng þá,
er it óarga dýr
hindarkálfa
hægla bítr
ginnstyrkum, grimmum
góma klettum,
ok lífi þeirra
lætr farit.
56. En þótt móðir
mjök sè nærri,
má hún samt eigi
af mætti sínum
hjálp þeim færa,
þótt í helju sè.
57. Því megn skjálfti
móður sjálfa
þegar þrífr;
þýtr óðsliga
um laufrunna
ok lundi þètta;
skyndir ok skyndir
skelfíng um sveitt
undan áhlaupi
óarga dýrs:
58. Svá máttu eigi
ýtar Tróju
öðlíngum forða
við aldrtjóni;
flýðu sjálfir

fölvis reynar
fyrir Argverjum
óttaslegnir.
59. Náði þá ítr
Agamemnon
Písander, ok herglöðum
Hippolokkus;
váru iðkæns arfar
Antímakkuss,
þess er auð of þá
at Alexandri.
60. Þat váru alfagrir
ægis logar;
hann mest móti stóð,
at Menelás
ítra Helenu
aptr feingi.
61. Tók arfa hans
Agamemnon,
vegs um valdr
vísir þjóða;
óku báðir
einni kerru;
hèldu saman
hestum skjótum.
62. Hrukku taumar
úr höndum þeim
glæsiligir,
gerðir hagla;
urðu ýtar
óttaslegnir;
en Atreifs arfi
sem óarga dýr
móti báðum
beimum rèðist.
63. Krupu í kerru
á knè báðir,
báðu Atreifs
arfa frægan:
ρ. XI, 121-142.

64. „Gef okkr líf,
lofðúngr frægr;
muntu ljósa þiggja
lausnar-málma;
er auðr í sölum
Antímakkuss,
fjöld fagrmálma,
föður okkars“.
65. Er þar gulls gnótt
ok glórautt eir,
ísarn eljanþrátt
it iðseiga;
þess mun ái okkarr
ógrynni þèr,
vísir, veita
fyrir veittum griðum,
ef hann okkr lífs
at lagar dýrum
spyrja getr
gumna akkneskra“.
66. Báðu svá báðir
blíðum orðum
buðlúng ok grètu
gramir horskir;
en aptr heyrðu
öðlíngi frá
orð in óblíðu,
eljansváru:
67. „Alls þit erut arfar
Antímakkuss,
döglíngs ins dólgkæna,
þess er dróttum rèði,
Menelás at drepa
á mannþíngi Tróa,
er hann sendiför
með siklíngi fór,
ítrum, iðfrægum
Odysseifi“,
68. „Þá skulut it nú

iðgjöld taka
fyrir rángsleitni
föður ykkars".
69. Þat mælti vísir;
varpaði af kerru
Písander þegar
at þremi storðar;
lagði spjóti
fyrir lofðúngs brjóst,
en hann upp í lopt
til jarðar fèll.
70. Hljóp þá ofan
Hippolokkus;
vág hann jaðarr
á jörðu niðri;
hjó með hjörvi
hendr af guma;
hjó í sundr
háls inn mjúka.
71. Velti svá vísir
vegnum guma
sem sleggju-steini
í sveim gunnar;
lèt svá lofða
liggja fallna;
fór þángat fylkir,
er flestir saman
þyrptust þegnar
at þjóðvígum;
árnuðu aðrir
Akkverjar með.
72. Vágu þar fírar
fótgaungumenn,
þá er undan flýðu
fyr' ofrefli;
riddarar riddara
ræntu fjörvi;
stóð dust-stroka
at stjörnu sali

ρ. XI, 142-162.

upp af vígvelli,
er vekja gerðu
hófglymjandi
hreinar tauma.
73. Vág fíra fjöld
fránum málmi,
elti æ ok æ
Agamemnon,
vísir víðlendr,
vera flýjandi,
ok Argverja
eggja náði.
74. Sem eldr eyðandi
upp um kemr
óhöggnum í
eikar-runnum;
lætr hvirfilvindr
lostið báli
alla um
eikistofna;
falla runnar
frá rótum niðr
fyrir eldgángi
ógurligum:
75. Eins mundu Tróar
fyrir tiggja hníga,
þá er undan flýðu
frægum arfa
Atreifs öðlíngs,
Agamemnoni.
76. En hnarreistir
hestar margir
runnu um herkvíar,
reiðar drógu;
skröltu tómum
Sköglar hvelum;
vantaði karska
kerrusveina.
77. Lágu þeir liðnir

á láðvelli;
hlakkaði hræsvanr
yfir hroðnum ná;
glöddust gammar
af gunnroði
meirr en mætar
menja lindir.

---

78. En Herjafaðir
Hektori barg
undan iðskeytum
ok jarðdusti,
frá valfalli,
vöktum dreyra,
ok frá hildar gný
herjum-svárum.
79. En Atreifs arfi
eptir sókti;
eggjaði ákaft
jöfurr Danáa;
en Brjáms þegnar
um þveran völl
fræknir þustu
at fíkjuhóli;
fóru fram hjá
fylkis aldins
Ílusar haugi,
öðlíngs Dardana.
80. Vildu bragnar
til borgar þjóta;
en Atreifs mögr
eptir fylgdi;
æpti æ ok æ,
en iðsvárar
váru dreyra drifnar
döglíngs hendr.
81. En er til Skæhliða
skatnar komu,
ok ætibjarkar

ρ. XI, 162-180.

Ægiskjalda,
þá námu staðar
stúfsvaldendr;
biðu hvárir öðrum
halir eptir.
82. En sumir enn
óðir flýðu
á naðvelli
sem nautahjarðir,
þær er ljón lætr
um lágnætti
hrakit víðs vegar
um vallar grundu.
83. Er þá einhverjum
öxna þeirra
bani búinn;
en bráðvargr
einn grípr ginnsterkum
góma klettum;
brýtr háls bola
ok blóð drekkr,
ok iðrum öllum
í sik steypir.
84. Svá mundi Atreifs
arfi frægr,
vegs um valdr
vísir þjóða,
elta Brjáms beima,
ok bana vinna
ávallt öðlíngr
öptustum hveim.
85. Flýðu fyrðar
fylki grimman;
fèllu flatir
af fólkreiðum,
ok á grúfu
grund föðmuðu,
fyrir ógnar æði
Atreifs niðja.

86. Fram ok aptr
fylkir dýði
grimmr gunnar flein
geystum móði;
en er skammt átti
öðlíngr til
borgar, ok hárra
borgar múra,
87. Þá steig af himni
Herjafaðir;
leið á lindvarit
leiti Ídu;
hèlt þrumublossa
í þrúðmundum;
sendi sendi-dís
sjóli himna,
Íris, gyðju
gullvængjaða:
88. „Far þú, Íris
in iðja-skjóta,
flyt orð mín Hektori
herjum-frægum:
meðan sèr öðlíngr
Agamemnon,
fylki fólkdjarfan
fölvis þjóða,
er hann fram ferr
með frumherjum,
ok fylkíngar
at foldu leggr“,
89. „Þá skyli Hektor
hörfa undan,
en ýta eggja
til orrustu,
fjandum móti
fólkum-djörfum,
at þeir ímunleik
uppi haldi“.
90. „En er verðr
Agamemnon
fleini lagiðr
eðr fenju lostinn,
þá er fylkir
á fólkhvel stökkr,
þá mun ek Hektori
horskum veita,
ok at manndrápum
mildíng stoða“,
91. „Þar til er þeingill
at þóptustyrkum
ofan kemst
öldu hreinum,
ok sól sígr
sæl í ægi,
ok heilagt rökkr
of hauðr ferr“.
92. Mælti svá vísir
en in vindskjóta
var-at óhlýðin
Íris honum.
Sveif sendi-dís
af svölum tindum
Ídu-fjalls
til Ilíons borgar.
93. Fann hún Brjáms bur
ins böðvísa,
Hektor hróðsælan,
inn herjum-kunna;
stóð uppi fylkir
á fólkhveli,
vel naddaðri
naðels kerru.
94. Staðar nam gyðja
stilli nærri,
ok orðum þeima
yppa náði:
95. „Hektor, herfrægr
hróðmögr Brjáms!

jafn í ráðum
jöfri himna!
Sendi mik til þín
sjóli goða,
at ek flyttak þèr
fyrirsögn hans:“
96. „Meðan þú, öðlíngr,
sèr Agamemnon,
fylki fólkdjarfan
fölvis þjóða,
er hann fram ferr
með frumherjum,
ok fylkíngar
at foldu leggr,“
97. „Þá skaltu, hilmir,
hörfa undan,
en ýta eggja
til orrustu
fjandum móti
fólkum-djörfum,
at þeir ímunleik
uppi haldi“.
98. „En er verðr
Agamemnon
fleini lagiðr
eðr fenju lostinn,
þá er fylkir
á fólkhvel stökkr,
þá mun hann þèr,
þeingill veita,
ok at manndrápum
mjök þik stoða“,
99. „Þar til er þú
at þóptustyrkum
ofan kemst
öldu hreinum,
ok sól sígr
sæl í ægi,
ok heilagt rökkr
of hauðr ferr“.
100. Mælti svá Íris
in iðja-skjóta,
ok brautu sveif
frá buðlúngi.
Stökk þegar stillir
á storðar þröm
af hveldri reið
í herklæðum.
101. Veifði vísir
vigrum hvössum;
óð ægiliga
um allan her;
eggjaði ýta
at eimnis leiki,
valglaum váligan
vekja náði.
102. Snèrust þá skjótt við
sveitir Tróa,
ok við Akkverjum
öndverðar stóðu,
en Akkverjar
ýtum móti
fylkíngar remmdu
fólkum-djarfar.
103. Festist orrusta,
er fírar stóðu
öndverðir beggja
böðvar-sveima;
óð fremstr öðlíngr
Agamemnon,
vildi fyrstr vera
at vígleikum.

---

104. Segit nú, svásar, mèr,
saungva dísir,
þèr er Ólýmps byggit
aðalsali:
hverr fyrstr gekk

fylki móti
Agamemnoni
Atreifs niðja?
Var þat af Tróum?
Var þat af liðsmönnum?
105. Þat var Ífídamant
Antenors son,
hraustr ok mikill
hildar skati,
sá er í Þrakíu
þrúðblómgvaðri
upp um ólst,
eiðu sauða.
106. Kisses hann ól
at auðsölum,
meðan úngr var
ítr gumi;
sá var mildíngs
móðurfaðir,
ái þekkfríðrar
Þeanóar.
107. En er frumvaxta
var fylkir vorðinn,
alskrýddr iðljósum
æsku blóma,
þá hèlt hilmir
hjá sèr guma,
gaf honum dýra
dóttur sína.
108. En er kvángazt
kappi hafði,
þá hann of för
frètti Argverja;
fór buðlúngr
úr brúðar sal;
hafði flaust tólf
til herfarar.
109. Lèt jafnbyrðar
eptir gnoðir

at Perkótu
prúðr skati;
fór fótgángandi
fylkir sjálfr
iðja-ramrar til
Ilíons borgar.
110. Gekk hann mót alfrægum
Atreifs megi,
allvaldi alþjóðar,
Agamemnoni.
111. En er nær geingust
naðels boðar,
þá missti lags
mögr Atreifs;
gekk geirr stinnr
fyrir guma utan;
en ólmr lagði
Ífídamant
í bryngyrðil,
fyrir brynju neðan,
ok lagi fylgdi
fast með mundu.
112. Gekk-a þó geirr
gegn um brynbelti
fylkis frægs
it fólkum-kvika;
bognaði broddr,
sem blý væri,
þá er sólfagrs
silfrs kenndi.
113. Tók geir tiggi
traustri mundu,
allvaldr alþjóðar
Agamemnon;
dró til sín döglíngr
darr af skata,
var drifinn dólgmóði,
sem dýr it óarga.
114. Dró döglíngr

ρ. XI, 219-240.

darr úr hendi,
hjó á háls
hilmi fræknum;
skall at grundu
skarar klettr;
sè mækis mók
fyrir mildíngs augu.
115. Hneig þar fyrir vísi
vesall gumi,
er hann Brjáms
borg nam stoða,
allfjarri ágætri
eiginrúnu;
hafði nè unað
af horsku sprundi,
þótt henni meiðma
mjök um gæfi.
116. Henni gaf hundrað fyrst
hilmir nauta,
hèt síðarr þúsund
sauða ok geita;
átti fjárhjarðir
fylkir stórar.
117. Fletti hann hervápnum
hilmir þar
Agamemnon,
Atreifs niðr;
bar böðvar skrúð
it bjartfáða
inn í Akkverja
ímunsveima.
118. Leit þá Kóon
lýðum-frægr,
Antenors arfi
eldri getinn,
fyrir vísi váligum
veginn blóða,
ok fallinn frænda
á foldar þröm.
ρ. XI, 240-259.

119. Dró harma ský
fyrir döglíngs augu,
er hann liðinn leit
ljúfan sifa;
stóð með darr
at döglíngs hlið,
Agamemnons;
vissi-t öðlíngr.
120. Lagði hilmi hann
í handlegg miðjan,
fyrir olnboga
fylkis neðan;
gekk geirs oddr
gegn um vöðva;
hvarf hvass út
um hlið aðra.
121. Skelfdist þá alfrægr
Agamemnon,
vegs um valdr
vísir þjóða;
hætti þó eigi
hildar starfi,
nè upp gafst
at ímunleiki.
122. Óð at Kóoni
æstum móði;
hafði vindstæltan
vigr í hendi;
dró þá Kóon
kæran blóða,
sifa samfeðra,
í sigglaumi.
123. Hèlt í fylkis fót,
ok fram ruddist;
hèt á hraustasta
til hjálpar sèr;
en er hann döglíng
dró í sveimi

baugnöfuðum
baugi undir:
124. Þá hjó hann öðlíngr
Agamemnon,
lèt lèmagna
limu gerða;
hjó eirvigri
höfuð af skata,
ofan á ágætum
Ífídamant.
125. Biðu svá bana
burir Antenors
fyrir öðlíngi
Atreifi bornum;
svifu valfallnir
vísar þannig
heldimma niðr á
Hadesar grund.
126. Óð nú öðlíngr
Agamemnon
gegn um gjörvallar
gumna sveitir;
vigri veifaði,
vitni dýði,
stórum vápnsteinum
stillir varpaði.
127. Þat framdi þeingill,
meðan þusti dreyri
ok varmr úr váligri
veltist undu;
en er sárs storkna
sveiti náði,
ok blóðrás
bægjast mundi,
þá Atreifs arfi
eljansvárra
sárverkja kenndi,
er sefa stúngu.
128. Eins ok jóðsjúk
armbaugs þella
skelfíngar sárra
skeyta kennir,
þau er hvöss láta
Lausnar-gyðjur
hrund of sent,
þærs hríðir vekja.
129. Þær eru himneskrar
Heru dætur;
valda jóðhríðum,
verki um færa:
eins Atreifs arfi
eljansvárra
sárverkja kenndi,
er sefa stúngu.
130. Stökk þá fylkir
á fólkreið upp,
ok fremst of bauð
fólkhvels stýri,
til húfhveldra
hrannar gota
niðr aka
frá naðeli.
131. Því þúngi seig
á þeingils hjarta;
kallaði þá hávum
konúngr rómi,
svá at Danáar
til döglíngs heyrðu:
132. „Heyrit, Argverja
jöfrar snjallir,
fólkstjórar frægir,
ok fyrirliðar!
verjit nú haffæra
hrannar gota
fyrir feiknæði
fjanda várra;
því at ráðvíss ræsir
ragna mèr

leyfir-a darr dýja
of dag gerstan“.
133. Mælti svá konúngr;
en kerrustýrir
á fram keyrði
jóa faxprúða;
hèlt at húfhveldum
hrannar gotum;
flugu viljugir
fákar skjótir.
134. Freyddu flugsveita
firinbríngur;
sveipuðust sandryki
sleipna fætr,
þá er þyrjandi
þeingil sáran
dröslar drógu
frá dunum sverða.

---

135. En er Hektor
herfrægr sá
fylki farinn
or fólkvígum,
þá Tróa til
tiggi kallaði
ok Lýkíumanna
lýðum-frægr:
136. „Tróar ok Lýkverjar,
liðar snjallir,
ok Dardanar, horskir
í höggorrustu!
Verit vaskir nú,
vígmóð drýgit;
beitið böðsvárum
berserksmóði!“
137. „Farinn er fylkir
fræknastr á brautu;
hefir Seifr mèr
svásan gefit,

p. XI, 278-297.

Kronusar arfi,
kynja-heiðr“.
138. „Hleypit nú jóm
einhæfðum fram
móti Danáum
meginhraustum,
at èr enn meiri
öðlazt getið
frægð ok frama
af fólkvígum“.
139. Mælti svá mildíngr,
móð nam at drýgja
hverjum hal
ok hugrekki.
140. Sem veiðimaðr
vaskr lætr
hundum hvíttenntum
á hrinni att,
grimman dólg drótta,
eðr dýr it óarga:
141. Eins nam Hektor
etja Tróum,
Brjáms burr,
böðvarmóðgum
Akkverjum móti;
var mannskæðum
Aresi glíkr
öðlíngr þá.
142. Gekk sjálfr gramr
í gunnar móði,
fremstr feiknefldr
fíra hverra;
geysaði geigvænum
at glym sverða,
eins ok vindbylr
vilgi hægr
fellr á feikndimma
fjarðar báru,

ok upp æsir
Ægis brúðir.
143. Hvern drap þar Hektor,
hróðmögr Brjáms,
fyrstan ok fremstan
með fólkþjóðum?
Hvern vág hann hinnstan,
er honum heiðr veitti
sjóli sigtíva
at sverða glaumi?
144. Vág fyrst Áseif
aldar skati,
Átonóus
ok Opítes;
Dólops, kon
Klýtíusar;
Agelás
ok Ofeltíus.
145. Esýmnus ok Órus
öðlíngr vág,
ok Hipponóus
inn herjum-glaða.
Felldi Danáa
döglínga þá
sjóli, en síðan
rèðst á sveitmúga.
146. Sem brautu veltir
vestanstormr
skýjum snæhvítum
sunnan-anda,
ok megnt móti
mökkum rekr
ofsa-veðr
ok vindbyli;
147. Veltist þá alda
óðum fjölda
dimm ok digr,
en driptfroða
sveiphörðum stormi
ρ. XI, 298-318.

svífr undan,
fýkr feiknbarin
firinbrautir:
148. Eins hrundu hrönnum
at hauðrs þremi
skarar fjöll
fyrir skata brandi.

---

149. Hefði þar eymdir
ægar risit,
ok bótlaust böl
brögnum vorðit,
hefðu þar Akkverjar
undan flúit
húfhveldum at
hrannar dýrum,
ef eigi hefði
Odysseifr
kallat til dáðrakks
Díómedess:
150. „Hví vèr, Týdeifsson
tiginn, gleymum
böðvi brimþrúngnum
berserksmóði?
Hverf hinnig, kæri,
ok at hlið mèr statt;
mun oss ámæli
illt um skapast,
ef Hektor nær
hrannar gotum“.
151. Aptr annsaði
orðum sjóla
Díómedes
inn dáðum-rakki:
„Hèr vil ek bíða,
hèr vil ek dvelja;
mun oss skemmtun skömm
at skálmar dyn,
er sjóli svartskýja

Seifr veitir
Trójumönnum afl
oss um framarr“.
152. Mælti svá lofðúngr;
lagði vigri
á þýmbreusi,
þeingli hraustum;
kom í geirvörtu
grams ina vinstri;
steypti honum stillir
til storðar af kerru.
153. En Odysseifr
öðlíngs þess
kerrusvein
knár nam vega;
þat var Molíon,
mætr halr.
154. Gerðu gramir þá
garpa óvíga;
lètu á láðvelli
liggja síðan;
geingu gunntamir
í glym sverða,
svá sem geltir tveir,
er á garma veiða
ólmir ráðast
æstum móði.
155. Eins snèrust sigprúðir
siklíngar við,
ok Brjáms beimum
bana unnu.
En Akkverjar
undan Hektori
frömum flýjandi
fegnir urðu,
er þeir mæði
máttu varpa.
156. Tók þar dáðrakkr
Díómedes
ok Odysseifr
eina kerru,
ok í kerru
kappa fræga,
bragna bezta
með böðþjóðum;
þat váru mærir
Merops arfar,
Perkótu frá,
ins prúðlundaða.
157. Var Merops
moldbúanda
gæddr allra mest
mærri spávísi;
nè niflúngr
niðum leyfði
at morðsvárum gánga
mækis leiki.
158. En þeir hilmi
hlýða gerðu-t,
hèldu heldr at
hjörva dunum;
því feigðar n-ornir
ferligar knúðu
hildínga horska
á heljar þröm.
159. Þá Týdeifs arfi
tírspjótvaldr
fólkskrúði fletti,
ok fjörvi rænti.
En Hippódamus
ok Hýperokkus
Odysseifr drap
inn ítrráði.
160. Leit nú lofðúngr
lýða ok tíva,
Kronusar arfi,
af Ídu tindi;
lèt víg jöfn

ρ. XI, 318-337.

með virðum búin,
drápu þá hvárir
dreingir aðra.
161. Þá lagði týframr
Týdeifs arfi,
Agastrófus
arfa Peons
mæran, málmtaman
í mjöðm darri;
nè málfetar
mildíngs váru
nær, at forðast
fylkir knætti.
162. Þat var verk váligt,
ok vilgi tryggt
glappaverk guma
af glópsku framit,
er sveinn fylkis
fáka geymdi
lángt frá lýðmorði,
láðvelli á.
163. Þá nam öðlíngr
ólmr þjóta,
fótum frár beitti
of frumherja,
uns illr sè
aldrtila
deyjanda dúr
fyrir döglíngs augu.
164. En Hektor hjálmkvikr
at herflokkum
skjótt mundi skynja
skata grimma;
hljóp mót hildíngum,
hátt kallaði,
fylgdu fylki
flokkar Tróa.
165. Skelfdist þá döglíngr
Díómedes
inn málrómsterki,
er hann mildíng leit;
kvaddi þá orðum
Odysseif
nærri standanda
naðels boði:
166. „Veðr þar vágestr,
Víga-Hektor,
okkr móti
aukinn remi;
skulum nú standa,
stillis bíða,
váligum verjast
vísi þeima“.
167. Þat mælti lofðúngr
ok laungu darri
vígtrylldr veifði,
varpaði af hendi;
hæfði skati,
nè skeika mundi,
rètt á ræsis
reikar stalla.
168. Kom í öðlíngs hjálm
ofanverðan;
hrökk eir af eiri,
æva festist,
nè í fagrt fló
fylkis hörund.
169. Því hjálmr hlífði
horfinn földum
þrem þrúðhveldr,
þann er veitt hafði
Febus fylki
fyrr Apollon.
170. En Hektor aptr
hlaupa náði
frár feikna-lángt,
flokkum blèndst;
fèll á knè fylkir,

ρ. XI, 337-355.

studdi fold mundu;
dró nótt ok nið
fyrir niflúngs augu.
171. En meðan týframr
Týdeifs niðr
hljóp eptir fleini
í fold sokknum,
fór of frumherja,
þars flogit hafði
darr dynvarpat
úr döglíngs mundu:
172. Þá nam af höfga
Hektor rísa,
ok á rómu reið
ramr stökkva;
hleypti í herflokka,
ok herfrægr
brauzt undan blakkfjallri
Bana-gyðju.
173. En Díómedes
inn darrstyrki
á fram óð með flein,
orð um mælti:
174. „Hefir þú nú aptr,
hundr, flúit
napran níðdauða,
þótt þèr nær veri!
En nú hefir þèr
hjálp of veitta
Febus Apollon,
örva drottinn“.
175. „Muntu á mildíng
máttigan þann
vanr at heita
at vigra dunum;
skal ek þó síðan
þik sefa ræna,
ef ek, hilmir, þik
hitta nái“.
ρ. XI, 355-376.

176. „Því at víst vænti-k,
at verði nokkurr
tíva til
mèr tignar unna;
nú-mun ek árna
öðrum móti,
hvern sem ek hölda
hitta nái“.
177. Mælti hann svá;
ok málmfrægan
Peons nið fletti
fólka skrúði.
En Alexander,
ítr bóndi
Helenu haddfagrar
hrunda prýði:
178. Hann boga benda
bjúgan náði
Týdeifs arfa mót,
tiggja þjóða.
Stóð upp við súlu
á stillis haugi,
þann er drótt of hlóð
Dardanúngi
Ílusi áðr,
öldnum grami.
179. Dró hann upp dal;
en Díómedes
brynju af brjósti
böðkvika tók
Agastrofuss
ins iðrama,
skjöld af herðum,
ok hjálm styrkan.
180. Lèt Brjáms niðr
bogarifi
snarliga snúit
svárum móði;
nè hremsa hvarf

úr hilmis mundu
afli afrenndri
til ónýtis.
181. Gekk gögnflaug
í grams ristu
á ilja trè
öðlíngs hægra;
hljóp hvatt gegn um
ok í hauðri stóð.
182. Hló þá dátt döglíngr,
ok úr dólgfylgsni
fram nam at feta
fljótu stigi;
hrósaði happi,
hróðigr mælti
mildíng mæran við
af munni orð:
183. „Lostinn ertu nú;
leið-at hremsa
ónýt af álmi;
en ek æskja mundak,
attu lostinn
í lægstan nára
látizt hefðir,
ok lífi týnt“.
184. „Þat mundi ramar
hafa raunir lètt
Trójumanna
týfákvaldra;
þeir þik óttast,
sem óarga dýr
hræðast kumrandi
kiðlínga mæðr“.
185. Nè þá skelfdist
skati ramr
Týdeifs arfi,
en orð um kvað:
186. „Bogsveigir blauðr,
brakmálgastr,
hornum hlóandi
hrunda glópr!
ef þú mèr á mót
málma reyndir,
dyggði-a þèr álmr
nè örvar tíðar“.
187. „En þú, halr, nú
hróðigr geipar,
er þú skeindir mik
á skúa hlyni;
hirði-k þat eigi,
var sem hrínga selja
beysti mik,
eðr barn óvita;
því at aflvani
er oddr sendr
vettugis verðu
af vesalmenni“.
188. „Öðruvís er þat,
er ek öru senda,
ok þótt lítið eitt
ljósta nái;
hvöss verðr hremsa,
ok of hjarta dregr
lostins guma
grímu dauða“.
189. „En hans víf
fyrir veslum harmi
bleikar ber
ok blóðgar kinnar;
þá eru svipt
sínum föður
börn mállítil
munaðarlaus“.
190. „En hann fúnar
á foldar þremi,
ok storð rýðr
rauðum dreyra;
fleiri eru vargar

þ. XI, 376-395.

of fölvan ná,
en konur kinnfagrar
kappa at gráta".
191. Mælti hann svá;
en til mildíngs gekk
iðfrægr, ágætr
Odysseifr;
stóð frammi fyrir
fylki sárum;
en at baki
buðlúngs settist
dáðmögr Týdeifs,
Díómedes.
192. Dró Odysseifr
öru skjóta
fæti úr
fólkvaldanda;
en sársauki
svárr nam rísa,
ok hold hilmis
hrífa gerva.
193. Stökk stórráðr
stillir á reið,
ok knáum bauð
kerrusveini
halda til hveldra
hrannar dýra,
því í brjósti bjó
ballr harmr.

---

194. Var nú iðfrægr
Odysseifr
einn eptir orðinn,
ok eingi beið
Akkverja ítrum
hjá öðlíngi,
því at ótti hafði
alla hrifit.
195. Stundi þá stillir
styrkr, ok sína
öndu hugstóra
ávarpaði:
196. „Áví, hvat man nú
um mik verða!
illt er ok ósætt,
ef ek undan flý
fældr af fjölda;
en fremst of verra,
ef mèr einum ná
óvinir hèr".
197. „Hefir því Kronusson
hinum snúit
dýrstr á flótta
Danáa þjóðum.
En hví mèr þetta
í hugar fylgsnum
hvarfla gerir
á hliðar ýmsar?"
198. „Veit ek þó víst,
at veslir einir
fólk um flýja
frægðarlausir;
en sá, er hreysti
at hildi neytir,
styrkr ok stöðigr
standa hlýtr,
hvárt sem sár bíðr,
eðr sár um veitir".
199. Meðan hreifði í hug
ok hjarta prúðu
hugsun þessi
horskr skati,
komu skálmramir
skjaldar hlynir
Tróa at tiggja
tírarfrömum;
hríng um slógu
hilmi kríngdu,

ρ. XI, 395-413.

höfðu milli sín
meginfjanda.
200. Sem þá er úngir
árar veiða
ok garmar of gölt
grimman þjóta,
er hann út úr þrammar
þèttum runna;
brýnir snæhvíta
brodda góma
í skábeygðum
skolti sínum.
201. En gölt kríng um
gerst þeir æða;
heyrast þá skellir
af hrinnis tönnum;
en þeir æ ok æ
allir hika;
váligr valbassi
virða skelfir.
202. Þannig þutu
þegnar Tróju
kríng um Odysseif,
Allföður vin;
en hann fyrst til hljóp,
ok hörðum vigri
dáðrakkan særði
Deíópítes,
kom lag á öxl
ofanverða;
vág Þóon á eptir
ok Ennómus.
203. Knýði síðan
Kersídamant,
er hann ofan hljóp
af herkerru;
lagði und böðskýli
baugnafaðan;
kom lag í kvið
kappa mærum.
204. Fèll þar gumi,
ok foldar svörð
liðinn lófa greip;
en lofðúngr
lèt þá eptir
liggja fallna,
ok kesju lagði
á Karopi
Hippasus-syni,
horskum blóða
Sókuss, ættgöfigs
eimnis reynis.
205. Þá kom at Sókus,
sigtívum glíkr,
vildi helzt hjálpa
horskum blóða;
nærri standandi
niflúngi þá
orðum yppti
ullr branda:
206. „Lofsæll öðlíngr
Odysseifr,
meginþrautgóðr,
margráðigr!
annathvárt skaltu,
skati, í dag
hróðigr herma,
at hafir vegit
Hippasuss slíka
hróðmegi tvá,
ok þá vápnum flett
at foldu lagða“,
207. „Eðr ok lagðr
lensu minni
muntu illan bíða
aldrtila“.
208. Mælti hann svá,

ok í mildíngs lagði
hlíf hugdjarfr,
hríngborðsjafna;
gekk geirr stinnr
gegn um törgu
eiri eflda,
ítrfáða;
brauzt gegn um brynju
bragníngs fagra,
hagliga gerva,
herfleins oddr.
209. Flettu fleins
af fylkis síðu
holdi hvervetna
harðar eggjar;
nè þó prúðmáttig
Pallas Aþena
oddi leyfði
iðrum at granda.
210. Skildi þá iðfrægr
Odysseifr,
at sèr ei bani
þá búinn var;
hopaði aptr,
ok horskan kvaddi
Sókus öðlíngr
orðum þeima:
211. „Heyr, vesall verr,
víst er þèr nú
bani bráðr
búinn hèðra.
Hefir þú at vísu
mik heptan látið
töru frá
gegn Trója lýðum“.
212. „Víst muntu, döglíngr,
á degi þeima
aldrtila
illan bíða,
ok dauða dís
dökkva faðma
liðinn ok lagðr
lensu minni“.
213. „Mèr mantu háva
herfrægð veita,
vísir, veginn
vigri mínum;
en öndu þína
mantu, öðlíngr,
Hadesi gefa
inum hestfræga“.
214. Mælti svá öðlíngr;
en aptr snèri
Sókus á flótta
undan fárbjóði:
laust hann lofðúngr
laungum fleini,
er hann snúa rèð
undan siklíngi;
hljóp darr flogit
herða milli,
ok út um aptr
öðlíngs bríngu.
215. Fèll dólgr niðr;
fold við dundi;
hrósaði ágætr
hilmir sigri
Odysseifr,
ok orð um kvað:
216. „Sókus, hróðmögr
ins herkæna
Hippasuss, ráðvalds
reiðarbríma,
fyr nam þik endimark
aldrtila,
en þú flúit þat
fremst um gætir“.
217. „Vesall, hjörveginn

ρ. XI, 434-452.

Heljar sinni!
mun-at faðir þinn
nè móðir lykja
augum þínum
at efstum degi“.
218. „Heldr man hráæt
hræfugla fjöld
dauðan þik draga
á dýra sævi;
þeir munu þèttum
þinn í kríng um
vængjum veifa
valfallinn ná“.
219. „En er ek sjálfr
aldrtila
bíða fæ
at fjörvi liðnu,
þá munu Akkear
útför mína
háleitum Heljar
heiðri sæma“.
220. Svá mælti sjóli;
ok Sókuss þegar
dör dynstinnan
ins dólgvísa
út úr holdi
heimta náði,
ok úr böðskýli
baugnöfuðum.
221. En er vigr
út var dreginn,
dundi fram dreyri,
hryggðist döglíngr;
en þá er Tróar
tírhugaðir
und litu fossa
Odysseifi:
222. Þá allir öðlíngi
æddu móti;

·þ. XI, 452-470.

æptust at allir
ímun at drýgja;
en aptr á bak
Odysseifr
vèk, ok kallaði
á knía sína.
223. Kallaði þrívegis
þeingill frægr,
svá sem hljóð kunni
höfuð at fánga;
heyrði þrívegis
hilmi kallanda
Menelás, ástvinr
orrustu-guðs.
224. Mælti þá Menelás
málrómsterkr
við nýtan Aiant,
er í námunda stóð:
225. „Aiant, seifborinn
sjóli þjóða,
týframr, tírvaldr
Telamons arfi!
bar mèr at hlustum
hljóð frá skata,
þrautgóðum, iðfrægum
Odysseifi“.
226. „Var ræsis
rödd at heyra,
sem einan sèr
hefðu af kvíat
Tróar at hörðum
tyrfíngs leiki,
ok atsókn harða
gerðu öðlíngi“.
227. „Skulum nú árna
at sköfnúngs þjóðum,
því at betra man
beimi at duga;
óttast ek,

at eitthvat verði
þeingli þúngt
þannig einum;
hraustr er hilmir,
hygg ek, at sakni
döglíngs Danáar,
ef fyr' dólgum hnígr".
228. Innti svá öðlíngr,
ok á undan gekk;
en goðum glíkr
gumi fylgdi;
hittu Odysseif,
Allföður vin;
stóðu Tróverjar
tiggja kríng um.
229. Sóktu at ræsi,
sem refbræðr
rauðir at sækja
á riðum bjarga
hirti hyrndum,
þann er hefir særðan
beimr bösl
af boga sendri.
230. Hefir hjörtr
hal um flúit
fótum fráni
yfir foldar þröm,
meðan duraþró
dreyri vermir,
ok limir hreifast
at hlaupi mega.
231. En er skjót ör
hefir eikþyrni
á knè komit
ok knúð at falli,
þá hráætir
rífa hvervetna
refbræðr hann
á reginfjöllum,

ρ. XI, 470-487.

í meiða
myrkum runna.
232. Vísar þá þinnig
vèa nokkurr
dýri óarga
dreyra-gráðigu;
stökkva þá refbræðr
stórum hræddir
vegu víða,
tekr vargr bráð.
233. Eins mundu Tróar
at tiggja sækja,
margir ok magnstyrkir
mímúngs reynar;
sóktu at ágætum
Odysseifi,
þeingli morðkænum
margráðigum.
234. En knár kappi
knátti æða,
ok dag efstan
draga mundi;
veifaði vigri
vísir í mundu;
bægði illum frá
aldrtila.
235. At gekk þá Aiant
inn ógnrami,
hafði törgu,
sem turn væri;
nam til hliðar
hilmir staðar,
en fjandr víðs vegar
flýja náðu.
236. Leiddi þá Odysseif
lofðúngr mærr
Menelás, vinr
mímúngs tíva;
leiddi úr fjölda,

hèlt í lofðúngs hendi,
þar til þegn rak
þángat jóa.

---

237. Óð nú Aiant
at ýtum Tróju;
vág Dorýklus,
döglíngi Brjámi
alinn arfa
óskilgetinn.
238. Hjó síðan Pandokus,
prúðan skata,
Lýsander, Pýrasus
ok Pýlartes.
239. Sem þá bjargstraumr
bakkafullr,
æstr Allföður
uppheims skúrum,
reginhám
af riðum fjalla
til slèttlendis
svífa náir.
240. Flytr allmargar
eikr þurrar,
ok tyrvitjám
traustum veldr;
flytr leir blautan,
úr bjöð ausinn,
hart at hyldjúpum
humra leiðum:
241. Eins mundi Aiant
ítrfrægr
of allan völl
ólmr þjóta;
tvístraði týframr
töru sveitum;
hesta hjó
ok hali sundr.
242. Nè þat hjálmkvikr
Hektor vissi;
en hann eggjar blár
bera knátti
vinstra megin
at vígum öllum,
skrúðgrænum bökkum
Skamandrs á.
243. Þars flestir fèllu
at fólkroði,
ok alda óp
óvæg glumdu
niflúng naðstyrkan
Nestor kríng um,
ok ímunkænan
Ídomeneif,
244. Þar gekk Hektor
at herleiki;
firinverk framdi
at fólkþíngi;
fleini veifði,
fáka neytti,
rauf fylkíngar
rekka knárra.
245. Hefðu þó eigi
Akkverjar þar
stöðu breytt,
nè styrkir hopat,
ef at eigi
Alexander,
haddfagrar Helenu
horskr bóndi,
hefði Makáoni
meinat víga,
þar er hart fram gekk
hölda stýrir.
246. Skaut hann þríyddri
at skata hremsu,
í öxl hægri;
en hugum-stóra

ρ. XI, 488-508.

Akkverja ótti
allmikill greip,
at Tróverjar
á tiggja ynnu,
ef hildr á hali
hallast tæki.
247. Mælti þá ágætr
Ídomeneifr
niflúng Nestor
naðkænan við:
248. „Nestor, nýtr
Neleifs arfi,
Akkverja allra
ítr sómi!
stíg á reið þína,
ræsir, ok lát
Makáon mæran
með þèr fara“.
249. „Jóm einhæfðum
til öldu-hreina
haltu, hilmir,
it hvatligasta;
því at læknir
lofða margra
ígildi er,
ok öðrum veitir“.
250. Mælti hann svá;
en mildíngi hlýddi
Nestor, gerenskr
gramr reiðar.
Fór með mildíngi
Makáon frægr,
ágætr læknis burr
Asklepíuss.
251. Snart hann svipu
silfrtoppa;
flugu ólatir
eldar reiðar
húfhveldum at

p. XI, 508-531.

hrannar gotum,
vildu því þángat
þreyta fúsir.

---

252. Sá nú karskr
Kebríones,
sá er á hveli stóð
at Hektori,
sá at Brjáms fírar
felmtr gátu;
mælti þá við mildíng,
máli hreifði:
253. „Hèr stöndum vit, Hektor,
ok hildi drýgjum
Danáum móti;
erum at dólgi yztu;
en aðrir riðlast
ýtar Tróju;
fákar ok fyrðar
flæktir hvarfla“.
254. „Eltir þá Aiant,
arfi Telamons;
kenni-k vel kappa
kynjaraman:
hefir á herðum
hlæbarð víðan“.
255. „Skulum nú skinföxum
skeiðfrám halda,
ok herkerrum
at hjörva glym,
þar er fákvaldar
ok fótgaungumenn
illan æsa
ófriðar gný,
þar er þeir vegast,
ok víga-stunur
hæstar hvarfla
at himni víðum“.
256. Mælti hann svá,

ok málfeta
einhæfða snjallri
svipu beysti;
heyrðu hástigar
hvin ríðanda:
knýðu hvatliga
kerru skjóta
Akkverja til
ok ýta Trója.
257. Tráðu nái
ok törgur víðar;
varð hvelmöndull
undir herkerru
hvervetna drifinn
dreyra rauðum,
ok kerru-bogar
kríng um reiðarstól
drifnir blóðdropum,
þeim er drösla hófar
hreyttu hátt í lopt,
ok hjólrandir.
258. Lángaði Hektor
hölda meingi
í at æða
ok afli rjúfa;
hleypti hergný
hvumleiðum þá
í Danáa sveit;
þá var döglíngs vigri
lítil hvíld lánuð
at leiki trylldum.
259. Óð öðlíngr
annarra þá
fram um fylkíngar
fölvis reyna:
með grami ok með geiri
gunntamr vág,
ok með vápnsteinum
vilgi smáum;

ρ. XI, 531-554.

en fylkir forðaðist
fölvi at reyna
týframan Aiant við,
Telamons arfa.
260. En Aianti
öndugis-guð
faðir Seifr
á flótta snèri:
stóð agndofa
stillir, ok törgu
sjöbyrðri varpaði
sèr á herðar.
261. Gaut yfir garpa
glóðum hvarma
dýri glíkr,
ok daufliga stè
fótum fram,
festi sjónir
æ ok æ
aptr fyrir sik.
262. Eins ok dumbrautt
dýr it óarga
fjárhúsum frá
fyrðar reka
ásamt hundum,
nè hræyargi
feita fá
frenju at rífa;
en gersta grímu
garpar vaka.
263. Girnist kjöt grimmr
gneista fjandi;
geingr fast at,
gerir-a þó vinna,
því at þèttar
þjóta örvar
hörðum höndum frá
honum móti.
264. Ok brennandi

brandar fljúga;
þá hann helzt hræðist,
þótt haldsamr sè;
árnar þá brautu
at ári morguns
aptr ófreskja
í illum hug:
265. Eins mundi tiggi
frá Tróum gánga
Aiant týframr,
óviljugr;
var ángráðr
vísir frægr;
óttaðist fyr' gnoðum
Akkverja lýðs.
266. Var sem asni,
er á akrlendi
árnar, ok úngum
ofbýðr sveinum;
hafa lurkar margir
á letíngja þeim
brotnat börðum,
en hann brjótast náir
inn, ok allhávan
akr brýtr.
267. Lemja smásveinar
með lurkum hann;
er þó afl þeirra
fyr' æsku lítið;
mega varla
af veingi reka,
er hann mettr er
af mungresi:
268. Eins sóktu Tróar
tírargjarnir,
ok lángt at leiddir
liðar þeirra
Aiant iðstóran,
arfa Telamons:
ρ. XI, 554-574.

fylgdu æ ok æ,
ok fleinum lögðu
í skæran skjöld
skjöldúngs miðjan.
269. En ýmist Aiant
á afli tók,
bölgjarnra berserkja
ballum móði:
aptr snèri,
ávallt hepti
fylkíngar Tróa
týfákvaldra.
270. Ýmist feiknramr
á flótta snèri;
en alla hepta
öðlíngr nam,
at þeir ei skjótum
at skipum niðr
halda knætti,
hart þeim at eyða.
271. Sjálfr stóð í miðjum
mímúngs sveimum
hamramr hilmir,
ok hamast náði;
stóð at miðju
milli Tróa
ok Akkverja
eirserkjaðra.
272. Hörðum höndum frá
þutu herfleinar;
þutu á fram æ,
ok í öðlíngs festust
víðum viðbleikni,
en vigra fjöld
flaug í foldar þröm,
fyrr en knætti
hörund it hvíta
hverfa dreyra,

en þótt á grams holdi
girntist at seðjast.
273. En er varð þess varr
vegs um frægr
Evrýpýlus
Evemons son,
at tíðum var
Telamons niðr
þraungvaðr skotum
at skjóma þíngi,
274. Þá gekk ágætr
Aiants til,
ok flein sendi
firingljáan;
hæfði Apísáon,
arfa Fásíuss,
fólka stýri
frægan næsta.
275. Kom skot í lifr
und skata þynd;
hnè örendr
hilmir þegar;
en Evrýpýlus
at nam hlaupa,
ok vápn fletti
af fylkis herðum.
276. En er þat sá
Alexander,
jöfurs arfi
jólnum glíkr,
at hann af tók vápn
Apísáon,
þá nam hann boga
bjúgan draga
ágætum móti
Evrýpýlus.
277. Laust oddr lær
lofðúngs hægra,
en gagnar reyrr
gekk í sundr,
ok verk sáran
vekja náði
í særðu
siklíngs læri.
278. Hopaði þá hilmir
til hölda sinna,
ok fjörvi barg
fyrir Bana-gyðju.
Kallaði kappi,
knúði röddu,
svá at Danáar
dýrir heyrðu:
279. „Heyrit mèr, Argverja
jöfrar snjallir,
fólkstjórar frægir
ok fyrirliðar!
standit nú öndverðir
óvinum mót,
ok Aianti forðit
aldrtila,
því at á öðlíngi
örvar standa“.
280. „Hygg-at ek hilmi
hörðum munu
ógnum örlygi
undan stýra;
en standit nú
stilli kríng um
öndverðir, týframan
Telamons arfa“.
281. Mælti svá ágætr
Evrýpýlus,
siklíngr sárr;
en sverða reynar
nær geingu niflúngi,
námu at halda
skjöldum á hlið,
en sköptum á lopti.

ρ. XI, 574-594.

282. Kom þá Aiant
ýtum móti;
snèrist við siklíngr,
er sinna knáa
hitta hafði
herjum-frægr.
283. Beittu böðþjóðir
bröndum þannig,
sem lèki óðr æ
aldrnari.

---

284. Drógu frá böðvi
bitilhreinar
Neleifs nýtir
Nestor frægan
sveittir úr sóknhörðum
sverða glaumi;
drógu Makáon
mildíng þjóða.
285. Leit hann ógnhvatr
Akkilleifr;
stóð at stálahreins skut
ins stórhúfaða;
sá hann á sorgir,
sá á erfiði,
sá hann á sókn
sollna harmi.
286. Kallaði frá knerri
kappi þegar
á Patróklus,
prúðlyndan vin;
en hann úr búð
til bragníngs heyrði;
gekk út, glíkr
gunnar tíva.
287. Upphaf var þat ógæfu
illrar skata;
mælti þá fyrri
Meníts niðr

ρ. XI, 594-616.

styrkr við stilli,
stillti ræðu:
288. „Hví þú, Akkilleifr,
á mik kallar?
hver er þèr þörf mín,
þeingill frægr?“
289. Aptr annsaði
orðum vinar
fóthvatr öðlíngr
Akkilleifr:
290. „Heyr mèr, inn mæti
Meníts arfi,
hjartkærr mèr
ok hugum-ljúfr;
hygg ek nú Akkverja
alla biðjandi
koma munu
at knjám mínum“.
291. „Því at nauðr nú
njóta rekr;
en far nú, Patróklus
inn prúðhjartaði,
Allföður ástvinr,
ok eptir frètt
Nestor, hvern flytji
frá naðeli
böllu buðlúngr
beystan skeyti“.
292. „Er á bak sjá
beimr líkr
mærum at öllu
Makáoni
Asklepíuss nið;
en ek eigi sák
ásjónu öðlíngs,
því at ákaft runnu
fákar fram hjá mèr
fremst um skjótir“.
293. Svá mælti sjóli;

en sigprúðr
hlýddi Patróklus
hollvinar boði;
fór á stað þegar
at flaustum niðr,
ok herbúðum
Akkverja lýðs.

---

294. En er þeir Makáon
til magar Neleifs
búðar váru
brálla komnir:
stigu siklíngar
á storðar þröm,
mæran moldar svörð
meginfrjóvan.
295. Leysti aldrænn
frá oki jóa
öðlíngs þjónn
Evrýmedon;
en vísar stóðu
í vindgolu
at báru jaðri,
ok blása lètu
svita vaskir
af vátum klæðum.
296. Geingu böðvanir
í búð síðan
lofðúngar, ok settust
á legubekki.
297. En þeim haddfögr
Hekameda
milskudrykk
meinga náði;
hafði hlotið
hilmir aldinn
Tenedus frá
tróðu hrínga.
298. Þat var þann tíð,
p. XI, 616-634.

er þar herjaði
Akkilleifr
ítrfrægr;
hún var hugstórum
hilmi borin
Arsínóus;
en Akkverjar
Nestori gáfu
námdúks hildi
at afnámsfè,
því hann allra var
manna mestr
at meginráðum.
299. Setti hún fyrst
fyrir sjóla fram
bjóð bjartfagrt,
váru blár fætr,
ok slètt skafit
skutils timbr.
300. Setti þá á bjóð
selja hrínga
körf af eiri,
ok knapplauk í,
at hann döglíngar
deila knætti
munveigum með
meginsætum.
301. Lèt bleikt hunáng
hrund því fylgja,
ok heilagt bygg,
hála malit.
302. Setti þar drykkjarker
drós mjök fagrt;
hafði þat heiman
hilmir aldinn;
þat var naddat
nöddum gullnum;
á váru ölkeri
eyru fjögur.

303. Á váru tvær dúfur
eyra hverju,
á hverri hlið,
af hrannar eldi;
en undir fagrir
váru fætr tveir.
304. Mátti óvalinn
álma sveigir
varla veiga skál
valda frá bjóði,
þá er fyllt var;
en fylkir aldinn
þrautlaust nam
þó upp taka.
305. Lèt í vínkeri
vínkers nanna
gyðjum glík
góðan búinn
hræríng af Pramna
prýðiveigum,
ok geitar-ost
í nam skafa
hrund með eirsköfu,
ok hvítu byggi
ógeðsfróa
yfir söri.
306. Þá bauð þekkilig
þeinglum at drekka,
er hún hræríng þann
hafði til búit;
en er drekkandi
döglíngar höfðu
bægt brennanda
báðir þorsta,
307. Þá mál vöktu,
vel sèr skemmtu
annarr annan við,
unað festu.
308. En Patróklus
prúðlundaðr
díum dýrum jafn,
at dyrum stóð;
þá reis upp aldrænn
aldar skati
af fögrum stóli,
er hann frægan leit.
309. Tók í hetju hönd,
hann inn leiddi,
sæti bauð sigfrægum
sèr at velja;
en Patróklus
inn prúðlundaði
síns vegar synjaði,
svá nam at mæla:
310. „Erumk-at, öðlíngr,
alls of stundir,
fóstrsonr Seifs,
sæti at nema;
bjóð mèr ei, buðlúngr,
at bjóði setjast“.
311. „Er ægiligr
ok ávítull
halr sá,
er mik hinnig sendi,
eptir at frètta,
öðlíngr, þik,
hvern þú særðan segg
frá sókn um færðir“.
312. „Má ek sjálfr nú
mildíng kenna;
sèr ek Makáon
mæríng þjóða“.
313. „Nú man ek aptr
til öðlíngs gánga,
ok inna þat
Akkilleifi;
sjálfr veiztu þat,
sjóli inn aldni,

ρ. XI, 634-653.

fóstraðr Seifi,
hve fylkir sjá
ægiligr er,
því hann ávíta mundi
segg saklausan,
ef sefi hvetti".

314. Annsaði aptr
orðum sjóla
Nestor, gerenskr
gramr reiðar:
„Hví svá Akkilles
aumkva náir
sonu Akkverja,
þá er sárir eru
ok lagbeittum
lostnir skeytum?"

315. „Veit eigi vísir,
hve váligr
harmr er risinn
með herþjóðum;
liggja nú hraustastir
hildar jöfrar
skotnir ok höggnir
at skipum niðri".

316. „Skotinn er týframr
Týdeifs arfi,
dáðrakkr döglíngr
Díómedes;
höggvinn er iðfrægr
Odysseifr,
ok allvaldr alþjóðar
Agamemnon".

317. „Flutta-k nýla
niflúng þenna
darra dunum frá
ok dreyrstöfum;
lostinn er hann dynföru,
er af dalar flaug
stríðhertum streing
stilli móti".

318. „En Akkilles
eigi skeytir
horskum Danáum,
þótt hraustr sè,
nè yfir aumkvast
ýta þjáða".

319. „Eðr man hann bíða,
uns báru-hreinar
skjótir eru brenndir
at blám sævi,
fjanda funa,
at fírum nauðgum;
en vèr sjálfir höggnir,
hverr at öðrum".

320. „Er-a mèr nú,
sem mèr áðr var,
afl ok orka
í öldnu holdi.
Væri mèr nú æska,
ok aldrs blómi,
kraptr ok knáleikr
kappsamligr",

321. „Sem þá er áðr
Eleumanna
ok ossra milli
ófriðr hófst
af uxaráni,
er ek ítran vág
Hýperokks arfa
Ítýmoneif,
er heima átti
at Eleaborg".

322. „Rèðst ek þá ránsför í,
ránsbót at fá;
en nýtr gumi
naut sín varði;
skaut ek þá skapti

ρ. XI, 653-675.

at skata frægum,
þars hann fremstr stóð
í flokki sínum“.
323. „Fèll hann til foldar;
flýðu víðs vegar
búandkarlar
brautir jarðar;
en vèr feiknmikit
færa náðum
herfáng harðfeingir
úr hèraði“.
324. „Tókum fimm tigi
flokka nauta,
ok jafnmarga
ofrhyrnínga,
gelti jafnmarga,
ok einnig rákum
hafra hjarðir
hópum jafnmörgum“.
325. „Rákum bleika
brautu jóa
tíu tigi,
tugum fimm betr;
váru merar allt;
ok mörgum fylgdu
fyl bráðvökrum
bitilhreinum“.
326. „Rákum allt þat
inn í ræsis borg,
Pýlus, er Neleifr
nýtr rèði;
komum til borgar
um blakka grímu;
en naðfrægr
Neleifr gladdist,
er ek allmikils
aflat hafðak,
dreingr úngr,
er ek í dólg um gekk“.
ρ. XI, 675-694.

327. „En er mær birtist
Morgunskæra,
hljóðuðu kallarar
hvellum rómi,
at koma skyldu
skatnar allir,
þeirs bætr vildu
búnar sèr láta
í ágætri
Eleaborg“.
328. „Söfnuðust þá Pýlverja
prúðir skatar,
ok milli sín
mundu fè skipta;
því at Epear
áttu mörgum
skötnum at gjalda
skaða-bætr“.
329. „En vèr fáliða
ok fírum sviptir
sátum í prúðhelgri
Pýlusborg;
því komit hafði,
ok knífum farit,
hamramr Herakles,
horskasta vegit
ýta ossa,
þat var of aldir fyrr“.
330. „Átti ágætr
öðlíngr þar
tírmögu Neleifr;
várum tólf saman:
einn var ek eptir,
en allir hinir
bana biðu
buðlúngsarfar“.
331. „Því fylltust Epear
eirserkjaðir
feikna drambi

frekjuligu;
yfirgáng
oss um veittu,
ok illvirki
atalt frömdu".
332. „Tók því nauta hjörð
niflúngr aldinn,
ok flokk mikinn
fríðra sauða;
tók þrjú hundruð
talin í hjörð,
ok hjarðmenn
er henni fylgdu".
333. „Því skati átti
skaðabætr
allmiklar at heimta
í Eleaborg;
þat váru fjórir
fákar skjótir
sigrlauna
með sjálfum kerrum".
334. „Komnir váru þeir
til kappleika;
vildu hlaup þreyta,
þrífót hljóta;
en Ágeías
öðlíngr fíra
jóm iðskjótum
þar eptir hèlt".
335. „Sleppti konúngr
kerrusveini,
hryggum í muna
af missi jóa;
en Neleifr
náði reiðast
orðum af
ok illum verkum".
336. „Tók því skati
skaða-bætr
afarmiklar;
en it annat lèt
lofðúngr
lýð at deila".
337. „En vèr starfi því
þannig lukum,
bönd blótuðum
í borg inni;
en dag þriðja
dólgar komu
allir, allmargir,
ok einhæfðir fákar".
338. „Geingu með þeim
Molíonu arfar,
búnir bláfjöllum
brynjustökkum;
váru úngir enn;
eigi vissu
bræðr af böllum
berserks-móði".
339. „Borg er á hávum
hóli smíðuð:
kalla þegnar
Þrýoessu;
liggr allfjarri
at Alfeus-straumi,
yzt frá prúðsendinni
Pýlusborg".
340. „Herjuðu halir
á hávirki;
vildu borg brjóta
beimar æfir;
en er váru
vítt um dreifðir
of völl allan
vitnis reynar:"
341. „Þá kom Aþena
af Ólýmpi;
bauð oss at búast

ρ. XI, 694-715.

böðvar-klæðum
fal þá gríma fold;
ok fúsum næsta
safnaði Pýlverjum
sverða Freyja“.
342. „Váru þeir óðfúsir
vitni at dýja;
en Neleifr
nýtr leyfði-t
mèr at brynjast;
en bitilhreina
fyrir mèr fylkir
fela náði;
kvað mik öðlíngr
óvanan vera
hörðum, hrollköldum
hildar leikum“.
343. „En ek samt mundi
at morði várum
fram úr skara
fákvaldöndum,
enn þótt ek á fæti
fara knætta-k;
svá nam Aþena
stýra orrustu“.
344. „Á er allnærri
Arenuborg,
heitir Míná,
ok í mar rennr;
þar biðum vèr,
blakkvaldendr
Pýlverja, mærrar
Morgunskæru;
en á eptir flykktust
fótgaungumenn“.
345. „Hèldum vèr þaðan,
várum hervæddir;
fórum með alla
fólksveimaða,
ok um dag miðjan
mundum koma
alhelgum at
Alfeus-straumi“.
346. „Fróuðum vèr þar
fríðum blótum
Allföður alda
afarstyrkum;
fórnuðum uxa
Alfeusi,
ok annan prúðvöldum
Posídoni“.
347. „En hjarðkvígu
höggva náðum
enni glóeygu
Ginnregins mey;
tókum aptansverð
allir síðan,
flokkum fylktir
fölvis reynar“.
348. „Síðan náðir vèr
náðum taka
á oss í öllum
ímunklæðum“.
349. „En Epear
ofrhugaðir
lágu kríng um borg,
brjóta vildu;
en þeim áðr
ægiligt gafst
ófriðar-efni
frá ímun-tíva“.
350. „Því þegar álfröðull
yfir leið
firinfagr
Fjölnis brúði,
þá vèr lögðum
at lýðmorði;

ρ. XI, 715-736.

hètum á Allföður
ok Aþenu".
351. „En er ófriðr
upp um hófst
Epea milli
ok ýta Pýluss,
þá ek fyrst drap
fíra nokkurn
ok einhæfðum
jóm of náði".
352. „Sá hèt Múlíus
málmþíngs boði,
döglíngs Ágeíass
dótturmaðr".
353. „Hann átti elzta
Ágeíass dóttur,
Agamedu, brúði
bjarthaddaða;
þekkti lyfjagrös
lofðúngs beðja
öll, er á víðri
vaxa foldu".
354. „Skaut ek skata þann
skapti laungu,
er hann at mèr óð
at iðleiki;
fèll í dust jarðar
döglíngr þá,
en ek upp á hans
stökk herkerru".
355. „Stóð ek með fírum
forvígis þá;
en Epear
ofrhugaðir
flýðu um foldu,
flýðu víðs vegar,
er þeir lofðúng sá
liggja fallinn,
fylki framgjarnan
fákvaldanda,
hetju hraustasta
at hildarleiki".
356. „En ek á fram óð,
sem ofsa bylr
dímmr dynr
yfir Dags systur;
tók ek fólkkerrur
fimmtigi þar;
en at sèrhverri
í svörð bitu
tönnum tveir
teitir kníar,
sæfðir sárbeittri
sviðu minni".
357. „Hefða-k þá banat
báðum köppum:
Aktors mögum
ok Molíonu,
ef eigi faðir
fólkum-djarfra,
afar-víðlendr
Jarðarskelfir,
borgit hefði þeim
frá böðvar glaumi,
ok miklum mjörkva
megi hulit".
358. „Veitti Seifr þar
vegsamligan
sigr Pýlverjum
prúðhjörtuðum;
eltum vèr ýta
of allan völl;
vágum vera,
vápn upp tókum".
359. „Þar til er blakka
at Búprasíoni
hrakit höfðum
hveitisfrjóvu;

ϱ. XI, 736-756.

til Ólens-hamars,
þar er hól kalla
ýtar liggja
Aleísíu".
360. „Snèri þar Aþena
aptr liði;
þar lèt ek segg
síðastan eptir,
er ek björtum vág
böðvar málmi".
361. „Hèldu þá Akkverjar
hestum fráum
frá Búprasíoni
til borgar Pýluss;
þökkuðu Seifi,
þökkuðu Nestori,
guði ok guma,
fyrir góðan sigr".
362. „Svá var ek áðr,
er ek með ýtum vark;
en Akkilleifr
vill einn njóta
hreysti sinnar
ok harðfeingi;
en ek þeingil hygg
munu þess of iðrast
stórliga, ef eyðist
allr lýðr".
363. „Hefir þèr heilræði,
hróðvinr minn,
Menítr miðlat
meginprúðr
á degi þeim,
er þik döglíngr
árna lèt frá Fiðju
til Agamemnons".
364. „Várum báðir inni
at öðlíngs sal,
ek ok alfrægr
p. XI, 757-776.
Odysseifr;
heyrðum í herbergjum
heilræði vel,
er þèr faðir fèkk
faranda braut".
365. „Várum vit komnir
at vel byggðum
ok prúðum sölum
Peleifs aldins;
söfnuðum liði,
sigstyrks báðum
um it alfrjóva
Akkverjaland".
366. „Hittum at húsum
hetju fræga,
Menít, ok þik,
hjá mærum föður;
var þar ok ágætr
Akkilleifr".
367. „Brenndi aldrænn
iðfákvaldr
Peleifr bóga
bola feita;
blótaði Þrúðvald
þrumuglaðan
hilmir í hávum
hallargarði".
368. „Á hèlt skati
skál gullinni;
dreypti dýrveigum
dökkljómandi
á blótbita,
þá er bjartvarmir
leygs um logar
leika náðu".
369. „En þit báðir
bragníngar úngir
at störfuðut
uxaslátri;

komum vit þá fremst
í fordyri,
ek ok ágætr
Odysseifr".

370. „Furðaði Akkilleif
ágætan þá;
okkr tók í mund,
inn nam at leiða;
bauð okkr siklíngr
sæti at taka;
vel okkr veitti,
sem venja er
góðra gestvina
gestvinum mót".

371. „En er vit mettir
á mat várum,
ok drykk höfðum
drukkit góðan,
þá nam ek upp
erendi hefja,
at þit ásamt okkr
árna skyldut".

372. „Várut þit fúsir
farar næsta;
en ykkr hildíngar báðir
gáfu heilræði mjök;
þá bauð öðlíngr
Akkilleifi
aldrænn Peleifr
prúðhjörtuðum,
at hann væri æ
efstr at hreysti,
ok annarra ýta
yfirmenni".

373. „En Menítr
mögr Aktors
þessi heilræði
þèr nam gefa":

374. „„Heyr mèr, hjartkæri
hróðmögr minn,
er at ætt æðri
Akkilleifr,
en þú eldri ert;
er þó öðlíngr
miklu meiri þèr
at meginremi"".

375. „„Skaltu því vísi
vitr ráð gefa,
áminníngu fá,
ok öðlíng leiða;
mun hann ráð þín
ráða láta,
er þú af góðum hug
gefa náir"".

376. „Þau gaf þèr heilræði
hilmir inn aldræni;
hefir þú nú gleymt
hilmis orðum;
en seg nú iðkænum
Akkilleifi
þetta, ef hann
þèr hlýða kynni".

377. „Hverr veit, nema þú
með hjálp tíva
sefa í brjósti
siklíngs vekir;
gott er góðvin
góðum ráðum
vítum at vara,
ok vel leiða".

378. „En ef hann flýr
fölvis leika
fyrir goðaspá
geigrligri,
ok ef in heiðvirða
eiða hans
honum spár hermdi
frá Herjaföður:"

ρ. XI, 777-795.

379. „Þá hann samt sendi,
siklíngr, þik;
árni með þèr aðrir
ýtar Mýrmídóna,
ef þú Danáum
dýrum mættir
lið of ljá
at leiki sverða“.
380. „Fái þèr fylkir
fagrbúit
gunnar skrúð,
gramr, at bera;
munu þá Tróar,
ef til vill, halda
öðlíng vera
Akkilleif sjálfan,
ok af láta
orra-hríðum“.
381. „Þá munu Akkverjar,
Aress þjónar,
þjáðir hvíld hljóta
frá herleiki;
er nú alllítil
ok ýtum stutt
stundarhvíld
stríð at heyja“.
382. „Munut þèr hægla
hrekja vígmóða
bragna frá búðum
ok báru dýrum
aptr til borgar,
er þèr óþreyttir
gángit geystum at
geira dunum“.

---

383. Svá mælti sjóli,
sefa hrærði
brjósti buðlúngs í
ins böðvarfræga;
árnaði Patróklus
til öldu-hreina,
þar er ítr sat
Akkilleifr.
384. En er hann kom
at knörrum sjóla
Odysseifs
ins ágæta,
þar er þíngstaðr
ok þegna dómstaðr
var, ok blótstallar
byggðir goðum,
385. Þá móti öðlíngi
Evrýpýlus
ágætr leið,
Evemons niðr;
var seifborinn
sjóli lostinn
hremsu í læri;
kom haltr úr rómu.
386. Draup niðr sveiti
af döglíngs herðum,
rann ok streymdi
af reikar stalli;
fossaði úr undu
ægiligri
dökkr dreyri,
rauð Dags systur.
387. Var-a þó líf
liðit úr brjósti,
nè hyggjandi
hilmis farin;
en er ágætr
arfi Meníts
sjóla sáran leit,
sárt hann viknaði;
harmsfullr hilmir
hröðum orðum

ρ. XI, 796-815.

öðlíng ágætan
ávarpaði:
388. „Vesalir seggir,
sjóta akkneskra
fólkvaldendr,
ok fyrirliðar!“
389. „Áttuð þèr þá,
þrymu sinnar!
vinum fjarri
ok fóstrjörðu
hunda at seðja
á hvítum mörvum
traustum und múrum
Trójuborgar!“
390. „En inn mèr nú,
Evrýpýlus,
seifborin hetja!
munu synir Akkverja
hamraman Hektor
heptan láta?
Eðr munu fírar
at foldu hníga
fleini fyrir
fólka jaðars?“
391. Annsaði aptr
öðlíngs máli
sárr Evrýpýlus
orðum þeima:
392. „Patróklus seifborinn,
prúðhjartaðr!
munu-at Akkear
mega verjast;
heldr munu halir
at hrannar dýrum
blásvörtum bíða
bana-dægrs“.
393. „Því at allir þeir,
er áðr geingu
hraustastir fram,

ρ. XI, 815-834.

ok hjör skóku,
þeir nú liggja
láðvelli á
skeytum skotnir,
skálmum höggnir“.
394. „Hafa þeim týframir
Tróar banat;
eykst æ Brjáms beimum
hallr móðr;
en nú, buðlúngr,
mèr björg um veit,
ok mik at dökkum leið
drafnar hreini“.
395. „Drag mèr dynföru
úr dreyrgu læri,
ok sára sveita
þú svartan lát
vatni vörmu
vel af þerrðan,
ok á sár síðan
smyrslum góðum
ok lyfjum ljúfum
láttu riðit“.
396. „Kveða þik, kæri,
kostsama list
Akkilli hjá
hafa ítrum numit;
kenndi kappa
Kíron frægr,
ramra Kentára
rèttlátastr“.
397. „En læknar prúðir,
Podaliríus
ok Makáon,
mega hjálp ei veita;
annan ek ætla
inni liggja
með und blóðga
í búðar fylgsni“.

398. „Þurfa man hann sjálfr
sára lèttis,
læknis góðs,
lyfjum kunnigs;
en hinn drýgir
við dreingi Trója
vígleik váligum
valbrautum á“.

399. Annsaði aptr,
ok við öðlíng mælti
Meníts niðr
meginstyrkr:

400. „Hversu man slíkt
úr hendi fara?
Hvat skal nú af ráða,
Evrýpýlus?
Árna man ek, ítrum
Akkilleifi
erendi at inna,
er mèr áðr fól
Nestor inn gerenski,
gætir Akkverja“.

401. „Man ek þó eigi svá
eptir þik láta,
er þú illum ert
orpinn nauðum“.

402. Mælti svá buðlúngr;
tók brjóst undir;
bar böðsnjallan
í búð at þat;
en er þjónn þá sá,
þá hann breiddi
uxa-húðir
undir öðlínga.

403. Lagði þar Patróklus
prúðhetju niðr;
skar með knífi
úr skata læri
ör allhvassa,
eljansára,
vatni vörmu
valdögg af þerrði.

404. Lèt á lofðúngs und
lyfjurtar rót
beiska, ok muldi
milli handa;
sú eyddi sárindum,
sviða hepti;
sár nam at styrkjast,
en at stöðvast dreyri.

p. XI, 835-848.

# TÓLFTA KVIÐA.

LÆKNAÐI þannig
lostinn jaðar,
Evrýpýlus,
inni í búð
Meníts mögr
inn meginhrausti.
2. En flokkum saman
fólk um drýgðu
Argverjar ok Tróar
týfákvaldir.
3. Átti nú ei Danáum
díki grafit
vörn at veita,
nè víg-garðr,
sá er gerðu þeir
fyrir gnoðir ofan,
ok díki djúpt
drógu kríng um.
4. Höfðu þeir eigi
hundraðsfórnir
vegligar valit
vèum himna;
vildu þó verja
með víg-garði
herfángs gnótt
ok gnoðir skjótar;
var þat allt veggjum
varit þeima.
5. Var hervirki
af höldum stofnat
mærra guða
móti vilja;
skyldi því eigi
skötnum veita
lánga vörn,
nè leingi standa.
ρ. XII, 1-18.

6. Meðan Hektor
mátti lífs njóta,
ok Akkilles
nam ala reiði,
ok meðan Brjáms
ins böðvísa
borg at ófriði
óbrotin stóð:
7. Þá stóð óbrotið,
nè eyðast mátti,
virki vígþjóða,
vera akkneskra.
8. En er hraustastir
hnignir váru
Trójumanna
týfákvaldra,
ok margir Akkverja
málmi vegnir,
en sumir eptir,
er uppi stóðu;
9. Ok er Brjáms borg
in böðvarrama
á ári tíunda
var eydd látin,
ok er Argverjar
á öldu-hreinum
liðu at lofsælu
láði feðra:
10. Þá með sèr ríkir
rèðu tívar,
Jarðarskelfir
ok örva-drottinn,
á at hleypa
hervirki þat
straumum stríðhörðum,
stórvirki eyða.

11. Ám þeir vildu
öllum veita,
er af Ídu tindum
í ægi falla:
Heptaporus, Resus,
Rodíus, Karesus,
Esepus-á
ok Graníkus,
12. Ok díum skyldri
Skamandrs-á,
ok Símóis,
þar er sigu at jörðu
hetjur hálf-alnar
himins tívum,
hjálmar sigþjóða
ok salbendíngar.
13. Veitti allra
ósum saman
fljóta þessarra
Febus Apollon,
ok of þrenna þrjá
á þjóðvirki
daga hleypti
höfgum straumi.
14. En í sífellu
Seifr vakti
skúr af skatyrnis
skýjum dimmum,
at því fyrri
freyða knætti
bárur bláfaldar
bákn þat yfir.
15. En Jarðarskelfir
á fram gekk;
tvíhendi þrífork
tívi í mundum;
ruddi rögni
at regindjúpum
grundvelli gerstum,
grjóti ok stofnum,
því er áðr
með erfiði
Akkverjar höfðu
upp um hlaðit.
16. Gerði jafnslèttu
girðíng stóra
fram með straum-hörðum
Hellu-álum;
eyddi ógnvirki,
ok ægis ströndu
stóra sandflákum
stillir huldi.
17. Snèri fljótum
síðan aptr
um farveg
fyrri renna,
þar er áðr
höfðu árstraumar
vötnum velt
til víðis fögrum.
18. Þannig ætluðu,
at öldum liðnum,
verk þat vinna
vèar máttkir;
en nú sem óðast
örlygi brann
ok gunnar glaumr
of garð styrkan;
dundi dólgbarit
(var-a dælt fjöndum)
turna-timbr
at tyrvíngs leiki.
19. En Argverjar,
óðum beystir
svipu Seifs,
svífa náðu
fjöndum undan
at fjarðar dýrum;

p. XII, 18-38.

lètu fírar þar
fyrir berast.
20. Óttuðust ið-vanir
eimnis reynar
Hektor harðgreypan,
hroll flýjanda;
en hann sem áðr
ólmr veifði
brandi blám,
sem bylr dyndi.
21. Svá sem valbassi,
eðr váligr leó
ógurligu af
afli drambar,
ok sèr ótt um snýr
snörum hríngum
innan um garma
ok ára veiða.
22. En þèttir
þollar branda
saman færast,
snúa dýri mót;
þeyta þèttum
þegnar af hendi
sköptum ok lensum
at skæðum fjanda.
23. Nè þó hugmikit
hjarta skelfr
hans, nè hræðist
heljar-rimmu;
en undrum-ólmr
eljanmóðr
illan honum býr
aldrtila.
24. Snýst ok snýst;
sækir hvervetna;
leitar ok leitar
á lýði fylkta;
en hvar sem fram
hrinnir sækir,
þar láta ýtar
undan síga:
25. Eins mundi Hektor
hvatliga snúast,
er hann gegn um gekk
gunnar sveima;
eggjaði ýta
yfir at hlaupa
gröf hervirkis
geysi-djúpa.
26. Þorðu eigi þá
þeingils blakkar
fráir yfir gröf
firinbreiða;
dýrir á fremstum
díkis-barmi
stóðu hneggjandi
hófglymjendr.
27. Því at fældi
firnum horfin
grafar breidd
gullinfaxa;
var-a hlaup stutt,
ef stökkva átti,
nè hægðarleikr
at hverfa yfir.
28. Því á hliðar báðar
mundu hvervetna
fram af slúta
feikna-heingjur;
en uppi váru
afar-hvassir
staurar reknir
í storðar þröm.
29. Höfðu þá rekit
í hauðr niðr
synir Akkverja
eirserkjaðir,

ρ. XII, 38-56.

marga ok mikla,
at mætti þeir
vörn of veita
móti váfjöndum.
30. Mundi þar eigi
málfeti hægla
niðr haldit,
sá er hvel drægi,
nè fótgaungu
framir liðar
sjálfir treystust
at svífa yfir.
31. Þá mælti prúðr
Polýdamant
hraustan Hektor við,
ok at hilmi gekk:

---

32. „Hektor, ok aðrir þèr
herkonúngar
Tróa ok böðsnjallra
bandamanna!
Er-a ráðligt
reiðar-brímum
skjótum at halda
yfir her-díki“.
33. „Ill er gröf sú
yfirferðar;
standa þar hvassir
staurar remmdir;
en staurum hjá
er stórmikill
garðr Akkverja,
ok gumnum hamlar“.
34. „Megu þar alls eigi
ofan stíga
riddarar röskvir,
nè rómu drýgja;
þraungt er í djúpi;
þar munu hjörvar
brögnum búa
benjar rauðar“.
35. „Því ef Herjafaðir
háþrumandi
tjón nú ætlar
illt at skapa,
ok ef ginnmáttigr
guða sjóli
Tróa stoða vill
týfákvalda:“
36. „Þá vilda-k óska,
at yrði þat
nú á þessarri
þegar stundu,
at Akkverjar
fyrir eggjum blám
hnigi allfjarri
Argos-láði
frægðar-lausir
á foldar þröm“.
36. „En ef við hrökkva
hlynir skjalda,
ok atgaungu veita
frá öldu-hreinum,
er vèr ruðzt höfum
í regin-díki:“
38. „Þá hygg ek eingan
aptr munu
til Brjáms borgar
búast kunna,
fregn þeirri ferligri
frá at segja,
er Akkverjar snúit
sèr við hafa“.
39. „Heyrit nú, halir,
hlýðit mèr nú,
ok eins gerit,
sem um ek mæli:
nú skulu böð-sveinar

ρ. XII, 57-76.

bitilhreinum
grafkyrrum halda
á grafar barmi“.
40. „En vèr allir
ýtar á fæti
skulum hervæddir
Hektori fylgja;
skulum þètt skynda
skata eptir;
en Akkverjar
munu eigi bíða,
því bráðr bani
er nú brögnum nær“.
41. Mælti svá prúðr
Polýdamant;
geðjaðist Hektori
heilnæm ræða;
stökk þegar stillir
á storðar þröm
hervæddr gerva
af herkerru.
42. Nè þá Brjáms liðar
á böð-kerrum
kyrrir stóðu;
stukku ofan,
þá er þeir litu,
þat er lofðúngr,
Hektor hjörframr,
hyggja náði.
43. Bauð kappi hverr
kerrusveini
sínum at halda
hreini reiðar
rètt í röð,
raska hvergi,
fram með ginndjúprar
grafar barmi.
44. Skiptu sèr þá
skatnar í sveitir,
ok ríkt remmdust
ramir beimar;
flokkum fimm
fylkjast náðu,
fylgdust síðan
með foríngjum.
45. Þeir er með Hektori
halda náðu,
ok prúðhraustum
Polýdamant,
þeir váru flestir,
fremstir at hreysti;
váru fúsastir
fólkgarð brjóta,
ok holum berjast
at hrannar dýrum.
46. Fylgdi þeim inn þriðji,
þat var Kebríones;
en hjá herkerru
skildi Hektor eptir
annan ver
óhraustara.
47. Rèði hinum
horskr Paris,
Alkaþóus,
ok Agenor;
en flokk þriðja
færði Helenus,
ok díum glíkr
Deífobus;
báðir váru þeir
Brjámi alnir.
48. Þriðji var Asíus
þjóðum-frægr,
Asíus, hróðmögr
Hýrtakusar,
þann er dumbrauðir
drógu fákar
Arisbu frá

ρ. XII, 76-97.

undrastórir,
ok frá Selleis
svölum unnum.
49. En flokki fjórða
fagrlimaðr
Eneas rèði,
Ankísess burr,
ok með honum tveir
Antenors synir:
Arkelokkus,
ok Akamant;
kunnu þeir allvel
at ímunleikum.
50. En Sarpedon
sigfrægum rèði
böðvarstyrkr
bandamönnum;
tók með sèr gramr
Glákus frægan,
ok Asteropeus,
Aresar vin.
51. Því at þeingli
þeir um virðust
fremstir allra
at frælnleika
næst sèr sjálfum;
en hann sjálfr var
hraustastr allra
hjörvi at veifa.
52. En er fylkt sèr
fírar höfðu,
ok saman slúngit
salbendíngum,
þá mót Danáum
dreingir fóru,
váru óðfúsir
at örlygi;
hugðu at dólgar
hrekjast mundu,

p. XII, 97-116.

ok at foldu falla
hjá fjarðar mörum.

---

53. Hlýddu nú Tróar
týfákvaldir
ok lángt at leiddir
liðar þeirra
hollum heilræðum,
þau er henna rèði
prúðlundaðr
Polýdamant.
54. En Asíus
alda stýrir,
hróðmögr herkænn
Hýrtakusar:
hann vildi eigi
eptir láta
kerru sína,
ok kerrusvein.
55. Sókti stillir
til stála-hreina
fremst um fljótra
á fólkhvelum;
fèkk-at um flúit
fávíss gumi
dauða-nornir,
ok dapra feigð.
56. Ok þótt stærast
stillir gerði
af fákum frægum
ok fólkhvelum,
þá samt eigi
þeingill skyldi
aptr flaustum frá
fljótum halda
vindasömum at
virkjum Tróju.
57. Því at hryllilig
hylja náði

dauða-dís
döglíng fyrri
fleini ins ágæta
Ídomeneifs,
dáðmagar döglíngs
Devkalíons.
58. Hèlt hildíngr
til handar vinstri
öldu-hreinum,
þar er Akkverjar
vanir váru
of völl at halda
fákum ok fólkhvelum
flugar-skjótum.
59. Þar hann hestum
hleypti yfir,
ok herkerru;
nè hann hlið um fann
aptr lokuð
efldum hurðum,
nè firin-laungum
felli-ási.
60. Hèldu halir
hliðum opnum,
at þeir brögnum
bjarga mætti,
ef flýja kynni
fólkvígum úr.
61. Hèlt þángat buðlúngr
beint málfetum;
vildi svá vísir
at vígum snúa;
en á eptir
ólmir fylgdu
halir hildíngi,
hátt kölluðu.
62. Hugðu þeir Akkverja
eigi mundu
viðnám veita,
en at velli hníga
dökkum hjá
drafnar hreinum.
63. Fávísir fírar;
fundu í hliði
týhrausta tvá
tyrvíngs reyna;
þeir váru arfar
ofrhugaðir
dreingir Lapíþa
darrum-frægra.
64. Þat var prúðmögr
Píriþóuss,
prúðstyrkr kappi,
Polýpöytes,
ok Leontes,
ógnar-skæðum
Aresi jafn,
ímun-tíva.
65. Stóðu þar hetjur
hávum fyrir
hliðum frammi
herjum-styrkvar;
eins ok eikitrè
upp um gnæfa
at himins hvolfi
háfjöllum á.
66. Þau er vindgolu
ok veðra-hret
bíða æ ok æ
allar stundir,
feikna-styrkum,
firinvíðum
rótum remmdar
í Rindar elju.
67. Treystu orku
ok afli handa
hamramir þjónar
hjörva drottins;

biðu atgaungu
Asíusar;
eigi náðu
undan hörfa.
68. Geingu at römum
rómu garði
beint böðramir
buðlúngs sinnar;
hèldu þurrum hátt
hráskinns-tjörgum;
æddu æpandi
ógrliga.
69. Þeir Asíusi
ítrum fylgdu,
Jamenusi,
ok Órestes,
Adamant, arfa
Asíusar,
Þóoni, ok ítrum
Öynómási.
70. Meðan hamramir
í hliðum stóðu
Lapíþar tveir,
títt þeir hvöttu
fagrbrynhosaða
fölvis reyna
Akkverja, at bjarga
björnum sævar.
71. En er þeir skildu,
at skatnar Tróju
á megin-múr
mundu sækja,
ok er upp reis
ægi-glymr
ok dauða-felmtr
með Danáum:
72. Þá úr hliðum fram
þegnar óðu
ok framir frammi
fölvi dýðu;
váru valbössum
váligum glíkir,
þeim er fjöllum á
eptir bíða
glammi garma
ok gumna ópi,
því er at þeim ferr;
en út til hliðar
skjótast, ok brjóta
skógar-greinar.
73. Bíta ramla
við rætr neðstar;
skella tennr
í skoltum valbassa,
þar til er ýta
einna nokkurr
lífi þeirra
lætr farit.
74 Eins nam at dynja
í dólgum-fránu
eiri á ógnramra
ýta brjóstum,
þá er Sköglar skrúð
skot of lömdu;
því ramla rómu
rekkar drýgðu;
treystu orku,
ok ýtum þeim,
er uppi váru
á víggarði.
75. En vápnsteinum
verar köstuðu
háturnum frá
hála remmdum;
vörðu sjálfa sik,
vörðu herbúðir,
ok örskreiða
ægis hreina.

p. XII, 136-156.

76. Svá sem fjúk fellr
til foldar niðr,
er á fjölblómgvan
fjörginjar beð
þèttu snarpr
þeytir vindr,
sá er ský rekr
in skuggadimmu:
77. Eins mundu renna
frá rekka mundum,
Akkverja ok Tróa,
örvar hvassar;
dundu dólghattar,
dimmt var at heyra,
ok böðvar ský
in baugnöfuðu,
þá er láðs beinum
ljóstast náðu.
78. Þá Asíus
upp nam at hljóða,
hróðmögr herkænn
Hýrtakusar,
laust lær bæði,
lypti kveinstöfum:
79. „Heyr, Herjaföðr!
helzt kveð-k þik nú
illum, ósönnum
orðum beita!
hugði-k-a hetjur
horskar Danáa
standast mundu
móð böðsváran
ok hamramar
hendr mínar!“
80. „Eru gunndreingir
sem geitúngar
beltis bandmjúkir,
eðr býja sveimar,
þeir er sèr hafa
ρ. XII, 156-185.
hús um reist
á stórgrýttum
stig alfara“.
81. „Hverfa þær hvergi
frá holum fylgsnum;
bíða bragna,
er bráðar leita,
ok úngafjöld
fremst um verja“.
82. „Eins eru týframir,
þó tveir um sè;
vilja ei víkja
frá víghliðum,
fyrr en gagn fá
at gunni ramri,
eðr falla sjálfir
á foldar þröm“.
83. Mælti svá mildíngr;
mundi þó eigi
huga hræra
Herjaföður;
því at Allvaldr
ætlaði víst
Hektori horskum
heiðr at veita.
84. Þá sviðu sendi
sigstyrkr mögr
Polýpöytes
Píriþóuss,
ok Damasus
darri beysti,
ægi gegn um
eirkinnaðan.
85. Mátti-t málmvarin
mæki standast
gríma, en gegn um
gekk eirbroddr;
bein nam at brjóta,
en brálla gerðist

blóði blandinn
buðlúngs heili.

86. Þar prúðr vág
Polýpöytes
öðlíng ákafan
at iðleiki;
en at vegnum
vísi þeima,
Pýlon ok Ormenus
aldri rænti.

87. En Leontes,
lýðum-frægr
Aresar niðr,
nöt of sendi;
laust Hippomakkus,
hróðmög Antímakks;
kom í brynbelti
á buðlúngi.

88. Síðan nam siklíngr
sárbeitt draga
sverð úr slíðrum,
sveiflaði brandi;
ramla ruddist
í rómu sveit,
hjó iðfrægan
Antífates.

89. Fèll í lopt upp fylkir
á foldar þröm;
felldi Leontes
frægr síðan
Menon ok Jamenus
ok Órestes,
hvern at öðrum
at hauðri frjóvu.

---

90. Meðan skínanda
Sköglar málmi
flettu fírar
fallna guma,
ρ. XII, 185-205.
þá með prúðum
Polýdamant
ok Hektori
halir geingu.

91. Váru margir mjök,
meginhraustir,
vildu óðfúsir
allir brjóta
víggarð vígstyrkan,
ok víðis hreina
alla saman
eldi brenna.

92. Stóðu gumar
á grafar bakka,
ok sik enn
um hugsuðu;
því þá er yfir
árna vildu,
þá spáfugl birtist
branda hlynum.

93. Þat var háfleygr örn,
ok hverfa náði
vitnis reynum
til vinstri handar;
bar blóðrauðan
í bjúgum klóm
dreka gallofnir,
geysi-stóran.

94. Var-at fjör farit
úr fáfnis brjósti;
lèk á íði enn
óðr linnr,
nè gleyma gerði
grimmum beita
römum ara mót
regintönnum.

95. Beygjast gerði
á bak aptr
haugvarðr, ok hjó

þann er honum lypti,
í bríngu at hálsi
blóðvargs trana.
96. Lèt þá linna
til láðs um síga
ari, orpinn
illum kvölum,
ok í miðjan
mímúngs reyna
fjölda falla
foldar karfa;
en sjálfr brautu
blindviðnir fló
hlakkanda hljóði
á hræsvelgs anda.
97. Skelfdust Tróar þá
tírargjarnir,
er þeir kvikanda
knáttu líta
móinn milli sín
á moldar þremi,
jarteikn Allföður
ægiskjalda.
98. Gekk horskum at
Hektori þá
prúðr ok mælti
Polýdamant:
99. „Æ þú mèr einhverjar
ávítur fær,
Hektor, á þíngi,
er ek heilræði kveðk;
er-a því sæmanda,
þeim er öðrum þjónar,
ómerkum orðum
ypptum láta“,
100. „Hvárki at ráðstefnu,
nè á refla þíngum;
heldr æ þinn
heiðr at auka.
p. XII, 205-225.

En nú man ek
upp um kveða,
þat er hollast mèr
í hug um virðist“.
101. „Nú skulum eigi
naði dýja
Danáum mót
at drafnar mörum;
því svá fremi
sem forynju
gumnar sá,
er þeir yfir gröf vildu“:
102. „Háfleygr örn,
er hverfa náði
vitnis reynum
til vinstri handar;
bar blóðrauðan
í bjúgum klóm
dreka gallofnir,
geysi-stóran“.
103. „Lifandi var linnr;
lèt hann ari falla,
fyrr en heim knætti
í hreiðr fljúga;
nè ötulum
úngum mátti
blindviðnir ballr
bráð of færa“:
104. „Svá mun sjálfum oss,
sifr, verða,
þótt vèr hlið hǫlda
ok hermúra
ballum brjótum
böðvar móði,
ok Akkverjar láti
undan síga“:
105. „Þá munum eigi
frá ægis hreinum
svífa sama veg

sveimum fylktum;
allmarga munum vèr
eptir láta
ýta Trǫ́ju,
er Akkverjar
bana munu búa,
er þeir brimdýr verja“.
106. „Þeim mundi sèrhverr
svörum yppa
forynju frèttandi
fróðhugaðr;
honum mundu fírar
fremst of trúa“.
107. Reiðr varð þá ramr,
ok með reiðisvip mælti
Hektor inn hjalmkviki
hleyptum brúnum:
108. „Mjök mælir þú
móti várum hug,
prúðlundaðr
Polýdamant;
víst muntu vænna
vanda kunna
ráð ok ríkra
at raun þessarri“.
109. „Því ef orð þat
af alvöru
ók heilum hug
hermt þú lætr,
þá hárri hafa
hyggjandi þinni
góðir glaðsheima
gramir farit“,
110. „Alls þú býðr mèr
ballþrumanda
ráðum gleyma
ragna-föður,
þeim er sjálfr mèr
þeingill himna
p. XII, 225-245.
hèt, ok báknaði
með bendíngu,
þá er þú vill,
at ek vængjalaungum
forsagna-fróðum
fuglum trúak“.
111. „Hirði-k þat síst,
nè ek hygg at því,
hvárt til hægri þeir
handar sveima,
þeirri áttu at,
er álfröðull
ok Morgunskæra
mönnum fróar“;
112. „Eðr til handar þeir
hverfa vinstri,
at dimmum
dökkva nætr;
heldr munum vèr
hlýtt um láta
ráðum ríks
ragna-föður,
þess er ófeigum
uppheims goðum
ok feigum ræðr
foldbyggvöndum“.
113. „Einn veit ek öllum
öðrum betra
fugl forsagna
framligri sjót:
fjöndum móti
fölvi dýja
frændr fyrir
ok fóstrjörðu“.
114. „Hví þú ófrið
ok orrustu
hræðast náir
í hjarta þínu?
Því þótt aðrir vèr

hjá Argverja
brimdýrum fáum
bana þegit:“
115. „Þá þarftu eigi
því at kvíða,
attu orpinn verðir
aldrtila;
hefir-a þú hjarta,
er hraust um megi
óvini standast
eðr orrustu“.
116. „En ef þú undan
ófriði skýzt,
eðr hölum öðrum
hughvarf telr,
at nokkurr haldi sèr
frá herleiki,
þá skaltu beystr
brandi mínum
líf þitt láta,
ok at láði hníga“.

---

117. Innti svá öðlíngr,
ok á undan fór;
en með geysigný
gumar fylgdu;
ok Þrúðvaldr þá
þrumuglaðr
æsti elreka
af Ídu tindum.
118. Bar beint of storð
á báru hreina
moldryk magnaðr
marar blóði;
sljóvan Akkverjum
sefa gerði,
en frama jók
fyrðum Tróju,
ok Hektori
herjum-frægum.
119. Treystu halir
táknum Allföður,
ok afrenndum
axla meiðum;
freistuðu fólkmúr
firinstóran
heimar Brjáms
brotinn láta.
120. Turna-tinda
tóku niðr,
ok múr-virki
mundu rjúfa;
styrkum ásum
stólpa felldu,
þá er fram stóðu,
ok er festa höfðu
fremsta Akkverjar
í foldar þremi,
at þeir turnum stoð
styrkva feingi.
121. Undu þeir stólpa
aptr á bak;
hugðust meginmúr
mundu brjóta;
en Danáar
fyr' dólgum stóðu,
æva síga
undan lètu.
122. Vígskörð vörðu
vaskir dreingir
breiðum, barðhveldum
böðvar skýjum;
ofan skutu
á óvini,
er und meginmúr
mundu sækja.
123. Ólmir um þustu

Aiantar tveir
upp' á ógnar-múr
alla vegu;
vígmóð vöktu
vilgi trauðir;
eggjuðu á fram
Akkverja sjót.
124. Ávörpuðu suma
orðum mjúkum;
aðra ávítum
eggja mundu
naðels boða,
þá er neyta gerðu-t
orku allrar
at orrustu:
125. „Heyrit, hróðvinir,
hverr af Akkverjum
meginhraustastr,
eðr meðalframr,
ok óhraustari,
því at eigi gjörast
ýtar jafnir
allir at rómu“.
126. „Er öllum nú
iðja búin;
þat munut sjálfir èr
sannast reyna;
skyli nú eingi
skjaldar hlynr
snúa snekkjum at,
þótt seggr nokkurr
ýta eggi
undan hopa“.
127. „Sækit heldr,
sigdreingir, fram,
ok hvárr annan
eggja skyldi,
ef at ólýmpskr
allráðandi
þrótt oss um veitir
þrumudrottinn,
örlygi af höndum
orum reka,
ok dólga til borgar
drífa láta“.
128. Inntu svá öðlíngar
æstum rómi,
eggjuðu Akkverja
ógn at fremja.
129. Var sem á vetri,
er at vindkers botni
flugþèttir falla
flókar drífu,
þá er upp ríss
ráðgagnvaldr
Seifr at snjóa,
ok sýna náir
skötnum skeyti
frá skýjum efri.
130. Svæfir himinblæ
himna sjóli,
ok ofan eyss
á jörð snjóvi,
uns hátinda hefir
hulit fjalla,
annes yztu,
ok orpin smára
við vall-lendi,
ok vandaðan
manna hag
meginframa.
131. Drífr á drafnar
dimmgrárrar strönd
ok víðis vága
verja snjóar;
en mjöll meinar
marar alda

p. XII, 265-285.

fjörur at fergja
fanna þúnga.
132. En fyrir ofan
allt um verðr
snjóvi snivit,
þá er svífr niðr
reginúrig hríð
ragna-föður.
133. Svá flugþèttum
flokkum svifu
unnvörp elsnúin
jarðar beina
báðum frá:
at brögnum Trója,
Trójumönnum frá
til Akkverja;
en ógnar-múrr
allr dundi
þúngum þrúðmóði
þegna fyrir.

---

134. Mundu þar eigi
ýtar Tróju
ok Hektor herfrægr
hergarðs brotið
hlið heljar-remmd
hraustum mundum,
nè slagbrand lángan
fyrir sókndurum:
135. Ef ei ráðsvinnr
ragna-faðir
Sarpedon sent
sinn hefði arfa;
þann æsti Allföðr
Argverjum mót,
sem ljón í bjúghyrndra
bola sveimi.
136. Brá fyr' sik fram
fagrbláni
hraustr hilmir
hríngborðsjöfnum,
ágætum, alvörðum
eiri slegnu.
137. Þann hafði eirsmiðr
úr eiri hamrat,
þrætt innan þèttliga
þjóra leðrum;
hafði gullstöfum
gimskýlis hvel
yzt bjartfáit
búit hagla.
138. Baugi hèlt buðlúngr
fyrir brjósti frammi;
veifði vigrum tveim
vöskum mundum;
á fram óð
sem óarga dýr,
þat er fjöllum á
fæðast náði,
139. Þats kynja leingi
var kjöts áni;
en því framgjarn móðr
fremst um býðr
fjár at freista,
í feikntimbraðan
garð at gánga
gildra sauða.
140. Ok þótt húsi hjá
hitta nái
fjárgæzlumenn
fleinum varða,
þá er görmum með
gæzlu veiti
flokkum fríðum
feitra sauða:
141. Hyggst-at þó hugprútt
hörfa skuli
at óreyndu

þ. XII, 285-304.

frá inni sauða;
gerir annathvárt
grimmr fjallbúi:
inn at stökkva
ok ásauð þrífa,
eðr skjótri frá
skörpum vigri
lostið gerist
guma mundu,
þess er með fremstum
fíra stendr.
142. Svá mundi sefi
Sarpedon knýja,
gram inn geðstóra
guðum líkan,
á múr stökkva,
sterk at brjóta
málmþíngs meiða
meginvirki.
143. Ávarpaði þá
ítr sjóli
Glákus, hróðmög
Hippolokkuss:
144. „Hví erum, Glákus,
af gumnum virðir
at sæti ok at sumbli
ok at svásum veigum
manna mest allra,
þars moldvegr grær
Lýkíu landa?
ok hví lýðir horfa
á okkr, sem værim
vèa nokkrir?“
145. „Hví vit allvítt land
eignazt höfum
á Ksantus-fljóts
fögrum bökkum?
meiðum margsettan
moldveg frjóvan,
ok alsett hveiti
akrlendi?“
146. „Skulum því, skati,
at sköfnúngs leiki
Lýkíu fyrða
fremstir standa;
skulum at brennandi
böðvi dýja
dör dynstinnan
dólgum móti“.
147. „Svá at blóðleikum
búnir hörðum
Lýkíu-menn
mæla fái:“
148. „„Víst er ei várum
vant siklíngum,
þeim er landvíðri
Lýkíu ráða,
frægðar ok frama,
alls þeir feitra sauða
neyta, ok beztan
bjór um teyga““.
149. „„Því at hugar þeir
háleik stæra,
er þeir fremstum í
flokkum standa,
ok stríðkviðjendr
at stríðum leiki
leiða ljóma til
Lýkíumanna““.
150. „Heyr mèr, hróðvinr,
ef hefðum viljat
flýja fölvis leik
framan þenna,
víst vitandi,
at verða myndim
elli-vana þá
ok aldrtila:“
151. „Þá munda-k eigi

með ýtum fremstum
darr it dynstinna
dýð of hafa,
nè þik at mannsæmum
mímúngs flaumi,
siklíngr sóknframr,
sendan látið“.
152. „En ótal nú
okkr umkríngja
naprar, nákaldar
nornir dauða;
er-at dauðligum
dróttum skapat
feigð at flýja,
nè frá sèr bægja“.
153. „Því skulum halda
at hildar leiki,
at einnhverr á okkr
unnit fái;
eðr aptr vit
einna nokkrum
bana búum
fyrir blám eggjum“.
154. Mælti svá gramr;
en Glákus honum
gegndi gunnprúðr,
gerði-t óhlýðnast;
leiddu svá lofðúngar
Lýkíu-manna
flokk feiknmikinn
at fólkvígum.
155. Þá varð skelkaðr,
er hann skata leit,
Peteós mögr,
Menesteifr;
þá er þeir tráðu
at turni hans,
váligum varðir
víga-móði.
ρ. XII, 324-342.

156. Hvarflaði hilmir
hvössum sjónum
yfir aðalgarð
Akkverja lýðs,
hvárt lofða nokkurn
litið feingi,
þann er bölvi bægja
ballu kynni.
157. Leit hann í námunda
naðels-rama
Aianta tvá
ok ítran Tevkrus;
sá var nýla
til sóknar geinginn
tjaldi frá
traustu sínu.
158. Eigi mátti þé
óp um heyra,
en þótt halr
hátt kallaði;
svá var váligr
vígmálms glaumr;
hvarflaði herjálmr
með himinskautum.
159. Dundu dörr
dimmt á skjöldum;
buldi blakkfextum
í böðvar-húfum;
Hriktu hlið
in herjum-remmdu;
váru slagbröndum
svárum lokuð.
160. Stóðu darrframir
at dólghliðum
fjandr, ok freistuðu
fremst at brjóta,
ok inn at æða;
en til Aiants þá
sendi Menesteifr

mæran kallara,
Þóotes skjótan,
þeim mælti orðum:
161. „Árna nú, Þóotes
inn ágæti!
árna skyndandi,
Aiant kalla;
eða þó enn framarr
Aianta báða;
þat væri höldum hlæst
hluta allra,
er nú aldir yfir
man ýta dynja
skelfíng skjótliga
skapa-dægrs“.
162. „Því at þúnga nú
þraut oss vinna
Lýkíu-manna
lýðforíngjar;
hafa þeir æ
harðmóðigir
frekefldum verit
at fólkvígum“.
163. „En ef eiga þar
einnig sjólar
þúngri þrymu í
ok þjóðrimmu:
þá einn með þèr
til orra sveima
týhraustr gángi
Telamons arfi;
skyli Tevkrus
tiggja fylgja,
bogsveigir böðfrægr
bösl at senda“.
164. Mælti hann svá;
en mærr kallari
var-at óhlýðinn
orðum sjóla;

árnaði kallari,
ákaft skyndi
at múr Argverja
eirserkjaðra;
gekk til Aianta,
stóð hjá Ajöntum,
mælti at bragði
til bragnínga:
165. „Aiantar, Argverja
eirserkjaðra
fólkstjórar frægir
at fólkroði!
ykkr um biðr
borins Seifi
prúðr ástmögr
Peteóuss“,
166. „Þinnig at árna,
ok þrautir vinna;
stála-dyn um stund
standa móti;
skyldut helzt báðir,
skatar, koma;
þat væri höldum hlæst
hluta allra,
er nú aldir yfir
man ýta dynja
skelfíng skjótliga
skapa-dægrs“.
167. „Því at þúnga nú
þraut oss vinna
Lýkíu-manna
lýðforíngjar;
hafa þeir æ
harðmóðigir
frekefldum verit
at fólkvígum“.
168. „En ef eigit hèr
einnig, sjólar,
þúngri þrymu í

ok þjóðrimmu,
þá aleinn
oss at stoða
týhraustr gángi
Telamons arfi;
skyli Tevkrus
tyggja fylgja,
bogsveigir böðfrægr
bösl at senda".

169. Svá hann mælti;
en mikilfeingr
týframr hlýddi
Telamons niðr;
Öyleifs ágætan
ávarpaði
arfa öðlíngr
orðum skjótum:

170. „Þit skulut báðir hèr,
þeinglar, standa,
Aiant ok lýðstyrkr
Lýkómedes,
hvetja Danáa,
at þeir hraustliga
fólkvíg fremji
ok fölvi dýi".

171. „En ek þángat mun
árna mega,
ok lið ljá
at leiki sverða;
mun ek aptr hinnig
halda brálla,
þá er ek vígsgeingi
veitt þeim hefi".

172. Mælti þat týframr
Telamons arfi,
Aiant, ok at böðvi
braut nam svífa;
en með tiggja gekk
Tevkrus frægr,

ρ. XII, 361-380.

sifr samfeðra
sjóla borinn.

173. Pandíon fólkvöldum
fylgja náði,
bjúgan bar
boga Tevkruss;
komu vástyrkum
vígturni at
Menesteifs
ins móðhugaða;
geingu inn á garð
garpar frægir.

174. Þá var þjóðfrægum
þraung um sköpuð,
því at dólgmegir
drifu á vígi,
gæveðri glíkir
geigrdimmu;
þat váru fólkstjórar
ok fyrirliðar
lofsælir, liðramir
Lýkíu-manna.

175. Lèku þá í lopti
ljómar saman;
hófst hergnýr
hræðiligr;
geingust at, ok gunnar
glæstum veifðu
logum lofðúngar
linnvarðaðir.

---

176. Vág þar fyrstr víg
ok ver um deyddi
týframr Aiant,
Telamons arfi:
Sarpedons sinna,
sigprúðan Epíkles;
laust hann hildíngr
hörðum steini,

er innan garðs lá
efst hjá vígi.
177. Svá var mikit þat
marar hjarta,
at ei hafit hefði
höndum báðum
beinviðr branda
í blóma aldrs,
slíkir sem nú
seggir gerast.
178. En hátt á lopt
hefja náði
hilmir heljar-bjarg,
hreytti af mundu;
mölvaði fjörni
fjórbólaðan,
braut höfuðbein
hver í sundr.
179. Þá fèll hávum af
halr turni,
sem kafhlaupari;
kom á grund niðr;
en úr beinum leið
brími muna.
180. En Tevkrus Glákusi,
göfgum arfa
ok herstyrkum
Hippolokkuss,
skeyti skjannaði,
er skati vildi
herja hildar múr
háreistan á.
181. Á skaut hann öru,
þar er öðlíngs leit
arm fyrir víðblikni
varnarlausan;
þá hætti Glákus
gunni at fremja.
182. Stökk hann þá aptr,

ρ. XII, 380-399.

svá at eingi sá,
ofan af hergarði,
at ei Akkverjar
sáran hann sæi,
ok svárum orðum
happi hrósaði
yfir hal sárum.
183. Sárnaði þá mjök
Sarpedoni,
er hann þat skildi,
at skati var
geinginn gunni frá;
nè þó gramr hætti.
184. En öðlíngr
Alkmaons til,
Þestors dáðmagar,
darri lagði,
ok á lagi
lofðúng kom;
síðan úr sári
sviðu kippti.
185. En hann darri
eptir fylgdi;
fèll til foldar
fram á grúfu;
en bjartfáðar
böðvar ljóma
hríngluðu hroðnar við
hildar váðir.
186. En Sarpedon
um sigrvirki
hörðum höndum greip,
herða náði;
en váligt
víga-timbr
ógntaki aflremmdu
eptir fylgdi.
187. Þá varð it efra
auðr görva

víggarðr, ok verum
vegr um ruddr,
at upp margir
æða knætti.

---

188. Veittust sjólar þá
at Sarpedoni,
Aiant ok Tevkrus
týframr samt;
skaut skotvaldr
í skjaldar-fetil,
er um brjóst lá
á buðlúngi
fagrfáinn,
fylki at hlífa.
189. En banagyðjum
bægði Seifr
dáðmegi sínum
dróttvaldr frá,
at hann ei dauða
dapran hlyti
stöfnum at
stála-hreina.
190. En Aiant
at nam vaða,
ok í víðblikni
vigri leggja.
191. Gekk ei geirs oddr
gegn um törgu,
en hildíngi hratt
hölzti óðum;
vèk þá vísir
vígi lítt frá,
en á hæl hvergi
hopa náði.
192. Því at hugr
hans vonaði
frægð at fá
ok frama ljósan;

ρ. XII, 399-418.

snèrist við sjóli,
ok sigprúðra
leiddi röddu til
Lýkíu-manna:
193. „Heyrit, Lýkverjar!
hví þèr linir gerizt,
harðmóðga svá
hildi at drýgja?
Erumk örðigt,
þótt efldr sják,
einum at dökkum
drafnar mörum
gegn um váfjandr
veg at ryðja“.
194. Árnit nú allir samt
at ógnvinnu;
því at mörgum mundum
er mun lèttara
drjúgt at drýgja
dáðframa-verk“.
195. Mælti hann svá,
en mímúngs reynar
æðruðust af öðlíngs
ógnar rómi;
snarpligar sóktu
kríng um sigráðan,
ok hendr herðu,
herráðanda.
196. En á hönd aðra
mundu Argverjar
fylkíngar styrkja
fyrir garð innan.
Þá var mikil þeim
þraut um lagin,
ok verk at vinna
váligt feingit.
197. Því at ei knáir
knáttu Lýkverjar
brjóta Danáa

böðvar virki,
ok báru blökkum at
braut um ryðja.
198. Nè heldr darr-ramir
knáttu Danáar
Lýkverja hrekja
af hervirki,
þá er eitt sinn
sverða meiðir
atrás höfðu
at því framit.
199. Sem dreingir tveir,
þeirs deilu eiga
lögkvikum á
landamærum,
mælistaungum
í mundum halda,
ok of sameign eru
sundrþykkir,
bletti litlum á,
þar bjöð of deilist:
200. Eins mundu vígi
vera deila;
en þeir vígjum á
vigra dýðu;
ónýttu törgur
af tarfa leðrum
hvárr öðrum fyrir
af hraustum bríngum,
hlífar hrínglagðar
ok hráskinns-randir
fjaðrlèttar
flógu hjörvum.
201. Varð fíra fjöld
fránu eiri
sárum svárt orpin
sollnum dreyra,
bæði þeirs baki
fyrir bröndum snèru,

ρ. XII, 418-438.

ok höggstaði
höldum buðu;
ok allmargir
at auki þáðu
lög gunnremmda
gegn um skjöldu.
202. En of vígturna
ok virkja-timbr
dreyra drifu
dynjandi föll;
blæddi böðþjóðum
báðum at rómu,
Tróum ok Akkverjum
eirserkjuðum.
203. Máttu þó eigi
ýtar Trója
Akkverjum frægum
á flótta snúa.
204. Váru þeir sem ráðvönd
veiga selja,
sú er á snældu
fyrir sèr of vinnr;
heldr á metum,
heldr á ullu,
jafnar vandliga
á vágarskálum,
at hún lítt fái
launa þannig
barnúngum handa
börnum sínum.
205. Eins var orrusta
ok eimnis glaumr
með báðum jafnt
böðvar þjóðum;
fyrr en Hektori,
hróðmegi Brjáms,
veitti herframa
Herjaföðr,
þeim er fyrstr

um fólkvígi
inn Akkverja
æða náði.
206. Kallaði þá hátt
konúngs arfi,
svá at allir
ýtar heyrðu:
207. „Rísit upp, Tróar
týfákvaldir!
rjúfit Argverja
reginvirki,
ok brennöndum
brísíngs gneistum
skjótið dökkva á
drafnar mari".
208. Mælti hann þannig,
þegna eggjaði;
en þeir allir
eyrum leiddu;
rèðust allir á
ógnar virki,
vóðu at váremmdum
víga-timbrum,
hèldu oddhvössum
í höndum dörrum.
209. Bjarg þreif þá Hektor
af hauðrs þremi,
þat hliðum fyrir
frammi hvíldi;
þykkt var at neðan,
þunnt at ofan
jörmunþúngt
jarðar hjarta.
210. Mundu-at tveir
meginramastir
ótignir ýtar
því orkat hafa,
svá þúngu lypta
lagar neggi
hauðri frá
á hvelkerru,
slíkir sem nú
seggir gerast;
en hann einn hægla
í hríng sveiflaði.
211. Sem smalamaðr
sauðar-reifi
hægliga veldr
hendi annarri,
en harðla lítinn
honum gerir
baggi sá
byrðar-auka:
212. Svá mundi Hektor
hellu valda,
ok mót hurðvængjum
hana bera;
þær váru hurðir
hávar, tvílæstar;
hèldu aptr hliðum
heljar-remmdum.
213. Váru tveir at innan
okar ramir;
gekk í átt sína
slagbrandr hvárr;
en báðum
beita knátti
læsíng úr
lykill sami.
214. Gekk nær gramr,
grund spornaði;
hendi harðsteini
á hurð miðja;
siglur fóta
sundr knýði,
at ei meginkast
magni sviptist.
215. Brotnuðu þá hurða

p. XII, 438-459.

hjarir báðar,
en hella hrundi
of hlið inn um
þýngslum þrúðekin,
en þúngt um rumdu
hlið hvervetna
in herjum-remmdu.
216. Nè hurðar-okar
heldr stóðust;
hristust hliðvængir
hvárr öðrum frá
af vábjargs varpi
vilgi lèttu.
217. Þá stökk inn vígstyrkr
Víga-Hektor,
bölmjörkva brugðinn
und brúna hvolfum;
glóði gunnmálmr
of gram allan
hræðiliga,
sá er hold varði.
218. Veifði vigrum tveim
vísir í hendi;
mundi eingi þá
aptrat hafa
hilmi, er honum
hefði móti farit,
þá er of víghlið vóð,
nema vèar einir.
219. Brunnu brúna ljós
á buðlúngi;
snèrist við sigramr,
seggi hvatti;
kallaði teitra til
Trójumanna
gegn um gunnar sveim,
at þeir of garð stigi.
220. En þeir hvetjanda
hlýddu sjóla;
hlupu á hergarð
halir þegar
sumir, en aðrir
inn um þurðu
sighlið sjálf
in svártimbruðu.
221. En Danáar
at drafnar mörum
húfhveldum hrukku,
hart um flýðu;
reis reginramr
of refilstigu
stála-gnýr
stríðkviðjöndum.




p. XII, 459-471.

